The Westminster Company, Ltd., Toronto, á útgáfuréttinn





# Útlendingurinn

## Saga frá Saskatchewan

Eftir

RALPH CONNOR [pseud.]

———o———



WINNIPEG:
THE COLUMBIA PRESS, Ltd.
1914.

## *FORMÁLI.*

Í Vestur-Canada má nú á dögum sjá það vera að gerast, sem töfrakendast er allra mannlegra hluta, en það er þjóðarmyndun. Það er verið að gera eina þjóð úr Söxum og Slöfum, Tevtónum, Keltum og Göllum, kynkvíslum sem eiga sér ólíka sögu og eru ólíkar að hugsjónum, tungumáli og lífsháttum. Blóðþróttur mikilla kynþátta rennur saman í blóðelfi þjóðar, sem meiri verður, en hinn mesti þeirra kynþátta var.

Viturlega mundi oss fara, ef vér drægjum þetta fólk að oss á lifandi anghöldum réttvísi og mannúðar, unz allar greinitaugar ólíks þjóðernis eru horfnar, og vér bræðumst saman, í veruleik vors canadiska þjóðlífs, og sameining vors heimsfræga alríkis, og verðum að einni þjóð, nægilega þróttugri til að standast hægfara aðköst aldanna, nafni voru til heiðurs, mannkyni öllu til blessunar, og almáttugum guði til dýrðar.

Winnipeg, Canada, 1909.

*C. W. G.*

# I. KAPÍTULI.

## *Sléttuborgin.*

Winnipeg —, heimsborgara höfuðból síðasta engilsaxneska ríkisins, — sléttuborgin, sem ekki fær dulist fyrir augum heimsins, stendur sem næst í miðju meginlandi Ameríku, miðja vegu milli úthafanna að austan og vestan, miðja vegu milli Mexico-flóans og Norður-Íshafsins, á sléttu-rönd, sem snærinn fýkur yfir á vetrum, blómin þekja á sumrum, en er jafnfögur vetur og sumar, í sinni sólbjörtu dýrð. Óraveg burtu, örugg á sægirtri ey, er gamla London, höfn allra hafa; óraveg burtu, breiðandi brjóst móti öldufalli Atlanzhafsins liggur New York, höfuðborg nýja heimsins og markaður gamla heimsins og hins nýja. Fjærst í vestri liggja hinar voldugu borgir Austurheims, Peking og Hong Kong, Tokíó og Yokohama; og norður við þjóðveg heimsverzlaninnar og eigi allfjarri honum er Winnipeg, drotning sléttunnar. Meginlands-járnbrautir kvíslast út frá henni í allar áttir — suður í Bandaríki, austur að höfnum Atlanzhafs, vestur að Kyrrahafi og norður að stöðuvatninu mikla.

Að hlíðum sínum og að sínum jarðvegsdjúpu og frjósömu sléttum dregur hún fólk frá öllum löndum og af öllum kynkvíslum og tungumálum; þetta fólk er gagntekið af tveimur mikilfenglegum eftirlöngunum, sem þjóðum eru eiginlegar, frelsis-löngun og löngun eftir landi.

Svo hundruðum og tugum hundruða skiftir streyma þeir inn í borgina, sem alla gesti býður velkomna, og fara í gegnum hana, Saxar, Keltar og

Slafar. Hver um sig er áfram um að fá sínu áhugamáli fullnægt, hver um sig leggur sinn skerf til nýja landsins, er hann kemur og fer, góðan eða vondan, en hvort sá skerfur verður fremur góður eða vondur, það veit enginn nema guð.

Þar sem þéttbýl borgin stendur nú, stóð fyrir hundrað árum afskekt kauptún hins virðulega Húðsonsflóa-héraðs. Til þessa kauptúns sóttu í birkibarkar-kænum sínum kynblendings-skinnakaupmenn og veiðimenn Indiána; þeir komu þangað með skinnastranga sína, er vart urðu metnir til verðs, og fengu fyrir þá ábreiður og perlur, *pemmikan* og svínakjöt, púður og kúlur og ennfleiri verzlunarvarning, sem búðarhillurnar voru fullar af uppi á lofti og niðri í kjallara.

Fyrir fimtíu árum hafði ofurlítil nýlenda myndast umhverfis þetta afskekta kauptún. Það voru djarfhugaðir Skotar, sem þarna höfðu sezt að. Þessir harðfengu og hugdjörfu þjóðar-frumherjar höfðu reist sér bústaði á bökkum Rauðár á bújarða-skikum sínum — bústaði, sem stóðu eins og virkisgarður menningarinnar gagnvart víðáttumikilli sléttunni, heimkynni vísunda og náttstaða-velli veiðimanna óbygðanna.

Fyrir tuttugu og fimm árum, eða laust eftir 1880, hafði borgin litla fest býsna djúpar rætur í gróðrarmoldinni, svo henni varð ekki sópað burtu af hvirfilbyl fjármálaofboðsins, sem geysaði yfir meginlandið og nefnt var "boomið '81". Borgin hélt áfram að vaxa með fullnógu hugrekki og höggunarlausri framtíðarvon, safnandi þrótti yfir föngum, unz það varð auðsætt 1884, að hún stóð föstum fótum. Fram að þessum tíma höfðu samgöngur um umheiminn verið eftir ánni og með járnbraut að sunnan, en á fyrgreindu ári tóku borgarbúar að horfa hvast í austurátt og leggja hlustir við þórdunum fyrstu meginlands-

eimreiðarinnar, sem tengja átti fylki Canada saman í eina heild og gera Winnipeg að einni af stórborgum heimsins. Flutningar eftir ánni hættu, en járnbrautin að sunnan hélt alla þá stund áfram að veita inn í landið innflytjendum með straumfalls hraða; þessi straumur kvíslaðist sjálfur eftir lundareinkunnum innflytjenda og eftir lögmáli skyldleikans; frakkneskir Canadamenn hittu sér hæfilegt ból hinum megin Rauðár, í gamla St. Boniface, en enskumælandi samborgarar þeirra, sem létu þjóðerni ekki marka sér bás, settust þar að sem hverjum sýndist. Með þeim komu innflytjendur frá Mið-Evrópu og Suður-Evrópu, fyrst í stað fáir, en fjölguðu brátt; þeir voru sérkennilegir að búningsháttum og sérkennilegir að tungumáli; þeir héldu fast saman af ótta fyrir hættum og ótta fyrir einstæðingsskap í ókunna landinu, og mynduðu hverfi útaf fyrir sig, sem bönd blóðsins og sameiginlegrar þjóðtungu knýttu fast saman.

Ekki leið á löngu unz slíkt nýlendufólk hafði eignast skýli í óskipulegri þyrping lítilla dökkra kofa í námunda við járnbrautarsporin í norðurhluta smáborgarinnar, þar sem heldur var óvistlegra en annars staðar. Ofurlítill slæðingur var þar af Þjóðverjum, Svisslendingum og Ítölum, en mestmegnis voru það Slafar, sem þar höfðu sest að. Þar voru Slafar af öllum kynþáttum, frá öllum fylkjum, talandi allar slafneskar mállýskur, sem til eru. Þar voru Slafar frá Litla-Rússlandi, Slafar frá Stóra-Rússlandi, hvatlegir Pólverjar, vöxtulegir Króatar, drembilátir Magýarar og einstöku kjarklegir Dalmatar, komnir frá Adríahafi; flestir mæltu á rúthenska tungu, voru íhaldssamir í trúarefnum, grísk-katólskir, einingarmenn eða rómversk-katólskir. Samborgarar þeirra, Engilsaxar, sem ekki vilja gera upp á milli þeirra, nefndu þá upp til hópa Galízíumenn, en þeir sem ó-

lærðari eru, kölluðu þá Galatamenn, líklega af því að þeir hafa haft bréf Páls postula í huga.

Þarna hrúgast þeir saman í litla kofa sína, sem bygðir eru úr borðum eða tjörupappír, með rislágu þaki, gerðu úr tóbakstinbaukum, vanköntuðum borðum, eða hinum óásjálega tjörupappír. Þétt og óskipulega eru þessir kofar settir, rétt eins og víðáttumikil sléttan vildi ekkert með þá hafa. Af fjölda kofanna að ráða, mætti ætla, að þetta fólk væri fremur fáment, en mannteljendum reynast frá tíu til tuttugu í hverjum kofa, og kemur á óvart, að fólk þetta skiftir hundruðum. Á sumrin dvelur þessi lýður í fjarlægum nýlendum meðal þjóðbræðra sinna, sem sezt hafa að hingað og þangað út á sléttlendinu, ellegar hann lendir í verkamannahópa, þar sem verið er að leggja nýjar járnbrautir; verkstjórar taka þessum vinnumönnum feginsamlega og þykja góð skifti að fá þá stöðuga til starfs og ósérhlífna, í stað hlaupa-vinnumensku hinna ensku keppinauta þeirra. En þegar snugga tekur að á haustin hverfa þeir aftur heim í litlu svörtu kofana í útlendinga-hverfi borgarinnar, en þangað dregur þá félagsleg eðlishvöt fornrar venju, eða fjárhagsleg nauðsyn. Þar gera þeir sig ánægða með flatsæng á gólfi, eða gegn hærri leigu, að hvíla í trérúmbásum, sem settir eru með veggjum fram, að ógleymdum kvenmanni til að matreiða vistir þær, sem þeir leggja á borð með sér. En ef ekki tekst svo heppilega til, þá láta þeir sér nægja stó, sem þeir geta soðið á súpur sínar úr baunum og byggi, blóðrófum, hrísgrjónum og káli, ýrðar svínakjöts-tægjum og nautakjöti af háls og huppstykkjum, er þeir fá gefins eða kaupa lágu verði á sláturhúsum; í súpum þessum er og svo sem að sjálfsögðu hvítlaukur, því án hans getur enginn réttur orðið Galizíumönnum gómsætur. Vatn er það auðvitað á mylnu kofa-eiganda, sem ekki þjáir þrifnaðar samvizkusemi, né er

tiltakanlega kæringarsamur um heilbrigðisreglur bæjarins, að ljá þjóðbræðrum sínum húsnæði, er hnappast saman undir hans lága þak. Þessvegna ber það við á stundum, þegar hús, sem Engilsaxi hefir átt, lendir í eigu útlendings, sem hagsýnn er, þá verður það hinum lánsama kaupanda gullnámu-ígildi.

Pálína Koval hafði komist yfir eitt slíkt hús. Hún hafði komið til borgarinnar fyrir þrem árum með tvö börn; þá keypti hún þetta hús, og furðaði nágranna hennar, sem höfðu orðið samferða henni frá Ungarn, heldur en ekki á því; en eigandi hafði verið helzt til fús að losna við húsið. Enginn gat í því skilið, hvernig jafn-gáfutreg manneskja eins og Pálína var, hafði getað komist að slíkum kjörkaupum, en það var öllum samt kunnugt, að Rósenblatt, hagfræðis-ráðunautur útlendingahverfisins, hafði léð mikilsverða aðstoð sína til að draga saman kaupin. Rósenblatt hafði þekt Pálínu heima á ættlandinu, og þegar til nýja landsins kom, hafði hann ekki verið seinn á sér að bjóða fram hjálp sína, gera gangskör að því að kaupa henni hús og leiðbeina henni ekki að eins í fjármálaefnum, heldur og engu síður í stjórn heimilismálefna. Það var Rósenblatt að þakka, að í þessu litla lághýsi hlotnaðist fleiri mönnum húsaskjól, en í nokkru öðru íveruhúsi í hverfinu. Það var hagsýni hans að þakka, að kjallarinn, sem í var moldargólf, var gerður að svæfnsal tuttugu til tuttugu og fimm Galizíumanna, og samt var þar yfirdrifið pláss fyrir blikkstó, sem þeir gátu soðið á súpur sínar. Ennfremur var það hans tillögum að þakka, að burt voru tekin öll skilrúmin, nema eitt í húsinu sjálfu, sem höfðu skift því sundur í eldhús setustofu og svefnherbergi, því að þau væru öldungis óþörf, og kæmu ótilhlýðilega í bága við það, að full not fengjust af gólfrýminu, jafn-arðvænlegt og það var. Á gólfinu í aðalskálanum, sextán feta löngum og tólf feta breiðum,

hvíldu á hverri nóttu tuttugu leguliðar, samkvæmt ráðstöfun Rósenblatts, og ef ekki hefði þurft að ætla eldstónni og hurðinni ákveðið pláss, sem honum var að vísu mikil eftirsjá að, þá hefði þessi hygni hagfræðingur getað komið þarna fyrir fimtán legurúmum í viðbót. Innan við skilrúmið, sem látið hafði verið standa, svo sem eins og af tilslökunarsemi við velsæmisnæmleik Rósenblatts, var svefnsalur Pálínu, tólf feta langur en átta feta breiður. Þar hvíldi hún og börnin tvö í stóru rúmi, sem stóð í einu horninu. Þegar herbergjaskipun var gerð á húsinu í fyrstunni, hafði fjögra feta skápur verið hólfaður af í svefnsal þessum til fatageymslu; í þeim skáp geymdi Pálína nú fatnað, sem hún brúkaði ekki hversdagslega, en var næsta furðulegur á að líta.

En eftir nokkrar vikur tók Rósenblatt að hefja máls á því við Pálínu, hvattur af sinni óþrjótandi gestrisni, að ef hún vildi þrengja ofurlítið að sér, og neita sér um jafnmikil þægindi eins og hún hefði haft, þá væri hægt að ljá nokkrum völdum mönnum, þjóðbræðrum hennar, pláss á gólfrýminu, sem ónotað væri í svefnsal hennar; en fyrir þau sérstöku hlunnindi væri ekki nema sjálfsagt, að þeir greiddu hærri húsaleigu, af því að þeir slyppu við ónota-kuldasúginn frá dyrunum.

Aumingja Pálína reyndi ofurlítið að malda í móinn á móti þessari ráðstöfun, ekki svo mjög sín vegna heldur vegna barnanna.

"Barnanna!" endurtók Rósenblatt. "Hví skyldir þú vera að hugsa um þau? Þau eru ekki þín börn."

"Nei, þau eru ekki mín börn, en þau eru börn mannsins míns, og eg verð að gæta þeirra vegna hans. Honum mundi ekki falla það vel, ef karlmenn svæfi í sama herbergi og við."

"Hvað skyldi það skaða þau? Eg skal sjálfur vera þar og líta eftir þeim," sagði Rósenblatt valda-

lega. "Og sjáðu til, hér er enginn vandi á ferðum! Við getum hreiðrað upp um þau hérna inni í skápkrílinu því arna. Það er hægt um hönd, og þar fer ágætlega um þau."

Þó Pálína væri skilningssljó, hafði hún einhverja óljósa meðvitund um það, að þessi ráðstöfun væri ekki öldungis eins og hún ætti að vera. "En hvað ættu karlmenn að gera hingað inn?" spurði hún. "Eg er ekki svo peninga-þurfi. Maðurinn minn sendir mér peninga mánaðarlega."

"Mánaðarlega? A-á-á, einmitt það! þeytti Rósenblatt út úr sér hranalega. "Jæja, gott og vel, en þú skalt muna eftir því, að þetta hús er ekki enn borgað að fullu, og Englendingarnir hérna og lögin þeirra eru ógurleg viðfangs. Já, blátt áfram óskapleg," bætti þessi umhyggjusami ráðunautur við. "Þeir karlar mundu ekki kynoka sér við að reka þig með börnin út á gaddinn. Eg vissi bezt hvernig við þá var að eiga um síðustu mánaðamótin!"

Og við tilhugsunina eina um það fór ónotahryllingur í gegnum Rósenblatts stóra skrokk, svo að Pálína flýtti sér að fallast á tillögu hans; leið nú ekki á löngu unz Rósenblatt flutti sig með þremur stallbræðrum sínum, inn í herbergið. Þessir útvöldu voru öðrum háttprúðari og reyndir að skilsemi, en húsaleiga var hækkuð við þá upp í fimm dollara á mánuði. Þá leigu taldi Rósenblatt næsta sanngjarna, með því að þeir sem í fremra herberginu voru greiddu þrjá dollara, en þeir sem kjallara þægindanna nutu, urðu að hlíta tveggja dollara leigumála.

---

## II. KAPÍTULI.

### *Austrið og vestrið mætist.*

Rósenblatt var svo nærgætinn og hugulsamur að létta þeirri byrði af Pálínu, að innkalla mánaðarleigugjaldið; hún varð því næsta fegin, því að það var hennar andlega atgjörfi ofvaxið, að reikna fyrst í galiziskri mynt og síðan í Canadapeningum hve mikið hver ætti að borga; og hvernig átti hún, eins og Rósenblatt tók réttilega fram, að fara að því að hafa hendur í hári óreiðuseggja, sem tækju upp á því eftir að hafa safnað skuldum, að taka saman pjönkur sínar, og laumast í hundahljóði og fyrirvaralaust út í vetrarnóttina? Þrátt fyrir alla aðgætni umboðsmanns Pálínu, var það ekki svo ósjaldgæft, að leiguliðar, sem atvinnu leituðu til viðarhöggs-verkstjóra, hurfu og skildu eftir tómt bólið sitt á gólfinu og skuld í viðskiftabókunum, sem Rósenblatt reit með samvizkusamlegri nákvæmni. Fyrir kom það samt sem áður, eins og í allra bókfærslu, að villur slæddust inn í reikningana. Svo óheppilega tókst þannig til með reikning ungs manns, sem Jakob Wassyl hét; yfir óskilsemi þess manns kvartaði Pálína sáran við kunningja hans, en það varð til þess, að þeir tjáðu honum þetta, þegar hann kom aftur heim úr viðarhögginu. Jakob mótmælti áburðinum harðlega, og varð það til þess að nú var farið að skoða bókfærslu Rósenblatts; en þá var það að sá herra tók með mikilli kostgæfni að sýna fullljóst fram á, að villan væri því að kenna, að hann hefði gleymt að skrifa að eins einn einasta staf. En

talandi vottur var það um næma sómatilfining Rósenblatts, að nú vildi hann ekki annað heyra, en að Jakob, Pálína, og yfir höfuð að tala alt heimafólkið yfirskoðaði vandlega bækurnar og fullvissaði sig um hans tvímælalausa áreiðanleik. En þegar hann náði tali af Pálínu í einrúmi, var hann hamslaus af reiði, og það var rétt fyrir grátbeiðni hennar, að hann fékst til að halda áfram að vera ráðunautur hennar; og tvísýnt var um að grátbeiðni hennar mundi hafa dugað, ef hún hefði ekki svarið og sárt við lagt, að þaðan í frá skyldi hún aldrei leyfa sér þann ruddaskap að fara að hnýsast í hina hárfínu fjármálaráðsmensku Rósenblatts.

Eftir þetta ríkti eindrægni á heimilinu. Pálína vann hversdagsstörf sín með látlausri ástundan, til þess að hún gæti greitt mánaðar-afborganir á húsi sínu, og fullnægt fjárgræðgis-kröfum enska fólksins óttalega, sem heimtaði skatta, vöxtu og lögmannakaupgjald, en öllu þessu reyndi Rósenblatt að fullnægja með lægni sem var góðra gjalda verð. Svo önnum kafinn var sá góði maður við þetta, að hann gaf sér naumast tíma til að líta eftir sinni eigin húsasmíð, en hún var í því fólgin að reisa hvert kofakornið á fætur öðru, til að fullnægja vaxandi húsaþörf í nýlendu útlendinganna.

En áður en ár var liðið, gerðist atburður sá, sem Rósenblatt var meir en lítið áhyggjuefni, í viðbót við það stríð, er hann hafði af því að reyna að mæta þeim kröfum, sem til hans voru gerðar. Pálína gerði sig sem sé seka í þeim hörmulega skorti á nærgætni, að taka upp á því, að hvíla sig á gólfþvottum, brauðbakstri og heimilisþvotti, á meðan hún lá á sæng og ól fallegt og hraustlegt sveinbarn. Á stund neyðarinnar kom Pálínu bæði hjálp og vinarhót. Sú er hjálpina lét í té var nágrannakona hennar, sem hét Mrs. Fitzpatrick; hún átti heima skamt í burtu í einu

húsinu þar í nágrenninu, sem staðizt hafði innstreymi Galizíu-fólksins. Mrs. Fitzpatrick hafði bæði séð og fundið það af hjartagæzku sinni, er hún virti Pálínu fyrir sér við hversdagsstörfin, að þess mundi ekki langt að bíða, að hana bæri ofan í þann dularfulla dal lífs og dauða, þar sem konu verður kvenleg aðstoð alveg óhjákvæmileg; og þegar svo loks að örlagastundin rann upp, kom Mrs. Fitzpatrick, hafandi að engu kunnáttu og handlægni "heiðingja", og tók við stjórninni. Það var ekki nema stundarverk fyrir hana að þyrla út úr húsinu karlmönnunum, sem höfðu hangt þar með þrákelknislegu kæruleysi og gengið á þann helga rétt til einveru, sem yfirvofandi atburður krafðist. Hún veifaði gólfsópinum, sem hún hafði haft með sér, sópaði karlmönnunum bókstaflega út, og þeytti á eftir þeim pjönkum þeirra út í snjóinn. Rósenblatt var lengst á vakki inni við, en ekki fékk hann heldur að haldast þar við.

"Konan yðar þarf yðar ekki við, býst eg við fyrsta kastið. Yður er óhætt að bíða utangátta þangað til eg færi yður fréttir af barninu yðar", sagði hún og ýtti honum ekki óvinsamlega þó út úr herberginu.

Rósenblatt kunni nógu mikið í enskri tungu til að skilja merginn málsins, af því sem hún hafði sagt, og tók að andmæla með ákefð:

"Hún er ekki konan mín!" æpti hann.

Mrs. Fitzpatrick skildi ekki ensku Rósenblatts, en heyrðist hann vera að spyrja um mat. "Þér getið etið hvar sem yður sýnist. Þér eruð annars þokkapiltur eða hitt þó heldur, að vera að hugsa um mat, og konan yðar liggur með léttasóttinni!"

"Hún er ekki—" grenjaði Rósenblatt.

"Út með yður", hrópaði Mrs. Fitzpatrick óþolinmóðlega og skók hárauða hnefana við nefið á honum. "Heilaga guðsmóðir! Ekkert skil eg í því hvernig

nokkur heiðarlegur kvenmaður skuli geta bundið trúss við yður."

Þarna skyldi hún við hann fjúkandi reiðan, snéri til skylduverka sinna, og tók að hlynna að sinni sjúku systur í þrautum hennar, með mjúkum handtökum og blíðum en meiningarlausum orðum.

Að þrem dögum liðnum var Pálína aftur komin á fætur og tekin að gegna daglegum skylduverkum sínum, og áður en vikan var á enda, var alt hennar heimili komið í sömu föstu skorður, sem það hafði verið í áður. Sveinninn ungi var vafinn innan í gamla rekkjuvoð og hvíldi í rúmi móður sinnar; þar lá hann og lítið um hann hirt, nema þegar hans styrku lungu þeystu úr sér háværum mótmælum gegn kvölum hungursins, og ef Mrs. Fitzpatrick hefði ekki komið jafnoft á heimilið eins og hún gerði, mundi þessi litla mannlega mirja og óvelkomna á heimilinu, hafa átt auma æfidaga. Fyrsta hálfa mánuðinn eftir að sveinninn fæddist, varði hin barngóða írska kona klukkustund á hverjum degi til að þvo og klæða barnið, en Irma litla stjúpdóttir Pálínu, horfði á stórum augum og með mestu aðdáun; svo vandlega hafði litla stúlkan tekið eftir, að þegar hálfur mánuður var liðinn, þóttist Mrs. Fitzpatrick óhrædd geta falið barnið í hönd litlu stúlkunnar, sem næsta fús var að taka að sér fósturstarfið.

"Hún er dæmalaust fullorðinslegur krakki", sagði hún í hljóði við mann sinn Tímoteus. "Þó hún sé ekki nema á ellefta árinu, hefir hún tíu vitin húsmóðurinnar. Það er auðséð að hún er ekki hennar dóttir — dúfan hefir aldrei komið úr hrafnsegginu hingað til. Og mig stórundrar á því hvaða þrek er í stúlku-anganum, jafn-fölleit og hún er, og með þessi tinnudökku augu," bætti hún við, en Tímóteus hlýddi á hana undrandi og hugfanginn.

Þannig vék því við, að litla, fölleita, rússneska

stúlkan með tinnudökku augun fór á hverjum degi, hvað kalt sem var, með ungbarnið til Mrs. Fitzpatrick, til þess að hún gæti litið eftir meðferðinni á því. Áður en ár var liðið hafði Irma getið sér einlæga aðdáun bæði Mrs. Fitzpatrick og Tímóteusar manns hennar.

En um Pálínu varð eigi hið sama sagt, því að með hverjum mánuði, sem leið, fór hún lækkandi í áliti hjá Mrs. Fitzpatrick. Það var enginn efi á því, að Pálína var óþrifin. Hússtjórn hennar — ef hússtjórn skyldi kalla — var næsta fyrirlitleg í augum Mrs. Fitzpatrick. Þessir gallar hæfðu þó verið fyrirgefanlegir, og ef til vill verið hægt að útrýma þeim með þolinmæði og langlundargeði, en það var annað, viðvíkjandi heimilishögum Pálínar, sem Mrs. Fitz patrick gat ekki fyrirgefið. Þær hagfræðisráðstafanir að gera herbergi Pálínu að svefnsal almennings, misbuðu hræðilega siðferðiskröfum írsku konunnar. Oft hafði hún helt óskiftri flóðöldu sinnar ákúrumælgi yfir Pálínu. Pálína fann að vísu, að ekki var alt eins og átti að vera — enginn gat vilst á hvað táknaði hið hvassa augnakast Mrs. Fitzpatricks, né hvinurinn í rödd hennar — en hún tók öllum þeim aðfinningum með þolinmóðlegu brosi. Þegar Mrs. Fitzpatrick var orðin vonlaus um, að hafa sjálf nokkur áhrif á Pálínu, fékk hún Önku Kúsmúk sér til aðstoðar. Anka var vinnukona á New West hóteli, þar sem Mrs. Fitzpatrick vann að ræstun herbergja tvo daga í viku, og hafði Anka ofurlítið komist niður í daglegu máli ensku, af umgengni við fólkið þar sem hún átti heima. Báðar lögðust þær nú á eitt að telja um fyrir Pálínu, en það hafði lítið að segja. Hún daufheyrðist algerlega, því að hún varð einskis siðferðilegs misbrests vör. Þá varð Mrs. Fitzpatrick það og meir en lítil hugraun í missiónarverki sínu, er hún varð þess vís, að jafnvel Anka, sem hún efað-

ist ekki um að væri gæðastúlka, virtist ekki hafa sama ímugust eins og hún á siðferðisástandi Pálínu. Þarna var það að austrið og vestrið mættust, Slafar og Engil-Saxar. Milli sjónarhæða þeirra lá siðferðisþroskun margra mannsaldra. Hér var ekki um fullkomin siðferðis-einkenni að ræða, heldur miklu fremur um siðferðislegan mælikvarða. Mrs. Fitzpatrick var tekið að óra fyrir þessum mikla mun siðferðismælikvarðanna, og var í þann veginn, að líta með meira umburðarlyndi á siðferðilegt kæruleysi Pálínu, þegar henni flaug nýtt í hug:

"En hvernig fellur manninum yðar þetta? Segið mér það?"

Galizíukonurnar gláptu hvor á aðra steinþegjandi. Loks varð Anka fyrir svörum, þó að hún væri auðsjáanlega treg til og sagði:

"Hún á hér engan mann. Maðurinn hennar er á Rússlandi."

"Hvað þá!" æpti Mrs. Fitzpatrick með ógurlegri röddu. "Er það satt að Rósenblatt — se ekki maðurinn hennar? Heilaga guðsmóðir," bætti hún við með hryllingi í rómnum, " og við þenna kvenmann hefi eg haft kunningsskap!"

Gremjan fyrirlitningin, útskúfunin í augnaráðinu, svipurinn og alt látbragð hennar, kunngerði veslings Pálínu það, sem engin orð hefðu getað komið henni í skilning um. Blygðunarroðinn færðist hægt og hægt út undir fölleitt hörundið. Á þeirri stundu fékk hún séð sjálfa sig og liferni sitt með alt öðrum augum en nokkru sinni áður. Gremjuþrungin fyrirlitning þessarar móðguðu konu smaug eins og þrumufleygur inn í djúp mókandi siðferðis-meðvitundar hennar, og vakti hana til nýs lífs. Stundarkorn stóð hún kafrjóð og þögul, en því næst, snéri hún sér hægt undan og fór inn í hús sitt. Þetta var upphaf að endurlausn Pálínu.

## III. KAPÍTULI.

*Anka giftir sig.*

Veslings Pálínu var það mikill vinarmissir, þegar Mrs. Fitzpatrick snéri við henni bakinu, en þó hélt hún áfram að vinna baki brotnu, með því þögla þolgæði, sem þjóðflokk hennar er eiginlegt, að þvottum, brauðbakstri ræsting og að gera við fatnað, svo sem lá í hennar daglega verkahring. Engin nýjung gerðist á hennar breytingarlausu æfivegferð. Hún sinti börnunum tveimur, sem falin höfðu verið forsjá hennar, eftir því sem hún gat, og eins ungbarni sínu. Það var lán fyrir hana, að Irma reyndist frábærlega lagin að fara með börn og sá ekki sólina fyrir litlu anganum, og í annan stað kom það sér vel, að Irma og ungbarnið voru undanþegin bannfæringunni, sem Mrs. Fitzpatrick hafði kveðið upp yfir heimili Pálínu, því að á hverjum degi kom litla stúlkan með barnið, til að sýna hinni rosknu og ráðsettu Mrs. Fitzpatrick það.

Undir lok ársins 1884 gerðist atburður, sem varpaði nýjum bjarma yfir æfi Pálínu og alt hverfið útlendinganna. Atburður þessi var hvorki meiri eða minni, en gifting Önku Kúsmúk og Jakobs Wassyls, vinsælasta leiguliða Pálínu. Brúðkaup er mikilvægur atburður á mannlegri æfi. Brúðhjónunum verður hann sá möndull, sem tilveran snýst um, en ættingjum og vinum verður hann þegar í stað samruni atvikakeðju, sem kvíðandi og hugglöð athygli þeirra hafði verið fast við bundin, um leið og hann verður

skilnaðarstund og upphaf að nýju æfisviði, sem tilefni veitir til ótakmarkaðrar ágizkana. En að því er snertir áhorfendur, sem af tilviljun eru viðstaddir, þá verður brúðkaup jafnvel þeim þægileg áningarstöð á alfara-æfivegi, og lætur einstaklegan dýrðarbjarma falla af gullstöfuðum endurminningum ylríkrar æsku yfir myrkva og móðu hins hversdagslega lífs, eða þá fram á hinn dularfulla vang væntanlegrar reynslu.

Brúðkaup Önku var Pálínu og hennar fólki tilefni til alls þess er hér hefir verið nefnt, og til enn fleira. Stórmikið fagnaðarefni var Pálínu það, og meiri en lítill vegsauki þótti henni það, að heimili hennar skyldi vera valið til þess að láta fara þar fram þenna mikilvæga atburð. Heimili Pálínu varð nú um margar vikur miðból hverfisins, og þegar dró nær hátíðisdeginum, var hver einasti vistatökumaður sér meðvitandi um að yfir á sig hefði og fallið einhver einstaklegur dýrðarbjarmi. Ekki var að furða þó að Önku margreynda vinkona og trygðatröll Mrs. Fitzpatrick geðjaðist illa að því, að fastráðið hafði verið að halda brúðkaupið á heimili Pálínu. Írsku konunni fanst að Anka féllist á siðferðisreglur Pálínu og fyrirgæfi afbrot hennar með því að kjósa heimili hennar til veizlustaðar, og það jók á vanþóknun hennar, að Anka lét sem lítið væri í húfi.

"Eg er bara gröm við þig Anka yfir því," sagði hún ámælandi, "að þú skulir geta stigið þínum fæti inn fyrir dyr hjá þeirri kvensnipt."

"Æ, láttu mig ekki heyra þetta!" svaraði Anka með hárréttu innlendu orðatiltæki. "Satt er það. Pálína er gallagripur; það játa eg, en gættu að — líttu á húsið hennar — það er ekkert rússnezkt hús, sem við það geti jafnast — svo rúmgott. Æ!" skaut hún svo alt í einu að, "þú kemur líka til að sjá okkur Jakob dansa "czardas" eftir skálabumbu-slætti Arn-

úds. Arnúd kom frá gamla landinu, hann kemur með alla skemtunina, allan hljóðfæraflokk lystigarðsins."

Önku fanst það alls ónauðsynlegt og heimskulegt að leggja svo mikið í sölurnar til að fullnægja siðferðiskröfum, að neita sér um þá skemtun að dansa reglulegan czardas eftir músík Arnúds og fiðlanna, sem þar til heyrðu.

"Hafðu það eins og þér sýnist", hreytti Mrs. Fitzpatrick út úr sér með mestu fyrirlitningu; og hún herti þeim mun meir á orðunum, sem hún fann það gleggra með sjálfri sér, að hún hafði sterka löngun til að vera viðstödd þetta umrædda hátíðahald. "Eg hefi ekkert út á þig að setja, Anka, því að þú ert gæðastúlka, hróið, en eg og ætt mín er heiðarlag, eins og séra Mulligan getur frætt þig um, því að systurdóttir móðir hans var gift bróðursyni föður míns, og eg ætla aldrei að stíga mínum fæti inn fyrir dyr hjá öðru eins rægsni og henni Pálínu." Að svo mæltu setti Mrs. Fitzpatrick hendur á mjaðmir og stóð þannig sem lifandi tákn fjandskapar gegn sérhverri áskorun um syndsamlega málamiðlun.

En þó að hún væri fastráðin í að hegða sér þannig gagnvart Pálínu, hvað sem það kostaði, þá var henni svo innilega ant um að brúðkaup Önku færi vel fram, að hún var næsta fús til að ljá aðstoð sína til að undirbúa hátíðahaldið.

"Það er fátt og lítið, sem eg þekki til mataræðis ykkar Pólverja," sagði hún, "en eg get búið til laglegan skerf af flesk-*pæjum,* sem koma mundi vatni fram í munninn á sjálfum Móse, og eg get gefið ykkur kartöflu-súpu, sem Tímóteus getur fært ykkur heim í hús."

Þessu rausnarlega boði tók Anka þakksamlega, því að hún vissi það af eigin reynd, að flesk-*pæ* Mrs. Fitzpatrick voru slík, að þau hefðu sjálfsagt getað freistað jafnvirðulegs spámanns, eins og Móse sjálfs.

til dauðasyndar. Ekki var kartöflusúpan síður eftirsóknarverð, því að Anka vissi, að hún yrði ekki soðin í neinum venjulegum potti, heldur í hinum mikla þvottasuðukatli Mrs. Fitzpatricks; en Anka fór nærri um það, hvílíkur vistafengur þetta mundi verða, í veizlubyrjun, til að taka sárasta sultinn úr Galizíufólkinu.

Að búa undir brúðkaupsveizlu, sem staðið gat alt að þrem sólarhringum, það var fyrirtæki, sem vandlega þurfti að íhuga og með mikilli framkvæmdarforsjá; vegna vinsælda bæði brúður og brúðguma varð ekki hjá því komist, að bjóða öllu hverfis-fólkinu; en að þar að auki mátti vissulega ganga að því vísu, að vænst yrði eftir að veizlan yrði mjög stórfengileg, því að mikið orð fór af auðlegð brúðurinnar, og það var á allra vitund, að hún hafði með mikilli hagsýni lagt fyrir kaup sitt í New West hóteli síðastliðin þrjú ár. Og Anka ætlaði ekki að láta mönnum bregðast þessar vonir sínar.

Lengi vel hafði hún við tvær gagnstæðar eftirlanganir að stríða. Annars vegar girntist hún að sýna sig íklædda öllu því brúðarskrauti, sem vestrænar stúlkur voru vanar að bera, hins vegar þráði hún að halda veizlu, sem allir þeir skyldu muna lengi, er veittist sá heiður að vera viðstaddir. Hvorttveggja þetta gat hún ekki samrímt, og hún var svo hyggin að kjósa hið síðara. Af skarpskygni sinni sá hún það sem sé, að þó að vestræna brúðarskrautið sýndi svo sem að sjálfsögðu yndisleik hennar á nýjan og áhrifamikinn hátt, þá mundi ánægjan og ununin af því verða skammvinn, jafnvel þó að bezt léti; það tiltæki mundi vekja öfund yngri kvenþjóðarinnar, og verða hinum eldri og íhaldssamari samlöndum hennar aðfinsluefni.

Hún staðfestist enn meir í þessum ásetningi sínum við það, að bráðnauðsynlegt var að þau, hún og

Jakob, héldu hylli fólksins, ef þau hygðu að byrja á greiðasölu eða gistihúss-stjórn, eins og þau ætluðu sér undir eins og þau hefðu komist yfir nóga peninga til þess; en lýðhyllina var með engu öruggara að tryggja sér, heldur en góðum mat og drykk. Því var það að Anka tók á öllum vitsmunum sínum til að undirbúa veizlu þá, er átti í senn að afla henni álits og hagsmuna. Henni varð ekki skotaskuld úr því að kaupa matvælabirgðir til veizlunnar, því að hún hafði lært það í New West hóteli, að "gera góð kaup" með fé því, er hún hafði innunnið sér. Vandkvæðin voru bundin við matargerðina. Það lá í augum uppi, að til slíks var ekki hægt að ætlast af Pálínu, því að þó að ekki væri að ugga um kunnáttu hennar, að því er snerti að sjóða sumar súpur og jafninga, þó var hún alveg óhæf til að inna af hendi hina fínni tegund matargerðarinnar. Til að yfirstíga þau vandræði, kom henni það hagkvæma og snjalla ráð í hug, að fela nágrannakonunum, sem síðar skyldu sitja veizluna, að búa til ýmsa rétti; var hverri falið það, sem hún var hæfust til að leysa vel af hendi og féll bezt að gera: en yfir það hélt Anka glöggan reikning með sjálfri sér, hve mikið mundi verða hægt að búa til úr þeim matvælabirgðum, sem hver kona fengi, um leið og hún stældi metnað þeirra, og lagði að þeim um að láta sér nú takast sem allra bezt. Að því búnu úthlutaði hún miklum birgðum hveitis til að gera úr brauð og "baknínga" af ýmsum tegundum; ennfremur úthlutaði hún hrísgrjónum, baunum og byggi, sem átti að verða megin-efni í jafningana; kálmeti, blóðrófum og lauk var útbýtt af skornum skamti — því að verðið var hátt á þessum tíma árs — ennfremur svínakjötsrifjum, bjúgnadræsum og uxasteik af hálsi og huppum. Í búðinni góðu, sem kjötsala-pilturinn vann við, er kjötforða flutti til New West hótels, auðnaðist Önku að afla sér með blíðu brosi og hlýju

augnaráði, mikils forða af hækilbeinum nautagripa. svínarifjum, nautarifjum og öðrum úrgangi, er engilsaxneskar húsmæður vilja ekki líta við, en gat þó komið að miklu haldi til að setja "kraft" í súpuna. Í búðinga voru ætluð epli, sveskjur, rúsínur og *kranber*. Matsveinninn á New West hóteli var svo snortinn af áhuga Önku, að hann lofaði henni *pæjum* í tylfta-tali, og jafnvel gestihúseigandanum sjálfum gat ekki hugsast neitt, er betur hæfði athöfninni, en einn kassi af írsku *whisky*.. Því lofaði hann þegar hann heyrði hvað í undirbúningi væri. Eftir nokkra íhugun neitaði Anka þessu þó, og sagði að sér kæmi öl betur; sem ástæðu færði hún þá reynslu sína, að "whisky kæmi mönnum of fljótt í handalögmál". Það var svo sem óhjákvæmilegt að í handalögmál færi, en leiðinlegt óhapp, ef þessi óhjákvæmilegi þáttur hátíðahaldsins skyldi koma of snemma í veizluskránni.

Alla vikuna næstu á undan hátíðahaldinu, var verið að smá-skáka heim í kofana í kring, vistum afarfjölbreytilegum; þeim var hrúgað á hillur, í matarskápa — þar sem þeir voru — undir legurúm, og sannast að segja í öll tiltæk hylki. Búðingar, súpur og kjötjafningar, sem vera átti undirstöðu-veizlumatur, voru settir í tóma ölkagga, en fáeinir slíkir voru til í hverjum kofa. Síðan voru kaggarnir settir þar sem frosið gat, það sem í þá var látið, því að þannig gat innihaldið geymst óskemt og haldið sínu rétta bragði. Svo mikla kostgæfni og fyrirhyggju hafði Anka sýnt í yfirumsjón sinni á öllum þessum undirbúningi, að þegar hún fór í síðustu eftirlitsferð sína. daginn fyrir veizluna, þá var alt til reiðu fyrir morgundaginn, að því undanteknu að ölið var ókomið. En þetta var enganveginn að kenna fyrirhyggjuleysi af hálfu Jakobs, sem falið hafði verið að sjá um þetta. Þessi ráðstöfun var miklu fremur tákn hygg-

inda af fenginni reynslu á því, að hagkvæmast var að öl væri ekki sent, fyr en á allra síðustu stundu. Ölkaggi er hlutur, sem Galizíumönnum þykir mikið gómsæti hafa að geyma, og getur freistað heiðarleiks þeirra á hættulegan hátt; og fullvissa þess, að heilt æki ölkagga væri á næstu grösum, mundu auka svo á freistinguna, að lítt mögulegt yrði að standast hana. En í það mund, er kveldskuggarnir tóku að þéttast, var ölvagni miklum, er fallegir hestar gengu fyrir, og hátt var hrúgað á ölköggum, ekið að húsdyrum Pálínu. Viðstöðulaust voru nú kaggarnir bornir inn í kjallara af hjálpfúsum höndum vistatökumanna Pálínu, raðað í háa stafla með veggjum fram og vandlega taldir, en yfirumsjón á þessu höfðu þeir Rósenblatt og Jakob sjálfur. Þar voru kaggarnir komnir á óhultan stað, því að hver einasti maður skoðaði sig svo sem gæzlumann forðans gegn hugsanlegu áhlaupi nágrannanna; það voru eigi að eins vistatökumennirnir, sem litu þannig á, heldur og allir hverfisbúar, sem bjuggust við að verða viðstaddir hátíðahaldið og höfðu lagt til einn dollar hver um sig til ölkaupanna. Engan einasta ölkagga af þessum sameiginlegu birgðum mátti snerta fyr en að aflokinni hjónavígslu, en þá áttu allir af fá að standa jafnt að vígi, til að hefja drykkjuna. Það var ætlast til að ölið, sem eigandi New West hótels lagði til, mundi duga til fyrstu hátíðabrigðanna kveldið og nóttina næstu á undan brúðkaupsdeginum.

Það var talið hið mesta happ, bæði fyrir brúður og brúðguma, að komið hafði til borgarinnar fyrir einni viku grísk-kaþólskur klerkur, því að þó að leitað hefði verið til rómversk-kaþólks prests í St Boniface, ef í nauðirnar hefði rekið, þá hefði hjónavígslan tapað við það miklu af áhrifum sínum og hátíðleik. Anka og hennar fólk báru litla virðing fyrir athöfn-

um þeirrar kirkju, sem það taldi sig til að eins í orði kveðnu.

Brúðkaupsdagurinn rann upp bjartur og heiður: frostharka var ekki meiri en svo, að mikill mannfjöldi gat haldizt við úti fyrir húsdyrum Pálínu, og fylkti sér auðmjúklega fast að þeim, sem höfðu verið svo hepnir að ná inngöngu í aðalherbergi hússins, er brott hafði verið rýmt úr öllum rúmum og húsgögnum, og breytt í bráðabirgða-kapellu. Slafar eru guðræknir menn, ákaflega, eða jafnvel grimmilega guðræknir; því var það, að þetta fólk, sem um langan tíma hafði ekki mátt njóta guðsþjónustu að sinnar kirkju sið, safnaðist nú saman í einlægri og innilegri auðmýking, til að taka þátt í bænum prestsins; það kraup á kné í snjóinn og lá þar hræringarlaust og óaðvitandi, að því er virtist, um hæðilega léttúð þess forvitna áhorfenda-hóps, er safnast hafði að þeim með skjótri svipan. Í meir en tvær klukkustundir stóð guðræknisathöfnin yfir, en engin merki þess sáust, að áhuginn færi dvínandi, eða guðræknin rénaði: miklu fremur var svo að sjá, sem trúræknistilfinningin færi vaxandi, eftir því sem lengra leið á guðsþjónustuna. Loks tók að streyma út um opinn gluggann hinn dularfagri og veglegi brúðkaups-söngur, og undir hann tók fólkið með radd-dimmum kverkmálgum hita; þessu næst fylgdi blessunin og athöfninni var lokið. Jafnskjótt var brugðið við og stefnt til kjallarans, og þar tók Rósenblatt, með aðstoð margra annara, að slá botn úr bjórköggum, og rétta að mönnum öl í tinbollum, svo að drukkið yrði minni brúðurinnar. Og nú birtist Anka í dyrunum við hlið Jakobs, og sannarlega var hún fríð sýnum, í augum eiginmanns síns og allra sem sáu hana, þar sem hún ljómaði í hálfgerðri skrælingja-dýrð síns slafneska kynþáttar.

Eftir að fyrsta minnið hefði verið drukkið, þá

tóku að þyrpast út úr hverjum krangi á húsi Pálínu og frá kofunum alt umhverfis, konur með fötur og potta; úr þeim ílátum fyltu karlmenn aftur blikkbolla og diska, án ótilhlýðilegs hraða en þó seinlætislaust, með kraftmiklum, gómsætum kjötjafningi, krydduðum hvítlauk. Veizlan var byrjuð; fagnaðarstund Slafanna var runnin upp. Gleðidrukknir gengu hinir fagnandi gestir frá potti til kagga og frá kagga til potta, þangað til fögnuðurinn komst í algleyming, er Jakob tók sína kniplingum-skreyttu brúður við hönd sér, og leiddi hana fram og aftur um gólfið, um leið og hann bar fram þá djarflegu yfirlýsingu, svo allir gestir heyrðu, að brúður sín væri sú fallegasta og elskulegasta brúður, sem nokkurn tíma hefði verið til.

Þannig giftist Anka samkvæmt öllum siðvenjum í mikilli matarveizlu og við gnægð drykkjar.

---

## IV. KAPÍTULI.

### *Óboðinn gestur.*

Eimlest Northern Pacific-félagsins var á norðurleið og orðin á eftir tímanum. Hún hafði tafist af Dakota-hríðarbyl í fimm klukkustundir, og þess var lítil von að hún næði í tæka tíð, þar sem fara varð á móti hvössum stormi og eftir fannlögðum teinum. Lestin var full af farþegum, sem allir voru gramir yfir biðinni, eins og farþegar eru vanir að vera. Sá sem þreyjulausastur var, og ef til vill óþolinmóðastur, þeirra sem í fyrsta farrými voru, var maður nokkur, sem leit út fyrir að vera útlendingur, hár vexti, dökkhærður og hermannlegur í tilburðum. Hæruskotið yfirskegg með vaxbornum endum, snúnum í hvassa enda, gerði hann enn þá hermannlegri og útlendingslegri. Í hvert skifti, sem lestin nam staðar, við smá-

ar stöðvar með fram brautinni, óx óþolinmæði þessa manns augsýnilega, því að hann var altaf að líta á úrið sitt og bölva biðinni.

Öðru hvoru leit hann út um gluggann og horfði yfir snjóhvíta sléttuna, er lá mishæðalaust út að sjóndeildarhring; hingað og þangað var að sjá á henni dökka díla; það voru litlir svartir kofar á strjálingi, og stórir strá-stakkar hálfir á kafi í snjó. Alt í einu vakti röð smárra húsa athygli hans; þau voru fagurlega falin til hálfs bak við plantaðan lund aspa og Manitoba-hlyntrjáa.

"Hverjar eru byggingar þessar " spurði hann einn sessunauta sinna varkárlega á bókmáls-ensku og merkjanlega útlendri áherzlu.

"Hvað þá? Húsaþyrpingin sú arna. Það er Mennoníta-þorp", var svarað.

"Mennóníta-þorp! Ójá!"

"Já", svaraði sessunauturinn. "Hollenzkt, rússneskt, eða einhverra þjóða."

"Jú, rússneskt," svaraði ókunni maðurinn í flýti. "Það er vafalaust rússneskt", hélt hann áfram og benti með ákefð á hina snoturlegu húsaröð. "Þessir Mennónítar eru víst efnaðir — borgarar, bændur — eða hvað?"

"Já, eg held það. Þeir græða fé þar sem aðrir svelta. Þeir vita hvað þeir syngja. Þeir kusu sér þetta hérað, sem allir aðrir höfðu farið fram hjá — hið langbezta í öllu landinu — og græða á tá og fingri. Þeir eyða ekki í óþarfann. Kaupa aldrei neitt, en eta það sem þeir geta ekki selt af afurðum búa sinna.

"Ójá", sagði ókunni maðurinn og brosti.

"Já, þeir selja alla skapaða hluti, korn, svín, egg, smjör, en lifa á kálhöfuðum, osti og brauði."

"Ójá", endurtók ókunni maðurinn, auðsjáanlega ánægður.

"En samt er þetta áreiðanlegasta fólk", hélt mað-

urinn áfram með spekingssvip, "við seljum þeim akuryrkju-tól."

"Ójá, akuryrkjutól?" sagði ókunni maðurinn.

"Já, plóga, sáningarvélar, og kornskurðarvélar. o. s. frv."

"Ójá, akuryrkjutól, einmitt", sagði ókunni maðurinn og var sem hann vildi festa þetta orð í minni sér. "Og þeir standa vel í skilum?"

"Já, þeir eru skilvísir, einstaklega áreiðanlegir. Þeir eru líka góðir bændur."

"En ekki eins góðir hermenn, eða hvað?"

"Hermenn? Nei, eg held ekki. En við höfum ekkert með hermenn að gera."

"Hvað þá? Eru hér engir hermenn? Ekkert setulið?"

"Nei, hvað skyldum við hafa að gera með hermenn hér í landi. Okkur vantar hingað bændur, og þá marga."

Ókunna manninum komu á óvart þessi tíðindi. Hann gat ekki slitið hugann frá þessu. Hvernig var hægt að halda friði og reglu? Hvernig færi ef upphlaup yrði? Hvernig var farið að innkalla skatta?

"Upphlaup? Hér í landi verða aldrei upphlaup. Út af hverju ættum við að gera upphlaup? Við höf um of mikið að gera til þess. Og um skattana, sem þér mintust á er það að segja, að við greiðum enga skatta, nema skóla-skatta.

"Og ekki til kirkna?" spurði útlendingurinn.

"Nei, hver maður leggur sinn skerf til þeirrar kirkju, sem hann telur sig til, eða greiðir ekkert til kirkju, ef honum þykir það betra."

Útlendingurinn hlýddi á mjög hugfanginn. Mikið undraland gat þetta verið! Þarna voru engir hermenn, engin upphlaup, og þeir einir lögðu fé til kirkna, sem kærðu sig um það! Hann spurði vandlega að Mennóníta-nýlendunum, hvar þær væru, hvað

þær væru stórar, hvernig fólkið væri, og um alt, er það snerti. En þegar farið var að spyrja hann um sjálfan hann, og það sem honum kom við, þá varð hann alt í einu hljóður. Hann var allra þjóða maður, sagði hann. Hann væri að ferðast sér til skemtunar og til að afla sér þekkingar. Það gæti farið svo að hann settist einhvern tíma að í þessu landi, en núna yrði það ekki. Síðan þagnaði hann, lét höfuðið síga niður á bringu, og þannig sat hann þangað til járnbrautarþjónn fór um lestina og hrópaði: "Winnipeg! Lestaskifti í allar áttir!" Þá stóð útlendingurinn upp, þakkaði sessunaut sínum dálítið yfirlætislega, en þó hæversklega, fyrir leiðbeiningarnar, fór í síða yfirfrakkann sinn, sem fóðraður var lambskinnum, og skreyttur skinnleggingum, setti upp lambskinns-húfu sína, og var nú enn þá líkari hermanni, þar sem hann stóð, heldur en nokkru sinni áður.

Á vagnstöðvar-pallinum í Winnipeg voru mikil læti og troðningur. Járnbrautarþjónar og brautarsveinar, æpandi aðvörunar-orð, ruddust með litla flutningsvagna sína gegnum mannþröngina. Gistihúsasveinar kölluðu upp nöfn og vistar-verð á hótelum sínum. *Express*-menn og öku-piltar buðu aðstoð sína í ákafa. Bæjarbúar skeyttu þessu engu, en ruddust fast fram, til að bjóða velkomna vini og ættingja. Þarna var ys og þys og ógangur mesti. En ókunni maðurinn stóð grafkyr án þess að þetta fengi nokkra vitund á hann; hann virtist vera vanur því að lenda í hávaðasamri mannþröng, en skotraði öðru hvoru hvössum augum til beggja handa.

Smátt og smátt tæmdist vagnstöðvar-pallurinn. Gistihúsa-sveinar skálmuðu hróðugir burt með þá, sem þeir höfðu náð í; *express*-menn og öku-sveinar keyrðu af stað með flutning sinn; að eins fáeinir menn voru eftir. Tveir menn stóðu á öðrum enda pallsins í sauðskinnstreyjum og með lambskinnshúfur á höfði.

Ókunni maðurinn þokaði sér, með hægð, til þeirra. Meðan hann var að færa sig þetta til, tóku mennirnir að horfa á hann, fyrst kæruleysislega, en því næst með meiri alvöru. Stundarkorn stóð hann kyr og horfði niður eftir götunni, og því næst sagði hann eins og við sjálfan sig á rússnesku: "Hann er á norðan í kveld."

Alt í einu glæddist athygli mannanna tveggja.

"Og fannfergið er mikið," svaraði annar maðurinn, um leið og hann lyfti hendinni upp í kveðjuskyni.

"En það mun koma vor, bróðir", svaraði ókunni maðurinn.

Annar maðurinn gekk nú hvatlega til hans, tók í hönd hans og kysti á hana.

"Heimskingi!" svaraði ókunni maðurinn, kipti að sér hendinni og skimaði í kringum sig á vagnstöðvapallinum. "Sá björn sem veiðir á bersvæði, verður skjótt veiddur sjálfur."

"Hæ, hæ," skrikti hinn maðurinn stundarhátt, "hér í landi eru engir á veiðum, bróðir."

"Heimskingi!" sagði ókunni maðurinn aftur í lágum en alvarlegum rómi. "Hvar sem dýr eru, þar eru einhverjir á veiðum."

"Hvaða greiða getum við gert? Hvers æskir bróðir minn? spurði maðurinn.

"Eg vil komast þangað sem Pálína Koval á heima. Veistu hvar hún er?"

"Já, við vitum það, en —" það kom hik á mennina og þeir litu hvor á annan.

"Bróðir okkar hefir ekkert að gera inn á heimili Pálínu Kovals", sagði sá sem fyr hafði tekið til máls. Pálína hefir ekkert leigu-herbergi. Það er full-á-sett hjá henni með börnin sem hún hefir og alla vistatökumennina."

"Einmitt það", sagði ókunni maðurinn, "og hvað er margt þar?"

"Jæja", svaraði hinn maðurinn og taldi á fingrum sér, "það er Pálína, börnin hennar þrjú, og —"

"Tvö börn", greip ókunni maðurinn fram í hvatskeytlega.

"Nei, börnin eru þrjú. Já, þrjú eru þau." Hann hætti við talninguna, eins og honum hefði flogið eitthvað nýtt í hug. "Eru börnin ekki þrjú, Jósef?" spurði hann, og snéri sér að félaga sínum.

Jósef lét ásannast að hann færi rétt með. "Jú, Símon, þau eru þrjú; stúlkan, drengurinn og unga barnið."

Ókunna manninum kom þetta augsýnilega mjög á óvart.

"Haldið áfram", sagði hann þurlega.

"Það er Pálína, börnin þrjú, og Rósenblatt og—"

"Rósenblatt!" Orðið skaust fram af vörum ókunna mannsins, með álíka afli, eins og kúla úr riffilhlaupi. "Rósenblatt á hennar heimili! Svo-o-o-o-o!" Hann rak andlitið með svo grimmilegu og illilegu hvæsi að vitunum á manninum, sem talað hafði, að hann hrökk undan. Ókunni maðurinn áttaði sig þó skjótt. "Heyrið þið bræður, eg þarf herbergi í fáeina daga, einhversstaðar; kemst af með lítið herbergi, og get borgað vel fyrir það."

"Þér er velkomið, að koma heim til mín", svaraði maðurinn, sem Jósef hét, "en þar eru sex manneskjur með mér."

Félagi hans tók í sama streng. "Kofinn minn er bæði fátæklegur og lítill, tvö börn fyrir, en ef öldungurinn, bróðir minn, vill láta svo lítið?"

"Já, eg þekkist það, vinur minn", sagði ókunni maðurinn. "Þú skalt ekki neins í missa við það." Hann tók upp töskuna sína, sem hann hafði sett á

vagnstöðvar-pallinn, og sagði stuttaralega: "Farðu á undan."

"Lofaðu mér, bróðir", sagði Símon, og tók af honum töskuna, "við förum þessa leið."

Þeir gengu norður yfir járnbrautar-sporin og áfram götuna fram hjá tveimur þverstrætum, því næst beygðu þeir til vesturs út á auða sléttuna. En er þeir höfðu gengið litla hríð, benti Símon á dökka kofaþyrping nokkra, sem skar mjög af við drifhvíta mjöllina.

"Þarna", sagði hann brosandi, "er litla — Rússland."

"Þetta er ekki Rússland", sagði Jósef, "þetta er Galizía."

Ókunni maðurinn nam staðar og leit á kofana; því næst lét hann augu hvarfla út að sjóndeildarhring, yfir skínandi sléttuna, bleikleita hér og hvar og roðna gulli hinnar hnígandi kveldsólar. Síðan benti hann á kofana og sagði: "Þetta er Canada. En þarna", sagði hann, og veifaði hendinni út yfir sléttuna, "er Síbería. En hvað eruð þið?" spurði hann og snéri sér að mönnunum.

"Við erum frjálsir menn", sagði Jósef. "Við erum Canadamenn."

"Við erum Canadamenn", svaraði Símon, enn hægra. "En hérna", bætti hann við, og lagði höndina á hjartastað, "hérna er altaf Rússland, og rússneskt bræðraþel."

Ókunni maðurinn horfði hvast á hann. "Eg trúi þér", sagði hann. "Enginn Rússi getur gleymt föðurlandi sínu. Ekki getur heldur neinn Rússi gleymt bróður sínum", og þegar hann horfði yfir sléttuna og út að eldskýjuðum sjóndeildarhringnum, brá fyrir í augum hans drambþrungnum glampa.

Við dyr lítils kofa lét Símon þá nema staðar.

"Fyrirgefið, ég ætla að kunngera komu bróður míns", sagði hann.

Þegar hann opnaði hurðina, kom þefjaður gufumökkur rjúkandi í móti þeim. Ókunni maðurinn hvarflaði frá, og leit aftur út að sjóndeildarhring, um leið og hann sogaði í sig svalt loftið í löngum teigum, hreinsað á þúsund mílna langri ferð yfir snæþakta sléttuna.

"En hvað þetta er undarlegt!" sagði hann. "Jú, þetta er Rússland, það er sama loftslagið, sami himinbláminn, sama sléttan."

Innan stundar kom Símon aftur.

"Komdu inn", sagði hann og laut mjög djúpt. "Þetta er þitt hús, bróðir; við erum þrælar þínir."

Þetta var rússnesk vinakveðja.

"Nei", sagði ókunni maðurinn og rétti snögt út hönd sína. "Í þessu landi eru engir þrælar, guði sé lof; hér eru allir bræður."

"Já, sannarlega erum við bræður þínir", sagði Símon, um leið og hann féll á kné og kysti á höndina útréttu. "Lena", kallaði hann til konu sinnar, sem stóð óframfærin í hinum enda herbergisins, "hér er kominn öldungur bræðrafélagsins okkar."

Lena gekk nú nær, kraup á kné og kysti á útréttu höndina.

"Komdu Margrét", sagði hún, og togaði í sex ára gamla dóttur sína, "komdu og heilsaðu meistaranum."

Margrét litla færði sig nær, og rétti höndina, en leit framan í ókunna manninn upplitsdjörf, en þó hálfsmeyk.

"Skammastu þín! Skammastu þín!" sagði Lena í ofboði. "Krjúptu á kné! Krjúptu á kné!"

"Hún kann ekki að heilsa", sagði faðir hennar í afsökunarskyni og brosti.

"Rétt er það", mælti ókunni maðurinn, og leit

hálfhissa á telpu-krakkann. "Hvar hefurðu lært að heilsa með handabandi?"

"Í skólanum", svaraði hún á ensku.

"Í skólanum?" endurtók ókunni maðurinn á sama tungumáli. "Þú gengur á skóla. Á hvaða skóla genguröu?"

"Á alþýðuskólann, herra."

"Og er þér ekki kent á alþýðuskólanum, að krjúpa á kné þegar þú heilsar?"

"Nei, herra minn, við krjúpum aldrei á kné."

"Hvað lærið þið þar þá?"

"Við lærum að syngja, lesa, skrifa; *marséra*, og sauma."

"Ójá", sagði ókunni maðurinn ánægjulega. "Þið lærið margt. Og hvað kostar nú öll þessi kensla?" spurði hann föður hennar á rússnesku.

"Ekki neitt."

"Nú er eg alveg hissa!" sagði ókunni maðurinn. "Og hver kendi henni ensku?"

"Enginn. Hún lærði hana rétt af öðrum börnum."

"Ójá, það er gott að heyra."

Foreldrarnir voru auðsjáanlega upp með sér af litlu dóttur sinni. Í þessu heyrðist hróp og söngur, svo að ókunni maðurinn leit út í gluggann.

"Hvað er þetta?" spurði hann.

"Brúðkaupsveizla", svaraði Símon. "Það er stóreflis veizla hjá Pálínu. Þar eru allir núna."

"Hjá Pálínu? endurtók ókunni maðurinn. "Og því ert þú þar ekki?"

"Við erum ekki neinir vinir við Rósenblatt."

"Þið Rósenblatt? Hvað kemur honum þetta við?"

"Rósenblatt er húsbóndi á heimili Pálínu", sagði Jósef ólundarlega.

"Ójá! Er hann húsbóndi þar? Og þið eruð

engir vinir hans", sagði ókunni maðurinn. "En hvernig stendur á því?"

"Við erum Rússar, en hann er Bukówiníu-maður; hann leigir verkamenn fyrir járnbrautarfélög, við leigjum okkur sjálfir; hann stýrir sölubúð, við kaupum nauðsynjar okkar í búðum Canadamanna; þess vegna hefir hann óvild á okkur."

Ókunni maðurinn kinkaði kolli, til merkis um að hann skildi hvernig í öllu lægi.

Og þessvegna eruð þið ekki boðnir í veizluna."

"Nei, við erum ekki boðnir í veizluna", sagði Jósef í gremjurómi.

"Og eru þetta ekki vinir ykkar, sem eru að gifta sig?"

"Jú".

"Og er ekki gott til matar og drykkjar þarna?"

"Jú", svaraði Jósef með ákefð. "Það er nú veizla í lagi! Bjórækið var ekkert smáræði! Að eg ekki tali um dansinn!"

"Það er bágt að verða af öðru eins", sagði ókunni maðurinn. "Þið eruð víst hræddir við Rósenblatt", hélt hann áfram með nálega ómerkjanlegum þjósti.

"Hræddir!" hrópaði Símon. "Nei! En maður kemst ekki inn um lokaðar dyr."

"Ónei, en langar ykkur ekki í veizluna, dansinn og ölið?" spurði ókunni maðurinn. "Eg skyldi fara í þessa veizlu sjálfur, ef eg væri ekki ókunnugur hér." Eg skyldi fara, ef eg þekti brúðurina."

"Við skulum fylgja þér þangað, bróðir," sagði Jósef með ákefð. "Vinir okkar fagna þér þar."

Enn var hik á Símoni.

"Mér er ekkert um Rósenblatt."

"En Rósenblatt er nú orðinn drukkinn", sagði ókunni maðurinn.

"Nei, það verður hann ekki", svaraði Símon.

"Hann verður ekki drukkinn, þar sem mögulegt er að græða skildinga."

"En er ekki veizlan ókeypis?"

"Jú, veizlan er ókeypis, en þó eru peningar altaf í veizlunni. Þar eru veðmál, og svo er músikkin, sem dansað er eftir; Rósenblatt ræður henni. Hann hefir leigt Arnúd, skalabumbu hans og fiðlu, og dansmennirnir verða að borga."

"Ójá, þetta er hygni fyrir sig", svaraði ókunni maðurinn. "Hann er klókur karl þessi Rósenblatt. Hann verður voldugur hér í borginni. Hann verður kóngur ykkar einhverntíma."

Glampi kom í augu beggja mannanna, við að heyra þetta háð. "Ójá", hélt ókunni maðurinn áfram. "hann notar auð sinn til að gera ykkur að þjónum sínum. Canada er nú reyndar frelsis-land, en hér verða bæði drotnar og þrælar líka."

Þetta var að grípa á kýlinu, því að drotnunargirni Rósenblatts var engin ímyndun, heldur andstyggilegur veruleiki. Það voru miklar bægðir á því fyrir nokkurn mann að fá góða atvinnu nema fyrir tilstilli Rósenblatt, sem gerði samninga um verk handa Galizíumönnum. Vel gat það verið að menn hefðu óvild á Rósenblatt, eða fyrirlitu hann, en það var ómögulegt að ganga fram hjá honum.

Báðir mennirnir voru næsta fúsir til að fara í veizluna. Hví ætti Rósenblatt að standa í vegi fyrir þeim? Voru þeir ekki vinir Jakobs og Önku? Var ekki nýkominn gestur velkominn á hvert heimili í hverfinu, einkanlega ef gesturinn var mikilhæfur? Símon vildi svala metnaðargirnd sinni og lagði af stað á undan heim að húsi Pálínu.

Að vísu var óþarfi að vísa nokkrum veg til þess húss, er veizlan fór fram í. Söngurinn og háreystin gaf ótvíræðlega til kynna, og það um langan veg, hvar veizlugestirnir voru staddir, og þegar aðkomu-

menn nálguðust, mátti enn gleggra þekkja veizlustaðinn, á fólksþyrpingunni við dyrnar. Þeim Jósef og Símoni var fagnað af mikilli gestrisni og með mörgum bjórkönnum.

En þegar þeir ætluðu að fara að gera gestinn kunnugan, var hann horfinn, og gátu þeir hvergi séð hann í mannþyrpingunni. Aftur á móti rákust þeir á Rósenblatt, sem réðist þegar á þá.

"Hvernig stendur á ferðum ykkar hingað, Slafar?" öskraði hann fyrirlitlega.

"Þar sem ætið er fyrir, þangað safnast ernirnir", sagði einn af fylgjurum hans.

"Eg er kominn til að óska vini mínum Jakobi Wassyl til hamingju", sagði Símon með lágri röddu.

"Já, náttúrlega", gullu við margar vingjarnlegar raddir. "Og því skyldi hann ekki gera það? Það er hárrétt af honum."

"Jakob Wassyl kærir sig um hvorugan ykkar hingað", æpti Rósenblatt upp yfir alla hina.

"Hver heldur hér uppi svörum fyrir Jakob Wassyl?" heyrðist nú hrópað. Það var Jakob sjálfur, standandi í dyrunum, rennandi sveittur, kafrjóður af dansinum, og hreifur af öli og unaðsemdum brúðkaupsdags síns. Þenna dag að minsta kosti var Jakob hæstráðandinn. "Hvað sé eg?" spurði hann ennfremur, "eru hér ekki komnir vinir mínir, þeir símon Ketzel og Jósef Pinkas?"

"Við vorum ekki boðnir í veizluna þína, Jakob Wassyl", svaraði Símon, "en okkur langaði eigi að síður til að óska þér til lukku og konunni þinni."

"Ójá, og verið þið velkomnir, bæði þú Símon Ketzel og þú Jósef Pinkas. Hver leyfir sér að segja að þið séuð ekki velkomnir?" spurði hann og snéri sér önuglega að Rósenblatt.

Rósenblatt þagði við, og því næst tautaði hann eitthvað, sem virtist óþekkast, "slafnesk svín!"

"Slafneskir!" endurtók Jakob með veglyndislegum ákafa. "Við erum allir slafneskir. Við erum allir Pólverjar. Við erum allir Galiziumenn. Við erum allir bræður. Hver sem annað segir, er ekki vinur Jakobs Wassyls."

Samúðaróp kváðu við frá fagnandi mannfjöldanum.

"Komið bræður", kallaði Jakob til Símonar og Jósefs, "komið inn. Hér er nógur matur!" Hann gekk aftur á bak og rýmdi til fyrir aðkomumönnum, og var eins og hann hefði alveg sérstaka ánægju af því, að fagna vel þessum mönnum, sem Rósenblatt hafði sýnt fyrirlitning.

Herbergið var troðfult af dansendum, sem sveigðu sig og beygðu og hrópuðu, og gufan stóð upp af, það voru bæði karlarog konur, en af öllum lagði svitagufu og lauklykt. Á palli í einu horninu sat Arnúd, milli tveggja fiðluleikara, fyrir framam skálabumbu sína, áburðarmikill í leggingaskyrtu og skrautsaumuðu vesti; þar hamraði hann á hljóðfæri sitt uppáhalds-lög dansendanna, og gaulaði öðru hvoru í samræmi við tónana er þutu eins og málmregn úr hljóðfærinu fyrir framan hann. Í samfleyttar fjórar klukkustundir eða meir, höfðu hljóðfæraleikarar haldið áfram sínu óendanlega undirspili við dansana og söngvana, og að eins hvílt sig rétt á meðan þeir slöktu þorsta sinn. Þar var sjáanlega enginn fastandi. Jakob ruddi sér braut að innra herberginu.

"Hæ! Pálína!" hrópaði hann, komdu með tvo diska handa mönnunum, sem eiga eftir að borða."

"Eftir að borða!" Þessi óvæntu tíðindi hertu svo á Pálínu, að hún komst á hlaup, þó svifasein væri. "Hérna, hérna", sagði hún, "komdu með þá að glugganum að baka til."

Nú varð nýr troðningur, en innan skamms tók

Jakob móti tveimur fötum, sem full voru af gómsætum, rjúkandi jafningum handa gestunum.

Í því að þeir sneru brott með hinum gestrisna húsráðanda, kom maður með mikið svart skegg á glugganum.

"Hér er enn einn, sem ekki hefir fengið að borða, Pálína", sagði hann rólega á galizisku.

"Heilaga guðsmóðir! Hvar hafa allir þessir svöngu menn verið?', sagði Pálína og flýtti sér með annað fat yfir að glugganum.

Maðurinn hikaði við og hálf-fálmaði eftir fatinu.

"Eg er langt að kominn", sagði hann og mælti nú á rússneska tungu, með lágri en þungri röddu.

Pálínu varð hverft við. Maðurinn greip um úlnliðinn á henni.

"Kyr!" sagði hann. "Segðu ekki nokkurt orð, Pálína."

Konan fölnaði undir óhreinu, blökku andlitshörundinu.

"Hver er þetta?" leið hljótt fram af skorpnum vörum hennar.

"Þú veist að það er Michael Kalmar, maðurinn þinn. Komdu. Eg bíð þín fyrir utan kofann. Segðu ekki neitt við neinn."

"Þú ætlar að drepa mig", sagði hún, og feitur skrokkurinn á henni titraði af þróttarskorti.

"Fussum fei! Gyltan þín! Hver skyldi kæra sig um að drepa gyltu? Komdu nú, segi eg. Engan undandrátt."

Hann hvarf jafnskjótt bak við kofa nokkurn þar í nágrenninu. Pálína var svo skjálfhent, að hún fékk með naumindum nælt sjalið í skýlu á sig. Svo lagði hún af stað gegnum mannþyrpinguna. Innan stundar nam hún staðar við herbergisdyr sínar, og var sem þar kæmi hik á hana. Hún nötraði eins og

laufblað og stóð á öndinni öðru hvoru. Í þessum svifum bar Rósenblatt þar að.

"Hvað gengur að þér Pálína?" mælti hann. "Hvað ert þú hér að gera?"

Það var sem hún gerbreyttist nú á svipstundu.

"Eg er ekki hundurinn þinn", sagði hún, og ólundarlegt andlitið varð fagurrautt af gremju.

"Hvað er að heyra þetta", öskraði Rósenblatt. "Farðu inn aftur læðan þín!"

"Já! læða!" æpti hún og þaut í móti honum með útréttar krumlur."

Hún lét gómana ganga með skyndilegri svipan niður eftir andlitinu á honum, og skófu neglurnar með sér hörund og hár. Rósenblatt hörfaði aftur á bak. "Hún er óð! Hún er brjáluð!" hrópaði hann og leitaði undan ofan í kjallarann, og á eftir honum heyrðust hróp og köll þeirra, sem á höfðu horft.

Pálína skálmaði til dyranna æst í skapi og hrópaði: "Eg var heiðarleg kona, en hann tældi mig til ills." Því næst snéri hún við, gekk hægt til bakdyra á húsi sínu, og hvarf á bak við nágranna-kofann, þar sem maðurinn ókunni stóð og beið hennar.

Hún nálgaðist hann hægum skrefum, og þegar hún var komin svo nærri honum, að hann gat auðveldlega náð til hennar, fleygði hún sér á kné og rétti höfuð að fótum honum.

"Stattu upp fífl", sagði hann hranalega.

Hún stóð upp og horfði í gaupnir sér niðurlút.

"Hvar eru börnin mín?" spurði hann.

Hún benti á einn kofann í nágrenninu; það var heimili Mrs. Fitzpatrick. "Þau eru hjá nágrannakonu", sagði hún og leit aftur á hann, ódjarflega eins og fyr.

"En þitt?" hvæsti hann út úr sér.

Hún skalf og nötraði.

"Svaraðu", sagði hann lágt og rólega, en með

hræðilegri röddu. "Langar þig til þess að eg drepi þig þar sem þú ert komin?"

"Já, "svaraði hún og vafði sjalinu fyrir andlit sér., "dreptu mig! Dreptu mig strax. Það verður gott að deyja!"

Hann þeysti úr sér blótsyrði, og bar höndina upp að síðunni. Svo horfði hann á hana um stund, eins og hann væri í vafa um, hvað hann ætti að gera.

"Nei, það er ekki þess vert", sagði hann loksins. "Þú ert ekki konan mín. Heyrirðu það?"

Hún lét sem hún heyrði ekki.

"Þú ert gyltan hans Rósenblatt. Það er bezt hann hafi þig."

"Æ! lávarður minn", stundi hún. "Lofaðu mér að deyja!"

"Og svei!" sagði hann og hrækti frá sér í snjóinn. "Þú fær kannske að deyja þegar við erum búin að gera upp reikningana. Fylgdu mér þangað, sem við getum verið ein. Af stað með þig."

Hún lét augu hvarfla yfir kofana, sem voru dökkir tilsýndar og virtust alveg auðir af mönnum.

"Komdu", sagði hún og fór á undan.

Hann fór á eftir henni yfir að kofa, sem stóð utarlega í þorpinu. Hún opnaði kofahurðina og vék sér frá, svo að hann gæti farið inn.

"Farðu inn fyrst", sagði hann grimmilega. "Svo vantar kerti."

Hann kveikti á eldspýtu. Pálína leitaði uppi kerti. Hann kveikti á því og setti á kassa, sem stóð úti í einu horninu.

"Láttu eitthvað fyrir gluggann", skipaði hann.

Hún tók rekkjuvoð úr rúminu og nældi fyrir gluggann. Langa stund stóð hann hræringarlaus á miðju gólfi, en hún kraup við fætur hans. Loks tók hann til máls og sagði rólega:

"Það kann vel að vera að eg drepi þig í nótt,

svo að þér er betra að segja mér satt, í guðs nafni og nafni Maríu meyjar. Eg ætla að spyrja þig um börn mín. Dóttir mín er nú ellefu ára gömul. Hefir þú verndað hana? Eða er hún — eins og þú?"

Hún sveipaði af sér sjalinu og fletti upp ermunum.

"Sjáðu", hrópaði hún, "bakið á mér er öldungis eins. Dóttir þín er óspjölluð."

Um alla handleggina voru bláar og lifrauðra rákir. Hann starði á hana.

"Viltu sverja þetta við krossinn helga?" spurði hann alvarlega.

Hún dró lítinn járnkross úr barmi sínum, og kysti á hann; því næst leit hún á hann með hundslegri auðmýkt.

"Æ! lávarður minn", tók hún til máls. "Mér var ekki hægt að bjarga sjálfri mér. Eg var öllum ókunnug hér. Hann tók peningana mína. Við vorum húsvilt."

"Hættu, lygakind", greip hann fram í með þrumandi röddu. "Eg afhenti þér næga peninga þegar þú fórst frá Galizíu."

"Já, eg greiddi alt það fé fyrir húsið, en samt var skuld á því, óborguð."

"Þetta eru ný ósannindi", hvæsti hann fram úr sér. "Eg sendi þér peninga mánaðarlega. Eg hefi kvittanirnar fyrir því."

"Eg fékk enga peninga frá þér", svaraði hún auðmjúklega. "Hann neyddi mig til að láta karlmenn sofa í húsi mínu, inni í mínu eigin svefnherbergi. Að öðrum kosti yrði eg að missa húsið. Eg hafði fyrir börnunum að sjá. Hvað gat eg gert? Ekki dugði að fara með þau út á klakann?"

"Fékstu þá enga peninga frá mér?"

Hún kysti aftur á krossinn. "Eg sver að eg fékk þá ekki. Og hvað átti eg að gera?"

"Gera?" endurtók hann, og átti örðugt um mál fyrir reiði sakir. "Gera? Þú gast látið lífið!"

"En börnin?"

Hann þagnaði og leit á hana. Nú fór honum að skiljast, hve illa hún hafði verið stödd. Hún hafði farið í ókunnugt land, þar sem hún átti enga vini, og hafði þar fyrir tveimur börnum að sjá. Fénu, sem hann hafði fengið henni til framfærslu, hafði hún varið til að kaupa hús ofan yfir sig, fyrir milligöngu Rósenblatts, sem gekk ríkt eftir því, að afborganir væru greiddar. Var því ekki að undra, þó að hann hefði getað haldið henni hræddri og beygt undir sinn vilja.

Þó að fyrirlitning manns hennar væri hin sama og áður, rann honum heldur reiðin. Eftir langa þögn tók hann til máls og sagði: "Heyrðu. Ætli þessi veizla standi ekki í eina tvo daga?"

"Jú, það eru nóg matvæli og áfengi til tveggja daga."

"Að tveimur dögum liðnum verður starfi mínu hér lokið. Þá sný eg heim aftur. Eg verð að hverfa aftur. En börnin mín! Börnin mín! Hvað verður um þau? Börnin hennar Olgu minnar, sem nú er látin!" Hann tók að ganga um gólf í herberginu. "Ó ættjörð mín! Ættjörð mín!" andvarpaði hann, með óduldum harmi, "verð eg að fórna öllu þessu þín vegna? Drottinn minn góður! Föður og móður, bróður, heimili, eiginkonu — alt þetta hefi eg orðið að missa. Verð eg nú að missa börnin líka? Auðséð var á yfirlitsdökku andlitinu, að hann átti í ógurlegu stríði við sjálfan sig. Röddin var hás og honum lá við að standa á öndinni. "Nei, nei!. Hæyri það allir helgir menn! Fyrir Olgu sakir ætla eg ekki að láta börn mín af hendi. Eg ætla að hætta að hugsa um mitt hrjáða land. Hvað kemur mér það við! Æ, drottinn minn! Að gleyma? Eg get ekki gleymt!

Þessar sléttur!" Hann svifti rekkjuvoðinni frá glugganum, laut áfram, og horfði út yfir sléttlendið. "Þessar sléttur minna mig á Rússland! Gljáhvítur snjórinn hvíslar að mér nafninu: Rússland! Æ! Æ! Æ! eg get ekki gleymt þjóð minni og ættjörð meðan eg dreg lífsanda. Eg hefi orðið að þjást of mikið, til þess að geta gleymt. Guð gleymir mér, ef eg gleymi!"

Hann féll á kné við gluggann, og hinn þróttugi líkami hans tók að hristast af tárlausum ekka. Aftur stóð hann á fætur og fór að ganga fram og aftur með spentum greipum. Alt í einu nam hann staðar og reyndi með miklum erfiðismunum, að ná valdi yfir sér. Ofurlitla stund stóð hann þannig þráðbeinn og grafkyr.

Konan hafði legið alla þessa stund á hnjánum, og nú skreið hún að fótum hans.

"Lávarður minn lætur mig fá börnin til eftirlits," sagði hún lágt.

"Þig!" kallaði hann og hrökk frá henni. "Þig! Hvað skyldir þú geta gert fyrir þau?"

"Eg gæti dáið fyrir þau", svaraði hún látlaust, "og fyrir lávarð minn."

"Fyrir mig! Ha!" Ósegjanleg fyrirlitning skein úr röddinni.

Hún hröklaðist aftur frá honum fram á gólfið.

"Eg get gert út af við börn mín, en eg get ekki skilið þau eftir á skækju-heimili.

"Æ!" stundi hún, grípandi höndum fyrir brjóst sér, og riðandi fram og aftur á hnjánum. "Eg ætla að verða heiðarleg kona! Eg ætla aldrei að syndga framar! Rósenblatt skal eg reka —"

"Rósenblatt!" endurtók hann og hló grimdarhlátur. "Að tveim dögum liðnum verður Rósenblatt farinn héðan."

"Ætlarðu —?" stundi hún upp.

"Hann verður að deyja," svaraði hann rólega.

"Æ, lávarður minn! Lofaðu mér að salga honum. Það yrði mér hægðarleikur að myrða hann í svefni. En þú yrðir tekinn fastur og hengdur. Í þessu landi kemst enginn undan réttvísinni. Æ! dræptu hann ekki sjálfur. Lofaðu mér að gera það."

Hún grátbændi hann með andköfum, haldandi um fót honum. Hann spyrnti henni frá sér fyrirlitlega.

"Þegiðu flónið þitt! Við hann fæst enginn annar en eg sjálfur. Þar er um gamla skuld að ræða. Ójá," hélt hann áfram, "gamla skuld. Það verður unun að finna lífið smá-saxast úr honum, meðan eg held fyrir kverkar honum."

"En þú verður tekinn fastur."

"Þvættingur!" Lögreglan gat ekki haldið mér í Síberíu, og heldurðu þá, að hún haldi mér hér í landi? En hvað verður um börnin mín?" bætti hann við hikandi. "Rósenblatt rutt úr vegi." Alt í einu snéri hann sér að konunni. "Heyrðu kona," mælti hann með lágri og alvarlegri röddu, "heldurðu að þú gætir —"

Hún fleygði sér enn einu sinni fyrir fætur honum með auðmjúkri grátbeiðni. "Æ, lávarður minn! Lofaðu mér að lifa fyrir þau, fyrir þau—og—fyrir þig!"

"Fyrir mig?" sagði hann kuldalega. "Nei. Þú hefir svívirt nafn mitt. Þú ert ekki framar kona mín. Heyrirðu það?"

"Já, já", sagði hún með ekka, "eg heyri. Eg skil. Eg æski einskis sjálfrar mín vegna. En fyrir börnin — börnin þín vil eg lifa og deyja."

Hann snéri sér frá henni, út að glugganum, og tók að hugsa sig um. Þess þóttist hann fullvís, að hún mundi reynast börnunum vel. Hann var þess og jafn fullvís, að hún mundi fúslega leggja líf sitt

í sölurnar fyrir þau. Eftir að Rósenblatt væri úr vegi rutt, hyrfi orsök afbrots hennar og smánar. Hann vissi af engum öðrum í þessu ókunna landi, er hann gæti falið börn sín. Ef starf hans steypti honum í útlegð eða dauða — og þá tvo förunauta hafði hann lengstaf haft — þá yrðu börn hans munaðarlaus. Enn á ný sneri hann sér að konunni, sem lá á hnjánum. Hann kendi engrar blíðu til hennar. Honum hafði aldrei þótt vænt um hana. Hann hafði gengið að eiga hana af hagkvæmlegum ástæðum, eingöngu til þess, að hún liti eftir börnunum hans eftir fyrri konuna, sem nú var látin, en henni hafði hann unnað með einlægri og ógleymanlegri ást.

"Pálína", sagði hann alvarlega, og fyrirlitningarhreimurinn var algerlega horfinn úr röddinni, "þú ert ekki framar konan mín; en börn mín ætla eg að fela þinni forsjá."

Alt að þessu, meðan á samtali þeirra stóð, hafði hún aldrei tárfelt, en um leið og hann sagði þetta, vafði hún báðum handleggjunum um hné hans, og tók til að gráta ákaft.

"Æ, lávarður minn! Æ, lávarður minn! Lávarður minn!" tautaði hún grátandi og kysti jafnvel á skóna hans.

Hann færði sig frá henni og settist niður á bekk.

"Heyrðu", sagði hann. "Eg ætla að senda þér peninga. Þú skalt ekki þurfa að leigja neinum karlmanni, til að hafa ofan af fyrir þér. Geturðu bent mér á nokkurn, sem eg gæti sent peningana handa þér?"

Hún hugsaði sig ofurlítið um.

"Já, eg veit af einni manneskju", sagði hún, "en henni er ekki um mig. Hún telur mig misyndiskonu." Hún sagði þetta lágt, og dökkur roði færðist í andlitið.

"Ójá, mig langar til að sjá þessa manneskju",

svaraði hann. "Á morgun getur þú fylgt mér til hennar. Eg skal fara fram hjá heimili þínu í rökkrinu. Þá geturðu mætt mér. Farðu nú."

Hún lá fyrst kyr á hnjánum, þar sem hún var komin. Svo skreið hún nær fótum hans.

"Æ, lávarður minn", sagði hún kjökrandi, "eg hefi framið mikið ranglæti. Viltu ekki lemja mig? Lemdu mig þangað til lagar úr mér blóðið. Hann varð mér ofurefli. Eg var svo hrædd um börnin. Eg átti hvergi húsaskjóls von. Eg framdi mikið ranglæti. Ef lávarður minn vildi að eins lemja mig, svo að blóðið lagaði úr mér, mundi mér hægjast mikið við það."

Hér var hróp réttlætisins að láta til sín heyra, frá hennar gáfusljóu sálu. Það var krafa eðlishvatar um afplánun afbrota. Það var óafvitandi ósk um að fá aftur heimild á einkaréttindum þeim, sem eiginkonu bar.

"Kona", sagði hann alvarlega, "það kann vel að vera, að maður berji konu sína, en enginn leggur hönd á þann kvenmann, sem hann hirðir ekki hót um. Farðu."

Enn einu sinni greip hún um fætur hans og kysti á þá. Því næst reis hún upp og fór steinþegjandi út í náttmyrkrið. Hún hafði snúið yfir á hina torsóttu braut iðrunarinnar, þá einu götu, sem syndari getur gengið til friðar.

Eftir að hún var farin, gekk hann fram til dyranna og horfði á eftir henni, eins og hann væri að hugsa um að kalla á hana aftur.

"Ónei!" sagði hann loksins, "hún er mér ekkert. Látum hana fara."

Hann slökti ljósið, lokaði dyrunum, og hélt rakleitt heim í hús Símonar.

---

## V. KAPÍTULI.

### *Ættjarðarást.*

Inni í húsi Pálínu var alt brotið og bramlað. Lamaðir stólar, bekkir og borð, ásamt með brotum ýmsra íláta, sem stráð var um sóðalegt gólfið, brotnir gluggar, hurðin milli innra og fremra herbergisins rifin af hjörum; alt þetta brotarusl, við hliðina á lerkuðum, bláum og blóðugum líkömum manna, sem lágu þar í óþrifnaði sínum, gaf ljóslega til kynna, hvers eðlis þær hrottalegu aðfarir hefðu verið, sem átt höfðu sér stað í veizlunni kveldið fyrir.

Sú sjón, sem Pálínu bar fyrir augu um birtingarleytið morguninn eftir, hefði vel getað orðið til að ofbjóða kjarkmeiri manneskju, heldur en hún var; það var engu líkara en hvirfilbylur hefði farið geysandi um hús hennar, og Pálína var alls ekki kjarkmikil að morgni þessa dags. Ógurleg skelfing hafði gripið hana við að hitta mann sinn, svona alveg óvænt; hún hafði hræðst dauða sinn; en svo hafði sá ótti horfið fyrir hræðslu útskúfunarinnar.

Sjö ár voru nú liðin frá því að Micael Kalmar lét svo lítið að ganga að eiga hana; þá hafði hún gefið sig af allri sálu sinni á hans vald, knúin af einlægri og aðdáunarríkri ást, er gert hafði hann að nokkurs konar dýrðlingi í hennar augum. Þaðan í frá var hann henni sem guð, er hún gerði sér að skyldu að tigna og þjóna. Ótrygð hennar hafði að engu leyti lamað þessa tilfinningu. En er hún losnaði undan áhrifum manns síns, hafði ekkert til hans

spurt um tveggja ára skeið, en var ofurseld bragðvísi og undirferli Rosenblatts, þá hafði sál hennar dáið, en dýrseðlið lifað og stælst. Jafnskjótt sem hún heyrði rödd húsbónda síns, kveldið fyrir, hafði nýtt líf kviknað í hennar dauðu sál. Hennar guð hafði þá birst henni á ný, og í sama bili hafði hún aftur orðið sál og líkami. Þannig stóð á fjandskap þeim, er hún hafði sýnt Rósenblatt; þannig stóð á hinni algerðu iðrun hennar og innilegu bænum, er hún bar fram við eiginmann sinn. En hann hafði vísað henni frá sér. Sem snöggvast hafði hún, fagnandi augum, litið hlið himins opnast sér, en innan stundar höfðu þau nú lokast fyrir henni um alla eilífð. Því var sízt að undra, þó að hún væri hreld í huga, er hún kom heim til sín og sá þar alt brotið og bramlað, og mikill léttir var henni það, að Anka kom, kát og hugrökk, til að hjálpa henni strax með morgunsárinu.

Báðar lögðu þær hönd á ræstunina; tóku að rýma burt ruslinu, bæði dauðu og lifandi. Anka var hraðhent við að koma brott karlmönnunum, sem sváfu á gólfinu. Hún brá sér út í kalt morgunloftið og sótti fulla fötu af snjó.

"Svona letingjar," kallaði hún, og jós sinni hendinni af snjó, framan í sérhvert hinna grágulu andlita; "komist þið nú á fætur. Það er bezta veður úti og miðdegismaturinn verður tilbúinn innan skamms."

Nöldrandi, nuddandi og bölvandi, tóku karlmennirnir að rísa á fætur, þeir reigðu sig og teygðu með miklum geispum og þustu út í kuldann.

"Búið ykkur undir miðdegisverðinn", kallaði Anka á eftir þeim. "Það bezta er enn eftir og svo dansinn."

Niður í kjallarann ruddist svo þyrpingin; allir voru lerkaðir og sárir og nöldrinu lintu þeir ekki á; þegar niður í kjallarann kom, dýfðu þeir hausunum

niður í jökulkalt vatn, og eftir að þeir höfðu tuskað sig dálítið til og sopið úr einni eða tveimur ölkönnum hver, voru þeir reiðubúnir að halda áfram veizlugleðinni. Enginn morgunverður var framreiddur, en þegar á daginn leið fór kvenfólk að tínast að, úr kofunum í kring með matvæli, til að halda áfram veizlunni. Anka hafði sem sé verið svo hyggin, að geyma nokkuð af hinum betri réttum til annars veizludagsins. En um ölbirgðirnar var það að segja, að þær gerðust Jakobi Wascyl töluvert áhyggjuefni, þó að nokkrir kaggar væru enn eftir. Það yrði bæði óhapp og óvirðing, fanst honum, ef öl þryti áður en veizlan væri úti. Hér var ekki gott við gerðar. Jakob var búinn að eyða öllu skotsilfri sínu, og gestir hans búnir að leggja fram sinn skerf, Rósenblatt mundi fyr láta úthella blóði sínu, en hann legði fram fé, og Jakob var ekki enn búinn að ná því haldi á konu sinni, að hann gæti heimtað af henni að hlaupa undir bagga.

En hjálpin kom frá Símoni Ketzel, eða öllu heldur gestinum, sem hjá honum var. Þegar hann komst að því, að öl mundi því nær upp gengið, afhenti hann Símoni bankaseðil og sagði: "Það væri illa, ef vinir þínir biðu óvirðing af slíku. Sjáðu um að nóg öl verði til veizlunnar. Kauptu það sem þarf, og afganginn af peningunum geturðu sjálfur haft fyrir húsaleigu minni. En þú mátt ekki minnast afskifta minna af þessu með einu orði.

Árangurinn varð sá, að seint um kveldið var miklu æki ölkagga ekið að bakdyrum á húsi Pálínu, bæði Jakob og gæstum hans til hins mesta fagnaðar, því að veizlugestum var einnig orðið órótt, og voru farnir að ímynda sér, að þeir ættu dauflegt og fagnaðarsnautt kveld fyrir höndum.

En atburður þessi varð til þess að auka vinsældir Símonar Ketzel meir en lítið, því að ökumaðurinn

sem með ölið kom, hafði látið þess við getið, að það hefði verið Símon, sem svo drengilega hefði hjálpað, er í nauðirnar rak.

Leystir af þessum kvíða, tóku svallararnir, með endurnýjuðum og áköfum fögnuði, að drekka að maklegleikum minni brúðguma og brúður og hvers einstaklings í freyðandi öli. Allan síðari hluta dagsins átu, drukku, dönsuðu og sungu karlar og konur, piltar og stúlkur, alt sem þau orkuðu.

Þegar skyggja tók, og veizlufögnuðurinn stóð sem hæst, laumaðist Pálína með sjal í skýlu, gegnum veizluskarann, út úr húsinu og stefndi til jaðarsins á hverfinu, þar sem maður hennar beið hennar óþolinmóður.

"Þú kemur seint", sagði hann hranalega.

"Eg gat ekki fundið Kalman".

"Kalman! Drenginn minn! Og hvar heldurðu að hann sé?" spurði maður hennar og mátti heyra kvíða í röddinni.

"Hann var með mér heima í húsinu. Eg gat ekki bægt honum frá karlmönnunum, og þeir gefa honum öl að drekka."

"Gefa þeir barninu öl?" spurði hann með þjósti.

"Já, þeir láta hann dansa og syngja og gefa honum öl. Hann er undrabarn," sagði Pálína.

Um leið og hún sagði þetta, heyrðist skær og mikil barnsrödd, sem tók yfir hinn æðisgengna skálabumbu slátt, syngja ungverskan ástarsöng.

"Þey!" sagði hann og hélt upp hendinni.

Við fyrstu tóna þessarar háu og skæru barnsraddar þögnuðu hróp og köll drykkjusvolanna og hinn ótamdi töfrakendi söngur, þrunginn af tilfinningu, heyrðist gerla hækka og lækka í aftankyrðinni. Í lok hvers erindis mátti heyra djúpan og ruddalegan körsöng, sem tók langt yfir skrækhljóðar fiðlur og dynjandi skálabumbu Arnuds.

"Drottinn minn!" sagði maður hennar þegar söngurinn var á enda. "Farðu nú og sæktu hann."

"Eg skal koma með hann yfir að húsinu þarna", sagði Pálína og benti á hús Mrs. Fritzpatrick, og innan stundar mátti sjá hana koma þangað, berandi og hálf-dragandi dreng, á að gizka átta ára gamlan, sem brauzt um, sparkaði frá sér, og jós úr sér mestu ósköpum af enskum blótsyrðum.

"Þegiðu Kalman", sagði Pálína á galizisku, og reyndi árangurslaust að þagga niðri í snáðanum. "Ókunni maðurinn verður hissa á að heyra til þín."

"Mér er alveg sama um ókunnuga manninn, hver sem hann er," öskraði Kalman. "Þetta er svartur djöfull", bætti hann við, þegar hann kom auga á svartskeggjaða manninn, sem stóð við húsdyr Fitzpatricks og beið þar.

"Þegiðu, þegiðu, þú ert vondur drengur!" sagði Pálína dauðhrædd og tók fyrir munn sveininum.

Maðurinn snéri baki við þeim; hann kipti af sér svarta skegginu, stakk því í vasa sinn, og snéri í flýti upp á yfirskegg sitt; því næst veik hann sér við og horfði móti þeim. Þessi breyting setti drenginn hljóðan og dró úr gremju hans. Hann hrökk undan og þokaði sér nær stjúpmóður sinni.

"Er þetta djöfullinn?" hvíslaði hann að henni á galízisku.

"Kalman", sagði gesturinn á rússnesku, "komdu til mín. Eg er pabbi þinn."

Drengurinn starði á hann felmtsfullur og forviða.

"Kalman", endurtók faðir hans á galizisku, "komdu til mín. Eg er pabbi þinn."

Drengurinn hikaði við og horfði fast á föður sinn. Þriggja ára fjarvist hafði þurkað þetta andlit út úr minni hans.

"Komdu litli Kósakki", sagði faðir hans. "Komdu, hefurðu gleymt öllum útreiðunum þínum?"

Drengurinn hrökk við eins og hann vaknaði af svefni. Þessi orð komu hreyfingu á einhverjar óljósar endurminningar, fólgnar í huga hans. Hann gekk á móti föður sínum, tók í framrétta hönd hans og kysti hana aftur og aftur.

"Ójá, sonur minn, þú manst þá eftir mér," sagði faðir hans fagnandi.

"Já", svaraði drengurinn á ensku, "eg man eftir ferðalaginu á brúna hestinum."

Faðirinn hóf drenginn upp á sína sterku arma og kysti hann hvað eftir annað; síðan setti hann hann niður og sagði við Pálínu, "við skulum koma inn."

Pálína fór á undan og drap á dyr. Mrs .Fitzpatrick kom til dyra; þegar hún sá hver komin var, ætlaði hún að skella í lás, en þá rétti Pálína upp höndina.

"Heyrið þér", sagði hún og benti á manninn, sem stóð í skugganum á bak við hana, "þetta er Irmu-pabbi."

"Hvað eruð þér að segja?" spurði Mrs. Fitzpatrick.

"Irmu-pabbi", endurtók Pálína og benti á Kalmar.

"Er Irma dóttir mín á heimili yðar?" spurði hann og færði sig nær.

"Eruð þér að spyrja um dóttur yðar?" spurði Mrs. Fitzpatrick og horfði hvast á útlendinginn. "Ef hún er dóttir yðar, þá ættuð þér að fyrirverða yður fyrir, hvernig þér hafið slept hendi af yðar nánustu."

"Get eg fengið að sjá Irmu dóttur mína " spurði gesturinn rólega.

Mrs. Fitzpatrick horfði fast á hann og grunsamlega; því næst kallaði hún: "Irma, ástin mín, komdu hingað og sagðu mér, hver þetta er. Fáðu Jim barnungann og komdu hingað."

Útí dyrnar kom stúlka og leit á gestinn; hún var á að gizka ellefu eða tólf ára, há eftir aldri, föl í

andliti, með ljóst hár 'i tveimur fléttum, og undursamleg "tinnudökk augu", eins og Mrs. Fritzpatrick komst að orði.

"Irma", sagði Kalmar á ensku' "þekkirðu mig ekki, barnið mitt?',

En stúlkan stóð kyr og starði á hann vandræðalega.

"Irma! Barnið mitt, sál af minni sál!" sagði hann á rússnesku, "þekkirðu ekki hann föður þinn? Hann gekk nú fram úr skugganum, svo að ljósbirtan úr dyrunum gat fallið framan 'i hann, og nam staðar með útbreiddan faðminn.

Þegar í stað breyttist svipur stúlkunnar, og hún hljóðaði upp yfir sig og sagði: "Þetta er hann faðir minn!" og fleygði sér í fangið á honum.

Faðir hennar greip utan um hana, vafði hana fast að sér þegjandi og kysti hana hvað eftir annað.

"Komið þið inn, komið þið inn 'i hlýjuna" sagði írska konan, sem var brjóstgóð manneskja, og þerði sér um augu. "Komið þið nú úr kuldanum", og ýtti með gestrisnislegum ákafa föðurnum með börnin inn í húsið.

Um leið og þau fóru inn snéri Pálína burt. En áður en Mrs. Fitzpatrick lét aftur hurðina greip Irma 'i handlegginn á henni og hvíslaði einhverju að henni.

"Er það ekki Pálína? Láttu hana koma —" Hún þagnaði og leit til Rússans.

"Sögðuð þér nokkuð?" spurði hann og hneigði sig.

"Þetta er Pálína", sagði Mrs. Fitzpatrick og bar málrómurinn ótvírætt vitni um þá fyrirlitningu, sem hún hafði á hinni ólánssömu manneskju, sem var viðbúin að hverfa burt frá dyrunum.

"Og látum hana fara. Það stendur rétt á sama. Hún er svín. Látum hana fara."

"Er hún þá alls ekki kona yðar? spurði Mrs. Fitzpatrick og rann henni enn meir í skap, er hún þóttist þarna verða áskynja um nýja blekking af hendi Pálínu.

Hann ypti öxlum. "Hún var það einusinni. Eg kvæntist henni. Hún er ekki framar gift kona. Látum hana fara."

Við að heyra þetta fyrirlitlega kæruleysi snéri Mrs. Fitzpatrick reiði sinni á hann.

"En það eruð þér sjálfur, sem ættuð að skammast yðar fyrir hvernig þér hafið breytt við hana, skal eg segja yður!"

Gesturinn bandaði frá sér eins og hann vildi vísa frá sér einhverjum smámunum.

"Það skiftir engu," sagði hann aftur. "Hún er ekki annað en belja."

"Lofið þér henni að koma inn", hvíslaði Irma og tók aftur í handlegg írsku konunnar.

"Já, það er sjálfsagt", sagði Mrs. Fitzpatrick, "komið þér inn veslings sálarlausa manneskja."

Irma hljóp niður riðið og sagði eitthvað í flýti við Galiziu-konuna. Pálína hikaði við, horfði fast á bónda sinn. Hann veifaði fyrirlitlega til hendinni, eins og hann væri að kalla á rakka til sín. Jafnskjótt staðnæmdist konuskepnan, gekk inn í húsið og settist þar út í horn.

"Eg verð að biðja yður forláts á því", sagði Mrs. Fitzpatrick við Kalmar, "að eg bauð yður ekki strax inn; en sannast að segja er það rétt eins mikið yður að kenna, því að sára lítinn svip hafa börnin af yður."

"Finst yður þau ekki lík mér?" spurði faðir þeirra. "Nei það mun satt vera, þau eru eftirmynd móður sinnar." Um leið og hann sagði þetta tók hann upp leðurveski, opnaði það og rétti að Mrs. Fitzpatrick.

"Nei, viljið þið bara líta á!" sagði hún. "En

hvað hún hefir verið svipfalleg. Hún hefir verið regluleg drotning, og það er þó satt. Stúlkan verður lifandi eftirmyndin hennar. Og drengurinn, hann hefir bláu augun hennar og ljósa hárið. Það er auðséð, hvaðan börnin hafa fríðleikann," bætti hún við og leit framan í hann.

"Reyndu að kunna þig, kona", tautaði Jim, sem þótti meir en lítið koma til þess, hvað gestur þeirra var hermannlegur á velli og augsýnilega "meiri háttar."

"Já, börnin hafa líkst móður sinni," sagði faðir þeirra í mjúkum rómi, sem bar vott um hugþekka endurminning. "Það er þeirra vegna, að eg er hingað kominn í kveld, húsfrú góð — hvað má eg leyfa mér að kalla yður?"

"Eruð þér að spyrja hvað eg heiti?" gall Mrs. Fitzpatrið við. "Mishtress Tímóteus Fitzpatrick, fædd Mónaghan, af Mónaghans-ættinni frá Ballinghalereen, gamalli ætt, bláfátækri, en fjandanum stórlátari og einusinni mesta prýði Mays-héraðsins. Og þetta er," bætti hún við og benti með þumalfingrinum á bónda sinn, "Tímóteus Fitzpatrick, maðurinn minn, sómamaður á sinn hátt. Tímóteus, kantu ekki mannasiði? Stattu upp og gerðu hreint fyrir þínum dyrum."

Tímóteus staulaðist á fætur, þungur í snúningum, því að hann hélt á barni Pálínu, og togaði ennistopp sinn.

Rússinn tók kveðju Tímóteusar, hneigði sig kurteislega og sagði:

"Eg heiti Michael Kalmar, og er ánægja að kynnast yður herra Vichpatrick."

Mrs. Fitzpatrick þótti auðsjáanlega sér sómi sýndur.

"Og eg er upp með mér af því að þér hafið heimsótt okkur", sagði hún og endurgalt hneiging hans með kollakingsi. "Óskapa dóni ertu Jim! Því býð-

urðu ekki heiðursgestinum stól að sitja? Hefurðu aldrei fyrri séð vel siðaðan mann á æfi þinni?"

Fólkið var nú æði stund að koma ser fyrir, af því að Rússinn færðist undan að setjast niður, meðan húsmóðirin stæði, og Mrs. Fitzpatrick tregaðist aftur, að sínu leyti, við að setjast, þangað til gestur hennar hefði fengið viðunanlegt sæti.

"Eg er kominn á fund yðar Mrs. Vichpatrick, vegna barnanna minna."

"Og ágætis-börn eru þau, þó að drengurinn sé nokkuð mikill á ferðinni á stundum."

Kalmar skýrði nú frá högum sínum, mælandi á enska tungu með kurteisu og vönduðu orðfæri. Hann kvaðst þurfa að fara til Evrópu, því að hann hefði þar störf að rækja. Hann yrði kannske í burtu heilt ár, eða meir. Einhvern þyrfti hann að fá til að líta eftir börnunum sínum. Þó að Pálína væri honum sem engin, þá vissi hann, að hún mundi trúlega bera umhyggju fyrir þeim, að því er fæði, klæði og húsnæði snerti. Hún segði vistatökumönnum sínum upp. Hún hefði aldrei þurft að taka neina menn á vist, nema fyrir það, að sviksamur, undirförull maður komst 'i spilið. En nú væri að því komið að hann þyrfti á annara hjálp að halda. Vildi hann því forvitnast um, hvort Mrs. Fitzpatrick vildi leyfa honum að senda henni peninga smátt og smátt, er hún skyldi verja til framfærslu Pálínu og börnunum. Hann þægði henni svo sem að sjálfsögðu fyrir ómak hennar.

Mrs. Fitzpatrick hafði hlýtt á hann með athygli, en þegar hér var komið, greip hún fram í og sagði reiðulega:

"Yður er bezt að hafa yðar peninga sjálfur. Hvaða maður eruð þér annars, mætti eg spyrja, úr því að þér sendið börn yðar ósjálfbjarga 'i ókunnugt land með annari eins kvensnipt, og þeirri arna?"

"Pálína var einusinni heiðarleg kona," greip hann fram í.

"En hvernig stendur þá á því," hélt hún áfram með þjósti, "að þér skiljið þau eftir innan um heiðingja-skríl? Lítið þér á stúlkuna þá arna; hvað haldið þér að verði úr henni innan um þennan bansettan skara af þjófum og bófum? Heilagur Jósef! Eg veit ekki betur en, að eg vaki nótt eftir nótt til að hlusta, hvort eg heyri hana ekki kalla á hjálp. Hvernig stendur á því, að þér eruð ekki kyr hjá börnunum yðar eins og almennilegur maður? Það hefði eg gaman að vita."

"Störf mín —" tók Rússinn til máls með hátíðlegum raddblæ.

"Og hvaða störf ætli það séu, sem standa yður nær, heldur en börnin yðar? Viljið þér gera svo vel og fræða mig um það?"

Og nú blossaði reiði Mrs. Fitzpatrick upp, ekki aðeins barnanna vegna, heldur líka sannast að segja vegna veslings Pálínu, sem hún gat ekki annað en vorkent þrátt fyrir alt.

"Hvernig hjarta er annars í yður, vildi eg leyfa mér að spyrja?"

"Hjarta!" endurtók Rússinn og reis á fætur. "Ættjörð mín á hjarta mitt, frú. En í því skiljið þér ekki. Ættjörð mín kallar mig til sín."

"Ættjörð yðar!" hafði Mrs. Fitzpatrick eftir honum fyrirlitlega. "Og hvaða land er það?"

"Rússland", svaraði hann með lotningarhreimi í röddinni, "er ættjörð mín."

"Rússland! og það er ljóta blóðsúthellingalandið," svaraði Mrs. Fitzpatrick fyrirlitlega.

"Já, Rússland er blóðsúthellingaland," mælti hann. "Þér hafið rétt að mæla. Það er rauðlitað af blóði þjóðbræðra minna, blóði ættmanna minna, á síðustu öld og enn lengur." Hann talaði lágt, en röddin

skalf af geðshræringu. "Þér getið ekki skilið þetta. Hví skyldi eg vera að segja yður það?"

Þegar hér var komið spratt Tímóteus á fætur.

"Setjist þér niður, vinur minn, setjist þér niður! Hættu að blaðra Nóra. Eg á hægt með að þekkja mann, sem er ættjarðarvinur, hvenær sem er. Herra minn trúr! Lofið mér að taka í höndina á yður, vinur minn. Setjist þér svo niður og segið okkur sögu yðar. Við erum alveg eins innrætt eins og þér. Segið okkur sögu yðar, maður minn. Skeytið þér ekkert um kerlinguna, hún er verri en við. Látið þér ljós yðar skína! Eg er þyrstur í að heyra, hvað þér hafið að segja."

Rússinn starði í tindrandi augu litla mannsins írska, eins og hann byggist við, að hann hefði mist vitið. En svo var sem hann áttaði sig alt í einu, og sagði: "Ójá, þér eruð írskur! Þér hafið einnig átt við harðstjórn að stríða."

"Húrra, vinur minn!" æpti Tim, "og satt var orðið, já, eg hefði nú sagt það. Irland lifi! Það veit heilagur Patrick, og allir helgir menn, að eg er með yður, og á móti hverri stjórn, sem nokkru sinni rænti heiðvirðan mann réttindum. Haldið þér áfram, vinur minn, segið sögu yðar."

Augsýnn ákafi var kominn í Tímóteus. Heili hans svall af söguminningum um margra alda grimmilega uppreisn gegn kúgun "blóðugrar harðstjórnar". Við það hlýnaði Rússanum um hjartarætur, svo að hann hélt áfram sögu sinni. Í heila klukkustund hélt hann áfram að tala, ýmist úr sæti sínu, eða gangandi hratt um gólf, ýmist með djúpri röddu, rólegri og ógurlegri, eða með stunum og hásum ekka, og hann greindi frá þvílíkum blóðsúthellingum og brennum, að barátta Íra og ójöfnuður, sem þeim hafði verið sýndur, virtist verða að vögguljóðum einum.

Tímóteus hlýddi á hina ógurlegu frásögu í mik-

illi geðshræringu, þar sem skiftist á gleði og gremja, eftir því sem efni frásagnarinnar breyttist. Það var eins og brugðið væri upp ljósi yfir hinar víðkunnu skærur milli tunglskinsfara og óðalsokrara á gamla Írlandi. En frásögnin varð nokkuð endaslepp, svo að Tímóteus spurði:

"Og hvað tók þá við?"

"Þá tók Síbería við," svaraði Rússinn rólega.

"Síbería! Drottinn minn góður!" sagði Tim með hryllingi. "En komust þér þá þaðan?"

"Eg er nú hingað kominn," svaraði hann blátt áfram.

"Við sálu Móse, satt er það; þér eruð hingað kominn! Og ætlið þér að fara heim aftur?" spurði Tim skelfdur.

"Ætlar hann?" gall Nóra við með miklum þótta. "Ætli síldin syndi? Já, auðvitað fer hann heim aftur. Og það sem meira er, þér getið sent peninga til mín, og eg skal sjá um að börnin fái að njóta þeirra, þó að eg þyrfti að snúa hann úr hálsliðunum, eins og hænu-unga, svarta heiðingjann, hann Rósenblatt."

"Ætlið þér að taka við peningum handa börnunum mínum?" spurði Rússinn.

"Það ætla eg að gera."

Hann rétti fram hönd sína í flýti. Hún tók í hana. Hann lyfti hönd hennar upp að vörum sér, og laut djúpt höfði um leið, eins og það hefði verið liljuhvít hönd fegurstu hefðarkonu landsins, í stað ósjálegrar, rauðrar handar gömlu, írsku þvottakonunnar.

"Þér eruð sannarlega ekki gleðivandur", sagði Tim og brosti íbyggilega. "Eg hefði ekki farið að kyssa hana á höndina."

"Það lá að þér! Kantu enga mannasiði?" sagði Nóra og kipti að sér hendinni í fáti.

"Eg þakka yður af öllu hjarta", sagði Kalmar, og hneigði sig með alvörusvip og með höndina lagða á hjartað. "Og ætlið þér við og við að líta til — líta eftir — gefa auga — já, leiðbeina þessari litlu stúlku?"

"Heyrið þér mig nú", sagði Mrs. Fitzpatrick. "Getur hún þarna vísað karlmönnunum burtu úr herbergi sínu? og kinkaði kolli til Pálínu.

Það verða engir karlmenn á hennar heimili."

"En getur hún varnað þeim vistina? Hún er ekki mikil fyrir sér, eins og við vitum."

"Pálína", sagði maður hennar.

Hún færði sig nær honum, tók í hönd hans og kysti hana. Mrs. Fitzpatrick horfði á þessar aðfarir með fyrirlitningarsvip.

"Þessi kona er að spyrja, hvort þú getir vísað karlmönnunum burtu úr herbergi þínu?" spurði maður hennar á galizíu-máli.

"Eg skal vísa þeim burtu," svaraði hún blátt áfram.

"Ójá, en getur hún það?" spurði Mrs. Fitzpatrick, eftir að svarið hafði verið túlkað fyrir hana.

"Eg get drepið hann að næturlagi," sagði Pálína rólega, en með miklum ástríðu-þrunga.

"Allir heilagir séu oss næstir! Eg trúi henni til þess," sagði Mrs. Fitzpatrick, með vaxandi virðingu fyrir Pálínu. "En segið henni í guðsbænum, að hér í landi dugi engin manndráp, þó að það sé þeim mun meiri hörmung að sjá suma menn, sem leyft er að ganga lausum.

"Hún mun leggja líf sitt í sölurnar til að varðveita börnin," sagði Kalmar. "Hún var félaus áður, og var sagt að eg væri dauður. En það skiftir engu. Hún er mér ekkert. En hún leggur líf sitt við líf barnanna."

Mrs. Fitzpatrick fékk einskonar óhug á honum við að heyra, að hann bæði treysti og fyrirleit þessa

veslings konu, og hún hrærðist til meðaumkunar með henni.

"Komið þér Pálína og þokið þér yður nær eldinum," sagði hún ekki óvingjarnlega. "Það er kalt að sitja fram við dyr."

Pálína skildi ekki, hvað sagt var, en hún réði í það, hvað látbragðið táknaði, og einkum rómbrigðin. Hún þokaði sér nær, tók um hönd írsku konunnar og kysti á hana.

"Sussu, sussu!" sagði Mrs. Fitzpatrick og kipti að sér hendinni. "Setjist þér niður strax."

Rússinn stóð á fætur.

"Nú verð eg að fara. Eg á enn eftir ofurlítið ógert. Á morgun fer eg burtu úr bænum. Leyfið mér nú að kveðja börnin mín."

Hann snéri sér að stúlkunni, sem hélt á sofandi ungbarni Pálínu. "Irma", sagði hann á rússnesku, "eg er nú að fara í burtu frá þér."

Stúlkan litla reis á fætur, lagði sofandi barnið í rúmið. Því næst gekk hún til föður síns og leit framan í hann; tinnudökk augun hennar tindruðu, og tárin stóðu í þeim, en hún reyndi þó að harka af sér.

Hann dró hana að sér.

"Eg er nú að fara í burtu frá þér," endurtók hann á rússnesku. "Ef alt gengur vel, þá ætla eg að koma aftur eftir eitt eða tvö ár. Þið vitið, að eg get ekki sest að hjá ykkur nú, og hversvegna eg get það ekki." Hann tók smámyndian upp úr vasa sínum, lauk upp nistinu, sem utan um hana var og lét stúlkuna horfa á og sagði:

"Móðir þín lét líf sitt fyrir ættjörð sína." Svo horfði hann á hina fögru mynd um stund. "Hún var göfug kona, og hún óttaðist ekki dauða sinn. Æ! Æ! og það var líka dauðdagi, sem hún fékk!" Hann lagði hart á sig til að stilla sig. "Hún gekk fús í dauðann. Hví skyldi eg ekki gera það? Ætlið þið að láta nokkra

óánægju á ykkur heyra þó að eg fari frá ykkur, eða þó að eg láti lífið, ef á þarf að halda?" Málrómurinn varð angistarfullur og innilegur.

Litla stúlkan leit framan í yfirlitsdökt andlit föður síns.

"Eg man eftir móður minni", sagði hún, "eg vildi líkjast henni."

"Ójá!" sagði faðir hennar og þrýsti henni að brjósti sínu. "Eg hefi getið mér rétt til um þig. Þú ert hennar dóttir, og þú lifir svo að henni sæmir. Kalman, komdu hingað. Irma, þú verður að líta eftir bróður þínum. Hann er ungur. Hann er enn barn að aldri. Hann þarf eftirlits með. Kalman, ástin mín".

"Hann skilur ekki rússnesku," sagði Pálína. "Talaðu galizisku."

"Ha," hreytti hann út úr sér og leit hvatskeytslega til hennar, eins og hann hefði ekki munað eftir, að hún var viðstödd. "Kalman, sonur minn!" hélt hann áfram á rússnesku, "skilurðu það, sem eg var að segja við systur þína?"

"Ekki vel, pabbi," svaraði drengurinn; "ofurlítið af því."

"Ósköp er að heyra, að þú skulir hafa gleymt móðurmáli þínu."

"Eg skal láta Irmu kenna mér það," sagði drengurinn.

"Það er gott," sagði faðir hans a galizisku. "Hlustið þið nú á mig. Gleymið því aldrei, að þið eruð rússnesk. Þessi kona var móðir þín," bætti hann við og hélt myndinni upp fyrir dregnum. "Hún var göfug kona. Fyrir föðurland sitt lagði hún í sölurnar aðalstign sína, auðlegð, heimili og síðast líf sitt. Það er einnig sakir föðurlandsins, að eg sný aftur heim. Þegar hlutverki mínu er lokið þar, þá kem eg aftur."

Nú heyrðist hávaði veizlugleðinnar inn í húsið.

"Þið eruð af alt öðru sauðahúsi, heldur en þessar skepnur," sagði hann og benti út um gluggann. "Móðir ykkar var göfug kona. Sýndu að þú verðir henni maklegur sonur, drengur minn. Og vertu nú sæll."

Drengurinn stóð þegjandi og sem höggdofa, og festi ljósblá augun á föður sínum. Hann var fölur í framan nema litlir roðablettir sinn á hvorri kinn.

"Hlýddu systur þinni, Kalman, og haltu hlífiskildi yfir henni. Og heyrðu mig." Nú varð röddin dimmri og hranalegri; hann tók þétt-fast í öxl sveinsins, er brá sér þó hvergi. "Ef nokkur maður dirfist að gera henni ilt, þá drepurðu hann. Segðu það, drengur! Viltu lofa því?"

"Eg drep hann," sagði drengurinn með grimmilegri ákefð, á ensku.

"Ójá!" sagði faðir hans, líka á ensku, "þú hefir andlitsfallið hennar móður þinnar, ljóst hár eins og hún, og bláu augun hennar — þau eru reyndar ekki eins falleg — en þú hefir lundina hans föður þíns. Þú mundir skjótt taka til manndrápanna, ef þú værir á Rússlandi, en hér í þessu landi máttu ekki vega mann, nema, ef þú þarft að verja systur þína."

Alt í einu breyttist skap hans. Hann þagnaði og horfði með hrygðarsvip á börn sín; því næst sneri hann sér að Mrs. Fitzpatrick og sagði: "Þau ættu að ganga í barnaskólann eins og litlu stúlkurnar hans Símonar Ketzel. Þau tala ekki eins vel ensku eins og hún. Hún er vel gefin."

"Já, þau verða svo sem að sjálfsögðu að ganga á skóla," sagði hún. "Og það gera þau líka."

"Eg mun ávalt hugsa til ykkar með þakklátssemi. Verið þið sæl."

Hann kvaddi Tímóteus fyrst með handabandi og því næst Mrs. Fitzpatrick, en kysti samt á hönd henn-

ar. Því næst benti hann börnunum að fylgja sér.

"Hjartans ástin mín!" sagði hann lágt og sleit sundur orðin um leið og hann þrýsti dóttur sinni að brjósti sér. "Ef nokkur guð er til, og nokkrir helgir menn eru til, bið eg þá að vernda þig. Kalman, sonur minn," bætti hann við og vafði öðrum handleggnum utan um drenginn. "Verið þið sæl! Verið þið sæl!" Nú var hann sem óðast að missa vald yfir sér. Geðofsinn slafneski ætlaði að brjóta öll bönd. "Eg fel ykkur hvort öðru! Eg ætla að minna ykkur á það, að það er ekki minna vegna, að eg yfirgef ykkur, heldur Rússlands vegna. Hjarta mitt, hjarta mitt er ykkar, en insta eðli mitt, er ekki sjálfs mín, né ykkar, heldur Rússlands, landsins hennar móður ykkar og landsins ykkar sjálfra."

Nú voru tárin farin að hrynja niður kinnar honum. Hinn sterkbygði líkami hans skalf af ekka. Irma grúfði sig að honum til að dylja grát sinn. Kalman stóð upréttur og hélt sér í föður sinn; hann var fölur, en grét ekki. Loks losaði faðir þeirra hendur barnanna af sér, kvaddi þau enn einu sinni og sneri til dyranna.

Í sama bili hrópaði drengurinn: "Pabbi! Lofaðu mér að fara með þér! Eg er óhræddur Eg þori vel að deyja. Lofaðu mér að fara með þér til Rússlands!" Um leið og hann sagði þetta, hljóp hann á eftir föður sínum og þreif fast í hann.

"Elsku drengurinn minn, þú ert sonur móður þinnar, og sonur minn líka. Einhvern tíma kantu að að geta farið heim til Rússlands. Hver veit? En— nei, nei. Canada er þitt land. Farðu inn aftur." Drengurinn slepti honum ekki. "Sonur minn," sagði faðir hans og reyndi með erfiðismunum að tala rólega, "það fyrsta, sem við lærum í okkar landi, er að hlýða."

Drengurinn slepti takinu.

"Nú ertu góður drengur, sonur minn," sagði faðir hans. "Þú verður bráðum fullorðinn maður. Verið þið nú sæl!"

Svo kysti hann þau aftur. Nú setti ákafan grát að drengnum. Pálína færði sig nær, féll á kné við fætur föður barnanna, og laut enn niður að gólfi.

"Eg skal sjá um son lávarðar míns," sagði hún lágt.

En maður hennar virti hana ekki viðtals, skálmaði fram að dyrum og hvarf út í myrkrið.

"Þetta er hart, óskaplega hart, það veit skaparinn'," sagði Tim og strauk hendi um augun. "En það er sönn föðurlandsást, sem þessi maður ber í brjósti Guð sé með honum."

---

## VI. KAPÍTULI.

### *Armleggur brezkra laga.*

Það var nótt í Winnipeg, skínandi björt tunglskins-nótt, en slíkar nætur eru hvergi til nema í norðlægum löndum, að vetrarlagi. Í rökkurbyrjun hafði fölgað ofurlítið; drífan hafði ekki verið áköf, eftir því sem gerist í Manitoba, og lá eins og mjúkur, skínandi möttull yfir öllum hlutum.

Undir þessum mjúka mötli, blikandi af þúsundum gimsteina, hvíldi Winnipeg sofandi. Frá fimm þúsundum reykháfa risu, þráðbeint upp í lognmjúkt, frostlaust loftið, fimm þúsundir reykjarstróka, svo sem tákn þess, að þó að kuldinn drotnaði utangátta, hvíldu Winnipegbúar hlýtt og notalega í sínum þekku

rekkjum. Hvervetna drotnaði þögn yfir mjallhvítum götunum, nema þar sem leigusleðar, sem orðið höfðu seinir fyrir, fóru um með brakandi meiðum og dynjandi bjöllum, eða þar' sem sleða-ferðafólk fór um, sem kom utan af Silfurhæðum; þar stóð mökkurinn upp af fjórum hestum, er fyrir sleðanum gengu, bjöllur dundu og við kváðu hásir hlátrar og hásir söngvar, því að kalda loftið hafði haft slæmar verkanir á radlböndin; en þar á eftir fylgdi' aftur þögn.

Hvorki 'i Fort Rouge, sem lá meðal snævi þakinna meiða, né á klakabundinni Assiniboine, ellegar á Hudson's Bay Reserve var nokkurs staðar neinn lífsvott að sjá. Jafnvel Aðalstræti, sem er einhver ásjálegasta þjóðgata í Canada, var drifhvítt og skuggalaust að sjá, og þar ríkti því nær alveg þögn. Á stöku stað mátti líta menn í loðklæðum eða vetrarúlpum með uppbretta kraga; þeir gutu augum fram undan sér undan hrímguðum augnahárum og gægðust upp með uppbretta kápukraga.

Þeir, sem í loðkápum voru, gengu 'i hægðum sínum; hinir harðara, sem ekki höfðu nema vetrarúlpur, og héldu leiðar sinnar þangað sem þeir áttu erindi eða ánægja vísaði þeim til.

Við norðurtakmörk borgarinnar var lífsvotturinn ljósari. Við stöð Canadian Pacific járnbrautarfélagsins beið gufuvagn, hrímgrár fyrir freðnum eimi, másandi ánægjulega eins og hann væri sér meðvitandi um nægan þrótt, til að vinna það skylduverk, sem fyrir lá, að krækja aftan í sig lestina nr. 2, sem var orðin níu klukkustundir á eftir áætlun, og þeytast með hana í austurátt, bjóðandi byrginn frostgrimd, snjósköflum og kafaldsbyljum.

Inni í stöðvarhúsinu móktu einn eða tveir járnbrautar-þjónar á bekk. Bak við járngrindanetið þar sem símritunar-áhöldin heyrðust tifa 'i sífellu, sátu stöðvar-umboðsmaður og aðstoðari hans, og voru vel

vakandi; komu þeir öðruhvoru fram að grindaopinu til að svara spurningum; það gerðu þeir með óþreytandi kurteisi, sem stöðu þeirra heyrir til, og er ávöxtur starfs-reynslu. Hvað eftir annað voru bornar upp fyrir þeim spurningar af óþolinmóðum og syfjuðum ferðamönnum. "Hvað líður henni núna?" Og svarið var: "Kemur eftir klukkustund," loksins: "fimtán mínútur" og síðast: "á hverri mínútu." Við þau gleðitíðindi leituðu lítt-vönu ferðamennirnir út til að hlusta eftir drunum hinnar aðkomandi lestar, en hinir, sem veraldarvanari voru, settust niður til að blunda enn í hálfa klukkustund.

Þetta var þreytandi starf, en fyrir engan þreytusamara þó, en túlkinn Elex Murchuk, en hlutverk hans var að vera við hendina, hvenær sem lest bæri að, ef svo kynni til að vilja, að þar á kæmi innflytjandi frá Mið-Evrópu, er á leiðbeining þyrfti að halda. Murchuk þessi er upp alinn við landamæri Rússlands; hann er smár vexti en afburða-tungumálagarpur. Móðurmál sitt, rússnesku, talar hann að sjálfsögðu, en þar að auki er hann jafnvel heima í frakknesku, þýzku og ítölsku, og öllum Úkraníu-mállýskum.

"Eg tala öll Evrópu-tungumál vel, rétt eins og engelsku," var vitnisburður hans um sjálfan sig.

Í því að þjóta heyrðist í eimpípu lestar, sem var að koma, kom Cameron undirforingi aðvífandi inn í stöðvarhúsið; hann bar sig eins léttilega og fimlega eins og maður, sem unnið hefir marga verðlaunapeninga caledonska félagsins, þó að hann væri svo líkamaþungur, að hann vigtaði 220 pund, og væri röskra þriggja álna hár. Cameron var einu sinni í 78. herdeild Hálendinga, en er nú undirforingi í lögregluliði Winnipegborgar, og stendur mjög sómasamlega í stöðu sinni. Öllum góðum borgurum var Cameron undirforingi kunnur fyrir vaxtar sakir, rósemi og

góðlyndi, og fyrir það, að hann var lögregluþjónn, sem óhætt var að reiða sig á', því að hann var jafnskyldurækinn og lét sér jafnant um heiður lögregluliðsins ,eins og honum hafði verið ant um heiður herdeildar sinnar; en öllum öðrum var það og kunnugt, að hann var maður, sem bar að óttast.

Þegar hér var komið, var hann að koma úr einni sinni eftirlitsferð. Eftir að lestin var komin inn á stöðina, ætlaði hann að taka að sér eftirlit á gæzlusviði lögregluþjóns nokkurs, er Donnelly hét, og lá sjúkur í lungnabólgu. Í þann tíð var mannafli mjög svo ónógur í lögregluliði Winnipegborgar; þá voru engir menn til vara, ef óhöpp bar að höndum, svo sem ef einhver forfallaðist; og því var nú það, að Cameron undirforingi var neyddur til að vinna tveggja manna verk þessa nótt; til þess var hann reiðubúinn, alveg óánægjulaust. Hann var alls ekki óvanur löngum varðhöldum og þreytandi göngum, og þar við bættist, að alveg sérstök ástæða var til þess, að hann var ekki ófús á að fara um norðurhluta bæjarins einmitt þetta kveld. Lögreglustjórnin hafði fengið fulla vitneskju um, að brúðkaupsveizla með glæværra nóti stóð yfir í útlendinga-hverfinu. Þetta var önnur nótt veizlunnar, og einmitt aðra nóttina voru líkindi til, að hátíðabrigðin mundu vera helzti mikilfengleg. Fréttirnar, sem borist höfðu þá um kveldið, höfðu verið nokkuð ískyggilegar, og því var Cameron undirforingja ekki óljúft að gæzlusvið Donnelly lögregluþjóns lá í áttina til útlendinga-hverfisins.

Loks rann lestin nr. 2 inn á stöðina; var gufuvagn á undan og eftir, annar í gangi, hinn ekki; en báðir al-ísaðir af snjó og frosinni gufu, framan frá stórgripaskör og aftur á kolavagn; sá er á undan var, þeytti úr sér sigurhróss-rokum yfir andstæðum höfuðskepnunum, en hinn var þögull og lífvana á-

þekkur hermanni, sem er borinn brott af vígvellinum.

Farþegarnir komu nú út úr sínum snæþöktu en einkar þægilegu vögnum, þreyttir og haldnir af hæfilegum æsingi, eftir langt stríð við snæ og storma ,yfir hálft meginlandið; móti þeim tóku vinir þeirra, sem beðið höfðu eftir þeim með mikilli eftirvæntingu. eða athugulir gistihúsa-þjónar.

Cameron undirforingi beið þangað til mannfjöldinn var horfinn; þá sneri hann sér að Murchuk og sagði: "Nú ætla eg að fara að líta eftir vinum yðar."

"Vinum mínum?" endurtók Murchuk.

"Já ,yfir í hverfinu, hérna norður frá."

"Vinum mínum!" hrópaði Murchuk á ný með nokkurri gremju. "Eg held síður!" Murchuk var upp með sér af stöðu sinni, þar sem hann var túlkur í þjónustu sambands-stjórnarinnar. "En eg skal verða yður samferða. Eg fer sömu leiðina."

Fyrir utan hávaðann í blásandi gufuvélinni og brakið í vagnhjólunum, barst þeim Cameron undirforingja og förunaut hans önnur háreysti til eyrna og miður ánægjuleg.

"Hlustið þér nú bara á," sagði undirforinginn við förunaut sinn, tungumálagarpinn. "Hvað segið þér um svona háttalag í bæ í siðuðu landi? Hér er ekki Indíánum til að dreifa," bætti undirforinginn við reynandi að dylja sinn skozka framburð.

Nú kvað við háreysti að nýju, og var húsið, þaðan sem hún kom, ekki meir en hálfa aðra strætisbreidd í burtu.

"Og þetta er ekkert," sagði litli Rússinn glaðlega og ypti öxlum, "þeir eru vanir að láta svona, þegar vel liggur á þeim."

"Á, einmitt það? Hvernig haldið þér að nágrönnum þeirra falli þvílíkt háttalag?"

"Undirforinginn nam staðar til að reyna að átta sig á þessum furðulega hávaða. Yfir traðk og söng dansendanna heyrðist taka önnur háreysti, brothljóð í borðvið ásamt hrópi og formælingum.

"Hér eru illindi og barsmíð á- ferðum, Murchuk."

"Það er ekki ólíklegt," svaraði túlkurinn, "þegar Galicíumenn kvongast, þá vilja þeir skemta sér vel. Þeir afla sér mikils öls og því fylgir barsmíð."

"Eg ætla að skreppa þangað,'" sagði undirforinginn. "Þetta fólk verður að læra það, að giftast án þessa gauragangs. Eg er nú ráðinn í að þola þetta ekki lengur. Út af hverju geta þeir annars verið að berjast?"

"Ó," svaraði Murchuk kæruleysislega, "Pólverjum er illa við Slafa og Slöfum er illa við Galicíumenn. Þeir drekka mikið öl, fara að rifja upp endurminningar frá gamla landinu, verða reiðir, gera hávaða og svo fer í handalögmál.'"

"Komið þér á eftir mér," sagði undirforinginn, rétti upp sínar breiðu herðar og þaut af stað upp götuna, léttstígur og hvatur í spori, eins og þeir höfðu verið Hálendingarnir, forfeður hans, sem skundað höfðu um lyngivaxnar heiðar Skotlands.

Þegar þeir komu að húsinu þar sem veizlan stóð, kvað við óp ofsaþrungið, grimdarríkt og ógurlegt, sem tók yfir háreystina. Túlkurinn nam staðar alt í einu, eins og hann hefði orðið fyrir byssuskoti.

"Guð minn góður!" stundi hann hátt og greip í handlegginn á undirforingjanum. "Guð minn góður! Þetta er hræðilegt!"

"Hvað þá? Því látið þér svona, Murchuk?"

"Þekkið þér ekki þetta hróp? Nei, líklega ekki?" Hann skalf á beinunum. "Þetta hróp hefi eg heyrt fyrir löngu á Rússlandi. Rússar hrópa svona

þegar þeir drepa mann. Þetta er nihilista-hróp."

"Snúið þér þá við og vekið Wright lækni. Það veitir víst ekki af að fá hann hingað. Þér vitið hvar hann á heima, við annað götuhornið á Aðalstræti. Á stað með yður, strax! Flýtið yður!"

Um það mund er virðulegir Winnipegbúar hvíldu í værum svefni undir snælögðum húsaþökum, sem reykjarstróka lagði upp úr, og um það leyti sem svallarar, er seint höfðu orðið fyrir og ferðamenn voru að skunda eftir mjallhvítum, þögulum strætunum og eftir göngum milli snæþakinna trjáa, á leið til heimila sinna, þar sem ást, friður og sæmd ríkti, dró að lyktum á hátíðahaldinu í veizlu Önku, við ruddalegan dans, söng og handalögmál í hálfkæringi.

Í aðalherberginu var enn haldið áfram dansi og söng með hávaðasamri glaðværð. Niðri í kjallaranum, fúlum og óþrifalegum, höfðu menn þyrpst saman til að drekka meðan kostur var. Þarna bauðst útlendingunum óvenjulega gott færi á að slökkva þorsta sinn. Þarna stóðu ölkaggar opnir og nóg var af tinkönnum að grípa til. Við dauft skin af reykbornu ljóskeri, settist hópurinn til og frá, sumir söngluðu með ölvímu viðkvæmni, aðrir stríðandi með grimdarofsa við að jafna gamlar væringar, eða endurgjalda nýjar og voru allir ógeðslegir ásýndum.

Lengra út í horni og hirðandi ekkert um þenna 'hávaða, sátu fjórir menn niðursokknir í að spila á spil við borð, sem var einn planki lagður yfir tvo ölkagga, og var annar þeirra tómur, en hinn hálffullur, spilurunum til hægri verka. Þar sat Rósenblatt og var meðspilari hans risavaxinn Dalmatíumaður, en mótspilarar þeirra voru Pólverji nokkur lítill vexti og annar maður svartskeggjaður'. Hinn síðastnefndi var augsýnilega mjög drukkinn; mátti ráða það af því, hvað hann spilaði ógætilega og af gletni hans og háðsyrðum. Hann tapaði, en lét það þó ekki á sig

bita. En öðru máli var að gegna um meðspilara hans, Pólverjann. Við hvert spil, sem hann tapaði, óx gremja hans og þrætugirni.

Með naumindum gat Rósenblatt stilt til friðar svo að hægt væri að halda áfram spilamenskunni. Hann hafði líka áhyggju af þvögunni fyrir framan, sem var syngjandi, slangrandi til, hrópandi og bölvandi, og öðru hvoru kallaði hann til þeirra sem þar voru og sagði: "Hægan asnarnir ykkar! Lögreglan tekur annars til ykkar, og þá varir drykkjuskapurinn ykkar ekki lengi, því að þið verðið settir í tugthúsið."

"Já", hreytti svartskeggjaði maðurinn út úr sér háðslega, því að hann virtist áfram um að koma illu af stað, "allir eru asnar, rússneskir asnar, pólverskir asnar, galiziskir asnar, slafneskir asnar, allir asnar upp til hópa."

Nú kvað við óánægju-kur úr hverju horni, og háreystin fór vaxandi.

"Hægan, hægan!" öskraði Rósenblatt og stökk á fætur, "þess verður ekki langt að bíða, að þið lendið í klærnar á lögreglunni!"

"Nei, auðvitað ekki", hrópaði svartskeggjaði maðurinn, "láttu þá hafa hægt um sig, annars kvíar lögreglan þá eins og kindur, rekur þá eins og lömb í stekk, me, me, me, me!"

"Lögreglan!" orgaði einhver í móti, "hver skyldi vera hræddur við lögregluna?"

Þessari spurningu var svarað með hæðilegum hlátri.

"Hægan! kallaði Rósenblatt á ný. Hann var orðinn fokreiður. Lögreglan gat komið á hverri stundu, og um leið var lokið mjög gróðavænlegu spili fyrir honum, og þar að auki gat hann flækst inn í vandamál. "Heyrðu Jósef", kallaði hann til manns, skamt frá, "einn ölkagga til!"

"Svínin ykkar!" tautaði Rósenblatt um leið og hann settist aftur niður við borðið. "Við skulum nú halda áfram að spila."

En það var engu líkara en að sjálfur djöfull ófriðarins hefði hlaupið í svartskeggjaða manninn. Hann hæddist að Dalmatíu-manninum, sem var geðgóður að náttúrufari og æsti Pólverjann upp á móti honum, gefandi í skyn að rangt væri gefin spilin, en spilaði sjálfur afar-ógætilega, tapaði bæði sínu eigin fé og meðspilara síns. Loksins kom að hinni óhjákvæmilegu úrslita-rimmu. Dalmatíu-maðurinn rétti fram höndina til að taka slag af borðinu, en í sama bili sagði Pólverjinn: "Láttu kyrt, eg á slaginn!"

"Já, víst á hann hann!" gall svartskeggjaði maðurinn við.

"Þú lýgur því, eg á hann," svaraði Dalmatíu-maðurinn góðlátlega, og slefti ekki spilunum.

"Lýgi aftur!" hvæsti Pólverjinn út úr sér og ýtti andlitinu fast að Dalmatíu-manninum.

"Burt með þig!" sagði Dalmatíu-maðurinn; stór hönd hans virtist hvíla svo sem andartak á glottandi andliti Pólverjans og þá vildi einhvern veginn svo til, að litli maðurinn skotraðist úr sæti sínu og langt fram á gólf.

"Ha, hæ, svona fer eg að sópa flugunum frá mér," sagði Dalmatíu-maðurinn hlæjandi.

Með djöfullegum svip stökk Pólverjinn nú á móti andstæðingi sínum, með opinn hníf í hendi og rak hann í handlegg Dalmatíu-manninum. Stóri maðurinn sat svo sem andartak forviða fyrir dirfsku mótstöðumanns sín's. En þegar hann varð þess var, að blóð fór að renna niður fingur hans, fyltist hann ofsareiði, þreif í hárið á Pólverjanum, hóf hann á loft og plankann, sem spilað hafði verið við líka, og fleygði hvoru tveggja fram á gólf; þá greip hann aftur í hnakkadrambi'ð á mótstöðumanni sínum, og

tók að hrista hann svo að hver tönn gnötraði í hausi hans.

Í sama bili stökk svartskeggjaði maðurinn eins og tígrisdýr yfir niðurfallinn plankann, þreif um hálsinn á Rósenblatt og snéri hann niður í dimmasta horninu á kjallaranum ofan á moldargólfið. Þvínæst settist hann ofan á brjóstið á honum, lá með hnén á handleggjum hans, en hélt um kverkarnar svo að hinn gat ekkert hljóð gefið af sér. Rósenblatt kyrðist skjótt, en gaut augunum upp á mótstöðumann sinn, undrandi, hræddur og ákaflega reiður.

"Þekkirðu mig ekki?" spurði skeggjaði maðurinn með lágri röddu.

"Nei", stundi Rósenblatt með ógurlegri ilsku, "hvað vilt þú —"

"Líttu á mig," sagði ókunni maðurinn, og strauk nú af sér skeggið með þeirri hönd, sem hann hafði lausa; og stakk því í vasa sinn.

Rósenblatt leit upp. "Kalmar!" stundi hann og skelfingin skein honum úr augum.

"Já, eg er Kalmar," svaraði hinn.

"Hjálp! — ópið kafnaði niðri í honum.

"Nei, nei," sagði Kalmar og herti á hálstakinu. "Engan hávaða. Við skulum láta alt fara hér fram með spekt og ró. Hinir hafa nóg annað að sýsla, en að vera að skifta sér af okkur. Heyrðu." Hann laut fast niður að draugslega andlitinu, sem undir honum lá. "Langar þig til, að eg fari að segja þér, hversvegna eg er hingað kominn? Á eg að fara að minna þig á glæpi þína? Nei, það er óþarfi fyrir þig. Þeir eru þér í fersku minni, og innan stundar verðurðu þeirra vegna kominn til helvítis. Í fimm ár fraus eg og brann í Síberíu þín vegna. Um leið og hann sagði "þín vegna", hallaði hann sér enn meir ofan að honum. Röddin var enn lág og mjúk, en úr augunum brann heiftareldur. "Þessa stund hefi eg þráð, mig

hefir hungrað og þyrst eftir henni," bætti hann við blíðlega. "Nú er hún loksins runnin upp. Mér þykir fyrir því, að eg verð að hraða mér helzt til mikið. Mig hefði langað til að drekka þennan ljúffenga bikar hægt og hægt, óskö̧p seint, drekka hann í dropatali: En — þú skalt ekki vera að brjótast um, eða reyna að æpa. Það verður ekki til annars en að auka þjáningar þínar. Sérðu þennan?" Um leið tók hann upp úr vasa sínum hlut, sem virtist að eins vera hnífskefti; en er hann studdi á fjöður, skaust blað fram úr skeftinu, langt og mjótt og biturlegt. "Oddurinn á honum er hvass, býsna hvass." Hann stakk honum í hálsinn á Rósenblatt og hló einstaklega ánægjulega, þegar fjandmaður hans engdist í kúðung af sársauka. "Með þessu ágæta áhaldi ætla eg að stinga úr þér augun; síðan ætla eg að reka því í gegnum þig, alveg inn í hjarta, og þá drepstu. Það verður ekki ákaflega sárt," hélt hann áfram eins og með eftirsjá í rómnum. "Nei, nei, alls ekki fjarska sárt, ekki nærri því eins sárpínandi, eins og þegar þú slöktir ljós augna minna, þegar þú myrtir konuna mína; ekki nærri því eins kvalafult eins og þegar þú lagðir mig í hjartastað, er þú sveikst bræðrafélag okkar í trygðum. Findu, það er ekki svo tiltakanlega sárt." Hann rak oddinn inn í brjóst Rósenblatts, ofarlega, ofan við hjartað, og rak hann hægt niður, gegnum gljúpt holdið, unz í beini nam staðar. Mannræfillinn braust um eins og hamslaus er hann fékk þennan áverka. En hann var eins og barn í höndum mótstöðumanns síns. Kalmar hló fagnaðarhlátur. "Æ- Æ! Drottinn minn! Guð minn! En hvað þú skemtir mér vel! Því miður verður þessi gleði alt of skammvinn. Næst ætla eg að hressa upp á hægra augað á þér. Eða kanske þú viljir heldur að eg byrji á því vinstra?"

En í því hann linaði ofurlítið á kverkatakinu á

Rósenblatt, stundi hann: "Vægð! Vægð! Vægð í guðs nafni!"

Aumkunarverð, fyrirlitleg skelfing, skein úr starandi augunum. En rödd hans hafði sömu verkanir á Kalmar, eins og blóð á tígrisdýr.

"Vægð?" hvæsti hinn í móti og færði andlitið enn nær, en nú var brosið alveg horfið af því. "Vægð?"

"Heyrum til! Hann er að ákalla guðsnafn! Eg bað líka um að vægja föður mínum, bróður og eiginkonu, en engin fekst. Og þó að guð sjálfur færi að biðja fyrir þér, þá fengirðu ekki öðruvísi vægð af mér." Hann virtist nú missa stjórn á sér. Það var sem hann stæði á öndinni og froða hnyklaðist út úr munnvikjunum. "Æ!" hvæsti hann. "Eg fæ þá ekki tíma til að stinga úr þér augun. Það er einhver við dyrnar. Eg verð að drekka hjartablóð þitt undir eins! Þarna! Hafðu þetta! A-r-r-r!" Öskrið sem hann rak upp var tröllslegt, æðisgengið og óskaplegt. Hann reiddi upp hnífinn, en um leið og hann lagði honum, henti Dalmatíu-maðurinn, sem allan þennan tíma hafði verið að dusta Pólverjann til, mótstöðumanni sínum yfir í hornið til Kalmar. Hnífurinn leitaði sér því ekki staðar í hjarta Rósenblatts, heldur í hálsinum á Pólverjanum.

Það var enginn tími til að veita annað tilræði, því að úti fyrir heyrðist mikil háreysti og hurðinni var hrundið upp.

"Halló! Hvaða háreysti er hér?"

Það var Cameron yfirforingi, sem kominn var og ýtti sínum stóra líkama gegnum mannþröngina, eins og þegar maður ryðst gegnum skógarkjarr. Lotningarfullri þögn hafði slegið á alla, við að heyra hið skelfilega hróp; allir stóðu kyrir og lá við að ölvíman rynni af þeim. Sumir þeirra höfðu áður heyrt samskonar óp. Þeir höfðu heyrt það í gamla ættlandinu.

er hryllilegir atburðir gerðust, en enginn hafði heyrt það fyr í nýja landinu.

"Hvað gengur hér á?" kallaði undirforinginn aftur. Hann rendi skyndilega augum yfir herbergið og varð starsýnt á karlmanna þvöguna yst í einu horninu. Hann þreif í þann sem þar lá efstur og dró hann hranalega til sín.

"Halló! Hvað er þetta? Drottinn minn! Maðurinn er að deyja."

Blóð spýttist úr sári á hálsinum. Undirforinginn fleygði sér á hné og þrýsti með þumalfingrinum á gapandi undina. En blóðið stöðvaðist ekki að heldur, en spýttist upp með fingrinum. Alt moldargólfið var blautt af blóði.

"Hlaupi, einhver ykkar," kallaði undirforinginn í skipunar rómi "og sækið Dr. Wright, við annað götuhorn á Aðalstræti!"

Jakob Wassyl, hafði komið niður í kjallarann í þessu. Hann skyldi hvað skipað var og sendi strax mann af stað.

"Guð minn góður! Það er eins og komið væri inn í svína-slátrunarhús!" sagði undirforinginn. "Og svo er annar maður hér! Komdu hingað!" kallaði hann til Jakobs, "haltu þumalfingrinum þarna og styddu þétt á sárið. Það er að vísu gagnslítið, en þó það eina, sem hægt er að gera í svipinn. Undirforinginn rétti úr sér. Hér var auðsjáanlega ekki um neinar "smáskærur" að ræða. "Látið engan komast burt héðan," kallaði hann hátt. "Segðu þeim það", bætti hann við, og snéri sér að Jakobi; "þú talar ensku; og þið þarna, þú og þú, farið fyrir hurðina og sleppið engum út, nema eg leggi svo fyrir."

Mennirnir skipuðu sér fyrir dyrnar, eins og þeim var sagt.

"Svona, nú er að athuga, hvað hér er fleira fyrir. Þekkir þú þessa menn?" spurði hann Jakob.

"Þenna mann þekki eg ekki," svaraði Jakob. "Hann Pólverji."

Karlmennirnir, sem stóðu í hóp fyrir framan, tóku til að blaðra hver 'i kapp við annan.

"Hvað eru þeir að segja?"

"Hann er Pólverji. Kravicz heitir hann. Hann er ekki vondur maður. Hann fljótur til að berjast — alls ekki illmenni."

"Jæja, hann berst víst ekki mikið hér eftir, ímynda eg mér," svaraði undirforinginn.

Annar maður lá á baki út í horni, niðri 'i blóðtjörn, og 'i ómegni. Það var hryllilegt að sjá framan í hann, ataðan mold og blóði.

"Komið hingað með ljósker," sagði undirforinginn.

"Drottinn minn!" æpti Jakob yfir sig, "þetta er Rósenblatt."

"Rósenblatt? Hver er það?"

"Það er maðurinn, sem býr hér 'i þessu húsi. Hann á búð. Mikla peninga. Guð minn góður. Hann dauður!"

"Það eru allar horfur á því," svaraði undirforinginn, og hnepti frá honum treyjunni. "Hann hefir ljóta stungu á sér þarna," bætti hann við og benti á sár á brjóstinu. "Það lýtur út fyrir að vera djúpt, og blæðir mikið."

Í þessu var barið að dyrum.

"Lofið honum inn!" kallaði undirforinginn, "það er læknirinn. Sælir læknir! Hér er ný slátur að höndla."

Læknirinn var hár maður vexti, og kraftalegur, þó að hann væri ungur að aldri, og greindarlegur á svip. Hann ruddist gegnum mannþyrpinguna og inn í horn; þar kraup hann á kné við hliðina á Pólverjanum.

"Þessi maður er dauður!" sagði læknirinn, og

lagði höndina á hjartastað Pólverjans.

Í því hann sagði þetta, fór titringur um limi mannsins og síðan lá hann grafkyr. Læknirinn tók að skoða stunguna, sem hann hafði á hálsinum.

"Jú, hann er dauður, það er ekkert efamál. Lífæðin á hálsinum er skorin sundur."

"Og hér er annar, læknir, sem ekki á langt eftir, ef mér skjátlast ekki," sagði undirforinginn.

"Lofið mér að sjá," sagði læknirinn og færði sig að Rósenblatt. "Herra trúr!" hrópaði hann, í því hann sökk með hnéð ofan í blóðraka moldina, "þetta er þá blóð!"

Hann færði sig hinu megin við manninn, sem lá meðvitundarlaus, tók upp dælu sína og dældi inn í hann lífsvekjara. Innan stundar sýndi Rósenblatt þess merki, að hann væri að rakna við. Hann dró þungt andann, hóstaði og þeytti út úr sér gúlfylli af blóði.

"Jú, særður í lungun, eg átti von á því," sagði læknirinn, um leið og hann tók að kanna litla stungu, ofarlega á brjóstinu vinstra megin. Það er víst bezt að senda eftir sjúkravagni strax, undirforingi, og herða á þeim að hraða sér með hann. Því fyr sem við komum honum á sjúkrahúsið, því betra. Og hér er enn einn maður. Hvað skyldi ganga að honum?"

Fyrir ofan Rósenblatt lá svartskeggjaður maður á grúfu og dró þungt andann. Læknirinn tók til hans.

"Hann er að minsta kosti lifandi," sagði hann, eftir að hafa skoðað hann, "og eg get ekkert sár á honum fundið. Hjartað berst reglulega, eg held að ekkert gangi að honum, annað en að hann hafi orðið fyrir hnjaski."

Við skyndilega læknisskoðun kom það í ljós, að margir sem inni voru höfðu fengið skrámu á sig, en enginn svo stóra, að á læknishjúkrun þyrfti að halda.

"Jæja, sagði undirforinginn hvatskeytslega, "eg þarf að fá að heyra nöfn ykkar og heimilisfang. Getur þú ekki frætt mig um það?" spurði hann og snéri sér að Jakob.

"Eg ekki þekki alla mennina."

"Segðu það sem þú veizt," sagði undirforinginn stuttaralega.

"Þessi maður Rósenblatt. Þessi maður Pólverji, Kravicz. Veit ekki hvar hann á heima?"

"Það er víst erfitt, fyrir hvern sem er, að segja hvar hann á heima nú, býst eg við," svaraði undirforinginn hranalega, "og það skiftir minstu."

"Aumingja maðurinn", sagði læknirinn, "það er sorglegt að vita til þess arna."

"Já", svaraði undirforinginn og leit á hann, "víst er það sorglegt, því er ekki að neita. En þeir eru ljóti lýðurinn, þessir Galizíumenn."

"Aumingja maðurinn", sagði læknirinn aftur og leit niður á líkið, "líklega lætur hann eftir sig konu og börn."

Nú fór kliður gegn um mannþröngina.

"Nei, hann átti unga konu," sagði Jakob.

"Guði sé lof fyrir það," sagði læknirinn. "Þessir piltar eru nokkuð ruddalegir," hélt hann áfram, "en þeir hafa aldrei færi á að njóta sín, jafnvel ekki að hálfu leyti. Dýrsleg harðstjórn heima fyrir hefir komið inn hjá þeim megnri skelfing við líkamlegan dauða, og kirkjan óvitur og hjátrúarfull hefir haldið þeim í stöðugum ótta við hreinsunareld og helvítiskvalir annars heims. Þeir hafa aldrei fengið að njóta sín í sínu eigin landi, og hingað til hafa þeir heldur ekki átt að neinu leyti betur kost á því hér, að undanteknu því, að þeir þurfa ekki að kvíða því að verða sendir til Síberíu." Læknirinn hafði sínar skoðanir á útlendingunum, sem fluzt höfðu til Vesturheims.

"Þetta kann alt að vera satt," sagði undirfor-

inginn, þrátt fyrir það þó kalvínskan hefði runnið ætt hans í merg um marga mannsaldra, "og þeir standa að ýmsu leyti illa að vígi, en hér er þó enginn, sem neyðir þá til að drekka og rífa hvern annan í sig eins og óargadýr."

"En hverjir eru til að leiðbeina þeim?" spurði læknirinn.

"Svona þá", sagði undirforinginn, "hver er þetta?" og benti á svartskeggjaða manninn, sem lá úti í horninu.

"Þessi maður, ókunnugur maður," svaraði Jakob.

"Þekkir nokkur ykkar hann?" spurði nudirforinginn.

Nú heyrðust margir tala í einu.

"Hvað eru þeir að segja?"

"Enginn þekkir hann. Hann drekkur mikið öl. Hann fjarska drukkinn. Hann var að spila við Rósenblatt," sagði Jakob.

"Spila, so-o-o? Nú erum við víst að komast á snoðir um það rétta. Hverjir fleiri voru að spila?"

Nýr kliður heyrðist í hópnum.

"Þessi Pólverji", sagði Jakob, "og Rósenblatt og þessi maður þarna og —"

Nú urðu margir til að skýra málið, og enn aðrir bentu með ákefð á stóra Dalmatíu-manninn, sem stóð aftarlega í hópnum fölur af hræðslu.

"Komdu hingað, komdu," sagði undirforinginn.

Í stað þess að svara þaut Dalmatíumaðurinn til dyranna og þeytti frá sér mönnunum tveimur, sem þar stóðu, eins og þeir hefðu verið tvö prik. En áður en hann gat opnað, hafði undirforinginn náð í hann. Dalmatíu-maðurinn snérist þegar í stað í móti honum og nú urðu harðar sviftingar. Í sama bili kom illur kur í hópinn inni fyrir. Allir þóttust þar vera illa komnir. En hitt var hverjum þeirra ljóst, að ef þeir kæmust úr úr þessu húsi, þá mundi hvaða

lögregluþjóni sem væri, reynast torsótt, að bendla þá á nokkurn hátt við glæpinn. Líkindin voru miklu meiri til þess, að þeir gætu sloppið. Því þá ekki að reyna að brjótast út í frelsið? Í sömu svipan var ruðst á mennina tvo við dyrnar.

"Inn með ykkur aftur," orgaði undirforinginn, sveiflandi kylfu sinni en haldandi fanga sínum frá sér með annari hendi.

Í þessari svipan spratt læknirinn upp frá sjúklingi sínum; hann sá skjótt hvað í efni var, setti undir sig höfuðið og rendi sér inn í hópinn, með því harðfylgi, sem oft hafði vakið aðdáun skólabræðra hans í Manitoba College, og létti ekki fyr en hann hafði brotist alla leið fram til undirforingjans.

"Fallega gert!" hrópaði undirforinginn, "þú ert karl í krapinu! Við skulum lækka í þeim rostann þessum piltum, áður en lýkur," hélt hann áfram og brá til skozkrar málvenju. "Svona", æpti hann til stóra Dalmatíu-mannsins, sem barðist um óður af ótta og reiði, "viltu hafa þig hægan? Hafðu þá þetta." Um leið dumpaði hann kylfunni ómjúklega ofan í hausinn á fanganum.

Dalmatíumaðurinn riðaði út að veggnum og hné niður. Glampa af stáli brá fyrir sem snöggvast, smellur heyrðist og fanginn lá meðvitundarlaus í handjárnum við hlið undirforingjans.

"Þetta geri eg nauðugur", sagði undirforinginn í afsökunarrómi, "en núna var það óhjákvæmilegt. Þetta var laglega af sér vikið, læknir," hélt hann áfram, um leið og læknirinn rak vinstri hnefann undir höku eins Galizíumannsins, sem fast sótti á, svo að hann féll um koll. "Þessir náungar hafa ekki kynst okkur til neinnar hlítar enn þá, svo að við verðum að sýna þeim þolinmæði," bætti undirforinginn við og lét nú kylfu sína ganga óspart, þar sem færi bauðst, ekki þrælslega, eða af handahófi,

heldur kaus hann menn úr hópnum og greiddi höggin með æfðri handlægni og óskeikulu auga. Hann sýndi enga harðýðgi, en fór að öllu með hyggilegri gætni. Samt hélt hópurinn áfram að þrengja að mönnunum tveimur við dyrnar.

"Við megum til að koma hér stöðvun á", sagði undirforinginn með alvörusvip. "Heyrðu þarna!" kallaði hann til Jakobs, svo að tók yfir hávaðann.

Jakob ruddist áfram til hans.

"Segðu þessum náungum, að mig langi ekki til að gera þeim neitt mein; en ef þeir hafa sig ekki hæga, þá dettur mér ekki í hug að hlífa þeim; ef þeir aftur á móti hætta þessum troðningi, þá skal enginn þeirra misjöfnu mæta, nema sá sem sekur er,"

Jakob stökk þegar í stað upp á ölkagga; hann veifaði höndum ofboðslega, fékk að nokkru leyti hljóð og gat þýtt orð undirforingjans fyrir mannsöfnuðinum.

"Og segðu þeim líka," sagði læknirinn með hárri og skýrri röddu, "að það sé maður þarna inni, sem sé að deyja og eg þurfi að geta hjálpað strax; það dugi ekki að eyða tíma í þessa heimsku lengur."

Að svo mæltu tróð hann sér aftur gegnum mannþröngina til Rósenblatts, sem stundi þungt af kvölum og spýtti blóði. Hættan var nú afstaðin. Æsingurinn sem verið hafði í mönnunum lægðist og breyttist í barnalegan kvíða, þar sem þeir biðu þess, er þeir gátu ekki gert sér grein fyrir hvað verða mundi.

"Nú, nú!" sagði undirforinginn og benti á Dalmatíu-manninn, sem raknað hafði við og stóð nú kyr og ólundarlegur þar sem hann var kominn. Hann hafði reynt að ná frelsi sínu, það hafði mistekist, og nú var hann reiðubúinn að taka því, sem að höndum kom. "Spurðu hann hvað hann heiti?" bætti hann við og snéri sér að Jakob.

"Hann segist heita Jón Jarema."

"Og hvað hefir hann að segja sér til málsbótar?"

Nú tók Dalmatíu-maðurinn að tala með mikilli ákefð og handleggjaburði.

"Hvað er hann að segja?" spurði undirforinginn.

"Þessi maður segir hann ekki særði neinn mann. Þessi maður," bendandi á látna Pólverjann, "var að spila, hann byrjaði ófrið, rekur hníf í handlegg hans," sagði Jakob og fletti upp ermi Dalmatíu-mannsins og beraði mikið sár, sem hann hafði á framhandleggnum. "Jarema sló hann í höfuð, hristi hann hart, og fleygir honum í horn í annan mann."

Dalmatíu-maðurinn tók til að tala á ný.

"Hann segist engan hníf hafa. Hann ekki geta gert svona stungu með berum fingri."

"Við skulum athuga það betur," sagði undirforinginn. "Hvar er þá þessi hinn maður?" Hann leit yfir í hornið. Þar var engann mann að sjá. "Hvert hefir hann getað farið?" spurði undirforinginn og tók að skima um eftir svartskeggjaða manninum í mannþrönginni.

Maðurinn sást hvergi. Undirforinginn varð bæði hryggur og reiður. Hann skipaði mönnunum að raða sér upp að veggjunum, en hvergi fanst sá svartskeggjaði. Um leið og hver maður nefndi nafn sitt, urðu einhverjir til að staðfesta það og kannast við að þeir þektu hlutaðeiganda. Einn maður að eins virtist ókunnur öllum, er inni voru. Hann var nýrakaður og hafði að eins yfirskegg og endar á því snúnir upp á við á hermanna-vísu; augsýnt var að hann stóð á hærra mentunar stigi, en hver meðal Galizíumaður.

"Spurðu hann, hvað hann heiti?" sagði undirforinginn.

Ókunni maðurinn svaraði þegar í stað, og Jakob túlkaði:

"Heitir Rúdolf Polkoff. Pólverji. Ókunnugur, kom til borgarinnar nýlega. Þekkir engan hér. Einhver kom hingað með honum til dansleiksins."

Undirforinginn horfði fast á mann þenna meðan hann talaði.

"Jæja, hann sýnist vera býsna slunginn náungi. Komdu hingað," bætti hann við og benti ókunna manninum að færa sig fram í ljósbirtuna.

Hann hlýddi og snéri baki við Rósenblatt.

"Upp með hendurnar."

Maðurinn lét sem hann skildi ekki. Jakob þýddi skipunina. Svo sem andartak hikaði hann við, en svo lyfti hann upp báðum höndunum. Undirforinginn tók að leita á honum.

"Þú munt ekki hafa vopn á þér?" sagði hann og fór að þukla á vösum hans. "Nei, hvað kemur hér?" Um leið dró hann falska skeggið upp úr vasa hans.

Í þessum svifum heyrðist þung stuna koma frá Rósenblatt. Allir litu því þangað sem hann lá. Nýtt líf virtist alt í einu koma í starandi augun og fölt andlitið. Bæði ótti og hatur skein úr augnaráðinu, er hann leit á ókunna manninn. Með ósegjanlegum erfiðismunum lyfti hann upp hendinni, benti á ókunna manninn með löngum, óhreinum fingri sínum og stundi þessu upp: "Takið hann fastan — hann morðingi —" og svo steinleið yfir hann.

En meðan hann var að tala, urðu snöggar ryskingar. Ljóskerið datt niður, myrkt gerðist í herberginu og áður en undirforinginn vissi af, hafði ókunni maðurinn slitið sig af honum, ruðst fram að dyrum og flúið burtu.

Undirforinginn þeytti úr sér ógurlegu blótsyrði og ruddist fram á eftir honum, en honum fórst seint vegna myrkursins og fólksins, sem fyrir stóð, svo að þegar hann loks komst út í dyr, var maðurinn alveg horfinn. Úti fyrir beið Murchuk með sjúkravagninn.

"Sáuð þér mann hlaupa héðan út?" spurði undirforinginn reiðulega.

"Já, eg held það! Hann hljóp eins og byssubrendur."

"Hversvegna reyndirðu ekki að stöðva hann?" spurði undirforinginn.

"Stöðva hann?" endurtók Murchuk forviða, "munduð þér geta stöðvað mannýgan, bandóðan bola? Nei, það þarf ekki að ætla mér slíkt."

"Farið þér þá með manninn, sem inni er, á sjúkrahúsið. Hann drepur yður ekki," svaraði undirforinginn með gremjublandinni fyrirlitning. "Eg skal hafa upp á þessum manni, þó að það kosti það, að eg verði að taka fastan, hvern einasta Galiziumann sem er í borginni."

Undirforinginn tók sér þenna atburð ósegjanlega nærri, en svo mikla röggsemi sýndi hann, að áður en lýsti af degi, hafði hann sett verði við alla vegu, sem út úr borginni lágu, bæði þjóðvegu og járnbrautir, og áður en vikan var á enda, hafði hann fundið flóttamanninn, með þeirri auðveldu aðferð, að taka fastan hvern útlending, sem reyndi að fara burt úr bænum.

Fangelsan þessi vakti mikla athygli. Eftir öllum eyktamörkum að dæma, var þarna hön laður hættulegur glæpamaður. Aðalvitnið gegn honum var þó Rósenblatt, og gaf hann undirforingjanum og lækninum skýrslu sína.

Það kom í ljós að maður þessi hafði nefnt mörgum nöfnum. Hann hafði kallað sig Koval, Kolowski, Polkoff, og enn fleiri nöfnum, en að réttu nafni hét hann Michael Kalmar. Hann var djarfhugaður og óbilgjarn níhilisti; rússneska lögreglan vildi hafa hendur í hári hans vegna margra illvirkja, sem hann hafði unnið; hann hafði verið dæmdur til Síberíuvistar og dvalið þar nokkur ár, og þar átti

hann enn að vera, ef rétturinn fengi að hafa sinn gang. Hann hafði yfirgefið konu og börn — sent þau til Canada. Og það kom upp úr kafinu, að milligöngu Rósenblatt var það að þakka, að þau höfðu ekki farist úr bjargarskorti. Af því að Rósenblatt hafði komið í veg fyrir eitt níhilista-fólskuverk þessa náunga, — en Rósenblatt hafði haft á hendi trúnaðarstarf í þjónustu Rússastjórnar —, þá hafði Kalmar strengt þess heit að hefna sín á honum; hann flúði því frá Síberíu, og hafði komið til Canada í því skyni að koma fram þessari hefnd. Það mundi honum líka hafa hepnast, ef lögreglan hefði ekki tekið röggsamlega í taumana.

Nú streymdu að Cameron undirforingja hamingjuóskir hvaðanæfa, fyrir þann dugnað hans, þar sem honum hafði auðnast að handtaka mann, er sloppið hafði úr klóm rússnesku stjórnarinnar og leynilögreglunnar þar, sem talin er að vera hin úrræða-drjúgasta í allri Evrópu. Nú beið glæpamaðurinn í fangaklefa sínum, sama sem dómsekur, eftir að mál hans yrði prófað, ókunnur maður, horfinn allri hjálp og vinum, ógurlegur í augum margra, en aumkvaður af fáum. En hvað sem menn kunnu um hann að hugsa, þá hafði hann gerst brotlegur við brezka siðmenning, og átti nú í vændum að fá að kenna á brezkri réttvísi.

---

## VII. KAPÍTULI.

*Dæmdur sekur.*

Mánuðurnir tveir næstu á undan sakarmálsprófunum voru Kalmar, fanganum, mikill þreyjuleysis og harmkvæla-tími. Nótt og dag gekk hann um gólf í klefa sínum, eins og tigrísdýr í búri; hann neytti lítils matar og sofnaði þá að eins, þegar hann var orðinn yfirkominn af þreytu. Það var ekki fangelsis-vistin, er fékk svo mjög á hann. Fangelsið í Winnipeg með öllum göllum og ólagi, sem á því var, það var höll í samanburði við önnur fangelsi, sem hann hafði áður lent í. Það var ekki ótti við úrslit á máli hans, er nú lágu fyrir próf í, sem svifti hann svefni og matarlist. Hann hafði svo oft staðið augliti til auglitis við dauða, útlegð og fangelsi, að slíkt var honum ekki framar skelfingar-efni. En eldur brann honum í brjósti. Rósenblatt var enn á lífi, og honum hafði verið hamlað að koma fram hefnd sinni. á honum.

En þó að hefndarlöngunin væri honum heit og rík í huga, þá brann enn heitara eldur ættjarðarástarinnar í brjósti hans. Honum hafði hepnast að gera ráðstafanir til sambands milli föðurlands síns og hins nýja heims, er trygt gátu hinum undir-okuðu og ofsóttu frið og frelsi. En var eftir að leggja síðustu hönd á þessar ráðstafanir. Ennfremur krafði nauðsyn þess, að hann skýrði frá fyrirætlunum þessum sjálfur, og með því móti sparaðist mikið og gagnslaust strit og erfiði. Þetta varð honum tilefni til andvökunótta og dimmra daga.

Á hverjum degi fór Pálína til fangelsisins og beið möglunarlaust langar stundir úti í vetrarkuldanum, þangað til henni var hleypt inn. Maður hennar virtist ekkert hirða um komu hennar og því síður að vera henni þakklátur fyrir. Dag eftir dag spurði hann hana að eins einnar og sömu spurningar:

"Eru börnin frísk?"

"Já, þau eru frísk," var Pálína vön að svara. "Þau spyrja eftir þér á hverjum degi."

"Hér mega þau ekki sjá mig," var hann vanur að segja; að svo mæltu snéri hún venjulega burtu, með augljós þjáningar merki á dauflegu andlitinu; en alt bar hún með þögn og þolinmæði.

Einusinni færði hún honum þá fregn, sem snöggvast glaðnaði yfir honum að heyra.

"Kalman vill ekkert tala nema rússnesku," sagði hún einn daginn þegar hún kom.

"Einmitt það," svaraði hann. "Hann er sannarlega sonur minn. En," bætti hann við með þunglyndissvip, "að hvaða haldi kemur það nú?"

Ýmsir fleiri báðu um leyfi til að finna fangann; það var fólk frá fangelsis-missioninni, konur úr mannúðarfélögum, klerkar frá St. Boniface og meþódistaprestar — en öllum var vísað burtu. En eftir Símoni Ketzel gerði fanginn boð og átti við hann langt samtal, og varð árangurinn sá, að hann fékk til að verja mál sitt O'Hara, þann sakamála-lögmann, er mest orð fór af í öllu Vestur-Canada. Fé virtist ekki skorta, né neitt það, er fáanlegt er fyrir fé.

Mál þetta tók að vekja býsna mikla athygli, ekki að eins í borginni, heldur og út um landið. Almenningsálit var eindregið á móti fanganum. Aldrei hafði í sögu þessa nýja lands verið framinn jafn-hryllilegur glæpur, eða með jafn-ógurlegri grimd. En álit almennings var að mestu leyti bygt á vitnisburði Rósenblatts, er hann hafði tjáð þeim Cameron undirrfor-

ingja og Wright lækni, þegar hinn særði maður lá fyrir dauðans dyrum, að því er ætlað var; ennfremur studdist þessi skoðun fólks við frásagnir blaðamanna er hitt höfðu Rósenblatt að máli öðru hvoru. Blaðið "Morning News" talaði um það með töluverðri beiskju í ritstjórnargrein, hve mikil hætta íbúum í Vestur-Canada, væri búin af návist þessara hálfviltu þjóða frá Mið- og Suður-Evrópu, og lét í ljós þá von sína, að yfirvöldin sýndu sem mestan strangleik í meðferð þessa máls, til þess að hinn ólöghlýðni, útlendi lýður fengi þar með harða áminning, og kynni því fremur að láta sér það víti að varnaði verða.

Frá upphafi var engin von um sýknunardóm. Staunton lögmaður, sá er málið sótti af hálfu hins opinbera, var þess fullvís, að þyngsta hegning yrði kveðin upp yfir fanganum, sem í lögum var leyfð. Og jafnvel O'Hara kannaðist heimulega við það, við starfsfélaga sinn, að þau beztu dómsúrslit, sem fanginn gæti eftir vænst, væri lífstíðarfangelsi. "Og það ætti hann skilið að fá! Þetta er sá grimmilegasti glæpur, sem eg man eftir að eg hafi nokkru sinni átt um fjalla, í allri minni lögmannstíð!" En þetta var áður en O'Hara hafði haft fréttir af Mrs. Fitzpatrick.

O'Hara hafði rekist á þessa samlöndu sína eitt sinn er hann var að leita sér upplýsinga í útlendinga hverfinu.

Fyrst í stað hafði O'Hara haft skemtun af að kynnast Mrs. Fitzpatrick, vegna þess írska málkeims, sem bar svo mikið á hjá henni, ásamt góðri náttúrugreind, en síðar meir gerði hann sér far um að koma sér sem bezt í mjúkinn hjá henni, eftir að hann var orðinn sannfærður um, að skjólstæðingi sínum gæti orðið mikið gagn að vitnisburði hennar. Það studdi vinskap þeirra meir en lítið, að verða þess vísari, að hvort um sig lét sér ant um frelsisbaráttu

föðurlandsvina á gamla Írlandi, og að þeim var báðum sameiginlega ant um Kalmar, fangann, af því að hann var "föðurlandsvinur."

Jafnskjótt sem hann varð þess vísari, hversu mikill fengur gat orðið að vitnisburði Mrs. Fitzpatrick við málsvörn hans, stilti hann svo til, að hún bauð honum að drekka hjá sér "bolla af te": það te var búið til í litlum svörtum tepotti, sem fluttur hafði verið alla leið heiman af Írlandi, og kvaðst O'Hara ekki hafa smakkað jafn-bragðgott te, í þau fimtán ár, sem hann hafði átt heima í Canada, eins og teið hjá Mrs. Fitzpatrick. Hann taldi og mikinn vafa á því, að fólk þeim megin hafs gæti búið til jafngott te, eins og hann hefði verið vanur að drekka í þeirra gamla og góða landi. Meðan setið var að þessari tedrykkju, og O'Hara hafði fengið Mrs. Fitzpatrick til að lýsa því fyrir sér, þegar níhilistinn var að kveðja börn sín, þá var það að hann sá til fulls, hvaða gullnámu hann hafði þar rekist á. Þá fastréð hann að Mrs. Fitzpatrick skyldi verða kvödd til að bera vitni fyrir réttinum.

"Við skulum samt ná okkur niðri á þeim djöflunum þeim arna!" sagði hann með ákefð við hina nýju vinkonu sína, og írski málhreimurinn stældist við viðkynninguna. "Þeir hafa ætlað sér að hafa líf mannaumingjans fyrir það að hleypa fáeinum dropum af kolsvörtum blóðkorgi út úr hjartanu á þessum svikara og níðingi, sem eg vona að fjandinn sæki! En við eigum eftir að ná okkur niðri á þeim, og það eruð þér sem getið gert það!" bætti hann við með vaxandi ákefð og aðdáun.

Í fyrstu var Mrs. Fitzpatrick mjög andvíg því að koma fyrir rétt.

"Hvað haldið þér að yrði úr mér frammi fyrir hávelbornum herra dómaranum og kviðdómendunum, mér, sem aldrei get komið út úr mér óskökku orði?"

"Og ætlið þér þá að láta dæma mannaumingjann til dauða?" spurði O'Hara og tók nú að lýsa fyrir henni hinum ískyggilegu vélabrögðum er lögmaður hins opinbera, og Rósenblatt og skósveinar hans hefðu sett gegn hinum óhamingjusama ættjarðarvin, sem af föðurlandsást og til að halda uppi heiðri fjölskyldu sinnar, hefði reynt að koma fram maklegri hefnd, við þann fyrirlitlega svikara.

Undir hans eldheita mælskuflóði, varð keltneskt eðli Mrs. Fitzpatrick snortið, og henni hlýnaði um hjartarætur. Hún kvaðst fúslega skyldi koma fyrir rétt, og skýra frá því frammi fyrir dómara og kviðdómendum, hvílíkur sá maður væri, sem þeir væru í aðsígi með að dæma til dauða. Hvað eftir annað lét O'Hara hana segja sögu sína, og herða á þeim atriðum með grátbeiðni, eiðstaf og tárum, sem hann af reynslu sinni taldi bezt fallin til að koma fram sínum fyriræltlunum, og hann létti ekki fyr, en hann var þess fullvís, að hún mundi leysa hlutverk sitt ágætlega af hendi.

Meðan á prófunum stóð, var réttarsalurinn fullur af fólki, ekki að eins af forvitnum slæpingum, heldur og voru þangað komnir ýmsir af virðulegustu borgurum bæjarins.

Í eitt horn salsins hópuðu sig á hverjum degi nokkrir útlendingar. Hver einasti maður af rússnesku bergi brotinn, er því mátti við koma að fara þangað, var þar viðstaddur. Gagnstætt vilja fangans, en eftir undirlagi O'Hara, var Pálína og börnin látin vera viðstödd öll prófin fyrir réttinum. Málareksturinn fór fram með túlkun, þar sem þess þurfti við, því að Kalmar lét, sem hann skyldi ekki ensku til hlítar.

Fanginn var kærður fyrir tvennar sakir, um tilraun til að myrða Rósenblatt og um að hafa valdið dauða Pólverjans, er lézt í veizlunni. Vitnisburður

Wrights læknis, Camerons undirforingja, ásamt margra sjónarvotta, tók af öll tvímæli um það, að sárið, sem Rósenblatt var særður á brjóstinu, og undin á hálsi Pólverjans, voru eftir eitt og sama vopnið, fjaðurhnífinn, sem fundist hafði í kjallaranum í húsi Pálínu.

Þegar falska skeggið hafði verið sett á Kalmar, þekti Dalmatíu-maðurinn og fleiri hann fyrir sama mann og þann, er verið hafði meðspilari Pólverjans í hinni óheillavænlegu spilamensku. Staunton veitti ekki erfitt að sanna, að svartskeggjaði maðurinn, er sést hafði á ýmsum stöðum meðan á brúðkaupsveisluhaldinu stóð, hefði verið einn og sami maðurinn og Kalmar; Honum tókst að hafa upp úr Pálínu, sem var grunnhyggin, eins og þegar er kunnugt, nægilegar sannanir þessu viðvíkjandi, og þó að þessi vitnisburður væri dæmdur ómerkur, af því að hún væri kona fangans, hafði hann þó meiri en lítil áhrif á kviðdómendurna.

Sá vitnisburðurinn sem skaðvænlegastur var, það var vitnisburður Rósenblatts sjálfs, og hann var Staunton nógu sluuginn til að nota með miklu harmleiks-áhrifavaldi. Fölur og holdskarpur, og enn með sjúkleiks ummerkjum, mætti Rósenblatt fyrir réttinum og sagði sögu sína, og hlýddu áheyrendur á hana standandi á öndinni á skelfingu. Aldrei höfðu Canadamenn heyrt jafn-ógurlega frásögu. Eini maðurinn, sem ekkert lét á sig bíta, var fanginn. Meðan á frásögunni stóð var ekki hægt á hounm að sjá, annað en kæruleysi og leiðindi.

Ekki urðu samt árangurslausar þær tilraunir, sem O'Hara gerði til að veikja vitnisburð Rósenblatts, með því að benda á ýmsa svarta bletti, sem hann hefði á samvizkunni. Með óbilgjörnum spurningum tókst lögmanninum að hafa það upp úr Rósenblatt, að hann hefði einu sinni verið vinur fangans; að

hann hefði verið meðbiðill konu hans; að hann hefði verið meðlimur í sama leynifélaginu á Rússlandi; að hann hefði gengið í leynilögreglufélag Rússastjórnar, og borið vitni sem sá árangur hefði orðið að, að fyrnefnt leynifélag var leyst upp; og að hann hefði lostið þar upp þeim sökum gegn fanganum, er það hefði leitt af, að hann var sendur í útlegð til Síberíu. Eftir að O'Hara hafði fengið vitnið til að játa þessu, veik hann umsvifalaust að öðru efni.

"Hafið þér vingast við þessa konu, sem heitir Pálína Koval?"

"Já".

"Hafið þér ekki gerst umsjónarmaður með fjármálum hennar?"

"Eg hefi aðstoðað hana í kaupum og sölum. Hún kann ekki ensku."

"Í hvaða húsi býr hún?"

Nú kom hik á Rósenblatt.

"Það er eg ekki viss um eg geti svarað."

"Í hvaða húsi býr hún?" öskraði O'Hara og færði sig nær honum.

"Í sínu eigin húsi, býst eg við."

"Búist þér við!" hreytti lögmaðurinn út úr sér. "Vitið þér það ekki? Þér keyptuð það þó fyrir hana. Þér borguðuð fyrstu afborgunina, er ekki svo?"

"Jú, eg gerði það."

"Og hafið þér ekki síðan tekið á móti peningasendingum, sem hafa verið sendar henni mánaðarlega?"

Aftur kom hik á Rósenblatt. "Eg hefi gert það stundum—".

"Segið sannleikann!" æpti O'Hara á ný; "það er auðgert að komast að því, ef þér farið með lygi. Eg hefi sjálfur sannanir fyrir þessu í höndunum. Tókuð þér ekki á móti peningasendingum, sem bárust mánaðarlega og voru stílaðar til Pálínu Koval?"

"Eg gerði það með hennar leyfi. Hún setti sjálf merki sitt við þær."

"Hvað varð af peningunum?"

"Eg afhenti henni þá."

"Og hvað gerði hún við þá?"

"Það veit eg ekki."

"Afhenti hún yður ekki peninga öðru hvoru, til að borga í skuldinni á húsi hennar?"

"Nei."

"Gætið þér að yður. Eg vil minna yður á, að það eru lög til gegn meinsæri. Eg ætla að gefa yður að nýju kost á að sleppa við þá refsingu. Voru yður afhentir einhverjir peningar til að borga í hússkuldinni?" O'Hara bar spurninguna fram með geysimikilli áherzlu og ákefð.

"Já, eg tók á móti einhverjum peningum til þess."

"Og borguðuð þér þá peningana, eins og til var ætlast?"

"Já."

"Mundi yður þá koma það á óvart, er eg lýsi því yfir í réttinum, að síðan fyrsta afborgun var greidd, rétt eftir að konan kom til þessa lands, hefir ekki einn einasti dollar verið greiddur í þessari hússkuld?"

"Svarið mér!" hrópaði lögmaðurinn. "Mundi yður koma á óvart að heyra þetta?"

"Já."

"Þetta eigið þér þó í vændum. Jæja, segið mér hver er hæstráðandi á þessu heimili, sem við höfum verið að tala uum?"

"Pálína Koval."

"Segið eins og er. Hver leigir herbergin, og hver ber ábyrgðina á framferðinu í því húsi? Látið mig heyra," spurði O'Hara og færði sig nær Rósenblatt, sem nú var í vanda staddur.

"Eg—aðstoða—hana—stundum."

"Berið þér þá ábyrgðina á þeim heimiliskjörum, sem Pálína hefir orðið að búa við síðastliðin þrjú ár?"

Rósenblatt þagði.

"Þetta nægir", sagði O'Hara með óumræðilegri fyrirlitning.

Lögmaðurinn hefði getað gengið enn nær Rósenblatt, ef fanginn hefði ekki lagt blátt bann fyrir, að hreyft væri við sambandi hans og veslings Pálínu, eða þeim heimilisástæðum, sem hann hafði neytt hana til að búa við. Kalmar var ófáanlegur til þess, að nokkrum skugga væri varpað á fjölskyldu sína, þessu viðvíkjandi.

Því fleiri vitnisburðir sem fram komu, þeim mun meir þéttust skýin yfir höfði fangans. Fyrsti sólskinsgeislinn kom úr alveg óvæntri átt. Þá fyrst er Mrs. Fitzpatrick var kvödd til að bera vitni, vænkaðist ráðið fyrir O'Hara. Það var hið kænlegasta bragð, er hann fékk því svo komið fyrir, að hið opinbera kvaddi hana til vitnisburðar í því skyni, að fá ný sönnunargögn gegn fanganum fyrir það, að hann hefði vanrækt að sjá fyrir fjölskyldunni sinni.

Dag eftir dag hafði Mrs. Fitzpatrick mætt í réttinum og fylgst með málsprófuninni með vaxandi gremju gegn hinu opinbera, vitnunum og öllum málarekstrinum. Lögmaður hins opinbera, sem ekki hafði minstu hugmynd um þessa gremju, er vitni hans ól í brjósti, kvaddi hana nú til að skýra frá því, er hún gæti sagt málinu til upplýsingar. Mr. Staunton var einstaklega vingjarnlegur.

"Hvað heitið þér, kona góð?" spurði hann.

"Eruð þér að spyrja mig að heiti?" spurði vitnið. "Og er yður þá ekki eins kunnugt um hvað eg heiti eins og sjálfri mér?"

Mr. Staunton brosti alúðlega.

"Jú, en réttinn langar til að verða þeirrar þekkingar aðnjótandi með mér, svo að þér viljið kann-

ske gera svo vel og lofa réttinum að heyra nafn yðar."

"Ef réttinn langar til að vita hvað eg heiti, þá er bezt að hann spyrji mig að því. Og ef yður langar til að segja réttinum hvað eg heiti, þá eg yður það guð vel komið, því að eg get ekki metið þann mann mikils, sem hefir þózt nógu góður til að sitja löngum stundum, heima hjá mér og manninum mínum, en lætur svo frammi fyrir rétti, eins og hann viti ekki hvað eg heiti."

"En heyrið þér kona góð," sagði lögmaðurinn skjallkænlega, "það er ekkert nema form, að þér segið réttinum hvað þér heitið."

"Á, er það ekkert nema form? Ef svo er, þá er það heldur lélegt form, ef þér spyrjið um mína meiningu, en það hafið þér ekki gert, og þykir mér það býsna mikil ókurteisi.

Nú skarst dómarinn í leikinn.

"Svona nú", sagði hann, "hvað heitið þér? Eg ímynda mér, að þér skammist yðar ekki fyrir nafnið yðar.

"Skammist mín, hávelborni herra!" sagði Mrs. Fitzpatrick og hneigði sig með mikilli kurteisi fyrir dómaranum, "skammist mín fyrir það! Það hefir aldrei neinn þurft að skammast sín fyrir Fitzpatrick nafnið."

"Heitið þér þá Fitzpatrick?"

"Já, hávelborni herra. Mistress Tímóteus Fitzpatrick, fædd Monagan, af Monagans-ættinni frá Ballinghalerin, sem eg er viss um að þér hafið heyrt getið, hávelborni herra, jafn-skynsamur maður og fróður, sem þér eruð."

"Mrs. Tímóteus Fitzpatrick endurtók dómarinn brosandi og reit hjá sér nafnið. "Og hvað heitið þér þá að eiginnafni?"

"Eruð þér að spyrja um skírnarnafn mitt? Æ, viljið þér nú líka fá að vita það, dómari góður?"

spurði hún og brosti daðurgirnilega framan í hann. "En ef þér hefðuð verið svo heppinn að vera fæddur í Mayo-héraði, þá hefðuð þér ekki þurft að spyrja Nóru Monagan frá Ballinghaleren að nafni."

Nú færðist brosið yfir alt andlitið á dómaranum.

"Nóra Fitzpatrick," sagði hann og reit nafnið. "Við skulum þá halda áfram."

"Jæja, Mrs. Fitzpatrick," sagði lögmaður hins opinbera, "viljið þér þá gera svo vel og líta á fangann?"

Mrs. Fitzpatrick snéri sér við og lét augu sín hvíla um stund á fölu andliti Kalmars.

"Það get eg gert," sagði hún, "en þó eru margir til, sem eg kysi að stæði í hans sporum."

"Þekkið þér hann?"

"Já, það geri eg. Aldrei hefi eg kynst öðru eins prúðmenni, að undanteknum yður, hávelborni herra," bætti hún við og laut dómaranum.

"Á einmitt það! Yður finst hann prúðmenni? Og hversvegna þá, Mrs. Fitzpatrick?"

"Eruð þér að spyrja hversvegna eg telji hann prúðmenni? Það get eg sagt yður. Eg marka prúðmensku hans af því, hvernig hann kemur fram gagnvart kvenfólki."

"Ójá," svaraði lögmaðurinn og hneigði sig einkar kurteislega, "sér er nú hver dómgreindin. Og hvað þekkið þér þá til framkomu þessa — þessa prúðmennis gagnvart kvenfólki?"

"Eg þekki hann að minsta kosti að því, hvernig hann hefir komið fram gagnvart mér. Hann er ekki maður, sem gleymir nafni kunningja síns. Því megið þér trúa."

"Og hefir hann þá komið prúðmannlega fram við yður?"

"Það hefir hann gert."

"Og haldið þér, að hann sé vanur að sýna kvenfólki samskonar prúðmensku?"

"Já það held eg," svaraði Mrs. Fitzpatrick með mikilli áherzlu. "Maður sem er verulegt prúðmenni, hann sýnir kvenmanni aldrei annað en kurteisi, og fer aldrei í manngreinarálit í þeim efnum."

"Mrs. Fitzpatrick, þér hafið víst agæta dómgreind á prúðmensku manna," sagði Staunton.

"Já, það vona eg," svaraði hún. "Og eg ber líka skyn á að sjá það á mönnum, ef þeir eru ekki prúðmenni," hélt hún áfram með mikilli áherzlu, "hvað vel uppáfærðir, sem þeir kunna að vera."

Nú tóku menn að flissa um allan réttarsailnn.

"Menn hafi hljótt um sig í réttinum!" hrópaði kallarinn.

"Jæja, Mrs. Fitzpatrick," hélt Mr. Staunton áfram í valdalegum rómi, "þér segið að fanginn þarna sé prúðmenni."

"Já, það geri eg, og eg get sagt —"

"Bíðið þér við Mrs. Fitzpatrick. Bíðið þér ofurlítið við. Þér munduð ekki þekkja konura hans?"

"Eg veit ekki."

"Þekkið þér ekki konuna hans?"

"Það kann eg að gera, ef þér viljið svo vera láta."

"En heyrið þér kona góð, eg vil ekkert þar um vera láta. Þekkið þér konu hans, eða þekkið þér hana ekki."

"Eg veit ekki."

"Hvað eruð þér að segja?" spurði Mr. Staunton óþolinmóðlega. "Á eg að skilja orð yðar svo, að þér hafið enga viðkynningu haft af eiginkonu þessa fanga."

"Eg kynni að hafa haft hana."

"Hvað eigið þér við með orðinu 'kynni'."

"Æ, blessaðir verið þér, sagði Mrs. Fitzpatrick

þrákelknislega, "yður getur ekki verið það alvara að spyrja mig, ómentaðan kerlingaraumingjann, um þýðingu á öðru eins orði og þessu."

"Jæja Mrs. Fitzpartick, við skulum nú reyna að afljúka sem fyrst þessari vitleysu. Segið mér nú hvort þér þekkið konu fangans ellegar ekki?"

"Þetta vil eg heyra, og því fegnari verð eg, því fyr sem þetta verður búið."

"Nú segið mér þá eins og er. Annað hvort þekkið þér konu fangans, ellegar þér þekkið hana ekki. Er ekki svo?"

"Það er alveg eftir því, hvernig á er litið."

"Segið þá strax", öskraði Staunton, gersamlega þrotinn að þolinmæði, "hvort þér þekkið þessa konu eða ekki?" og benti um leið á Pálínu.

"Eigið þér við þessa konu?" spurði Mrs. Fitzpatrick. "Og því hlífðuð þér ekki sjálfum yður við allri þessari orðamælgi og hinum hávelborna herra við langri tímatöf, þó að eg sleppi nú alveg töf sjálfrar mín, sem verð að vinna baki brotnu fyrir daglegu brauði. Það hefðuð þér hæglega getað, ef þér hefðuð spurt mig að því strax, hvort eg þekti þessa konu."

"Nú, nú, þekkið þér hana þá?"

"Já, eg þekki hana."

"Hversvegna könnuðust þér þá ekki við það, þegar eg spurði yður að því?" spurði lögmaðurinn, sem nú var farið að sinnast til muna.

"Eg gerði það", svaraði Mrs. Fitzpatrick rólega.

"Sögðuð þér ekki að þér þektuð ekki konu fangans?"

"Nei, það sagði eg ekki," svaraði Mrs. Fitzpatrick.

Þegar hér var komið, sátu allir brosandi í réttarsalnum og jafnvel dómarinn líka.

"Jæja, Mrs. Fitzpatrick," sagði lögmaðurinn loksins, "eg verð víst að kannast við það, að eg sé

býsna heimskur, því að mér er ómögulegt að skilja yður."

"Ekki kemur mér til hugar að fara að andmæla þeirri staðhæfing yðar, því að yður hlýtur sjálfum að vera um það allra manna kunnugast."

Nú kváðu við há hlátrasköll í réttarsalnum.

"Þögn í réttinum! Hér verður að halda reglu á," sagði dómarinn og reyndi að setja upp alvörusvip svo fljótt, sem honum var auðið. "Haldið áfram Mr. Staunton."

"Jæja, Mrs. Fitzpatrick, eg verð að líta svo á, að þér þekkið þessa konu, Pálínu Koval."

"Mér er ánægja að heyra það."

"Og eg ímynda mér að þér vitið, að hún er kona fangans, er það ekki rétt?"

"Og hví skylduð þér vera að ímynda yður það?"

"Jæja, jæja, vitið þér það ekki?"

"Veit eg ekki hvað?"

"Vitið þér þá ekki, að þessi kona, Pálína Koval, er eiginkona fangans?"

"Hún kann að vera það."

"Æ, verið þér nú ekki lengur með þessar hártoganir, Mrs. Fitzpatrick. Þér vitið það upp á yðar tíu fingur, að kona þessi er eiginkona fangans."

"Ja, eg kalla yður í meira lagi gáfaðan, að vita betur, hvað eg veit, heldur en eg sjálf."

"Nú, nú, viljið þér þá halda því fram, að þessi kvenmaður sé ekki eiginkona fangans?" spurði Staunton óþolinmóðlega.

"Nei, það ætla eg ekki að gera," svaraði Mrs. Fitzpatrick með áherzlu, "fremur en eg vil halda því fram, að hún sé ekki kona yðar."

"Jæja, jæja, þá skulum við halda áfram. Við skulum setja sem svo að hún sé kona hans. Hvernig hefir þá fanganum farist við þessa konu?"

"Og hvernig hefði hann átt að láta sér farast við hana?"

"Lagði hann fram fé henni til styrktar?' '

"Hví skyldi hann hafa gert það, þar sem hún hafði tvær hendur til að vinna fyrir sér með?"

"En eg vona þó Mrs. Fitzpatrick, að yður hafi fundist það grimmúðug vanræskla af honum, fanganum, að skilja hana eftir hér í ókunnu landi með tvö börn fyrir að sjá."

"Það liggur ekki í mínum verkahring, að vera að níða þetta land," sagði Mrs. Fitzpatrick. "Þetta land er óneitanlega allra blessaðasta land, og ágætt að komast hér af," hélt hún áfram með eldmóði, "og eg get borið um það, af eigin reynslu."

"Já, landið er gott," sagði Mr. Staunton óþolinmóðlega, "en yfirgaf hann ekki konu sína þessi maður?"

"En ef hann væri nú sá maður, sem þér haldið hann sé, hefði það þá ekki verið hagur fyrir hana að vera laus við hann?"

Nú var þolinmæði lögmannsins að þrotum komin.

"Jæja, jæja, Mrs. Fitzpatrick, við skulum þá hætta að tala um konuna. En hvernig hefir hann þá látið sér farast við börnin sín?"

"Börnin sín?" endurtók Mrs. Fitzpatrick. "Eruð þér að spyrja um börnin? Því ætla eg að svara með að segja, að hann er reglulegt prúðmenni og ástúðlegur faðir barna sinna."

"Á-a-a? Einmitt það, Mrs. Fitzpatrick. Eg þori að segja að flestum þykir gaman að heyra það. En mér þykir þér hafa býsna kynlegar skoðanir á skyldu föðurs gegn börnum sínum. Kannske þér viljið nú gera svo vel að tjá réttinum í hverju þér teljið hans föðurlegu dygðir fólgnar?"

"Blessaðir verið þér, eg hefi aldrei minst með

einu orði á hans föðurlegu dygðir, eða á neinar dygðir hans. Eg var að tala um börnin hans."

"Jú, jæja, kannske þér viljið þá kunngera réttinum, hvaða ástæðu þér hafið til þess að vera ánægðar yfir því, hversu honum hefir farist við börnin sín?"

Nú hafði Mrs. Fitzpatrick loks boðist hið eftiræskta færi. Hún andvarpaði, svo sem létt væri af henni fargi og tók til máls með miklum ákafa:

"Já, það var verulega átakanlegt að sjá, það mátti nú segja. Um slíkt get eg manna bezt borið, þar sem eg átti sjálf tíu börn; þar af eru nú þrjú dáin, guð gefi sálum þeirra hvíld! og fjögur gift og hinum líður öllum vel. Eg get því borið um það, hvað sönn nákvæmni og ástúð við börn er. Og þér eigið víst börn sjálfur," bætti hún við kankvíslega og leit til lögmannsins.

Áheyrendur gátu ekki varist hlátri, því að Staunton var ókvæntur og egta piparsveinn.

"Eg er því miður svo óheppinn að vera piparsveinn, Mrs. Fitzpatrick," sagði hann kafrjóður út undir eyru.

"Aumingja maðurinn, það er raunalegt fyrir yður, en regluleg guðs mildi fyrir konuna yðar væntanlegu."

Nú varð svo mikil háreysti af hlátrum í réttarsalnum, að seigt gekk að þagga aftur niður í áheyrendum.

"Haldið þér þá áfram Mrs. Fitzpatrick, og segið sögu yðar," sagði Mr. Staunton, sem ekki gat nú lengur varist hlátri fremur en aðrir, þó að gamanið snérist um sjálfan hann.

"Það skal eg gera," sagði Mrs. Fitzpatrick með áherzlu. "Eg ætla að segja yður það, hávelborni herra," sagði hún og snéri sér að dómaranum. "Hann þarna", hélt hún áfram, og benti með þumalfingrin-

um í áttina til lögmannsins, "skilur ekkert í þvílíkum málum. Eg ætla að byrja á því, að fanginn kom eitt kveld heim til mín, til að sjá börnin sín. Það var eitt kveldið sem veizlan var, hávelborni herra. Já, hann kom heim til mín, eins og eg sagði, því að börn hans voru stödd þar; hann kom til að biðja um að lofa sér að sjá þau; hann hafði þá ekki séð þau svo árum skifti. Einhver myndi nú ímynda sér að þau hefðu þekt hann," hélt Mrs. Fitzpatrick áfram með mikilli áherzlu og alvörurómi. "Nei, það var öðru nær. Þau þektu hann ekki í fyrstunni. En það var átakanlegt að sjá hann koma og eiga hvorki hús eða heimili að hverfa til, og þó hafði hann sent fjölskyldu sinni peninga á hverjum mánuði til að borga fyrir það. En hvað af þeim peningum hefir orðið, ber mér ekki að segja. Það eru sumir hér inni (um leið leit hún til Rósenblatts), sem líklega er kunnugra um það en mér, og kunnugra heldur en um sína sáluhjálp. En eins og eg sagði áðan, þá mundi Kerryuxa, systkina-syni geita, sem alast á eyði-fjöllum, hafa hlýnað um hjartarætur af að sjá hvernig hann vafði börnin að sér, innilega hrærður, því að hann á gott hjarta! Því að ekki hafði hann tóm til að dvelja hjá þeim nema litla stund, þá þurfti hann að þjóta aftur af stað, til heiðingjalandsins þar sem hann fæddist. Mikið dæmalaust tók manninn sárt til ættjarðar sinnar! Og mikla fríðleiks-konu misti hann þar! Drottinn sé henni miskunnsamur. "Eg átti ekki við hana þarna," sagði hún og leit um leið og dómarinn til Pálínu, "heldur átti eg við engil, sem alls ekki þarf að blygðast sín fyrir að standa frammi fyrir blessuðum skaparanum sjálfum; hún var bláeygð með glóbjart hár, það sá eg á myndinni af henni, sem hann sýndi mér, og þá mynd ber hann altaf á brjósti sér, guð sé honum líknsamur! Og mikið varð hann að þola fyrir hið góða málefni, blessaður maðurinn!

Drottinn minn! Eg get ekki hugsað til þess ógrátandi!" sagði Mrs. Fitzpatrick og tók að þerra á sér augun.

"En heyrið þér, Mrs. Fitzpatrick," greip Staunton fram 'i, "þetta getur nú alt verið gott og blessað, en hvað kemur það við — "

"Sussu; sussu, maður minn, þetta kemur beinlínis við, því sem eg ætla að segja!" Og því næst tók rún til að lýsa aftur, því, sem farið hafði á milli Kalmars og barna hans, og hún hafði verið sjónarvottur að á sínu eigin heimili; Hún lýsti nákvæmlega öllum persónunum, sem þar höfðu komið fram á sjónarsviðið, og þeirri miklu ástúð og innileik, sem komið hefði í ljós þegar faðirinn var að kveðja börn sín.

Hvað eftir annað reyndi Staunton að stöðva mælskustraum hennar, en hún bandaði hendi 'i móti honum og með áhrifamiklum handleggjaburði, og óstöðvandi ákafri og grátekka-þrunginni mælsku, er Staunton sjálfur gat ekki annað en öfundað hana af, náði hún föstum tökum á öllum áheyrendum, svo að rétt var eins og menn stæði á öndinni. Margur kvenmaður, sem viðstaddur var, mátti ekki vatni halda. O'Hara fór ekki í neina launkofa með að þerra af sér tárin, horfandi í sífellu á vitnið, og bíðandi eftir hentugu tækifæri, til að láta gömlu konuna þagna.

Sú stund var sjálfkjörin, þegar Mrs. Fitzpatrick komst svo mjög við, að hún mátti ekki mæla. Þá spratt O'Hara upp og færði vitninu glas með vatni, og fékk um leið tóm til að hvísla: "Segið þér nú ekki eitt orð meira, 'i öllum hamingjubænum."

"Eg þori að segja," mælti hann því næst hátt, og snéri sér að dómaranum, með skjálfandi gremjurödd, "að minn hálærði vinur, verður nú ekki lengur að þreyta þetta vitni."

"Látið hana fara í herrans nafni," sagði Staunton, "okkur langar ekki til að heyra lengur til hennar."

"Eg átti von á því," svaraði O'Hara þurlega.

Mrs Fitzpatrick var síðasta vitni, sem leitt var af hálfu hins opinbera. En O'Hara leiddi ekkert vitni í móti, og kom mörgum það á óvart, og ekki hvað sízt lögmanni hins opinbera. Fyrir þá sök neyddist Stanton til að halda strax lokaávarp sitt til kviðdómenda.

Sjaldan hafði honum í sinni lögmannstíð tekist jafn-auðvirðilega. Áhrif hins hversdagslega, en ástríðuríka ávarps Mrs. Fitzpatrisk voru enn dómendum í fersku minni. Lögmaðurinn var ekki fyllilega búinn að ná sér út-af vonbrigðum þess, hve aðalvitni hans hafði brugðist, og þetta óvænta uppátæki O'Hara kom flatt upp á hann og gerði hann hálfruglaðan, þó að hann væri orðinn gamall í hettunni. Hálf-stamandi og firtur sínum forna örugglei̇k, sagði hann fram sök og krafðist þess, að fanginn yrði dæmdur sekur um bæði ákæruatriðin.

Um O'Hara var alt öðru máli að gegna. Honum tókst aftur á móti aldrei betur, heldur en þegar horfurnar voru sem verstar. Þegar hann sá fangann einmana, varnarlausan og harðlega ákærðan, fanst honum riddaraskapur sinn krefjast þess að hann legði sig sem bezt fram um að hjálpa. En þar að auki var O'Hara af uppreistarmönnum kominn. Í hverju upphlaupi, sem gerst hafði á Írlandi, í frelsisbaráttu þess næstsíðustu tvær aldirnar, höfðu forfeður hans staðið uppi í orrahríð, vopnaðir spjótum eða byssum, og uppreistar-andinn í honum hvatti hann til samúðar með níhilistanum, sem nú var staddur í nærri því vonlausri baráttu.

Með mikilli skarpskygni tók hann þegar að færa sér í nyt framburð síðasta vitnisins. Hann fór að

lýsa rússneskum níhilista, sem ofsóttur væri, "eins og skógarhæna á heiði", og tæki því að leita sér og samborgurum sínum öruggs hælis í þessu landi frelsisins. Með áhrifamiklum fyrirl'tningar-þjósti sagði hann söguna af erkisvikræði Rósenblatts, "njósnara Rússastjórnar, þjófi, manni sem svívirti konur, og ef eg hefði leyfi til," mælti ræðumaður enn fremur, "þá gæti eg sagt yður þá sögu af honum, herrar mínir, að hárin mundu rísa á höfðum ykkar við að heyra hana. En skjólstæðingur minn vill ekki leyfa að flett sé ofan af þeim atburðum, sem um leið gætu varpað skugga á það heiðarlega nafn, sem hann ber.

Með mikilli lægni dró lögmaðurinn athygli kviðdómenda frá atriðinu um persónulega hefnd, — svo sem eins tilefnis til glæpsins, — og að öðru atriði, sem sé endurgjaldi fyrir pól'tískt svikræði; og ekki lét lögmaðurinn fyr við lenda, en fanginn var, eftir hans frásögn, orðinn að fölskvalausum föðurlandsvini og píslarvotti, er nú yrði að gjalda þess, hvað hann hefði reynst tryggur sínum málstað.

"En þó að mér væri innan handar að skírskota til mannúðartilfinninga yðar í þessu máli, þá hefði eg ímugust á að gera það. Eg skora á yður að íhuga rólega, með gætni og stillilega, eins og réttsýnum Canada-mönnum sæmir, öll þau gögn, sem fram hafa komið í málinu. Glæpur hefir verið unninn — ofboðslegur glæpur — einn maður sviftur lífi, en annar særður hættulega. En hvernig er þessum glæp háttað? Hefir orðið sýnt fram á það, að hér hafi verið framið morð, eða gerð tilraun til að fremja það? Þér hljótið, herrar mínir, að hafa orðið þess varir, hve gersamlega hefir mistekist, að leiða rök að þeirri sakargift. Einu ágizkanina í þá átt, hefir sá maður borið fram, sem stórum hefir gert á hluta fangans, og ofsókt hann með hinum versta fjandskap.

Sá maður, reynir nú að brennimerkja þann, er hann hefir svo fjandsamlega ofsókt, með ógurlegri manndráps-ákæru, eftir að hafa svikið fangann í trygðum, eftir að hafa svift hann frelsi, eftir að hafa eyðilagt heimilislíf hans og gert spjöll á fjölskyldu hans, og eftir að hafa gert sig sekan um hverskonar svikræði gegn honum. Hann er eini maðurinn, sem fyrnefnda sakargift ber fram. En hverskonar maður er hann þessi náungi, sem æskt er eftir, að þér takið trúanlegan, og byggið dauðadóm manns á ósönnuðum framburði hans. Hugsið yður vel um, herrar mínir, hvort hann sé sá maður, er þér getið hiklaust trúað? Er saga hans trúleg? Eruð þér svo auðtrúa að ætla að gleypa við því góðgæti? Eg þekki yður, herrar mínir, mér eruð þér, samborgarar mínir, of kunnugir til þess, að mér komi til hugar að þér látið blekkjast þannig.

"Og hvað er nú um sannreyndirnar að segja, herrar mínir, vafningslausar verulegar sannreyndir? Eg skal skýra frá þeim. Brúðkaupsveizla er haldin. En hinn lærði vinur minn hefir ekki miklar mætur á brúðkaupsveizlum, eða að minsta kosti minni mætur en hann ætti að hafa, og þessvegna vekur hann vorkunnsemi vina sinna."

Þegar þessi hnúta kom, varð öllum litið til Mrs. Fitzpatrick og urðu áheyrendur heldur en ekki brosleitir.

"Brúðkaupsveizla var haldin, eins og eg gat um áðan. Því miður fór svo, eins og oft vill verða í veizlum útlendra borgara, að þar gerðist ölæðis-órói. Þar gefst hentugt færi á að greiða gamlar skuldir. Þar gerðist órói, og lenti í ryskingum. Alt í einu hittast þessir tveir menn þar, og forn fjandskapur glæðist á ný í brjóstum beggja. Annars vegar er brennandi kvöl sakir ranginda, sem beitt hafði verið, hins vegar óslökkvandi hatur. Þessir tveir menn

hittast. Þeim lendir saman. Þegar rimman er afstaðin, finst einn maður dauður, en annar með hnífstungu á brjóstinu. En hver reiddi fyrst til höggs? Um það getur enginn borið. Vér höfum ekki heyrt neinn vitnisburð um það. Um Pólverjann er það að segja, að þar varð mjög raunalegt slys. En algerlega hefir mistekist að bendla fangann við dauða þess manns. En að því er Rósenblatt snertir, þá hefir að undantekinni hans afar-ósennilegu sögusögn. gersamlega mishepnast að sanna fyrir réttinum, að nokkur tilraun hafi verið gerð til að fremja morð. Hnífi var lagt, en hver gerði það? Um það veit enginn. Hver var orsökin? Var um sjálfsvörn að ræða, til að afstýra lífsháskasamlegu tilræði? Um það kann enginn að bera. Eg hefi jafnmikla heimild til að halda því fram að svo hefði verið, eins og nokkur annar hefði til að ímynda sér hið gagnstæða. Og sannarlega virðist það ekki ótrúlegt, eftir því að dæma, sem okkur er kunnugt um þenna svikara og þjóf, að hann hafi vakið ófrið við hinn ókunna mann."

Og þannig hélt O'Hara áfram hinni einkennilegu vörn sinni. Hver ályktanin rak aðra, og hann hélt áfram að vitna í eitt einstaklegt morðið eftir annað, er sannast hefði að slysum hefði verið um að kenna. ellegar framið í sjálfsvörn, unz kviðdómendum, er hálfruglaðir voru í öllum þessum mælskustraum, fanst svo sem engin skýringar-tilraun á glæpi þeim, er framinn hafði verið í kjallara í húsi Pálínu, væri svo ólíkleg, að eigi væri réttara að taka hana til íhugunar.

Áður en O'Hara lauk máli sínu, vakti hann aftur athygli kviðdómenda á því atriði. er hann hafði byrjað á. Með tárvotum augum rifjaði hann upp frásögnina um skilnað fangans og barna hans. Hann lýsti átakanlega kjörum konu hans og barnanna, sem sakir forsjáleysis og fátæktar höfðu orðið Rósenblatt

að herfangi. Hann lýsti í fjörugri frásögn hinni alda-löngu baráttu, er kúgaðir bændur Rússlands hefðu barist fyrir frelsi sínu, og skoraði á dómendur fast og skörulega, svo sem feður, frelsisvini, og skynsama og sanngjarna menn, að láta fangann njóta til fulls þess vafa er mál hans væri undirorpið, og sýkna hann.

Sýknartilraunin var afbragðsvel flutt. Aldrei hafði O'Hara síðan hann tók að fást við sakamál tekist jafn-frábærlega vel, að koma máli, sem enginn ímyndaði sér að væri viðbjargandi, á þann rekspöl, að ekki virtist vonlaust um það. Áhrif ræðu lögmannsins voru líka auðsæ á kviðdómendum, og sömuleiðis á öllum, sem viðstaddir voru í réttinum.

Ávarp dómarans hafði þær verkanir að hreinsa til, lægja hugar-æsing kviðdómenda, og fá þá til að líta á málið með ró og stillingu, sem Canada-mönnum sæmdi að sýna; en þó urðu ekki svæfð til fulls þau áhrif, sem O'Hara hafði vakið með ræðu sinni, og kom það ljóslega fram í úrslitunum.

Kviðdómendur sýknuðu fangann af ákærunni um manndráp, en fundu hann sekan um morðtilraun; en þeir mæltust til þess að dómarinn sýndi sem mesta vægð að auðið væri eftir ástæðum.

"Hafið þér nokkru að svara?" spurði dómarinn, áður hann kvað upp dóminn.

Kalmar hafði veitt dómara ítarlega eftirtekt, er hann flutti ávarp sitt til kviðdómenda; og eftir að hann hafði virt hann fyrir sér um stund, rétti hann úr sér og sagði á sinni stirðmæltu ensku: "Hávelborni herra, eg fer ekki fram á neina vægð. Þess beiðast engir nema glæpamenn. Eg er dæmdur sekur um glæp, en eg er enginn glæpamaður. Svikarinn, þjófurinn, lygarinn, morðinginn og glæpamaðurinn situr þarna." Um leið og hann sagði þetta, snéri

hann sér hvatlega við og stóð um hríð með útréttan handlegg bendandi á Rósenblatt. "Eg stend hér sem löglegur framfylgjandi hefndarinnar. Mér hefir mishepnast. En sá dagur mun koma að hefndin nær fram að ganga." Því næst snéri hann sér að útlendinga-hópnum, sem sat úti í horni á réttar-salnum, hækkaði röddina og tónaði nokkrar setningar á rússnesku.

Verkanirnar urðu geysimiklar. Hver einasti Rússi, sem viðstaddur var, varð auðkendur frá öðrum, af starandi augnaráði og dauðbleikum andlitsfölva. Svo varð stundarþögn og þar á eftir fylgdi hvæsingarhljóð, eins og snögt væri sogaður að sér andinn; þar á eftir kom kliður, svo grimmilegur og harðneskjulegur, að óskaplegt var á að hlýða. Rósenblatt skalf eins og hrísla, spratt á fætur og reyndi að taka til máls. En hann kom engu orði upp og hné þegjandi niður aftur.

"Hvern þremilinn var hann að segja?" spurði O'Hara túlkinn, eftir að dómarinn hafði kveðið upp hinn alvarlega dóm.

"Hann var að hafa upp fyrir þeim dauðarefsingar-eiðstaf níhilista," hvíslaði túlkurinn.

"Guð sé mér næstur! Gott var það, að dómarinn skildi hann ekki. Það lá við, að hann ónýtti alveg, alla mína fyrirhöfn, þöngulhausinn sá arna. Hann hefði þá fengið lífstíðarfangelsi í staðinn fyrir 14 ár. En hann hefir fengið nógu harðan dóm samt, manngreyið. Hamingjan veit, að eg hefði heldur viljað að hinn náunginn hefði fengið þenna dóm í hans stað."

Um leið og fanginn snéri brott með lögregluþjóninum, heyrði hann mikinn grátekka á bak við sig. Það var Pálína, sem var að gráta. Kalmar veik sér að dómaranum og mælti:

"Leyfist mér að tala við börnin mín, áður en ég fer?"

"Já, sjálfsagt," svaraði dómarinn í flýti. "Kona yðar, börn og vinir yðar mega finna yður á morgun, þegar vel stendur á."

Kalmar hneigði sig kurteis og alvarlegur og gekk því næst burtu.

Við hlið Pálínu sátu börinn föl og furðandi.

"Hvert fór pabbi?" spurði drengurinn á rússnesku.

"Æ! æ! Við fáum að sjá hann á morgun", sagði Pálína snögtandi.

Alt í einu æpti drengurinn upp með ákefð og ótta: "Pabbi! pabbi! Komdu aftur!"

Fanginn var rétt að fara út úr dyrunum í þessu; hann nam staðar og leit við; hann var fölur og augsýnn þjáningarsvipur á andlitinu. Hann sté eitt skref í móti syni sínum, er hlaupið hafði á eftir honum og sagði svo hátt að heyrðist inn í salinn:

"Vertu hughraustur, sonur minn. Vertu ókvíðinn! Við sjáumst á morgun."

Hann veifaði hendinni til drengsins, snéri síðan við og fylgdi lögregluþjóninum eftir.

Nú kom fram úr mannþrönginni kona nokkur, smá vexti, hvít fyrir hærum, fölleit og bauð af sér einkar góðan þokka.

"Lofið mér að verða yður samferða," sagði hún við Pálínu, og um leið sáust tárin streyma niður vanga hennar.

Galizíukonan skildi ekki nokkurt orð, en hún skildi hið blíðlega handtak, vinsamlega raddblæ og tárin. Það tungumál skildi hún. Pálína leit upp daufum tár-döprum augum og horfði um stund á fölleitu konuna, sem frammi fyrir henni stóð; því næst stóð hún upp þegjandi og fór á eftir litlu konunni, með börnin, en fólkið þokaði sér kurteislega

frá, og gaf hinum raunamædda hópi gangrúm.

"Sjáið þér til O'Hara, það eru enn englar á ferli hér á jörðu," sagði Wright læknir horfandi á eftir hópnum.

"Já, það er satt," svaraði Írinn, sem var viðkvæmur að eðlisfari, "hér er einn engill að minsta kosti og heitir: Margrét French."

---

## VIII. KAPÍTULI.

### *Hefndar-eiðurinn*

Talsími Wright læknis hringdi snemma morguns. læknirinn hraðaði sér að svara. Starfsvið hans hafði enn ekki stækkað svo, að talsími væri farinn að verða honum armæðuefni. Kona hans, ung að aldri, stóð hjá honum og beið tíðinda; úr stórum móleitum augunum skein mikil eftirvænting.

"Já", sagði læknirinn. "Á-á-á? eruð það þér; komið þér sælar. Nei, ekki svo mjög. Ösin byrjar ekki fyr en lengra kemur fram á daginn." "Nei, alls ekki." "Hvað get eg gert fyrir yður." "Já, með ánægju." Hvað þá? Undir eins?" "Jæja, eftir svo sem eina klukkustund."

"Hver var það?" spurði hona hans, um leið og hann hengdi upp hljómsafnarann. "Er það ný fjölskylda?"

"Nei, ekkert þvílíkt happ", svaraði læknirinn. "Þessi árstíð hefir verið óvenjulega heilsusöm. En með vorinu má búast við að taugaveikin fari að geysa."

"Hver var það?" spurði kona hans aftur óþolinmóðlega.

Það var Mrs. French, vinkona þín, hún var að bjóða mér með sér í leiðangur yfir í útlendingahverfið."

"Æ!" raddblærinn kom því upp um hana, hvað henni hugnaði ferðalagið illa. "Mér finst að Mrs French hefði eins vel getað beðið einhvern annan læknir um þetta."

"Hún gerir það líka; hún leitar til margra lækna í sömu erindagerðum og verður oftast nær vel til."

"Jæja", sagði kona hans, "en mér er farinn að þykja þú gerast nokkuð ferðafús til þessa dæmalausa fólks."

"Dæmalausa fólks?" endurtók læknirinn. "En þar er dæmalaust góða atvinnu að fá, skal eg segja þér; það er að segja að sumu leyti. Þegar eitthvað arðvænlegt ber að, þá er venjulega þeyst með þá á spítalann, og miklu mennirnir taka það til sín."

"Hvað sem því líður, þá er mér ekkert um ferðir þínar þangað", sagði kona hans þrákelknislega, "eg get eins vel búist við því, að þú komist þaðan ekki ómeiddur."

"Ómeiddur?" hafði læknirinn upp eftir henni. "Hvaða vitleysa-"

"Já, eg þekki bezt, hvað þú treystir þér vel. En kúla eða hnífur getur þó orðið þér að skaða, eins og hverjum öðrum. Setjum svo að hann, óskapamaðurinn —hvað hét hann nú aftur — hann Kalmar — hefði rekið hnífinn í þig, í staðinn fyrir Pólverjann. Hvað heldurðu að þá hefði orðið um þig?"

"Um það er ekki að ræða, heldur hitt, hvað um hann varð," svaraði læknirinn brosandi. "En um Kalmar er það að segja, að það er margur verri en hann; mér er nær að halda, að þessi Rósenblatt hafi fyllilega átt þá meðferð skilið, sem hann fékk. O'Hara sýndi að minsta kosti á honum siðferðislegu kaunin.

"Jæja, hvað sem því líður, þá vildi eg að þú ættir ekkert við það fólk."

"Nei, það veit eg að þú vilt ekki", svaraði læknirinn. "Þú veizt það bezt, að þú mundir drífa mig upp úr rúminu, hvenær sem einhver krakkinn í útlendingahverfinu fengi innantökur. Þið Mrs. French gefið mér varla nokkurt tóm til að líta eftir mínum mörgu sjúklingum annars staðar.

"Hvað vill hún nú?" Töluverður forvitnishreimur var í röddinni.

"Mrs. French hefir hepnast að fá svonefnda Mrs. Blazowski til að lofa því, eftir langa mæðu, að einhver, líklega eg, eigi að fá að flytja á spítalann barn, sem hún á, og alt er útsteypt í húðsjúkdómi."

"Hún gerir það aldrei."

"Það er langlíklegast. En því heldurðu það?"

"Af því að þú hefir reynt það áður."

"Nei, aldrei."

"Jú, Mrs. French hefir reynt það, og þú varst með henni þá."

"Það er satt. En í dag ætla eg að taka til annara ráða. Vorkunnsemi Mrs. French hefir ekki komið að haldi. Eg ætla að beita meiri hörku. Og nú ætla eg að hafa mitt fram. Ef það dugir ekki, góða mín, þá skaltu eignast loðskinnkragann, sem þú hefir verið ófáanleg til að líta á, þegar við höfum farið fram hjá Hudsons Bay búðinni.

"Eg kæri mig ekkert um hann," svaraði kona hans. "Þú veizt að við höfum ekki efni á því."

"Láttu ekki svona kona," svaraði læknirinn. "atvinnan er að aukast. Þeir eru farnir að tala um mig í blöðunum. Eftir að fáeinar fleiri brúðkaupsveizlur hafa verið haldnar og þar af leiðandi óhjákvæmileg manndráp, þá verð eg frægur maður."

Í kofa Blazowski beið Mrs. French læknisins kvíðafull. Húsið virtist fult af börnum, svo fult að

þau komust þar ekki fyrir og stóðu sum út í dyrum og sum í hlé undir kofaveggnum móti sól.

Læknirinn tróðst gegnum hópinn og inn í afar-óþriflegt herbergi. Mrs. Blazowski hafði sem sé fundið það kröfum sínum ofvaxið, að ræsta heimili sitt svo að í lagi væri, þar sem hún hafði sjö börn um að sjá og álíka marga vistatökumenn, alla í einu einasta herbergi. Mrs. French sat á stóli með þriggja ára gamalt barn í fanginu.

"Haldið þér ekki, læknir góður," mælti hún, "að þessi börn ættu að verða flutt strax á sjúkrahús?"

"Jú, náttúrlega; þau verða að fara þangað. Eg ætla að skoða þau ofurlítið betur."

Hann reyndi að taka litla barnið úr kjöltu Mrs. French, en það streyttist með ákefð á móti.

"Jæja, eg ætla samt að skoða þig," sagði læknirinn, og fór að losa óhreinu tuskurnar af höfði barnsins. "Herra trúr!" hrópaði hann, "þetta er ljóta sjónin!"

Hárið var í samlímdum klessum úr kraftarkaunum. Í kringum augu og eyru voru graftarkaun, sem ýldi úr, og allar greipar fullar

"Mér datt alls ekki í hug að ástandið væri svona óskaplegt," sagði hann með hryllingi.

"Hvað er það?" spurði Mrs. French. Er það—"

"Nei, það er ekki kláði. Það er hin næma og langvinna *eczema pustulosum,* sem alment er kölluð kirtlaveiki."

"Barninu hefir versnað mikið þessa síðustu viku," sagði Mrs. French.

"Já, þetta dugir ekki aðgerðalaust lengur, og hér er ekki hægt að sinna barninu. Stúlkan verður að fara héðan. Segðu móður þinni það," sagði læknirinn alvarlega við litla stúlku þrettán ára, sem stóð rétt hjá.

Mrs. Blazowski baðaði út höndunum og and-

mælti fastlega. "Hún segir að hún láti ekkert barnið fara. Hún makar þau í feiti. Þeim þá batanar."

"Feiti!" æpti læknirinn. "Já, eg trúi því, og þar ofan í kaupið verða þau mökuð upp úr miklu fleira. Og sjáið þér óþrifin í höfðinu á barninu. Drottinn minn!" bætti hann við og snéri sér að Mrs. French, "hún skríður öll krök! Nú skulum við skoða hin."

Hann skoðaði næst stúlku á fimta ári, sem útsteypt var í höfði og andliti af sama sjúkdómi, nema enn ver leikin.

"Hamingjan góða! Þessi stúlka missir sjónina! Heyrið þið, þessi börn verður að flytja á spítalann, og það undir eins. Segðu móður þinni það."

Aftur túlkaði litla stúlkan, og móðirin svaraði með enn meiri ákefð á ný.

"Hvað segir hún?"

"Hún segir hún ekki láta þau fara. Hún að lækna þau sjálf. Gera þau góð."

"Það er kannske betra að láta þau bíða," greip Mrs. French fram í. "Eg ætla að tala við hana, og við reynum svo í annað skifti."

"Nei", svaraði læknirinn og greip sjal til að vefja utan um litlu stúlkuna, "eg fer með hana með mér nú strax. Það verður rifrildi og þér verðið að skerast í það. Eg skal styðja yður í rimmunni."

Um leið og læknirinn tók upp litlu stúlkuna, kom móðir hennar og æpti: "Nei! nei! Ekki fara!"

"En eg segi, jú," sagði læknirinn; "eg kalla annars á lögregluþjón og læt setja ykkur öll í fangelsi. Segðu henni það."

Þessi hótun hafði engar verkanir á móðurina. En þegar læknirinn gekk til dyranna með barnið, greip hún stóran hnif og hljóp fyrir dyrnar. Svona stóðu þau stundarkorn og horfðu hvort framan í annað; læknirinn var óráðinn í hvað gera skyldi, en hann hafði þó fastráðið, að í þetta skifti skyldi hann

þó koma áformi sínu fram. Nú skarst Mrs. French í leikinn. Hún tók brosandi um handlegg konunnar.

"Segðu henni", sagði hún við litlu stúlkuna, "að eg skuli fara með börnunum, og eg skuli lofa henni því, að þeim skuli ekkert mein verða gert. Og eg skuli koma aftur með þau, þegar þeim er batnað. Móðir ykkar getur komið sjálf að sjá þau á morgun — eða í dag. Spítalinn er allra bezta hús. Börnin fá falleg leikföng, brúður og nógan góðan mat að borða. Og við skulum sjá til þess, að þeim batni."

Þvínæst tók Mrs. French til að lýsa þeim þægindum og ávinningi, sem af því væri að senda börnin á spítalann. Hún brosti alúðlega og talaði svo hratt, að hún stóð nærri því á öndinni, en þagnaði að eins til að gefa litlu stúlkunni tóm til að þýða það sem hún sagði.

Loks lét móðirin sansast og hörkusvipurinn hvarf af andliti hennar. Hún fór frá dyrunum og lagði hnífinn á borðið Það var ekki mælska Mrs. French, sem þessar verkanir hafði haft, heldur hið vingjarnlega handtak og hið hlýlega bros á andliti Mrs. French.

Móðirin sagði þá aftur eitthvað.

"Ætlið þér að fara líka?" spurði litla stúlkan.

"Já, auðvitað. Eg fer líka," svaraði hún.

Þá lét Mrs. Blazowski undan til fullnustu. Hún tók um hendur Mrs. French, kysti þær hvað eftir annað og tók að gráta hástöfum. Mrs. French vafði handleggjunum utan um konuna sem var að gráta, og kysti hana hiklaust á tárvota óhreina kynnina. Wright læknir hafði þegjandi horft á með aðdáun.

"Þér eruð fárra líki", sagði hann. "Þetta gæti eg ekki leikið eftir yður; en eg er að verða snortinn af fordæmi yðar. "Vefjið þér nú sjalinu utan um hitt barnið og svo skulum við reyna að komast af

stað; annars veit eg ekki nema eg lendi í því að fara að kyssa allan hópinn."

Hann ætlaði að leggja af stað til dyranna á ný, en móðirin hljóp í veg fyrir hann með miklu rausi og handleggja-burði.

"Hvað er nú til fyrirstöðu?" spurði læknirinn og snéri sér að litlu stúlkunni.

"Hún segist verða að þvo þau, klæða þau!"

"Það er nú ekkert áhlaupaverk", svaraði læknirinn, en eg verð víst að láta það gott heita."

Nú tók Mrs. Blazowski að búa börn sín í hinn mikilvæga leiðangur út í veröldina, og gekk ötullega að verki. Þvotturinn var brotalítið starf. Hún tók mikla rýju, með matarsoðinu í, upp úr bala, sem stóð á eldstónni hálf-fullur af óhreinu vatni, og með nokkrum diskum í, vatt hana vandlega og tók síðan að þvo hrúðrum-settar hendur og andlit barna sinna; henni fórst það fremur höndulega, og dífði rýjunni öðru hvoru í diska-balann til að bleyta í henni jafnóðum og hún þornaði. Að því búnu þerði hún þá líkamsparta, sem fullþvegnir voru, með skýluklút sínum. Þessu næst nældi hún skýlur á börnin, er þá voru ferðbúin, fékk þau Mrs. French í hendur, hágrátandi, eins og hún byggist aldrei við að sjá þau framar.

"Jæja, við sluppum sæmilega", sagði læknirinn og ók hart af stað. "Eg var að velta því fyrir mér, hvaða tökum eg ætti að taka gömlu konuna, þegar þér komuð til skjalanna."

"Aumingja manneskjan!" sagði Mrs. French. "Því þykir innilega vænt um börnin sín, þessu Galizíufólki, og það hefir illan bifur og óhug á okkur. Það hefir ekki átt neinu öðru en illu að venjast."

Þegar þau óku fram hjá húsdyrum Pálínu, kom Irma litla hlaupandi út.

"Mamma þarf endilega að finna yður", kallaði

hún til Mrs. French.

"Segðu henni að eg skuli koma til hennar í kveld", svaraði Mrs. French.

Hún vill finna yður núna," svaraði Irma með svo mikilli ákefð að Mrs. French hnykti við. "Stanzið þér augnablik, læknir. Eg ætla að vita, hvað gengur að. Þér skuluð ekki þurfa að bíða lengi."

Hún hljóp inn í húsið og litla stúlkan á eftir henni. Herbergið var fult af karlmönnum, sem stóðu þar hljóðir og undrandi, starandi á Pálínu, sem virtist vera yfirkomin af harmi. Hjá henni var og pilturinn Kalmar, mjög raunamæddur á svip.

"Hvað hefir komið fyrir " spurði Mrs. French og gekk rakleitt til Pálínu. "Segið mér það hiklaust."

Irma varð fyrir svörum. Snemma um morguninn höfðu þau öll farið til fangelsisins; þar biðu þau svo klukkustundum skifti, en var loks alveg neitað um inngöngu af fangavrði.

"Þar var fjarska harður maður. sem rak okkur burtu," sagði litla stúlkan. "Hann sagðist ætla að setja okkur inn líka. Við fáum aldrei að sjá pabba framar."

Þegar hún hafði sagt þetta, tók Pálína og bæði börnin að gráta ákaft.

"En dómarinn leyfði það, að þið mættuð sjá hann", sagði Mrs. French forviða. "Bíðið mín", bætti hún við.

Að svo mæltu hljóp hún út og sagði lækninum frá málavöxtum. í gremjurómi og fagurrauðir blettir voru sýnilegir á fölum vöngum hennar.

"Finst yður þetta ekki mesta háðung?" spurði hún að lokum.

"Og eg býst við, að þetta stafi af einhverjum fastákveðnum reglum, sem settar eru í fangelsinu," svaraði læknirinn.

"Fastákveðnar reglur", endurtók Mrs. French

með beiskju í röddinni, sem henni var þó ekki gjarnt til. "Eg ætla að fara beint til dómarans."

"Komið þér upp í vagninn", sagði læknirinn og dró að sér aktaumana.

"Hvert ætlið þér? Við skiljum ekki við þetta aumingja fólk svona," svaraði hún með tár í augum og grátstaf í kverkum.

"Nei, líklega ekki", svaraði læknirinn byrstur. "Við lendum líklega í annari rimmunni. Eg veit ekki hvert þér komið mér að lokum, en það er bezt að þér ráðið ferðinni. Við ökum þá líklega til fangelsisins."

Mrs. French hugsaði sig ofurlítið um. Við skulum fyrst fara með börnin á spítalann. Þaðan getum við farið til fangelsisins, og hitt Pálínu þar."

"Látum svo vera", sagði læknirinn, "segið þér þeim það þá. Eg geri eins og þér leggið fyrir."

"Þér eruð ágætismaður, herra læknir," og enn á ný færðist bros yfir andlit hennar.

"Eg trúi því að yður finnist það," svaraði hann. "Ef vorið væri ofurlítið nær, þá mundi eg komast allur á loft. Mér þykir gaman að þessu. Eg hefi ekki skemt mér jafnvel og nú, síðan í seinasta knattleiknum sem eg var í. Eg sé í anda afdrif fangavarðarins. Flýtið þér yðar nú."

Að klukkustund liðinni óku þau Mrs. French og læknirinn upp að fangelsinu. Þar fundu þau, við norðurdyrnar, sem kaldur Marz vindurinn gnauðaði á í forsælunni, Pálínu og börn hennar. Þau stóðu þar í hóp skjálfandi af kulda, uppburðarlítil og óframfærin, mjög útlendings-leg og einmana í sínum Galizíu-þjóðbúningi.

Bæði læknirinn og vinkona hans virtust verða snortin af meðaumkvun við að sjá einstæðingsskap þessara aumingja.

"Hann hlýtur að vera aumi þorparinn, þessi náungi, sem hér ræður húsum", sagði læknirinn.

"Honum hefði þó líklega verið óhætt að lofa þeim að standa í skjóli innan við hurðina. Eg ætla að finna höfuðpaurann að máli."

"Skelfing er þetta raunalegt," sagði Mrs. French. Læknirinn hringdi bjöllunni við dyrnar og bjóst til bardaga.

"Eg vil fá að tala við Mr. Cowan."

Dyravörðurinnn leit á uppburðarlitla hópinn á bak við lækninn og sagði: "Hér er ekki heimsóknartími um þetta leyti dags."

"Eg vil fá að tala við Mr. Cowan," endurtók læknirinn og hvesti augun á dyravörðinn. "Er hann heima?"

"Komið þér inn," sagði dyra vörðurinn ólundlega; hann hleypti svo lækninum og Mrs. French inn, en skelti hurðinni aftur rétt við andlitið á Galizíu-fólkinu.

Litlu seinna kom Mr. Cowan fram; hann var hár vexti og þreklegur, og vingjarnlegur bæði á svip og í framgöngu. Hann tók alúðlega kveðju læknisins og Mrs. French.

"Mig langar til að minnast á það við yður Mr. Cowan", mælti Mrs. French, "að hér úti fyrir bíður kona og börn mannsins, sem dæmdur var í gærdag. Dómarinn sagði þeim í gær, að þau mættu koma og sjá fangann."

"Heimsóknartíminn er síðari hluta dagsins," sagði Mr. Cowan.

"Gætuð þér ekki lofað þeim að koma inn núna? Konan er búin að bíða með börnin við fangelsisdyrnar svo klukkustundum skiftir; henni var þá neitað og fór hún alveg yfirbuguð af sorg. Hún skilur ekki okkar siði, og er óframfærin. Eg vildi óska að þér gætuð leyft að hún fengi að koma inn núna, meðan eg er hér stödd."

Mr. Crown hikaði ofurlítið. "Eg vildi mjög

gjarnan verða við tilmælum yðar, Mrs. French, það vitið þér gerla sjálfar. Setjist þér niður, eg skal sjá, hvað eg get gert. Hleypið konunni og börnunum inn," sagði hann við dyravörðinn.

Vörðurinn gekk til dyranna ólundarlega og Mrs. French á eftir.

"Komið hingað inn," sagði hann í höstum rómi.

Mrs. French flýtti sér fram hjá honum, tók í handlegg Pálínu og sagði: "Komið þér inn og setjist niður." um leið og hún leiddi hana að bekknum, sem hún hafði setið á sjálf. "Alt gengur vel", hvíslaði hún. "Eg er viss um að þér fáið að sjá manninn yðar. Segið henni það", sagði hún við Irmu.

Innan stundar kom Mr. Cowan aftur.

"Þau geta fengið að sjá hann," mælti hann. "Það er reyndar á móti reglunum, en það er býsna erfitt að standa á móti óskum Mrs. French," bætti hann við og snéri sér að lækninum.

"Það er alveg gagnslaust", sagði læknirinn, "eg hefi komist að því fyrir löngu."

"Komið þér", sagði Mrs. French og leiddi Pálínu að dyrum fangaklefans.

Fangavörðurinn snéri lykli, skaut slagbrandi frá, opnaði hurðina, benti Pálínu að koma og sagði ruddalega: "Farið inn!"

Pálína gægðist inn í fangaklefann, óframfærin og kvíðafull.

"Farið þér inn", sagði Mrs. French og klappaði blíðlega á öxlina á henni, "eg skal bíða yðar hérna."

Haldandi hvert í annað fóru börnin og konan inn, og fangavörðurinn skelti hurðinni á eftir þeim með dynjandi hávaða. Mrs. French settist niður á bekkinn úti fyrir, og sat þar niðurlút með aftur augun. Öðru hvoru heyrðist gegnum járngrindurnar stunur og grátekki, og þá fól Mrs. French andlitið í höndum sér, en tárin streymdu niður kinnar henni.

Meðan hún sat þarna var dyrabjöllunni hringt og tveir Galizíumenn beiddust inngöngu.

"Við erum komnir til að fá að finna Kalmar," sagði annar þeirra.

Mrs. French hljóp til dyranna. "Æ, lofið þér þeim að koma inn. Þeir eru vinir fangans. Eg þekki þá."

Maðurinn svaraði engu en skálmaði rakleitt inn á skrifstofu Mr. Cowan, sem var kominn í fjörugar samræður við læknirinn; að litilli stundu kom hann aftur og hafði fengið leyfi til að hleypa mönnunum inn.

"Þið getið sest þarna niður," sagði hann og benti þeim á bekk andspænis þeim, sem Mrs. French sat á.

Nú leið skömm stund áður fanginn kom að dyrunum á klefa sínum og kona hans og börn líka.

"Viljið þér gera svo vel og opna hurðina?" sagði hann kurteislega við fangavörðinn. "Þau vilja komast burtu."

Fangavörðurinn opnaði hurðina og Mrs. French stóð að baki honum með útrétta arma að taka á móti Pálínu, sem var grátandi. Um leið og hurðin var opnuð komu börnin fram, en á þrekskildinum nam Pálína staðar, leit aftur inn í klefann, þaut inn og fleygði sér til fóta fangans, grípandi hönd hans og kyssandi hana hvað eftir annað.

Hauu leyfði henni að halda í hönd sína ofurlitla stund, svo sagði hann með alvarlegri en ekki óþýðri röddu: "Farðu nú! Börnin eru í þinni ábyrgð. Vertu dygg."

Pálína stóð upp þegar í stað og gekk aftur til dyranna, þar sem Mrs. French beið hennar.

Í því þær fóru, snéri fangavörðurinn sér að mönnunum og sagði stuttaralega: "Komið þið."

En rétt þegar þeir voru að fara inn í fangaklefann, hljóp drengurinn frá Pálínu til Símonar

Ketzel, greip í handlegginn á honum og sagði: Lofaðu mér að koma inn með þér."

"Farðu", sagði fangavörðurinn, en drengurinn slepti ekki takinu.

"Æ, lofið þér honum að fara inn," sagði Mrs. French. "Hann gerir engum neitt." Fangavörðurinn tautaði eitthvað ólundarlega og leyfði drengnum að fara.

Aðkomumennirnir fóru inn alvarlegir og jafnvel með lotningarsvip, féllu á kné fyrir fanganum og kystu á hönd hans. Stundin var dýrmæt og margt þurfti að segja svo að Kalmar tók þegar til máls.

"Eg hefi gert boð eftir ykkur," mælti hann, "og það hefi eg gert í fyrsta lagi til þess að tjá ykkur skýrslu mína, sem þið verðið að senda til aðalskrifstofu félags okkar."

Hvað eftir annað hafði hann skýrsluna yfir fyrir þeim, unz hann var orðinn þess fullvís, að þeir myndu hana.

"Þessari skýrslu verðið þið að koma áleiðis þegar í stað," sagði hann.

"Já, hún skal verða send undir eins," svaraði Símon.

"Innan fárra vikna eða mánaða vonast eg til að verða frjáls," sagði hann lágt. Síbería hélt mér ekki, og getið þið þá ímyndað ykkur, að nokkurt fangelsi í þessu landi haldi mér? En skýrsluna verðið þið að senda strax."

"Hún skal verða send strax," svaraði Símon.

"En svo er annað," svaraði Kalmar alvarlega. Ekkert hnekkir framgangi félags okkar jafnmikið eins og ótrúmenska sendimannanna. Í þessari borg er einn slíkur svikari. Eg hefi unnið eið að því, að ráða hann af dögum, eða láta lífið að öðrum kosti. Ef mér mistekst, verð eg að fela það verk öðrum. Það er þessvegna, að eg hefi gert boð eftir ykkur.

Þið eruð báðir í Bræðrafélaginu. Hverju svarið þið?"

Mennirnir þögðu báðir.

"Svarið þið!" sagði Kalmar með lágri og alvarlegri röddu. "Eruð þið orðnir mállausir?"

Þeir þögðu enn alvarlegir og hryggir, lítandi hvor til annars.

"Neitið þið að vinna eiðinn? Látið mig heyra," mælti Kalmar.

"Herra minn," sagði Josef Pinkas ólundarlega, "við erum komnir hingað í nýtt land. Við höfum sagt skilið við alt þvílíkt um leið og við skildum við ættlandið. Á Rússlandi eiga ofbeldisverk rétt á sér, en ekki hér í Canada. Hér vinnum við ekki eið að manndrápum."

"Svínið þitt!" hvæsti Kalmar út úr sér með ósegjanlegri fyrirlitning. "Hversvegna komstu þá hingað? Burt með þig!"

Jósef hopaði undan útréttri hönd hans skelfdur. Kalmar þaut til dyranna og hristi hurðina.

"Þessi maður vill fara," sagði hann, þegar fangavörðurinn kom. "Hleypið honum út."

"En hinn?" spurði fangavörðurinn.

"Lofið þér honum að vera kyrrum augnablik," svaraði Kalmar og tókst með miklum erfiðismunum að tala rólega, eins og hann átti að sér.

"Nú, nú, Símon Ketzel," sagði hann og snéri sér að manninum, sem eftir var, "hverju svarar þú?"

Símon tók í hönd hans og kysti á hana.

"Eg er fús til að leggja fé mitt og líf í sölurnar. Eg er Rússi í mínu insta eðli," bætti hann við og lagði hönd á hjarta, "og eg get ekki gleymt löndum mínum, sem bera þrældómsokið. Eg vil hjálpa þeim til frelsis."

"Hamingjunni sé lof," sagði Kalmar. "Hlustaðu nú á mig. Þessi Rósenblatt hefir svikið okkur;

hann hefir valdið útlegð og dauða margra bræðra okkar og systra. Hann er enn á lífi. Hann ætti að deyja. Finst þér það ekki?"

"Jú, hann ætti að deyja."

"Eiðurinn hvílir á mér. Eg æskti þeirra einkaréttinda, að fá að framkvæma hefndina; mér voru veitt þau réttindi. Eg vona, að mér takist að efna heit mitt, en mér gæti mistekist. Ef mér mishepnast," bætti hann við og laut niður að Símoni Ketzel, en þá var því líkast, sem eldur brynni úr æðaþrútnum augum hans, "ef mér mishepnast", endurtók hann, "á hann þá samt að fá að halda lífi?"

"Mælist þú til að eg drepi hann?" spurði Símon með lágri röddu. "Eg á konu og þrjú börn. Ef eg drep þennan mann, þá verð eg að skilja við þau. Hvergi í þessu landi get eg þá átt sama stað. Hér er engrar undankomu von. Eg yrði að leggja byrði þessa verks á herðar barna minna, og vita að þau kæmust aldrei undan henni. Ætlast þú til að eg geri þetta? Vafalaust lætur guð hefnd sína ganga yfir þenna mann. Látum hann eiga sig, og felum guði hefndina."

"Láta hann eiga sig?" hvæsti Kalmar út á milli samanbitinna tannanna. "Hlustaðu á mig og segðu mér svo að láta hann eiga sig. Fyrir mörgum árum féll grunur á mig þegar eg var stúdent við háskólann, og án þess að mál mitt væri prófað fyrir rétti, lét hin grimma landstjórn varpa mér í fangelsi. Þegar eg var látinn laus aftur, gekk mér tregt að hafa ofan af fyrir mér. Bölvun stjórnar-grunsemdarinnar hvíldi á mér. Eg kvæntist göfugri konu, og um hríð lék alt í lyndi. Síðan gekk eg í leynifélagið. Eg átti einn vin. Hann hafði biðlað til konu minnar, en hún tók honum ekki. Einnig hann var ákafur framsóknar og frelsis-maður. Hann gerðist meðlimur félags okkar, og rækti hlutverk sitt þar svo vel, að honum var trú-

að fyrir hinum leynilegustu ráðagerðum vorum. Hann seldi þær stjórninni í hendur til að steypa mér í glötun. Félaginu var sundrað, meðlimir þess teknir höndum, vinur minn eins og aðrir settur í fangelsi og allir dæmdir í útlegð. En innan skamms var hann látinn laus. Eg slapp úr fangelsinu. Eftir það settist eg að í fjarlægum bæ við landamærin og hafði fastráðið að flýja þaðan af landi brott, með konu mína og tvö börn, sem við áttum, og var annað þeirra ungabarn. En þá komst hann að því, hvar eg var niður kominn, þessi vinur minn. Eg grunaði hann ekki. Eg sagði honum frá fyrirætlunum mínum. Hann bauðst til að hjálpa mér. Eg fékk honum í hendur féð til að múta með lögreglunni. Þá sveik hann mig á ný. Þegar við vorum ekin af stað, hrópaði hermaður á okkur að nema staðar. Eg drap hann og við héldum áfram með miklum hraða, og rákumst þá á annan hermann. Við hlupum úr sleðanum og snérum inn á skógarbraut nokkra. Við áttum að eins eftir að komast eina mílu. En þar var um marga stíga að ræða. Hermennirnir eltu okkur í ófærðinni og skutu á okkur. Ein kúlan leitaði sér staðar í brjósti konunnar minnar! Æ, drottinn minn! Eg á bágt með að ryfja þetta upp. Hún hné niður í snjóinn með barnið í fanginu. Eg varpaði mér niður við hlið hennar. Hún leit upp til mín og brosti. "Eg hefi þá loksins fengið frelsi." sagði hún. "Vertu sæll elskan mín. Yfirgefðu mig — en komdu börnunum — þangað sem frelsið ríkir." Eg veitti henni nábjargirnar, huldi líkið í snjómjöllinni, flýði í gegnum skóginn og komst þrekaður og kalinn yfir landamærin og var nú úr allri hættu. Eg skildi börnin eftir í vina-höndum og snéri aftur til að sækja lík konu minnar. Eg fann blóðdrefjar í snjónum, og ekkert nema beinin." Hann fól andlitið í höndum sér, eins og hann vildi byrgja augu sín fyrir þessari

hræðilegu sjón; því næst sló hann frá sér höndunum, snéri sér að Símoni og hvesti á hann augun. "Hvað segirðu nú? Á eg að láta hann eiga sig?"

"Nei," sagði Símon, og greip um báðar hendur hans. "Nei, það veit guð almáttugur! Nei! Hann skal deyja!"

Kalmar hnepti frá sér skyrtuna og dró úr barminum lítinn kross.

"Viltu vinna eið að því frammi fyrir guði og öllum helgum mönnum, að þú skulir taka við hefndinni, ef mér mistekst hún?"

Símon hikaði við. Í þessu hljóp drengurinn fram, greip krossinn af föður sínum, þrýsti honum að vörum sér og sagði hátt: "Eg sver við guð og alla helga menn að gera það."

Faðir hans hrökk við og horfði um hríð undrandi á son sinn: "Hvað segirðu drengur?" mælti hann því næst. "Þú veist ekki, hverju þú ert að lofa."

"Jú, eg veit það pabbi: Það var hún móðir mín, sem þú skildir við í mjöllinni. Einhverntíma skal eg drepa hann."

"Nei, nei, sonur minn," sagði faðir hans og greip hann í fang sér. "Þú ert sannur sonur foreldra þinna. Þú átt ríkar tilfinningar og mikið hugrekki, en þessi eiður skal ekki hvíla á þinni sál. Nei, annaðhvort skal hann deyja fyrir minni hendi, ellegar vera órefsað."

Því næst þagði hann stundarkorn, lét höfuðið síga niður á bringu og mælti síðan:

"Nei, Símon hefir rétt að mæla, þetta er nýtt land. Hér verður að lifa nýju lífi. Látum hið umliðna deyja með mér. Þú átt enga hlutdeild í þessari deilu. Hún tekur ekki til þín."

"Eg ætla að drepa hann", svaraði drengurinn þrákelknislega, "eg hefi unnið eið að því. Það var móð-

ir mín, sem þú skildir við í mjöllinni. Einhverntíma skal eg drepa hann."

"Látum svo vera, sonur minn", svaraði faðir hans og vafði hann að sér. "Það er bezt að við fylgjumst að málum. En guð veit að fyrstu heimild á honum hefi eg. Þegar hönd mín er stirðnuð og eg er genginn veg allrar veraldar, þá en fyr ekki, mátt þú taka að þér hefndina. Heyrirðu hvað eg segi?"

"Já, pabbi", svaraði drengurinn.

"Og viltu lofa því?"

"Eg lofa því."

"Vertu þá sæll, sonur minn. Það eru þung örlög, sem við eigum við að búa. Það er raunalegur arfur sem eg skil þér eftir!" Hann lét sig falla niður á bekk, þrýsti drengnum að sér og sagði með grátstaf í kverkum: "Nei, nei, hefndin skal ekki lenda á þér. Eg skal létta af þér þeirri byrði. Eg vil að þú lifir nýju lífi í þessu nýja landi. Eg vil ekki að neinn skuggi hins umliðna hvíli á þér." Enn á ný þrýsti hann drengnum að sér með innilegum faðmlögum. "Vertu svo sæll, sonur minn! Æ! sárt er það drottinn minn, ef eg á líka að þurfa að sleppa öllu tilkalli til þín. Æ! hér sé eg hennar andlit, og hennar augu. Á þetta að verða í síðasta sinni, sem við sjáumst? Skelfing geta örlögin verið þungbær!" Hann réri fram og aftur, en sveinninn hélt sér fast um hálsinn á honum. Sonur minn, sonur minn; nú líður að skilnaðarstundinni. Vertu vongóður og hugprúður. Eg skyldi gefa þér þetta", bætti hann við og tók smámyndina úr barmi sínum, "en hún er það eina, sem eg á eftir. Þegar eg dey, skal eg senda þér myndina. Eg fel þér að sjá um systur þína. Þegar þú ert orðinn fullorðinn, þá skalt þú láta þér skylt að vernda hana. Farðu nú. Vertu sæll!"

Fangavörðurinn kom að dyrunum í þessu "Komið nú. Þið verðið að fara. Tíminn er

kominn," bætti hann við hranalega.

"Tíminn er kominn", sagði faðir hans, "og allur ókominn tími, er mér gagnslaus með öllu! Vertu sæll sonur minn!" bætti hann við og kysti hann. "Þú mátt til að fara. Við verðum að skilja. En blygðastu þín aldrei fyrir hann föður þinn, þó að hann kunni að deyja í fangelsi, ellegar útlegð."

Sveinninn hélt sér fast um háls föður síns og grét með miklum ekka.

"Sonur minn, sonur minn", sagði faðir hans, "léttu undir byrðina með mér!"

Sveinninn skildi strax, hvað fólst í þessari innilegu ósk. Hann slepti takinu með annari hendi, strauk henni niður eftir vanga föður síns og samstundis rénaði grátekki hans. Um leið og hönd sveinsins snerti kinn Kalmars, rétti hann úr og losaði hönd sonar síns af hálsi sér.

"Sonur minn", sagði hann rólega, "við verðum að bera okkur karlmannlega. Menn af okkar ætt, ganga ekki þannig móti dauða sínum.

Jafnskjótt slepti sveinninn takinu af hálsi föður síns og stóð uppréttur og rólegur og horfði athugull á yfirlitsdökka andlitið á föður sínum, bíðandi eftir næstu skipun. Faðir hans benti honum til dyranna.

"Nú kveðjumst við", sagði hann stillilega. Því næst laut hann niður og kysti son sinn alvarlega og innilega, fyrst á munn og svo á enni. Þessu næst gekk hann með honum yfir að dyrunum.

"Við erum búnir," sagði hann við fangavörðinn, sem stóð langt frá.

Sveinninn fór út úr klefanum, og rétti Pálínu, sem beið hans, höndina.

"Símon Ketzel, vilt þú líta eftir drengnum mínum?" spurði Kalmar.

"Já, herra og bróðir", svaraði Símon, "eg legg

mitt líf við líf barna þinna." Hann féll því næst á kné, kysti á hönd fangans og fór út.

Þetta sama kveld var nafn Michaels Kalmars ritað á skrá fangahúss fylkisins, og hann varð að beygja sig undir hin þungbæru æfikjör, er hann átti nú í vændum. Nú hætti hann að geta heitið maður; hann varð mann-dýr, sem smá-harðstjórar ráku áfram; hann var dæmdur til að þræla endurgjaldslaust, til að segja skilið við alt það, sem gerir mannsæfina yndislega, til að vera sviftur því að njóta heilnæms andrúmslofts og sólarljóss guðs, hann var dæmdur til niðurlægingar, sem vonlaust var um að geta nokkurn tíma komist úr. Framundan sá hann fjórtán löng seigpínandi þjáningar-ár, þar sem grimmileg gnægð tómsins bauðst til að æsa sálu hans, með endurminningum hamlaðrar hefndar, með skelfilegum kvíða út af framtíð þeirra, sem honum voru kærir, og með örvæntingu um úrslit þess máls, sem hann hafði helgað alt sem hann átti.

---

## XI. KAPÍTULI.

### *Systkinin.*

Áður en sumarið var á enda, var enn á ný vakið athygli Winnipegbúa á útlendingahverfinu, við brotthlaup rússneska fangans Kalmars úr fangelsi fylkisins. Það reyndist auðvelt manninum, sem brotist hafði úr Síberíu-vistinni og undan gæzla fangavarða þar, að sleppa úr fangelsi í Canada. Það varð augljóst, að hann hafði átt sér hjálparmenn, en hitt komst aldrei upp, hverjir þeir hefðu verið. Grunur féll svo sem að sjálfsögðu á þá Símon Ketzel og

Jósef Pinkas, en eftir að ítarleg próf höfðu verið haldin yfir þeim, voru þeir látnir lausir, og yfir þetta fyrntist þegar frá leið, og alt fór að ganga sinn vanagang í Winnipeg. Allar stéttir voru jafn-blindar fyrir því, að svið háskasemda óx í þeirra ungu borg, þær gleymdu útlendingahverfinu, áhugamálum og þörfum íbúanna þar. Þann vitnisburð áttu fésýslumennirnir, þeir sem meiri háttar voru, og lögðu sig alla fram um að koma efnahag sínum á fastan fót aftur eftir góðærið. Sama var að segja um hina smærri fésýslumenn, sem voru að leggja undirstöðu undir væntanlega auðlegð. Eins fór kvenfólkinu, bæði því, sem hinni mikilsvirtu höfðingja-klíku tilheyrði, og kvenfólki, sem utan hennar var, en keptist við með bænum og fjárframlögum eða harðneskjubrögðum að hafa sig inn í klíkuna; og sama mátti segja um enn aðrar konur, er létu sér öldungis á sama standa, hvort þær áttu heima í klíkunni eða ekki, af því að þær voru sjálfum sér nógar. Og enn var eins ástatt um kirkjufólkið, þrátt fyrir alla mannúðarstarfsemi þess og trúarlífsfjör, sem birtist í kappi þess að safna í sínar ólíku réttir, öllum þeim villuráfandi sauðum og óskilakindum, er þyrptust í borg þeirra, frá öllum löndum heims.

En meðan þessu fór fram, kom sumar á eftir vetri og vetur á eftir sumri; mánuðir og ár liðu, og útlendingahverfið óx að íbúatölu, en auðlegðin í því ekki að sama skapi. Auðsafnið gekk hægt, vegna þess, að þegar einhver einstaklingur fór að græða fé, fluttist hann burtu úr hverfinu, til að eignast sjálfstætt heimili í nýlendum þeim, er stjórnin var að koma á stofn í hinum eyðilegu og afskektu héruðum landsins; það kunni og að verða, ef einhverjum slíkum manni hugnaði vel borgarlífið og fésýsluhættir, að hann legði af sinn útlenda klæðaburð, útlendu tungu og venjur, félli frá sínum útlendu hugsjónum,

slíkt hið sama, og gerist canadiskur borgari, þekkjanlegur að eins frá hinum öðrum heimsborgurum, samlöndum sínum, á því, að hann átti ofurlítið örðugt með að bera rétt fram suma samhljóðendur þjóðtungunnar.

Einn þeirra manna var Símon Ketzel. Hann hafði numið trésmíðariðn og fengið allgóða undirbúningsmentun í ættlandi sínu. Enn fremur var hann hagsýnn fésýslumaður og tók að gefa sig við starfsmálum af kappi, og með býsna auðsæum árangri. Það létti og meir en lítið undir með Símoni, að hann hafði átt því láni að fagna að eignast þrifna og nýtna konu, er hélt í það, sem hann vann sér inn, og hafði gætur á honum, þegar hann fór í veizlur. Hún sýndi svo mikla hagsýni og sparsemi, að áður langt leið, sannfærðist Símon um, hvað sú stefna, er hún fylgdi, var hyggileg, og gerðist sjálfur samhaldssamur, reglusamur og efnaður Canadamaður, og stóð hvergi á baki þeim, sem mest kvað að í þeim efnum.

Reglusemi sína og staðfestu, átti Símon hvað mest að þakka sinni hagsýnu og sparsömu konu, en hitt, hvað hann hafði fljótt lært canadiska tungu, átti hann einkanlega litlu dóttur sinni Margrétu að þakka. Af Margrétu hafði hann lært ensku þá er hann kunni, á kveldin, þegar hún sat við að læra lexíurnar sínar. Það var Margrét, sem komið hafði heim með myndablöð og bókasafns-bækur frá litlu meþódista-missíóninni, skamt frá heimilinu, og hafði þannig vakið löngun hjá honum til enskunáms. Það var Margrét, sem hafði fengið bæði Símon og Lenu, konu hans, til að sækja með sér samkomur í sunnudagaskólum og kirkjum. Og þannig áttu Ketzelshjónin Margrétu að þakka, að þau komust inn í canadiskt samkvæmislíf, lærðu canadiska siði, og kyntust beztu tegund canadiskra trúarbragða.. Og Margrétu litlu var það ennfremur að þakka, að þau

mikilvægustu áhrif, sem til eru í Canada, áhrif skóla og missíónar, náðu inngöngu í huga og heimilislíf Ketzels-hjónanna. Og þegar fram liðu stundir, tóku að breiðast út frá heimili Ketzels, sem orðið var regluheimili, heiðvirt og canadiskt, yfir til menningarsnauðu híbýlanna í grendinni, heilnæmir siðmenningarstraumar, sem mikill og góður árangur varð af, hvar sem þeir náðu til.

Einn þeirra strauma komst inn á heimili Pálínu, og hafði hún og fjölskylda hennar mikið gott af. Aftur þar var það Margrét litla, er fleytti þangað hinum nýju lífsstraumum, því að hvorki Lænu eða Símoni hafði hepnast að hafa nokkur áhrif á Pálínu. Hún var of daufgerð, kærulaus, vonlaus og tortrygg, til þess að Ketzel-hjónin fengju náð trúnaði hennar. En þó svo hefði ekki verið, þá var hún of önnum kafin við sín daglegu störf, til þess að hún fengist til að sinna nokkuð þeim málaflutningi, sem þau hjón fóru með. Meðal annars af því, að Rósenblatt var enn ráðsmaður á heimilinu. Honum hafði tekist, að ná veðláni því, er hvíldi á húsi hennar, í sínar hendur, með þeim hætti, sem honum var sjálfum kunnugast. Hann var því lánardrottinn hennar, og leigði henni herbergið, sem hún bjó í með börnunum, og há var leigan, sem þau öll urðu að greiða með daglegu striti og stríði. Með því að Rósenblatt hafði náð á Pálínu þessu tangarhaldi, vildi hann ekki sleppa henni. Hann hafði of mikinn hagnað af vist hennar til að vilja það. Hún var hraust, þolgóð og vinnugefin og var myrkranna milli sívinnandi, við brauðgerð, þvotta og því um líkt, og stóð í stöðugri baráttu, sem aldrei virtist ætla að taka enda, við óóþrifnað og hungur; fyrir hinum fyrnefnda óvini varð hún að lúta í lægra haldi, en bar hærri skjöld í viðureigninni við hinn. Með sjálfri sér hafði hún óljósa hugmynd um að einhvers konar ranglæti væri

beitt gagnvart sér; en þegar Rósenblatt veifaði framan í hana ægilegu lögfestu skjali, og lét Samúel Sprink, ungan og sniðugan skrifara sinn, þýða efni þess fyrir henni, þá féll henni allur ketill í eld, og beygði þá sínar sterku hendur undir byrðina, sem hún hlaut að bera, og gerði það með ósviknu slafnesku forlagatrúar-kæruleysi. Hvaða gagn var henni líka að því að mögla? Hvaða manneskja í borginni mundi verða til þess, að leggja liðsyrði, fátækri og fávísri Galizíu-konu, sem ekki hafði þá heldur mannorðinu fyrir að fara. Mörg göfuglynd mannúðarfélög voru í Winnipegborg að vísu, en engin þeirra höfðu að svo komnu hirt um að skifta sér af óþrifnaði, sjúkdómum og spilling þeirri, er heima átti í útlendingahverfinu. Í borginni voru margar kirkjudeildir, er mikið og gott starf unnu; þær kusu nefndir til að líta eftir högum manna og gefa skýrslur yfir starf sitt; en engri þeirra nefnda hafði sérstaklega verið falið, að kynna sér ástæður hinna ógæfusömu, hartþrengdu, óþrifnu útlendinga, sem heima áttu við borgarhliðin, og gefa skýrslur þar um.

Jú, að vísu var ein slík nefnd til. Meþódistamissíónin hafði eignast slíka nefnd. Sú nefnd var að ýmsu leyti merkileg. Ekki gerði hún sér vonir um neina stórfengilega umbóta-bylting alt í einu. ekki voru nefndarmennirnir heldur með neinn óþarfa tepruskap; þeir báru ekki ilmvatns-stökta vasaklúta fyrir vitum á rannsóknarferðum sínum (nefndin var alls ekki mjög lyktnæm), og í henni var heldur ekki nema einn maður, meþódista-trúboðinn eins-mannsnefnd aðallega, og einskis aðstoð varð honum happadrýgri, en Margrétar Ketzel.

Það var Margrétu Ketzel að þakka, að Parsons komst í náinn kunningsskap við Pálínu, á þann hátt að hann náði vináttu og trausti Irmu litlu. Þó að Margrét væri yngri og óreyndari, gat Irma ekki ann-

að en dáðst að henni og undrast framfarir hennar. Irmu hlaut að finnast mikið til um hvað þessi unga vinstúlka hennar talaði vel ensku, hvað hún var vel að sér í bóklestri, hvað hún var vel siðuð, hvað hún átti snoturt og þrifalegt heimili, hvað canadiski búningurinn hennar fór vel, hvað hún átti gott á skólanum, hvað skemtilegt var missíónar-starfið hennar, því að alt þetta var Irmu sjálfri lítt kunn nýjung. Smátt og smátt barst hún inn í þá nýju veröld, sem Margrét var komin í, — barst þangað út úr óþrifnaðar- og óreglu-eymdinni, sem ríkti á heimili hennar sjálfrar.

Eftir mikla ráðagerð við Ketzel-fólkið, og eftir langa og kænlega umleitun og undirbúning af hálfu Lenu, sem sýndi Irmu móðurlega umhyggjusemi, rann loks upp hinn mikli dagur fyrir henni. En það var í þennan tíma, er hún lagði niður skýluklútinn og hinn annan einkennilega Galizíu-búning sinn, og bjóst búningi canadiskra stúlkna. Öllum vinkonum hennar var augljóst, að hún var miklu fallegri, eftir búnings-skiftin, þó að hún sjálf gerði sér ekki enn fulla grein fyrir því. Að minsta kosti sáu menn nú að hún hafði einkennilegan fríðleik til að bera, sem fæstir eða engir höfðu tekið eftir áður. Einn þeirra, sem eftir þessu tóku, var Samúel Sprink. Þegar hann kom heim á kveldin, að háma í sig matinn, og lét augu hvarfla af diskinum, að þessari ungu stúlku, sem með lipurð og kvenlegri mýkt, hreyfði sig um herbergið, gat hann ekki annað en stórfurðað á þeirri breyting, sem orðið hafði á þeirri subbulegu, tötrabúnu og hálzti óþrifnu stúlku, sem áður hafði þjónað honum til borðs. Í fyrsta sinni sem hann sá hana, eftir að hún hafði skift um búning, lagði hann frá sér hníf og matkvísl og gleymdi um drykklanga stund, rjúkandi kjöt-kássunni fyrir framan sig, sem hafði þó kitlað þefnæmi hans einkar þægilega, góða

stund áður, með sínum lauk-þrungna ilmi. Hinum öðrum matfélögum hans varð og verkfall við snæðinginn, er þeir sáu hina ungu og álitlegu stúlku svífa fram hjá, og hjá þeim tók fyrir megna matarlystina í bili.

En engan furðaði þó meir á breyting þeirri, sem á Irmu hafði orðið, né kom hún meir á óvart, en Rósenblatt sjálfum. Hún varð honum töluvert áhyggjuefni. Hann fékk hugboð um, að þetta væri upphaf að lausn úr ánauð, er svifti hann þegar minst varði þrælum sínum. Við því mátti búast, að Pálína lærði líka þessa nýju siði; þá myndi bæði hún og stúlkan, er nú unnu í hans þjónustu baki brotnu, fara að heimta laun fyrir starfa sinn. Hann varð gramur við þá tilhugsun. En þó var það annað, sem honum sárnaði enn meir. Pálína og fjölskylda hennar mundu komast að raun um, að þau þyrftu ekki framar að óttast hann; þau mundu sjá, að þau kæmust af án hans, og þau mundu brjótast undan oki hans og umráðum. En því kveið Rósenblatt meir en öllu öðru. Honum fanst, það mundi verða mikill sneiðir æfiunaðar síns, ef hann yrði sviftur valdinu, til að kúga og niðra konu og börnum mannsins, sem hann hataði óslökkvandi hatri. Hann hafði elst svo árum skifti á þeirri óttalegu stundu, sem hann lá bíðandi eftir því, að uppreiddur hnífur óvinar hans stingi úr honum augun. Þegar hann raknaði við aftur eftir það, fann hann á sér augljós ellimörk, að hann var þróttminni, taugaveiklaðri, en þó miklu þyrstari í hefnd, heldur en áður. Síðan Kalmar slapp úr fangelsinu, gekk hann í sífeldum ótta um það, að þessi óvinur sinn mundi veita sér tilræði á ný, og ekki mishepnast í það skifti; með brennandi ákafa setti hann ráð til að koma fram hefnd sinni fyrir þann tíma, því að honum fanst að þá mundi dauðinn að miklu leyti verða sviftur broddi sínum. Enn sem

komið var hafði honum ekki tekist að koma fram hefnd sinni, nema að nokkru leyti. Pálínu og Irmu hélt hann að vísu í heimilis-ánauð. Frá sveininum Kalman fékk hann einnig á hverjum degi allan þann ágóða, sem honum innheimtist af blaðasölu á strætum borgarinnar. Lengra komst Rósenblatt ekki að svo stöddu. Honum reyndist ókleift að þröngva Pálínu til hinni fyrri háttabrigða og leigja vistatökumönnum svefnherbergi sitt. Við dyrnar á því stóð hún á verði og bannaði öllum inngöngu. Einusinni þegar Rósenblatt hafði þröngvað sem mest að henni, og krafist þess að verða hleypt inn, hafði hún rokið framan að honum með beittan búrhníf í hendi, með svo mikilli bræði, að hann flúði út. Því að hann var hræddur um líf sitt. Hún var ekki framar ambátt, sem þoldi hvað sem vera skyldi, heldur kvenmaður, sem bar hönd fyrir höfuð sér, og varði með óargadýrs grimd, ekki að eins sæmd sína, heldur einnig mannsins síns og barna sinna.

Aldrei eftir þetta reyndi Rósenblatt til að brjótast inn í herbergi hennar, en lét sér nægja að bíða betri tíma, og öruggara færis til að koma fram hefnd sinni. Fram að þessum tíma hafði hann litið á Pálínu og börnin með kæruleysi og lítilsvirðing, en eftir þetta fékk hann á þeim hið mesta hatur. Hann hataði þau öll; hann hataði konuna, sem hann hafði kúgað til undirgefni, en þó hamlaði honum, að koma fram hefndum; hann hataði sveininn, sem færði honum centin, er hann hafði unnið sér inn, með því að standa skjálfandi úti í vetrarkuldanum á horni Aðalstrætis og Portage, en rétti skildingana að honum með reiðisvip og óttalausu augnaráði; loks hataði hann stúlkuna, sem hafði verið feimin, fákæn og illa til fara, eins og börn Galizíufólks voru vön að vera, en hafði svo skyndilega breyst, og orðið að fagurri og álitlegri ungmeyju, eins og allir hlutu að taka eftir.

Því var sízt að undra, þó að hann væri áhyggjufullur, er hann varð var við þá fegurð og yndisleik, sem hún hafði til að bera. Hún virtist þegar vera hafin upp yfir hann og hans líka, og gengin honum úr greipum fyrir fult og alt. Hann hét því með sjálfum sér, að hann skyldi finna einhver ráð, til að lækka hana á fluginu, og draga hana ofan í skarnið aftur. Því hærra sem hún hefði hafið sig, þeim mun meira skyldi fallið verða og þeim mun sætari hefnd hans.

"Hvað gengur að yður, húsbóndi? Eruð þér að verða áhyggjufullur aftur"

"Hún er orðin býsna snotur og fjörleg stúlka, hún Irma okkar", hélt Samúel áfram. Hann var upp með sér af því, hvað hann var orðinn orðfær í enskri tungu. "Hún fer að verða kvennablómi, regluleg sól hér í hverfinu."

Rósenblatt hrökk við þegar hann heyrði þetta. Honum brá ekki eins við orð Samúels, eins og við að sjá aðdáunina í svip hans og honum flaug strax nýtt ráð í hug. Hann þekti skrifara sinn vel. Honum var kunnugt um metnaðargirnd hans, ómettanlegu ágirnd, geysimikla sjálfsálit og járnharða viljaþrek. Hann hafði gildar ástæður fyrir skoðun sinni.

Þrívegis hafði honum tekist á umliðnu ári að hafa kauphækkun út úr Rósenblatt. Þó að Samúel Sprink væri ungur og ekki mjög veraldarvanur, var hann þó eini maðurinn í borginni, sem Rósenblatt hafði beig af. Ef Samúel næði nokkru tangarhaldi á hinni ungu stúlku, mátti ganga að því vísu, að hann drægi hana niður í skarnið.

Eftir að hún væri á annað borð komin á vald Samúels, mátti ganga að því sem vísu, að hún yrði innan skamms áþekk öðrum Galizíukonum. Að vísu var hún ekki nema á fimtánda ári, en að ári liðnu mundi hún vera komin á giftingaraldur, eftir þeim siðvenjum sem tíðkuðust hjá Galizíufólki.

Alt þetta flaug Rósenblatt í hug um leið og hann snéri sér að Samúel Sprink og sagði: "Já, það er satt, hún er lagleg stúlka. Eg hefi aldrei tekið eftir því fyrri. Það er líklega þessum nýja búningi hennar að þakka.

"Nei, enganveginn," svaraði Samúel. "Fallegur búningur er reyndar vel fallinn, til að gera fríðleikann meir áberandi, en stúlkan sjálf er ljómandi falleg. Eg hefi orðið þess var fyrir löngu. Gefið þér henni vandlegar gætur. Hún er yndisleg — reglulegur Paradísar-fugl. Finst yður ekki?"

"Hún mundi verða enn eigulegri í búri eftir dálítinn tíma. Haldið þér það ekki, Samúel?"

"Jú, það segið þér dagsatt!" svaraði hann.

"Þá vil eg ráðleggja yður að fara að láta smíða búrið," sagði Rósenblatt. "Það er nóg af fuglavinum hér í borginni."

Samúel virtist ekki geðjast að þessari ágizkun; hann hreytti út úr sér einhverjum enskum blótsyrðum og þagði svo.

Irma hlustaði á, en skeytti samtalinu lítið. Hún var hrædd við Rósenblatt en fyrirleit Samúel Sprink. Það var sú tíðin, að bæði hún og Pálína höfðu dáðst að honum einlæglega. Samúel Sprink var að ýmsu leyti ekki óálitlegur. Hann hafði altaf nóga peninga á reiðum höndum, og það orð fór af honum, að hann væri samhaldssamur og gróðamaður. Hann var örlátur á gjafir við ungu stúlkurnar, en satt bezt að segja, kostuðu þær gjafir hann ekki mikið, af því að hann var skrifari í búð Rósenblatts. En auk þess var hann laginn á að beita sér; hann kunni vel ensku og hafði á sér snið og látbragð Canadamanna; hann var sjálfur með hrokkið gljáandi hár, með gullstáss, sem leit út fyrir að vera egta, og falleg hálsbindi. En það var áður en Irma kom á missíonarsamkomurnar, að hún hafði þetta mikla álit á Samúel Sprink,

og áður en hún hafði fengið nokkra verulega viðkynningu af lifnaðarháttum Canadamanna, áður en hún hafði þekt Canadamenn sjálfa, framkomu þeirra og klæðaburð; en alt þetta varð hún áskynja um vegna kunningsskapar síns við Margrétu Ketzel og foreldra hennar. Því meir sem þekking hennar óx í því efni, þeim mun meir minkaði álit hennar á Samúel Sprink.

Þessi þekking varð til þess að fullkomna skoðanaskifti Irmu, og þó að hún gengi að verkum sínum innan húss með fúsleik og gleðibragði, þá ól hún í brjósti ótta, andstygð og fyrirlitningu á biðli sínum og sjálfkjörnum verndara. Um það var Samúel þó ókunnugt. Hann varð þess að eins var, að hún hafði tekið upp nýja siði, um leið og hún skifti um búning, en það þótti honum ekki nema eðlilegt, þar sem hún var orðin miklu eldri, því nær fulltíða stúlka á mælikvarða Galizíumanna. En hvað svo sem breytingunni hafði valdið, þá hafði hún að eins gert stúlkuna enn álitlegri í augum Samúels, og hann hafði nú tekið að íhuga rækilega, hvort ekki mundi hyggilegt fyrir hann, að verja nokkru af tómstundum sínum og starfsþreki, til að ná ástum þessarar fögru meyjar, jafnvel þó að hún væri heimanfylgjulaus.

Það kom Samúel aldrei til hugar, að sú tilraun gæti mistekist. Hann hafði tröllatrú á áhrifum sínum og glæsimensku. Hann var að eins um það að hugsa, hvort hann ætti að draga sig eftir stúlkunni fyrir alvöru eða ekki. Samúel afréð samt ekkert í þessu efni, né gerði neitt í því heldur, en lét sér nægja að hugsa þetta svona öðru hvoru. En það fór gersamlega með sálarþrek hans og sjálfsmetnað! Dagleg návist hinnar ungu stúlku, er tekið hafði upp canadiska siðu, sem virtust hafa orðið samferða búninga-skiftunum, hrakti hann úr rólegri höfn, út í ólgusjó, þar sem hann barst fram og aftur fyrir vind-

hviðum tilfinninganna og varð honum það ástand bæði undrunar og auðmýkingar-efni. Samúel, sem bæði var sérgóður og fullur sjálfsálits, fanst þetta óþolandi særingarlegt; eftir að hann hafði borið þetta auðmýkingar-mótlæti um nokkra mánuði, var hann reiðubúinn að þiggja hjálp, svo að segja, hvaðan sem hún kæmi.

Rósenblatt hafði veitt Samúel nákvæma athygli, og þegar hér var komið, skarst hann í leikinn.

"Heyrið þér, Samúel minn, þér hegðið yður eins og flón," sagði hann eitt kveld um veturinn, eftir að búið var að loka búðinni "Þér látið slafnesku stelpuna fara með yður í gönur."

"Eg geri þó verk mín alt að einu," tautaði Samúel.

"Satt er það, Samúel, dagsatt. En þó sárnar mér yðar vegna og eg líð önn fyrir yður."

Samúel nöldraði eitthvað á móti. Hann var fús á að viðurkenna fyrir manni, sem hann hafði snúið á oftar en einu sinni, að hann hefði beðið lægra hlut, jafnvel að nokkru leyti.

"Yður langar til að ná ástum þessa stúlkukrakka, Samúel, en þó eruð þér hræddir við hana."

Samúel fussaði og bölvaði.

"Þér gleymið því, að hún er Galizíustúlka."

"Hún er rússnesk", svaraði Samúel, "og af góðum ættum."

"Góðum ættum," hvæsti Rósenblatt út á milli tannanna, eins og grimmur hundur, "góðum ættum! Hún er komin af níhilista, morðingja, tugthúslim!"

"Hún er af göfugum rússneskum ættum", svaraði Samúel illilegur á svip, "og hver sem því neitar er lygari."

"Látum það gott heita", sagði Rósenblatt og lét útrætt um það atriði, "en hún er Galizíu-stúlka að öllu öðru leyti. Móðir hennar var Galizíu-kona,

mentunarlaus Galizíu-kona, en þér umgangist stúlkuna eins og hún væri hefðarmey. Það er ekki venja að biðla þannig til Galizíu-stúlku. Það er óhjákvæmilegt að ganga djarflegar að verki. Þér verðið einhverntíma auðugur maður. Hvað hefir hún til síns ágætis þessi stúlka, sem engan á að og engan heimanmund hefir að bjóða, að þér þurfið að standa skjálfandi og hikandi frammi fyrir henni? Segir ekki spakmælið gamla: Bein skal hundi bjóða, en berja á konunni!"

"Jú, það kann satt að vera," tautaði Samúel, "að rétt sé að berja á konum, og ef hún væri orðin konan mín, þá skyldi eg lægja í henni rostann."

"Hí, hæ, skríkti í Rósenblatt, "það gerir engan mun, hvort heldur er unnusta eða eiginkona. Þær eru því að eins viðráðanlegar, að þær fái hirtingu við og við. Þér eruð ekki þess háttar maður, sem á að þurfa að vera lengi vonbiðill bláfátækrar slafneskrar stelpu,. ungur maðurinn og efnilegur, fríður og fjáður. Það er óþarfi af yður að lítillækka yður svo. Sækið þér í yður veðrið, og verið aðgöngudjarfari. Eg skal fúslega rétta yður hjálparhönd."

Fyrsti árangurinn af hvatningarráði Rósenblatts varð sá, að Samúel gerðist djarfari en hann hafði verið; en kjarkur hans hafði lamast, og um leið komist ólag á skapsmunina. Hann fastréð að vera framvegis öruggari í einkamála-eftirleitaninni, heldur en hann hafði verið. Hann ætlaði ekki framar að lítillækka sig. Hann þóttist viss um, að sér mundi takast að ná því haldi á stúlkunni, að hún sýndi sér enga mótspyrnu.

Samúel veittist þægilegt færi til að framfylgja þessari fyrirætlun sinni, því að litlu síðar var helg haldin hátíð dýrðlings nokkurs. Fólkið í útlendingahverfinu rækti vel trú sína í þeim efnum. Engin tölug tunga hefði getað komið Galizíumanni, til að

ganga að reglulegum störfum á degi, sem kirkja hans hafði ákveðið helgan. Að morgni hvers slíks dags, lögðu allir af stað úr útlendinga hverfinu, sem töldu sig til grísk-katólskrar kirkju, og gengu í fylking til einkennilegu litlu kirkjunnar sinnar, er komið hafði verið upp, og vígð hafði verið, af erkibiskupi nokkrum, sem komið hafði við í Winnipeg á ferðum sínum. Þar hlýddu þeir tíðum sem framdar voru með margbrotnu formi, og gerðu það með miklum guðsótta. Að lokinni guðsþjunustu var haldið áfram að halda daginn hátíðlegan með nokkru hávaðasamri hætti.

Eftir því sem hverfið stækkaði, höfðu ný hús verið reist, sem miklu sjálegri voru, en hús Pálínu, en þó hélt heimili hennar áfram að vera miðstöð samkvæmislífsins, einkanlega sakir áhrifa Rósenblatts, því að enginn maður stóð honum á sporði í því, að stofna til samkvæma í hagnaðarskyni. Enn var fult framherbergi hússins og kjallarinn af vistatökumönnum, og að þeim drógst mestur hluti þess fólks í hverfinu, sem hneigðist að samkvæmis-gleðskap.

Svo var það eitt kveld í Febrúarmánuði, að mikil frostgrimd gerðist. Kvikasilfrið í hitamælinum hafði sigið svo að það hvarf alveg niður í kúlu, og Winnipegbúar fengu að kenna á 40 stiga kulda neðan við *ceró*. Í þessari helju var Kalman að hraða sér heim, og hljóp eins hart og hann gat. Hann var krókloppinn af því, að fara með skildingana, sem honum innhentust fyrir dagblöðin, sem hann hafði selt, en því skeytti hann engu. Honum hafði gengið vel síðari hluta dagsins og um kveldið, því að Winnipegmönnum er svo farið, að því kaldari sem kveldin eru, því hlýrra er þeim um hjartarætur, og hinir heljarköldu Febrúardagar reyndust harðgerðum blaðadrengjunum, einkar arðvænlegir, er þeir hrópuðu upp verð á varningi sínum á götum úti. Bitur kuldinn

varð því að eins til að herða á Kalman. Uppi yfir honum tindruðu stjörnurnar, undir fótum hans marraði í snjónum, og hreint frostkalt loftið fylti lungun súrefni og þrýsti blóðinu út í líkamann með auknum hraða. Nýtt fagnaðarefni ýtti undir hann, því hann mintist þess á hlaupunum heim, að hátíðisdagur var, og heima hjá honum mundi vera veizla, og söngur og dans til skemtana. Á hlaupunum ráðgerði hann í huganum, hversu hann skyldi komast fram hjá Rósenblatt og inn í herbergi Pálínu, en þar var hann óhultur, og þar vissi hann, að sín biði góður biti, geymdur af veizlumatnum; um það vissi hann að systir hans mundi sjá, er þar biði líka sjálf. Henni ætlaði hann að fá öll centin, sem honum höfðu áskotnast fram yfir það, sem Rósenblatt bæri, og hún mundi sjá um að geyma þau vel. Rósenblatt mundi hvorki takast, að hafa út úr henni með fagurmælum eða hótunum, það sem henni var trúað fyrir, eins og honum var í lófa lagið með Pálínu, sem var svo grunn-hyggin.

Kalmar hljóp sem fætur toguðu, en hafði þó næma tilfinning fyrir dýrðarljóma hinnar stjörnubjörtu nætur; hann hafði notalegt hugboð um veizlugæðin, sem biðu hans, og í hverri taug hans titraðifullvissa æskufjörs og þróttar; öðru hvoru söng hann hátt, stef úr æsingsþrungnum sléttusöngvum ungverskum. Einusinni er hann beygði fyrir húshorn, skamt frá heimili sínu, rakst hann á unga stúlku, sem við lá, að hann feldi á hlaupunum.

"Kalman!" kallaði hún glaðlega.

"Sæl vertu! Elizabet Ketzel, hvað ert þú að fara?" spurði pilturinn standandi á öndinni.

"Heldurðu að þú syngir í kveld?" spurði litla stúlkan feimnislega.

"Já, vitaskuld geri eg það," svaraði Kalman, er numið hafði svo vel enska tungu í skólanum á götunni, að hann kunni öll algeng orðtæki.

"Eg vildi að eg gæti komið og hlýtt á."

"Þangað eiga litlar stúlkur ekkert erindi," svaraði Kalman hranalega; en þegar hann sá raunasvipinn, sem á hana kom, bætti hann við: "Þú getur kanske komið að glugganum að baka til, og Irma hleypt þér þar inn."

"Ekki skal standa á mér", sagði Elízabet, en Kalman heyrði það ekki, því að hann var þotinn af stað.

Í húsi Pálínu var glymjandi veizlufögnuður. Kalman sneiddi fram hjá fremri dyrunum og fór inn um gluggann að baka til, og þar beið hann eftir systur sinni.

"Komdu sæll, Kalman!" sagði hún, vafði hann að sér og kysti hann, "en hvað eg hefi geymt mikið af góðum mat handa þér! Þér er fjarska kalt. Aumingja fingurnir eru helkaldir."

"Nei, ekki vitund, Irma," sagði sveinninn — þau töluðu alt af rússnesku sín á milli, eftir að faðir þeirra fór burtu — "en eg er svangur — dauðsvangur."

Irma þaut inn í hvern afkyma í herberginu eftir annan og dró þaðan fram allskyns góðgæti, sem hún hafði komið undan og geymt handa bróður sínum. Hún lagði alt á rúmið fyrir framan hann.

"En fyrst ætla eg að sækja þér heita kjötkássu. Pálína hefir haldið henni volgri handa þér." Þau nefndu stjúpmóður sína ávalt Pálínu. Að svo mæltu hljóp Irma fram.

Loks kom hún aftur að glugganum, eftir óra tíma, að því er Kalman fanst, og rétti honum fullan disk af rjúkandi kjöti.

"Því varstu svona lengi?" spurði bróðir hennar óþolinmóðlega. "Eg er nærri dottinn sundur af hungri."

"Óhræsis-lubbinn hann Sprink litli," skauzt út

úr henni. "Svona hjálpaðu mér inn." Hún var kafrjóð og augun tinnudökk tindruðu.

"Við hvað áttu?" spurði Kalman, eftir að hafa virt hana fyrir sér stundarkorn.

"Hann er óbilgjarn og ruddalegur," svaraði hún; "hann er ljóti durturinn."

Kalman kinkaði kolli og beið nánari skýringar. Hann hafði ekki tóm til neinnar mælgi.

"Hann var að reyna að kyssa mig áðan," hélt hún áfram gremjulega.

"Og jæja, það er nú varla til að gera skraf út úr," svaraði Kalman; "eftir því sækjast allir strákarnir."

"Nei, þeir hafa ekki gert það svo mánuðum skiftir, Kalman," sagði Írma andmælandi, "og eg líð engum það, allra sízt strákhvolpinum honum Sprink. Það geri eg aldrei, aldrei nokkurn tíma!"

Meðan Kalman virti hana fyrir sér, smáa vexti, þar sem hún stóð hnarreist og rjóð í framan, og þá varð hann þess vísari, að breyting hafði orðið á systur sinni. Hann hætti að borða.

"Irma, hvað ertu búin að gera úr þér?" spurði hann. "Það er líklega uppsetningin á hárinu, sem þessa breytingu hefir gert á þér. Nei, ekki er það. Þú ert samt ekki sú sama, eins og þú hefir verið. Þú ert —" hann þagnaði og hugsaði sig um, "já, nú veit eg. Þú ert orðin fulltíða stúlka."

Gremjan hvarf úr dökkum augum Irmu og rjóðu andlitinu. Blíður, bljúgur og dularfullur bjarmi breiddist yfir ásjónu hennar.

"Nei, ennþá er eg það ekki", svaraði hún, "en mundu, hvað pabbi sagði. Móðir okkar var göfug kona, og það ætla eg að verða líka."

Börnin höfðu rétt að kalla aldrei minst á móður sína. Það umtalsefni var þeim of heilagt og of ógur-

legt í senn, til þess að ræða hversdagslega. Kalman lagði niður skeiðina sína.

"Já, eg man það," sagði hann eftir stundarþögn, en sorgarsvipur færðist yfir andlitið. "Hún var göfug kona, og hún dó í fönninni. Er ekki óskaplegt að hugsa til þess, Irma?" bætti hann við í lægra rómi.

"Jú, elsku Kalman," svaraði hún, settist niður hjá honum og lagði báða handleggina um háls honum, "en hún þjáðist ekkert, og hún var óhrædd."

"Já, hún var óhrædd," sagði hann með hljómríkri röddu; "og pabbi var ekki hræddur heldur." Nú stóð hann upp frá snæðingnum.

"En þú ert ekki hálfbúinn að borða, Kalman," sagði systir hans. "Það er mikið eftir af góðgæti handa þér enn."

"Eg missi alveg matarlystina, Irma, þegar eg hugsa um þetta — um þenna mann. Mér finst þá þrengja að mér hérna," sagði hann og benti á hálsinn á sér.

"Jæja, jæja, við skulum ekki vera að hugsa um hann í nótt. Einhverntíma sleppum við frá honum, áður langt um líður. Sestu nú niður aftur og borðaðu."

Sveinninn stóð kyr og var mjög hörkulegur á svipinn.

"Einhverntíma", sagði hann lágt, og fremur við sjálfan sig, en systur sína, "ætla eg að drepa hann."

"Þú gerir það að minsta kosti ekki í kveld," svaraði systir hans léttilega. "Við skulum láta þetta vera gleymt í bili. Líttu á *pæið* það arna. Það er frá Mrs. Fitzpatrick, og þessi búðingur líka.

Sveinninn horfði um stund á hinar gómsætu krásir. Hann var mjög heilsugóður unglingur og í meira lagi matlystugur. Því lengur sem hann horfði, því meir óx matarlystin. Hann hristi sig eins og hann væri að ýta af sér þungri byrði.

"Nei, í kveld geri eg það ekki," sagði hann. "Eg ætla ekki að láta hann taka frá mér matarlystina."

"Það er óþarfi. svaraði Irma. "Svona, flýttu þér nú að borða. En hvað við höfum fengið gott að borða í kveld. eða þá dansinn. Og allir hafa viljað dansa við mig," hélt hún áfram. "Jakob og Hinrik og Nikulás; allir hafa þeir sýnt mér kurteisi, nema óhræsis peðið hann Sprink."

"Dansaðirðu ekki við hann?"

"Jú", sagði systir hans og gretti sig ofurlítið, "eg dansaði við hann líka, en hann vill við enga aðra dansa heldur en mig. og það fellur mér illa. Eg er líka hálf-hrædd við hann og Rósenblatt líka."

"Ertu hrædd?" sagði drengurinn fyrirlitlega.

"Ónei, eg er ekki beinlínis hrædd." sagði Irma. "En við skulum nú ekki vera að hugsa meira um það, hérna er búðingurinn þinn. Það er verst að hann er orðinn kaldur."

"Nei, hann er góður," sagði bróðir hennar með fullan munninn. "Það er óþarfi fyrir þig að vera hrædd við Sprink; eg skal jafna um hann, ef hann gerir þér nokkuð."

"Það er óþarfi enn. Kalman." sagði Irma brosandi. "Þér er óhætt að bæta við þig einu eða tveimur árum til, áður en þú talar svo mannalega."

"Einu eða tveimur árum til! Eftir þann tíma verð eg orðinn fullorðinn karlmaður."

"Láttu engan heyra þetta," sagði systir hans ertnislega. "Skárri væri það nú karlmaðurinn fimtán ára gamall."

"Þú ert ekki nema fimtán ára sjálf."

"Hálfs sextánda," greip hún fram í.

"Þú ert búin að taka upp nýjan búning og setja upp á þér hárið en — en kallar mig svo dreng. En hvað sem því líður er eg ekki hræddur við Sprink. Í gær þá —"

"Já, eg veit að þú hefir aftur lent í handalögmáli. Það eru ósköp að vita til þín Kalman. Allir drengir eru að tala um þig, og stúlkurnar líka. Hafðirðu betur? Eg þarf víst varla að spyrja að því."

"Eg veit ekki," svaraði hann hikandi, "en eg hugsa að hann sjái mig í friði héðan af."

"En af hverju ertu altaf í þessum erjum, Kalman?" spurði systir hans með kvíðasvip.

"Þeir koma mér út í þær," svaraði hann. "Þeir reyna að reka mig af mínu götuhorni, hinir strákarnir, og hann kallaði mig óþverra-Dúkka. En eg sýndi honum, að eg er alls ekki Douka-hobor. Þeir berjast aldrei við neinn."

"Segðu mér alla söguna," sagði systir hans kafrjóð af ákefð — "en eg vil annars ekki heyra hana. Hvernig fórstu að því — að hafa betur? Þú ættir annars ekki að vera að berjast, Kalman." Hún gat ekki leynt því, þó hún vildi, að hana langaði til að heyra um bardagann, og var upp með sér af bróður sínum, þó að honum væri gjarnt til að lenda í áflogum.

"Og því skyldi eg ekki gera það? Það er altaf rétt að berjast fyrir sínum réttindum, og hve nær sem strákarnir reyna að gera mig hornreka, þá verst eg þangað til eg dett dauður niður."

Irma hristi höfuðið yfir honum.

"Jæja, við skulum ekki vera að fást um þetta núna," sagði hún. "Hlustaðu á! Það er Jakob, sem er að syngja; finst þér ekki óskaplegt að heyra vælið í honuum? Ætlarðu ekki að koma inn?"

"Jú, eg ætla að gera það. Hérna eru mínir skildingar Irma — og þetta á að fara til þorparans. Láttu Pálínu afhenda honum þá. Eg get varla stilt mig um að reka hnífinn í hann. Einhverntíma —" Sveinninn þagnaði alt í einu.

"Nei, nei, Kalman," sagði systir hans í bænar-

rómi, "það máttu ekki gera, hvorki nú eða nokkurn tíma. Við erum ekki í Rússlandi, eða Ungverjalandi, við erum í Canada."

Sveinninn svaraði engu.

"Flýttu þér að þvo þér og komdu svo. Alla langar til að fá þig til að syngja. Eg skal bíða eftir þér."

"Nei, nei; far þú. Eg kem bráðum."

Þegar Irma kom fram, var henni heilsað með fagnaðarópum. Engin stúlkan jafnaðist á við hana í að dansa þjóðdansa Galizíumanna.

"Þetta er minn dans," hrópaði einn.

"Nei, hún lofaði mér dansinum."

"Þennan mazukka dansar hún við mig."

Allir piltarnir þyrptust utan um hana, með góðlátlegu kappi.

"Eg get ekki dansað við ykkur alla, svo að eg ætla að dansa ein. Þessu var svarað með lófaklappi og innan stundar sveif hún í mjúklega hringa í margbreytilegum þjóðdansi, og fylgdu augu áhorfenda hverju fótmáli með aðdáum, en lófaklapp kvað við öðru hvoru. Hún stóð á öndinni, þegar dansinum var lokið og kom þá auga á Kalman, sem kominn var inn.

"Eg er nú orðin svo móð, að eg get ekki dansað meir," sagði hún. "Nú er bezt að Kalman syngi fyrir ykkur."

Þessi uppástunga fékk eindreginn byr.

"Látum hann syngja! Látum hann syngja!" hrópuðu allir. "Kalman syngdu fyrir okkur, syngdu! syngdu "Ástmey hirðisins!" "Nei, heldur "Brúður hermannsins". "Nei, nei, "Sverð og bikar."

"Eg þarf fyrst að fá mér einn bikar," sagði sveinninn, þokaði sér að ölkagganum og tók upp bolla.

"Gefið honum annan í viðbót," kallaði einhver.

"Nei, ekki meira öl, Kalman," sagði systir hans.

En hann brosti að eins og fylti bollann sinn á ný.

"Eg er of saddur til að syngja strax," sagði hann hátt, "nú skulum við dansa," og um leið þreif hann Irmu og þeyttist með hana fram á gólfið, rétt framan við nefið á Sprink, sem mislíkaði það heldur en ekki; og systkinin tóku að dansa hinn áhrifamiklu þjóðdans Ungverja.

En þetta var að eins stundarfrestur á söngnum. Það var orðið svo sem sjálfsagt að Kalman syngi á öllum skemtisamkomum í útlendingahverfinu. Honum þótti gaman að söng og var altaf fús á að skemta með söng sínum, þegar hann var beðinn. Það stóð heldur ekki á því nú að hann yrði við óskum manna um að syngja, þegar á hann var skorað. Hann stökk upp á ölkagga og kallaði hátt:

"Hvað á eg að syngja?"

"Syngdu, lagið mitt," sagði Irma, sem stóð rétt hjá honum.

Sveininn hristi höfuðið, "Nei, ekki strax."

"Brúður hermannsins," hrópaði einhver og Kalman tók til að syngja. Hann var fríður sýnum, andlitið reglulegt og svipfagurt; hárið var ljóst og augun blágrá, eins og í mörgum íbúum á Rússlandi sunnan og austan til. Um leið og hann söng, endurspegluðust í andlitinu þær margbreytilegu tilfinningar, er hreyfðu sér í brjósti hans, eins og ládautt stöðuvatn endurspeglar ský og sólskin himins að sumarlagi. Kvæðið var ungverskt æfintýri. Þar var sagt frá ungum hermanni fríðum sýnum, sem farið hafði í hernað; á meðan hann var í ófriðinum, var unnustu hans, ungri og fagurri mey, þröngvað til að játast auðugum gózeiganda, gömlum, ljótum og leiðinlegum. Þau eru komin á brúðarbekk frammi fyrir presti. En þey! Áður en úrslita-orð hjónabandssáttmálans eru borin fram, heyrist geysimikill jódyn-

ur, vörpulegur maður ryðst inn í brúðkaups-salinn, keyrir brúðgumann niður mikið fall, svo að hann liggur í ómegni, en þrífur brúðurina í fang sér, og er þeystur á burt með hana fyrir framan sig á brúnum gæðingi, áður nokkur fær ráðrúm til að koma í veg fyrir það. Elti þeir hann sem treysta sér! segir í kvæðinu.

Sveinninn hafði mikla rödd og einkar skæra, og lagði í hana viðkvæmni og harmsleiksþrótt, eftir því sem við átti efni kvæðisins, svo að furðu sætti um ungling á hans aldri. Honum var þakkað fyrir sönginn með óköfum fagnaðarópum, og hár óma óskum um að syngja meira. Sveinninn var í þann veg að neita að syngja meir, er hann kom auga á hið skuggalega andlit Rósenblatts, í miðjum hóp hinna fagnandi og ánægðu áheyrenda. Honum rann í skap. Hann hikaði ekki úr því.

"Já, eg skal syngja eitt kvæði til," hrópaði hann, þaut yfir til hljóðfæraleikendanna, blístraði upphafsnótur lagsins og stökk því næst á ný upp á ölkaggann, sem hann hafði staðið á, meðan hann söng hið fyrra sinn.

Áður en hljóðfæraleikendurnir höfðu lokið við forspilið, hafði Irma fært sig nær bróður sínum og sagði í bænarrómi: "Æ, Kalman, syngdu ekki þetta lag!"

En það var eins og hann heyrði ekki hvað hún sagði. Hann var fölur og harðlegur á svip, og blágrá augun tindruðu. Hann stóð með opinn munninn og beið sönglags-byrjunar. Áheyrendur þektu flestir kvæðið, og snortnir á dularfullann hátt af áköfum hugarhræringum sveinsins, stóðu þeir hljóðir og eftirvæntingarfullir, en alt bros var horfið af andlitum þeirra. Kvæðið var rúthenskt og neyðaróp rússnesks útlaga, það var neyðaróp um frelsi til handa ættjörð hans, um dauða harðstjórans og um hefnd yfir svik-

ara. Hvergi í hinu víðlenda ríki Rússakeisara, dirfðist nokkur maður að syngja þetta kvæði.

Þegar sveinninn bar fram síðasta neyðarópið, um hefnd, með sinni háu og hljómmiklu rödd, var hún svo þrungin af tilfinningar-ofsa, að allir þeir urðu snortnir af, er lengstaf æfi sinnar höfðu átt við óumræðilega harðstjórn að búa. Við síðustu orðin lá við að rynni út í fyrir sveininum. Flestir þeir, er viðstaddir voru, þektu sorg hans, og vissu, að hann hafði sungið frá sínum insta hjartans grunni.

Þegar kvæðinu var lokið, varð stundarþögn. Því næst gekk fram maður nokkur, hann var Rússi, tók sveininn upp á axlir sér og gekk með hann einn hring um herbergið, en allir sem inni voru æptu fagnaðaróp, nema einn maður. Það var Rósenblatt, og hann ruddist nú með afskaplegri heipt yfir þangað, er hljóðfæraleikendur stóðu.

"Heyrið þið!" hvæsti hann út úr sér, og áréttaði með svæsnu blótsyrði. "Haldið þið, að eg borgi ykkur fyrir annað eins og þetta. Ekki hóti meir af svona heimsku. Spilið þið *czardas* og það undir eins."

Hljóðfæraleikendurnir hlýddu undir eins, og áður en ópin voru þögnuð ómuðu *czardas* tónarnir um alt herbergið. Við hin skjótu umskifti harms og gleði, sveif fólksfjöldinn af stað til að stíga hinn léttúðuga og örfandi dans. Samúel Sprink greip Irmu og sveiflaði fram á gólfið. Hún stríddi á móti og neitaði, en það kom fyrir ekki. Þegar dansinum var lokið, þyrptust flestir yfir að ölkagganum með drjúgum skarkala og góðlátlegum troðningi. En í hinum enda herbergisins urðu töluverðar stympingar. Þar var Samúel Spring, sem var ör eftir dansinn, og óneitanlega af öli líka, er hann hafði neytt í allríkum mæli um kveldið; hann hélt á Irmu í fanginu og var að reyna að kyssa hana.

"Sleptu mér!" hrópaði hún og reyndi að slíta sig af honum. "Láttu mig kyrra! Sleptu mér!"

"Láttu ekki svona, litla krílið," sagði Samúel kankvíslega, "þetta er ekki til mikils mælst. Kystu mig einn koss og svo sleppi eg þér."

"Þetta líkar mér að heyra, Samúel minn," sagði Rúsenblatt, "þú þarft ekki annað en ganga ofurlítið eftir henni, þá lætur hún sig."

Þessum ummælum Rósenblatts fylgdu hálróma hvatningarorð frá hinum piltunum, því að Samúel var fremur vinsæll, og engum fanst nein ástæða til þess, að stúlkan skyldi vera að meina manni, öðrum eins og Samúel var, að kyssa sig, sem bæði var vel efnaður og átti góða framtíð í vændum.

En Irma hélt áfram að streytast á móti þangað til Kalman hljóp til hennar og sagði: "Sleptu systur minni!"

"Farðu burtu, Kalman. Eg ætla ekki að gera Irmu neitt. Þetta er ekkert nema spaug. Skiftu þér ekkert af okkur," sagði Sprink.

"Hún skoðar það ekki eins og spaug," svaraði sveinninn rólega. "Sleptu henni!"

"Farðu frá, strák-hvolpur. Farðu burtu og sestu niður. Þú þykist helzti mikill."

Það var Rósenblatt, sem hafði sagt þetta og talaði í hvössum rómi. Um leið greip hann til sveinsins og þeytti honum með snöggri sveiflu yfir í þyrpinguna. En það var engu líkara, en hann hefði borið eld að forðabúri ástríðanna í brjósti sveinsins. Kalman æpti upp yfir sig af heiptarreiði og flaug á Rósenblatt með svo miklu snarræði og harðfylgi, að hann hefði hlotið að falla, ef ekki hefðu menn verið á bak við, sem studdu hann. Þegar Rósenblatt fékk áttað sig, sló hann drenginn svo mikið höfuðhögg, að hann svimaði, og riðaði á fótunum, en þó að eins augnablik. Því nú var eins og brjálsemis-

æði gripi hann. Með ógurlegu ópi og í þetta sinn með hníf í hendi, rann hann á Rósenblatt og lagði til hans hvað eftir annað með miklu afli, og skjótum handsveiflum. En nú var Rósenblatt viðbúinn. Hann bar lögin af sér með handleggnum og sló drenginn gríðarhögg aftan á hálsinn. Um leið og Kalman féll, greip hann í óvin sinn, sem þreif fyrir kverkar honum og dró hann með skjótri svipan fram til dyra.

"Sjáðu um að hurðinni sé haldið lokaðri," sagði hann við einn kunningja sinn, sem nærri honum stóð.

Þegar þeir voru komnir út, lokaði maðurinn hurðinni á eftir þeim og hélt í snerilinn, svo að mannsöfnuðurinn inni kæmist ekki út.

Rósenblatt dró sveininn hálf-meðvitundarlausan ofan fyrir húsið og sagði: "Nú er stundin komin. Betra færi fæst tæplega. Þú reyndir að drepa mig, en eftir þetta skal verða einum Kalmarnum færra. Eg ætla nú að kvitta ofurlítið af skuldinni, sem eg er í við föður þinn, bölvaðan fantinn. Hafðu þetta — og þetta í viðbót." Um leið og hann hreytti þessu úr sér, sló hann sveininn, hvert höggið af öðru um höfuð og andlit; því næst fleygði hann honum í fönnina og tók með ráðnum huga að reyna að sparka í hann til dauðs.

En í því að hann fleygði sveininum frá sér, heyrðist hátt vein kveða við í myrkrinu, og frá bakenda hússins hljóp lítil stúlka æpandi: "Hann er að gera út af við hann! Hann er að gera út af við hann!"

Þetta var Elísabet litla Ketzel, sem hafði verið hleypt inn um gluggann að baka til, svo að hún gæti heyrt Kalman syngja. Hún hafði strax lagt á flótta, sömu leið og hún kom, þegar illindin byrjuðu inni, og þegar hún kom út, rakst hún á Rósenblatt, þar sem hann var að misþyrma sveininum. Við óp hennar hætti hann við morðtilraun sína. Hann flýði burtu

og skyldi sveinninn eftir liggjandi í blóði sínu í fönninni.

Í því að Rósenblatt hvarf, var sleða ekið upp að húsinu.

"Hvað gengur hér á, barn?" spurði maður, sem stökk út úr sleðanum. Það var Wright, læknirinn, sem var á heimleið frá einum sjúklingi sínum í útlendingahverfinu. "Útaf við hvern er verið að gera hér?"

"Við Kalman!" æpti Elízabet, "og hann er dauður! Æ, hann er dauður!"

Læknirinn laut niður að sveininum. "Drottinn minn! Já, víst er þetta Kalman, vinur minn, og heldur illa til reika. Hér er þá vafalaust ný hefnd á ferðum. Og hvað skyldi þetta vera?" Innan frá húsinu heyrðust mikil óhljóð. "Eg býst við að þarna séu að gerast ný manndráp. Hérna, vefðu þessari ábreiðu utan um drenginn, meðan eg skrepp inn til að vita, hvað þar gengur á."

Hann hljóp að hurðinni og sparkaði í hana svo að hún hrökk upp. Milli tíu og tuttugu manns voru þar inni fyrir og var engu líkara, en að þeir væru allir í handalögmáli. Læknirinn nam staðar til að átta sig, og sá þá, að inst í einu horni brauzt Irma æpandi um, í fangi Samúels Sprinks, og í miðju herberginu barðist Pálína um eins og djöfulóð væri, æpandi ógurlega af mikilli heiptarreiði. Hún var að reyna að brjótast fram til dyranna.

Þegar hún kom auga á læknirinn, rétti hún hendur móti honum fram yfir höfuð mannanna í þrönginni fyrir framan hana og æpti hátt: "Kalman — dráp! Kalman — dráp!" Meiru kom hún ekki upp.

Læknirinn ruddist inn í þvöguna og sagði hátt og snjalt: "Heyrið þið! Lofið þið konunni þarna að komast fram! Og þú þarna, sleptu stúlkunni undir eins!"

Flestir þeirra, er þarna voru saman komnir, þektu læknirinn og hættu strax að fljúgast á.

"Hvaða ólukkans aðgangur er í ykkur menn?" hélt læknirinn áfram um leið og Pálína hljóp fram hjá honum og til dyranna. "Eruð þið vanir að fljúgast á við kvenfólk?"

"Nei," svaraði einn. "Þessi maður", og benti á Sprink, "hann að spauga við þessa stúlku."

"Og það er skrítið spaug," svaraði læknirinn og vék sér að Sprink. "Og hver hefir myrt drenginn, sem liggur hér fyrir utan dyrnar?"

"Það er víst djöfuls-hvolpurinn hann Kalman, sem ætlaði að reyna að drepa Rósenblatt," svaraði Sprink.

"Einmitt það", sagði læknirinn, "en hvað gerði sá göfugi Rósenblatt við Kalman aftur á móti?"

"Rósenblatt " endurtók Jakob Wassyl, er færði sig nú nær all-æstur. "Rósenblatt reyndi að meiða þenna dreng. Þessi maður", og benti á Sprink, "hann reyndi kyssa þessa stúlku. Drengurinn segir honum hætta. Rósenblatt hann fleygir dreng ıra. Drengur flýgur á hann."

"Heyrðu Jakob", sagði Wright læknir, "þú lítur eftir að skrifa nöfn þessara manna. — bæði hans þarna og benti á Sprink, og einna tólf annara — og svo skulum við sjá hvort Rósenblatt kemst ekki að keyptu fyrir lögreglurétti í fyrra málið."

Þegar læknirinn kom út, fann hann Pálínu sitjandi í snjónum, með höfuð Kalmans í kjöltu sinni, hún réri fram og aftur og tautaði eitthvað grátandi. Hjá henni stóðu þær Irma og Elízabet Ketzel, báðar hágrátandi. Læknirinn lyfti sveininum upp með varkárni.

"Komið þið hingað með sleðann," sagði hann við Pálínu. Irma túlkaði skipun hans. Pálína hljóp

þegjandi af stað, settist upp í sleðann og rétti fram hendurnar eftir sveininum.

"Þetta dugir", sagði læknirinn og lagði sveininn í kjöltu hennar. "Hlauptu nú inn", sagði hann við Irmu, "og sæktu sjöl, ábreiður eða eitthvað, til að skýla sjálfri þér og móður þinni og svo skulum við flýta okkur af stað."

Stúlkan hljóp inn og kom innan stundar aftur, með nokkur sjöl á handleggnum.

"Stígðu nú upp í og vertu fljót," sagði læknirinn.

Karlmennirnir innan úr húsinu þyrptust nú að þeim.

"Mundu það, Jakob, að skrifa nöfn þessara manna", sagði læknirinn, "og eg ætla mér, að hafa hendur í hári óbótamannsins. Því megið þið trúa; eg geri það að mér heilum og lifandi! Drengurinn sá arna er vafalaust dauðans matur."

Um leið og hann sagði þetta, hleypti hann hestinum á sprett, því að honum duldist ekki, af andardrætti sveinsins að dæma, að líkindin til þess að hann lifði af, fóru síminkandi.

---

## X. KAPÍTULI.

*Jack French frá Nátt-haukagili.*

Ef litið er á landslag Vestur-Canada á landabréfi, svæðisins milli Klettafjallanna annarsvegar og Flóans og stórvatnanna á hina hönd, þá verður fyrir auga víðáttumikil slétta, hrukkótt, rákótt og holótt, eins og andlit á aldraðri manneskju. Þessar hrukkur og rákir og holur eru miklar og lygnar ár, bugðóttir læk-

ir, stöðuvötn, fen og mýrar, er mynda geysimikið vatnakerfi, er bugðast og beygist milli hæða-alda sléttrunar, safnast fyrir í lægðunum, vökvandi og veitandi afrensli og blessun, bæði þar sem vötnin fljóta fram og standa uppi.

Í vötnum þessum slöktu þorsta sinn óteljandi hjarðir vísunda og veiðidýra, er þau reikuðu óáreitt um hinar miklu sléttur, ásamt keppinautum sínum um landkostina: Svartfætlingum og Creesum. Síðar meir þegar hið háttvirta Húðsonsflóa-félag náði yfirráðum í vestrinu, urðu þeir vatnavegir meginleiðir flutninga og verzlunar. Vötnin og fenin og mýrarnar voru auðugar af veiðidýrum og við þau stunduðu Indiánar og kynblendingar, veiðar. Niður eftir þessum fljótum og ám, fóru stórir skarar skinnakaupmanna í bátum og flutningaskip Húðsonsflóa-félagsins hlaðin dýrindis-skinnavarningi til flóans nyrðra, eða vatnanna suður á leið til miðbóls heimsverzlunarinnar í Lundúnum. En upp eftir flóunum og ánum voru miklar vörubirgðir fluttar til kaupstaða langt upp í meginlandinu, er í senn voru aðseturstaðir stjórnarvalda, og markaðir í hinu víðáttumikla landi.

Fyrir utan smábáta og flutningaskip Húðsonsflóa-félagsins, tóku og síðar að ganga vatnaleiðina fljóta-prammar og hjólskip; við þau keptu um flutning, þeir sem landleið fóru með varning á vögnum, er uxar gengu fyrir, eða á áburðarhestum, ellegar menn fluttu á Rauðárkerrunni, sem húðarbikkjur gengu fyrir.

Enn seinna komu upp þessa vagnvegu og eftir akbrautum nýlendumenn, einir sér eða í hópum. Þeir voru áræðið forvaðalið menningarinnar, sem að fór. Bólfestu tóku þeir sér, þar sem þeim hugnaði bezt og þótti vistlegast að setjast að, undir skjólgóðum lundum móti sólu, við gullgljá vötn eða stríða strauma, en einkum settust þeir að á bökkum stórra fljóta,

sem voru þjóðvegir verzlunar, hin fagurgljáu bönd er tengdu þá við mannheima. En þeir voru þó nokkrir í hópi hinna harðgerðu nýlendumanna, er hjuggu af sér öll bönd, sem tengdu þá við fortíðina, leituðu þarna eingöngu undankomu frá meðborgurum sínum og flýðu þangað frá hinu umliðna. Þeir hinir sömu snéru brott frá vatnavegunum og akbrautunum, haldandi upp eftir ám alt til upptaka þeirra, er lágu langt burtu. Þar tjölduðu þeir og bjuggust um, í eyðilegu, en konunglegu sjálfræði, tóku drjúgan skatt af sléttunum, vötnunun og ánum, svo sem þeir þurftu til lífsviðurhalds.

Slíkur maður var Jack French, og þvílíkur staður var Nátt-haukavatn, en ljósar bylgjur þess fundu framrás í fjögra mílna fjarlægð eftir Nátt-haukagili, út í Syðri-Saskatchewan, sem er flestum fljótum meira.

Þeir voru tveir bræður, Jack og Herbert French, komnir af góðum og gömlum brezkum ættum. Þeir voru æfintýragjarnir og þótti of tilbreytingasnauð æfin á hinum snotru sandhæðum í Devon, til þess, að þeir yndu þar. Fyrir þá sök fóru þeir yfir hálendið alt til sjávar. Þeir horfðu út yfir hafið, hlustandi eftir nýjum ómum, með vot andlit af brimroki, þangað til þeir námu hljóma og sáu sýnir af fjarlægum sléttum hinum megin hafs, sem benti þeim til sín og laðaði þá að sér. Fór því svo, að á árunum milli 1860—70, lögðu þeir af stað til Vesturheims, með varman móðurkoss á vörum og enni, en stældir og þróttefldir af blessunar-orðum föður síns, sem bað alvarlega fyrir þeim. Og áður langt leið, voru þeir komnir á hinn dökka flota er hélt upp eftir Rauðá til norðurs, og náði loks til smáþorpsins Winnipeg, sem var að stríða við að stækka.

Í húsi nokkru í Winnipeg, fengu þeir hinar vinsamlegustu viðtökur. Þar kyntust þeir ungri heima-

sætu, er aldraður íhaldssamur faðir og fjórir bræður, sem voru hugrakkir slétturiddarar, litu eftir og höfðu gát á. En það kom fyrir ekki, því að bræðurnir aðkomnu skeyttu því eftirliti engu, en hvor um sig tók að leggja kapp á, með öflugri eigingirni æskuástarinnar, að ræna heimilið heimasætunni, og vissi þó hvorugur af öðrum.

Fyrir atlögu yngra bróðursins, Herberts, sem með brennandi ákafa sótti eftir ástum hennar, dró heimasætan niður sinn lograuða fána, og sama kveldið leitaðist hún við, þó að henni félli það þungt, að biðja eldra bróðurinn afsökunar á því, þó að hún gæti ekki látið af hendi við hann, sama herfangið og hinn. Föl í andliti og með bænarsvip í bláum vingjarnlegum augunum, beiddist hún forláts á fátækt sinni.

"Æ, Mr. French, eg vildi eg hefði getað orðið við ósk þinni", sagði hún, "en eg get ekki gefið þér það sem Herbert á nú."

"Herbert!" stundi Jack upp af þurrum og heitum vörum.

"En heyrðu Jack, þú ætlar að halda áfram að láta þér þykja vænt um Herbert og mig, þrátt fyrir þetta! Er ekki svo?" spurði hún með blíðlegri einlægni.

Jack hafði nú fengið stundartóm til að safna hugrekki og átta sig; hann brosti framan í vingjarnlegt andlit hennar, kysti hana, og lagði síðan af stað brosandi eins og áður, og enginn vissi hvert, og enginn skeytti um hvað af honum varð, nema konan, sem átti bænaraugun, tárvot og hafði beðið hann innilega, og með blíðlegri eigingirni að eins um hans eigið líf.

Í fulla þrjá mánuði reikaði hann aleinn um sléttturnar, unz hans loks, á sólbjörtum degi, rakst á Nátthaukavatn; auðnin þar fögur og hrikaleg, virtist samhæfa hugarástandi hans, og þar settist hann að og bjóst

um. Mánuði seinna fór hann til Winnipeg, til að vera viðstaddur brúðkaup bróður síns; þegar það var afstaðið, lagði hann á ný, brosandi eins og fyr, áleiðis til Nátt-haukavatns, og þar hafði hann búið síðan.

Fyrstu dögunum varði hann til að byggja sér íveruhús og fjós, úr aspviðar-bjálkum, sem höggva mátti á næstu grösum; því næst tók hann að rækta, með litlum erfiðismunum, í frjósamri svartri sléttumoldinni, þann jarðar-ávöxt. sem hann þurfti á að halda handa sér og skozkum kynblendingi, sem með honum var, fyrir utan það er hann aflaði þeim til viðurværis úr vatni og viði, með netjum og skotfimi; og alla þá stund, sem hann hafðist þarna við, var hann að reyna að gleyma. þó fyrir ekki kæmi, nema þegar þeir Mackenzie og hann settust að drykkju og höfðu drukkið bæði ákaft og lengi, þá fór svo að lyktum að minnið og gleymskan stóðust á.

Að fimm árum liðnum snéri hann aftur til Winnipeg, til að standa við hlið hennar, er hann aldrei mátti gleyma, yfir moldum hans sem henni var kærastur allra, og honum allra kærastur, að einni einustu manneskju undantekinni. Þegar hann hafði hughreyst hana sem hann bezt kunni, hélt hann aftur til Nátt-haukavatns, og skildi hana eftir eina, af því að hún æskti þess. Og þá var hún svift öllum, sem ætla mætti að henni væri traust að, nema móður sinni; maður hennar var dáinn og bræður og faðir.

"Eg er óhult hér, Jack," sagði hún. "Guð heldur hendi sinni yfir mér."

Jack snéri því heim aftur, vongóður með bros á vörum enn sem fyrri. Í heilt ár dvaldi hann þar og lifði í von um nýtt og nýtt bréf frá henni, sem honum barst einu sinni í hverjum mánuði. Það hafði menningin nú þokast vestur á við.

Í síðasta bréfinu, sem hann fékk frá henni undir árslokin, sagði hún honum þær fréttir, að móðir

hennar væri dáin og að hún stæði nú ein uppi. Sama kveldið tók Jack French saman pjönkur sīnar og lét í vagn, ásamt nesti í sex hundruð mílna langa ferð; færðin var ill á Portage-sléttunum, svo að það varð ekki fyr en í lok þriðju viku, að hann ók á villihesti sínum, sem orðinn var haltur, eftir forarleðjunni á Aðalstræti inn í Winnipeg.

Eftir að rakarinn hafði dubbað upp á hann, fór French á fund mágkonu sinnar. Þegar hún sá hann, varð hún náföl, raunaleg á svip og greip báðum höndum um hjartastað.

"En Jack!" sagði hún loks með miklum aumkvunarhreimi í röddinni; "veslings Jack! því varstu að koma?"

"Eg kom til að bjóða þér heimili hjá mér", og leit til hennar löngunarfullum augum; "eg kom til að bjóða þér heimili, annaðhvort hér, ef þú kysir það heldur, ellegar á Nátt-haukagili, sem er miklu betra!" Jafnskjótt og hann slefti orðum fór hún að grtáa.

"Veslings Jack! Elsku Jack!" hropaði hún, "því varstu að koma?"

"Þú veist hversvegna eg kom", sagði hann. "Heldurðu ekki að þér geti lærst það, að þykja vænt um mig?"

"Að þykja vænt um þig, Jack? Mér gæti ekki þótt vænna um þig en mér þykir."

"Geturðu þá ekki komið til mín?"

"Elsku Jack! Aumingja Jack!" sagði hún aftur og tók að gráta beisklega, þangað til hann gleymdi sínum eigin hörmum fyrir hennar sorg. "Eg elska manninn minn ennþá!"

"Og það geri eg líka,." sagði Jack og horfði á hana meðaumkvunaraugum.

"Og eg verð að geyma honum ást mína, þangað til við finnumst aftur." Hún lækkaði röddina, svo að varð að hvísli, horfði djarflega framan í hann, en

báðum höndum hélt hún um hjarta sitt, sem barðist ótt og títt, og var engu líkara, en að hún væri hrædd um að það slyppi burtu.

"Já, Jack, bróðir minn, elsku bróðir minn," svaraði hún, "þetta er síðasta orð mitt. Heyrðu Jack, eg hefi oft orðið fyrir mótlæti, en þetta hefi eg tekið næst mér af öllu, sem fyrir mig hefir komið!" Nú setti að henni ákafan grát, hún hallaði sér upp að brjósti hans. Hann vafði hana að sér, strauk um hár hennar, sem var mjög mikið og fagurt; mikill óstyrkur var á höndum hans veðurbitnum, og óeðlilegir drættir í andlitinu.

"Elsku Margrét, gráttu ekki. Gráttu ekki svona. Eg ætlaði ekki að græta þig. Vertu ekki að hugsa um mig. Þú getur ekki að þessu gert. Og—eg—ætla að reyna að—bera—þetta—einhvernveginn. Hættu bara að gráta."

Þegar hún hafði látið huggast, kysti hann hana, fór út, og leit brosandi um öxl til hennar á brottleið; svo sá hann hafa ekki næstu fimtán árin.

En mánaðarlega fékk hann bréf frá henni; þar sagði hún honum frá því, sam hún hafði fyrir stafni, og þær fréttir léttu hugstríð hans mikið. En því lengra sem leið, og fleiri árin færðust yfir þá, þeim mun oftar sátu þeir heilar nætur við drykkju, French og vinnumaður hans Mackensie, í fátæklegum íveruhússkofanum, með flösku á milli sín. Að drykkjunni sátu þeir þangað til Mackenzie féll undir borðið og Jack sat einn eftir, hraustbygður til höfuðsins, en hugsjúkur í hjarta, starandi á eldinn að vetrarlagi, en út um gluggann út á vatnið á sumrum, þangaðtil honum, þjáðum á líkama og sálu, sýndist bjarmi vatnsins fá á sig rauðan lit.

En á vordegi sextánda ársins í Maí eða Júní. kom Jack á óvænt bréf, er hann kom í kaupstaðinn á Vegamótum, að sækja sér matbjörg. Bréf það varð

honum mikið íhugunarefni og gerbreytti síðan lífsstefnu hans. Það var á þessa leið:

"Elsku Jack minn!

Þú hefir ekki svarað síðasta bréfi mínu, og er það ljótt af þér, en þér er það vel kunnugt, að eg bíð ekki eftir svari; ef eg gerði það, þá fengirðu sjaldan bréf frá mér." "Það segir þú hverju orði sannara", tautaði Jack. "En þetta bréf skrifa eg þér af sérstökum ástæðum, og efni þess er að biðja þig bónar. Getur vel verið, að þér sé ómögulegt, að gera hana. "Já, vísast er að svo sé", sagði Jack. "En ef þú getur ekki gert þessa bón, þá treysti eg þér til að láta mig vita það. "Hún treystir mér! eg læt það vera", sagði Jack aftur.

"Þér er ekki alls ókunnugt um starf mitt meðal Galizíufólksins, en um hitt er þér ókunnara, hvað það er raunalegt á stundum. Þetta er fátækt fólk og óupplýst, en mála sannast er, að það er vel innrætt og að mörgu leyti gott fólk. "Já herra minn sæll og góður. Hún mundi vafalaust geta fundið góða taug í satan sjálfum!" "Og eg er viss um, að þú mundir vorkenna fólkinu, ef þú þektir það, einkum kvenfólkinu og börnunum. Kvenfólkið verður að vinna baki brotnu, börnin alast upp í mentunarleysi, og læra lítið af því góða, en mikið af hinu illa, sem þau heyra og sjá á strætum Winnipegborgar. "Drottinn sé þeim náðugur í þeim skóla!" kallaði Jack hátt upp yfir sig.

"Já, eg verð nú að segja þér, hvað mig langar til að biðja þig um. Þú munt muna eftir fregninni sem stóð í blöðunum fyrir nokkru, og eg sendi þér, um ógurlegt morð er rússneskur níhilisti framdi, sem hét Kalmar; þú manst líklega einnig eftir því, að hann drap rétt að segja annan óskapamann, er Rósenblatt hét, og hafði gert mjög mikið á hluta hans. Svo manstu víst líka, að Kalmar slapp úr fangelsinu,

og að síðan hefir ekki til hans spurst.. Yfir konu hans og börnum hefir Rósenblatt einhvernveginn náð forræði á ný. Hann hefir náð veði á húsi hennar og neyðir hana til að gera sinn vilja. Konan er heimsk veslings manneskja, og hún hefir þrælkað fyrir Rósenblatt alt hvað hún hefir getað. Öðru máli er að gegna um drenginn, þrettán eða fjórtán ára gamlan, er vinnur fyrir sér með blaðasölu, og lærir víst margt, að eg er hrædd um, sem hann hefði betra af að kunna ekki. "Svo mætti nú víst segja um fleiri", tautaði Jack. "Honum fellur að sjálfsögðu illa við Rósenblatt. Ekki alls fyrir löngu, var dansskemtun hjá Galizíufólkinu, og við þá skemtun var öldrykkja mikil, eins og vant er! Karlmennirnir urðu ölvaðir og þar gerðust áflog. Rósenblatt og vinur hans einn sýndu systur Kalmans ósvífni. Þá flaug Kalman á Rósenblatt og særði hann með hnífi. "Sá átti nú fyrir því", sagði Jack og formælti um leið, ,og eftir það lá við að Rósenblatt gengi af sveininum dauðum og fleygði honum út í snjóinn. Þar hefði hann sjálfsagt dáið, ef ekki hefði viljað svo til, að Wright lækni bar þar að; hann flutti piltinn á sjúkrahús, og þar hefir hann verið síðan. Læknirinn stefndi Rósenblatt, en hann leiddi tólf vitni, sem báru það, að sveinninn væri vondur og háskasamlegur unglingur, og Rósenblatt hefði ekkert gert annað, en að verja sig. Hugsaðu þér, að fullorðinn maður ræðst á þrettán ára gamlan pilt! Og þó undarlegt sé, þá fór nú svo, að Rósenblatt slapp, en lagði fram kæru á drenginn, og hefði sjálfsagt tekist að koma honum í fengelsi, ef eg hefði ekki farið til dómarans og boðist til að taka piltinn að mér, og útvega honum heimili utan borgarinnar. "Það var þér líkt, blessunin! Eg átti von á því-" sagði Jack.

"Eg hugsaði til þín, Jack, "Blessuð vertu fyrir",

sagði Jack, "og eg vissi, að ef hann kæmist til þín, þá mundir þú gera mann úr honum.

"Ójá! þú hélst það!" sagði Jack. ‚Hér fer drengurinn dagversnandi. Hann er bráðgáfaður skýrleikspiltur; á skóla hefir hann aldrei gengið, en hann les og talar ensku vel. Hann er í miklu uppáhaldi hjá sinnar þjóðar fólki, því að hann syngur ágætlega, og því þykir bót að því að hafa hann ı veizlum sínum. Og eg hefi heyrt að honum þyki öl eins gott eins og hverjum öðrum. Hann var illa útleikinn, allir blár og blóðrisa, en nú er honum batnað, og býr nú með systur sinni og stjúpmóður í húsi vina föður hans. En eg hefi lofað að útvega honum heimili utan borgarinnar, og ef eg get ekki efnt það, þá er eg viss um að Rósenblatt reynir að klekkja á honum. Þar að auki er eg kvíðandi um, að eitthvað komi fyrir, ef hann verður hér kyr. Drengurinn segir með mestu ró, að hann ætli að drepa Rósenblatt, og varla er hægt að efast um, að honum er það alvara. Þetta er dæmalaust raunlegt, því að drengurinn er svo einstaklega skemtilegur. "Henni finst víst lítið vanta á, að hann sé engill", skaut Jack inn í. ‚Eg er hrædd um, að þú verðir að kenna honum margt, Jack, því að hann hefir lært ýmsa ljóta siði. En ef hann kemst undir þína forsjá, og frá því vonda fólki, sem hann kynnist hér, þá þori eg að segja, að hann leggur niður ýmsa þá ljótu siði, sem hann hefir lært. "Guð gefi, vina mín, að þú fáir aldrei um mitt atferli að vita", sagði Jack mæðulega.

‚Þetta er nú orðið langt bréf, góði Jack. Skelfing langaði mig að fara vestur að Nátt-haukagili að heimsækja þig, því að eg veit, að þú kemur aldrei til Winnipeg, og við sjáumst of sjaldan. Við ættum að finnast, minna vegna, og vegna Herberts líka! "Drottinn minn! Og því þá ekki minna vegna?" stundi Jack. ‚Eg get ekki farið að hafa upp allar

þær þakkir, sem þú átt skyldar af mér. En þú verður að hætta að senda mér peninga, Jack, því að eg þarf þeirra ekki og brúka þá ekki, en eg legg alt sem þú sendir mér á banka handa þér. Drottinn hefir gefið mér marga vini, og hann hefir altaf alið svo önn fyrir mér, að mig hefir aldrei skort neitt.

,Eg ætla að bíða við svo sem hálfan mánuð og að þeim tíma liðnum senda þér Kalman — það heitir drengurinn, Kalman Kalmar. Nafnið er fallegt, finst þér það ekki? Og hann er elskulegur og góður drengur, eða það gæti hann orðið. "Blessuð vertu, það gætum við öll hafa orðið", sagði Jack. ,En mér þykir vænt um hann rétt eins og hann er. "Gott á drengurinn", sagði Jack. ,En hvað það væri gott, ef þú vildir gera hann að góðum manni. Hann gæti gert fólki sínu meir en lítið til gagn. En ef hann verður hér, þá verður hann óskapamaður, því að faðir hans var óttalegur, þó að það væri varla honum að kenna, aumingja manninum." "Eg trúi á guðs miskunn", sagði veslings Jack.

,Þetta er langt og leiðinlegt bréf, góði Jack, en þú fyrirgefur mér. Eg er oft svo fjarska þreytt.' Um leið og Jack las þetta,kreisti hann magra fingurna snögt í lófann. ,Verksviðið er svo víðtækt. Eg er altaf við góða heilsu og á marga góða vini. En mikið er að gera, það er svo margt af sjúklingum, fátæklingum og einstæðingum. Þeir þurfa á vinum að halda. Fólkið í Winnipeg er vel mnrætt, en það er svo önnum kafið.'

,Jæja, góði Jack, ætlar þú að auðsýna Kalman alla þá hjálp, sem þú getur Og — má eg segja það mundu eftir að hann er ekki nema drengur. Eg ætla ekki að halda neina prédikun yfir þér, en hann þarf

að vera undir umsjón góðs manns, og þessvegna sendi eg þér hann.

Þín elskandi systir,

*Margrét.*"

Svipurinn á Jack var harðlegur þegar hann lauk við bréfið í annað sinn.

"Þú ert býsna ráðagóð", sagði hann, "þú ert ekki síður kæn en hjartagóð. Þú kærir þig ekki um að halda neina prédikun yfir mér. En þú kemur þínu fram alt um það. Að hálfum mánuði liðnum. Bíðum við, þetta bréf hefir verið mánuð á leiðinni — til Edmonton og þaðan hingað. Herra trúr! Pilturinn kemur líklega með föruneyti Macmillans. Heyrðu Jimmy", bætti hann við og snéri sér að Jimmy Green, sem ásamt því að vera póstafgreiðslumaður hennar hátignar, rak vöru- og skinnaverzlun, "hvenær er von á Macmillan?"

"Að tveim dögum liðnum, Jack."

"Jæja, eg verð þá líklega að bíða hér."

Og þessi óhjákvæmilega bið varð Jack French síður en svo til happs, því að þegar föruneyti Macmillans kom að Vegamótum, lá Jack ófær og eins og dauður baka til í búð Jimmy Green's.

---

## XI. KAPÍTULI.

### *Akvegurinn til Edmonton.*

Þvert yfir landið liggur akvegurinn til Edmonton. Hann bugðar sig yfir sléttur, sneiðir fyrir fen,

smýgur gegnum skógarbelti, yfir öldur sléttlendisins, ár og læki, um níu hundruð mílna veg í vestur frá Winnipeg.

Macmillan var síðastur þeirra nafnkunnu manna, er alþektir voru hvervetna um vesturland fyrir lægni, hugrekki og þrautseigju við starfa sinn, sem var að flytja menn og varning frá Winnipeg til útjaðra kaupstaðarins í Edmonton og þaðan yfir í Peace River og Mackenzie River héruð. Járnbrautalagningar minkuðu töluvert verksvið þessara manna, og er stundir liðu, hurfu þeir úr sögunni. Samúel gamli Macmillan entist einna lengst til flutninganna á akveginum til Edmonton. Hann var afburðamaður við starfa sinn. Hann var frábærlega snjall að ganga frá þeim afarmargvíslega flutningi, sem hann hafði meðferðis og að hlaða honum á vagn, og ökumaður var hann langtum meiri en nokkur annar.

Macmillan var íri mikill vexti og orðfár, beinamikill og harðfengur; hann kunni manna bezt að fara með samoka á vondum vegi, hvort heldur voru uxar eða hestar, og jafnframt var hann gæddur alveg einstaklegri gáfu á fjölskrúðug blótsyrði. Hann leit svo á, að þessar gáfur væru nátengdar hvor annari, og notkun þeirra hlyti altaf að fylgjast að, því enginn maður hafði nokkru sinni heyrt Macmillan hrjóta blótsyrði af vörum í samræðu við menn, eða við önnur tækifæri. En þegar samokar hans sukku í fen, þá var það ávalt vafamál, hvort hann vakti aðdáun þeirra sem viðstaddir voru, fremur með þeim fágæta hæfileika, að fá samoka sína til að beita öllu því dráttarafli, sem þeir áttu til, eða með þeirri þróttmiklu og listilegu samfléttan blótsyrða, er hann viðhafði, til að koma til leiðar hinum eftiræskta árangri. Saga er til um það, að hann eitt sinn hafi haft meðferðis til flutnings veraldlegt góz eins þjóðkirkjubiskups, er hafði tekist á hendur djarflega trúboðsför

á norðurslóðir. Er þess getið, að biskupnum hafi blöskrað blót Macmillans, og farið um það mörgum orðum við hann, hvað gersamlega óþarft væri að beita þesskyns hvatningar-aðferð við skepnurnar sem hann keyrði.

"Eru það blótsyrðin, sem þér eruð að fetta fingur út í, velæruverðugi herra?" spurði Macmillan, með auðheyrðum írskum framburðarkeimi. "Ef svo er, þá get eg fullvissað yður um, að samokarnir beita sér ekki vitund, nema þeir fái þesskyns ofanígjöf."

Biskupinn lét sér það alls ekki skiljast, en sýndi Macmillan fram á, að nauðsynlegt væri, að hann legði niður slík hvatningarorð.

"Það er sjálfsagt að verða við óskum yðar, velæruverðugi herra. Eg þarf hvort sem er ekki að hraða mér í þetta skifti og við gerum það sem við getum."

Við næsta slæma fenið, sem yfir varð að fara, gafst færi á að reyna nýju aðferðina. Samokarnir festust þar í svartri leðju, og við hverja atrennu, sem gerð var til að losa þá, vanst ekki annað en það, að þeir sigu enn dýpra ofan í límkenda forina. Tíminn leið og dimm nóttin vofði yfir. Biskupi tók að óhægjast. Macmillan hrópaði á samoka sína og lamdi þá með svipunni, en alt kom fyrir ekki. Órósemi biskups óx við það, að illviðri var í aðsígi.

"Það er orðið framorðið Mr. Macmillan og lítur út fyrir rigningu. Eitthvað verður að taka til bragðs."

"Það er hverju orði sannara, háæruverðugi herra, en þorpararnir fást ekki til að taka á helming þess sem þeir geta, nema eg tali til þeirra á þann hátt, sem eg er vanur."

Biskup var kominn í ljótan bobba. Hálf klukkustund leið enn, og alt sat við það sama. Nauðsyn bar til, að flutningi hans væri komið undir þak, áður en

illviðrið skylli á. Enn á ný hvatti hann Macmillan, til að reyna að komast upp úr feninu.

"Við getum ekki verið hér í alla nótt", sagði hann. "Eitthvað verður að taka til bragðs."

"Jæja, en eg get sagt yður það, háæruverðugi herra, að hér er ekki nema um tvent að ræða, annaðhvort að sitja hér fastir, eða að grípa til blótsyrðanna. Þar er ekki um neinn meðalveg að ræða."

"Jæja, jæja, Mr. Macmillan", svaraði biskup, með augsýnilegri tilslökun, "við verðum að komast áfram. Hafið það eins og yður sýnist, en eg ætla enga ábyrgð á því að bera." Eftir þennan Pílatusarhandaþvott hvarflaði biskup frá, og leyfði Macmillan að hafa óbundnar hendur.

Macmillan greip um aktaumana, og tók að skálma aftur og fram með röð samokanna sex, ávarpandi þá hvern út af fyrir sig og alla upp til hópa, lýsandi með svo íburðarmiklum orðum, forfeðrum þeirra og háttum, líkamlegu og andlegu atgerfi, að þegar hann rak loks á hnút blótsyrðanna, með yfirgnæfanlegu öskri, var engu líkara, en að hver hestanna í feninu fyrir sig, yrði gripinn af geysilegum fídonsanda, og þeir tóku svo snarplega á, að á næsta augabragði höfðu þeir kipt vagninum, með öllu saman, upp á þurra og harða grundina.

Annað einkenni Macmillans gerði það að verkum, að honum var treyst öðrum vöruflutningsmönnum betur. Meðan hann var á ferð með varningsæki sitt, var hann alger bindindismaður. En þá sjálfsafneitun jafnaði hann upp aftur við enda hverrar ferðar, því að þá fékk hann sé vel í staupinu, og því svalli lauk hann ekki fyr, en lánstraust hans þraut.

Þessum Macmillan fól Mrs. French Kalman á hendur, með mörgum varúðar-áminningum, og gagnvart Macmillan er ekki nema rétt að geta þess, að ferðalagið, sem stóð yfir heilan mánuð, varð svein-

inum óslitin skemtiferð, en þær stundirnar urðu þó ekki sízt ánægjulegar og eftirminnilegar, er hann horfði hugfanginn á leiðsögumann sinn, drífa hesta sína, með drjúgmæltum formælingum, upp úr þeim mörgu fenjum, sem torvelduðu leiðina. Og áður en Macmillan lét hann af hendi, hafði svínakjöt hans og harðrétti ferðalagsins, og þothvassir sléttuvindarnir sett mark sitt á hann, svo að það var bæði veðurtekinn og verulega harðlegur piltur, sem Jimmy Green var afhentur, þegar til Vegamóta kom.

"Hér er pilturinn, sem á að fara til hans Jack French", sagði Macmillan. "Og námfús unglingur er hann, það má nú segja. Eftir að hafa farið aðra ferð, þá verður hann eins fær um að koma hestunum upp úr feni, eins og hver okkar um sig. Sá kann nú að blóta! Eg hefði nú sagt það! Svo eg segi rétt eins og er, þá furðaði mig á piltinum."

"Blóta", var endurtekið með dimmri röddu í bakenda byggingarinnar, "hver blótar?"

"Sæll Jack", svaraði Macmillan rólega. "Hefurðu verið á túr núna?"

"Það kemur þér ekkert við", sagði Jack, sem varð því stærri upp á sig og skapstyggari, sem hann hafði drukkið meir. "Svaraðu því, sem eg spurði um. Hver blótar?"

"O, það er ekki orð á því gerandi, Jack", sagði Macmillan, "eg var að minnast á drenginn, sem á að fara til þín, það er myndarlegasti piltur, og sá hefir nú munninn fyrir neðan nefið."

"Eg skal taka hann aftur úr skaftinu", tautaði Jack og hnyklaði brýrnar. "Heyrðu drengur minn", sagði hann og snéri sér snúðugt að sveininum, "þú ert sendur mér af þeirri beztu konu, sem til er í víðri veröld, til þess að gera mann úr þér, og á mínum bæ líð eg engum manni að blóta," og eftir að hann hafði hnýtt aftan í þessi ummæli, býsna röskslegum formæl-

ingum, staulaðist hann aftur inn í bakenda búðarinnar, og sofnaði þar drykkjumanns-svefni, en sveinninn stóð eftir höggdofa af undrun og steinþagði stundarkorn.

"Er þetta bróðir hennar?" spurði hann loks, þegar hann mátti mæla.

"Bróðir hennar " spurði Jimmy Green.

"Já, það er bróðir hennar", sagði Macmillan. "En hann er ekki með sjálfum sér og líkastur druknum rakka. Jimmy þarna hefir helt hann fullan", og benti um leið á sökudólginn. "En það er samt rangt af honum, að gera það, jafn vel og hann þekkir Jack French, og drykkjuskap hans."

"Láttu ekki svona, Mac," sagði Jimmy í afsökunarrómi, "þú veizt það eins vel og eg, að þegar Jack French nær í vín, þá er eg ekki fær um að halda í það við hann, og þú ekki heldur."

Þegar Kalman kom ofan af lofti því morguninn eftir, sem Jimmy Green notaði til að geyma í hinar fjölbreyttu vörutegundir sínar, varð hann þess vísari, að Macmillan var fyrir löngu lagður af stað áleiðis til Edmonton. Sveininum fanst hann eins og einstæðingur og kendi leiðinda. Macmillan hafði verið góður við hann, og hann hafði verið eini hlekkurinn, sem tengt hafði hann við borgarlífið, sem hann yfirgaf, Macmillan hafði litla fölleita konan, er hann taldi ímynd alls góðs og göfugs, falið hann á hendur, og beðið hann að koma honum til Jack French, bróður hennar. Kalman hafði átt órólega nótt; hann hafði hrokkið upp við það, hvað eftir annað, að honum þótti koma að sér, þrútinn og reiðilegur á svip, maðurinn, sem hafði ógnað honum daginn fyrir. Sveinninn hafði varla náð sér enn eftir hræðsluna og vonbrigðin, sem hann varð fyrir, er hann fékk að vita, að þessi drykkjurútur og orðhákur, væri sá bróðir, er vinkona hans og velgerðarmanneskja, hafði falið hann til for-

sjár og umönnunar. Það taldi Kalman að vísu ekki blett á manni, þó að hann drykki sig drukkinn, en við það hnykti honum öldungis, að bróðir Mrs. French, sem hún hafði talið honum trú um að væri hið mesta prúðmenni, og gæddur öllum þeim kostum, er karlmann mega prýða, skyldi reynast sá hrokabelgur og ruddi, sem hann hafði nýskeð fengið sönnun fyrir. En er hann var niðursokkinn í þessar raunalegu hugsanir, heyrði hann kallað til sín með glaðlegri röddu:

"Heyrðu drengur minn, ertu búinn að borða morgunmat?"

Hann leit snögt við, og sá þá standa álengdar þreklegan mann, fríðan sýnum, á að gizka miðaldra, hann var nýrakaður, vel til fara, og andlitið glaðlegt og svipfallegt.

"Nei, herra minn", stamaði hann fram, með óvanalegu mjúklæti í röddinni, og starði á manninn, spyrjandi stórum augum.

Það hafði verið Jack French, sem til hans talaði, en þessi laglegi, vingjarnlegi og vel búni maður, var svo gersamlega ólíkur þeim manni, sem kveldið fyrir hafði ausið yfir hann hrakyrðum, og ruddalegum blótsyrðum, að honum var ómögulegt að átta sig á, að einn og sami maðurinn gæti verið.

"Jæja, drengur minn", sagði Jack French, "þú hlýtur að vera svangur. Er nokkuð eftir af morgunmatnum handa drengnum, Jimmy?"

"Já, meir en nóg, Jack", svaraði Jimmy hróðugur, og var sem hann yrði feginn að sjá hann upp á búinn aftur og með skapa sínum. "Hér er mikill og góður matur, komdu inn drengur minn og fáðu þér sæti." Hann opnaði dyr á hliðarherbergi og þar inni stóðu á borði leifar morgunmatarins. "Hér er svínakjöt og egg, drengur minn, egg, segi eg, Hudsonsflóahveitikökur og vindþurkað kjöt. Hvernig lízt þér á?"

Sveinninn hafði enn ekki náð sér eftir undruninna, en tók þó til matar með góðri lyst, en úti fyrir heyrði hann Jack hrópa, með sínum hreina og glaðværa rómi, er hann sagði fyrir um, hversu hlaða skyldi á vagn sinn.

Það var töluverð íþrótt að raða vel vörum á léttivagn. Undir fremra sætið var sett kaffi og sykur og smáir böglar, sem fara áttu heim til Jacks, og til bænda þar í grendinni. En í efri enda vagnsins voru lagðar svínakjötssíður, hveitisekkur og ýms annar varningur, sem með þurfti til heimilis, og reyrt niður með sterkum böndum. Síðast setti French á vagninn, með mikilli gætni, kassa nokkurn, sem fullur var með strái, til hlífðar innihaldi, og þó laumlega væri með kassann farið, þá bar sveinninn gott skyn á, hvað í honum var.

Eftir að búið var að hlaða á vagninn, var að því snúist, að leggja aktýgi á hestana; það verk var bæði hugfangandi og ekki æsingslaust, því að Jack hafði ekið til Vegamóta á villihestum, alveg óbandvönum, og var þetta fyrsta ferð, sem farin hafði verið á þeim til mannabygða. Þeir voru teymdir frá staurgirðingunni, þar sem þeir höfðu verið um nóttina, og viltir, hræddir og afar-hrikalegir voru þeir. Þeir voru þungir í taumi, tóku rykki út á hliðar, frísandi af ótta, og höfðu, þegar hér var komið, verið bundnir traustlega í útihúsi, sem Jimmy Green átti. Ekki var verið að eyða tíma í kjassmæli, heldur tók French aktýgis-kraga og gekk hiklaust, en þó með hægð og gætni, að öðrum villihestinum, bleikum að lit, sem skalf eins og hrísla; og án þess að hirða hót um þó hann prjónaði, rendi French kraganum um háls honum, standandi fast við hlið hans, og þrýsti á hann upp að veggnum. Heldur erfiðlega gekk að koma hinum aktýgjunum á. Hvenær sem hringja eða ól kom við villihestinn, tók hann hörð viðbrögð. Kalman

horfði með aðdáun á French, sem hélt rólega áfram verki sínu, án þess að renna í skap, og án þess að honum slyppi nokkurt blótsyrði.

"Eg býst við að eg þurfi að mýla hann, Jimmy", sagði French, eftir nokkrar árangurslausar tilraunir.

Nú tók Jimmy langan, mjóan en sterkan kaðal, gerði á lykkju, smeygði upp á snoppu hestinum, sveiflaði bandinu upp yfir höfuð annars vegar, niður kjálkann hins vegar og brá því næst lausa endanum undir lykkjuna, og herti fast að þessu ómjúka beizli, með snöggu átaki. Villihesturinn stóð upp á afturfætur, en áður en hann hafði áttað sig, hafði French komið á hann aktýgjunum og spent þau traustlega.

Hinn hesturinn var skjóttur; hann þurfti ekki að mýla, og varð komið á hann aktýgjunum, án mikillar fyrirhafnar.

"Komdu svo með hinn, Jimmy", sagði French, og teymdi þann skjótta út á eftir sér.

En það var hægra sagt en gert, því þegar búið var að snúa þeim bleika við, svo að höfuðið horfði fram að dyrum, setti hann fyrir sig framfætur, spyrntist við, og var ófáanlegur til að þokast úr þeim sporum.

"Sláðu í hann, drengur", sagði Green við Kalmar, sem stóð rétt hjá, fús til að veita hjálp, ef á lægi.

Kalmar hljóp til með spýtu í hendi, smaug inn á milli rimlanna á bálki bássins, og sló hestinn hressilegt högg á lendina. Hesturinn sló svo að hófarnir brustu í veggnum, tók svo hart viðbragð áfram. Kalman lá eftir meðvitunarlaus í básnum.
og var á einu augabragði kominn út úr kofanum, en

"Þú ert aumi þorskurinn, Jimmy," hrópaði French, "haltu nú í tauminn á þessum! Hann hljóp inn, tók sveininn upp í fang sér og mælti: "Dreng-

urinn er dauður, og það er ekki svo óþokkalegt, eða hitt þó heldur."

Hann lagði sveininn meðvitundarlausan á grasbalann, hljóp eftir vatnsflösku, og skvetti drjúgri gusu framan í hann. Innan stundar opnaði pilturinn augun, sem snöggvast, stundi þungan, en lét þau aftur rétt á eftir, eins og hann ætlaði að halda áfram að sofa. French tók þá flösku úr vasa sínum, opnaði munn sveinsins, og helti nokkru úr henni ofan í hann. Jafnskjótt fékk Kalman hóstakjöltur, settist upp og tók að horfa í kringum sig, hálfkjánalega, bæði á hestana og mennina.

"Hann er kominn út", sagði hann loksins, og horfði á þann skjótta.

"Út? Hver þá?"

"Júdas prestur!" hrópaði Jimmy, en það var uppáhalds máltæki hans. "Hann á við villihestinn."

"Já, hann er kominn út, drengur minn", sagði French, "og þú varst sjálfur kominn nær því, að lenda út úr þessum heimi, en líkindi eru til að þú lendir fyrst um sinn. Hvað í ósköpunum var það, sem þér datt í hug að gera?"

"Hann vildi ekki fara úr sporunum", svaraði drengurinn látlaust, "svo eg sló í hann."

"En nú skal eg segja þér nokkuð, drengur minn", sagði Jimmy Green alvarlega; "þegar þú slærð í villihest í næsta skifti, þá skaltu ekki gera það með styttra barefli, en tíu feta langri renglu, nema þú sitjir á baki honum."

Sveinninn svaraði engu, en stóð upp og tók til að ganga ofurlítið, en fölur var hann og hafði höfuð svima.

"Það er gott efni í snáðanum, heldurðu það ekki Jimmy?" sagði French, og horfði fast á hann.

"Já, það er þó satt!" svaraði Jimmy, "honum er ekki fisjað saman."

"Það var mikil hepni, að þú skyldir standa svona nærri hestinum", sagði French við drenginn. "Komdu nú upp í vagninn og sestu niður."

Kalman vatt sér upp í vagninn og athugaði nú vandlega, hvernig þeir French og Jimmy fóru að beita fyrir vagninn. Með æfðri lægni létu þeir hestana ganga aftur á bak, þangað til þeir stóðu beint fyrir vagninum. Þá hélt annar maðurinn við taumana, en hinn krækti aktaugarnar. Þvínæst aðgætti French vandlega allar hringjur og ólar, tok aktaumana í hönd sér, settist í vagnsætið og sagði rólega: "Farðu nú frá Jimmy. Lofaðu þeim af stað," og gerði Jimmy það þegar í stað.

Svo sem andartak stóðu hestarnir kyrrir, eins og höggdofa af því, að hafa fengið þetta óvænta frelsi, og óvissir um, hvernig þeir ættu að nota það, því næst stigu þeir hægt fram fáein skref, þangað til þeir fundu að strengdi á aktaugunum; þá greip þá skyndilega hræðsla, og um leið hófst aðgangurinn. Þeir hoppuðu, gengu aftur á bak, slógu aftur undan sér, hentust til hliðar, unz þeir þutu af stað eins og elding, og runnu til allrar hamingju þá götuna, sem lá í réttu áttina, og þeir áttu að fara.

"Vertu sæll, Jimmy. Við sjáumst aftur", kallaði French, um leið og hann með rólegum huga og stöðugri hönd, beindi hlaupandi hestunum fram veg, er fara skyldi.

"Þetta eru ljótu hlaupa-hundarnir", sagði Jimmy stillilega, er villihestarnir þöndu sig upp árbakkann með ofsaferð. "Þeir eru á góðum vegi með að fælast."

En áður en þeir höfðu náð hæðarbrúninni, var French búinn að ná traustu taumhaldi á þeim, og eftir það fóru þeir hægra, þó að enn væri þeysings-ferð á þeim. Kalman sat keikur og hélt sér í vagninn; hann var kafrjóður og augun tindruðu af ákafa. Í

huga sveinsins voru að rifjast upp endurminningar löngu liðinna tíma, um trylda kappreið á sléttum Suður-Rússlands, og French kinkaði til hans kolli, er hann leit til hans öðru hvoru.

"Ertu hræddur, drengur?" kallaði hann, svo að yfir tók skröltið í vagninum.

Kalman leit upp og brosti; svo kallaði hann upp með svæsnu blóti, og sagði: "Láttu þá fara!".

Jack French hnykti við. Hann kipti fast í taumana og snéri sér að sveininum, sem sat við hlið hans.

"Heyrðu drengur, hvar hefurðu lært þetta?"

"Hvað þá?" spurði sveinninn forviða.

"Hvar hefurðu lært að blóta svona?"

"Á-a-á það! Það gera allir."

"Hverjir allir?"

"Nú, allir í Winnipeg."

"Blótar Mrs. French?" spurði Jack með hægð.

Blóðið stökk fram í kinnar sveininum.

"Nei, nei, sagði hann með hægð, "hún gerir það aldrei. Svo þagði hann ofurlítið og átti augsýnilega í miklu stríði við sjálfan sig. "Hún vildi fá mig til að hætta því, en allir karlmenn og drengir blóta", bætti hann við.

"Kalman", sagði French rólega, "á mínu heimili blótar enginn."

Kalman varð forviða, því að honum var í fersku minni, það sem gerst hafði kveldið fyrir.

"En þú —" hann lauk ekki við setninguna, heldur þagnaði.

"Drengur minn", sagði French með alvörusvip, "það er þarflaus heimska að blóta. Á heimili mínu blóta menn ekki. Lofaðu mér því, að leggja niður þann ljóta sið."

"Það geri eg ekki", svaraði sveinninn einarðlega, "því að eg mundi ekki geta efnt það loforð. Blótar þú ekki sjálfur?"

Jack French þagnaði við; svo var eins og hann hefði alt í einu fastráðið eitthvað við sig, og svaraði því næst: Þegar þú heyrir mig blóta, þá mátt þú byrja. En ef þú getur ekki fastráðið að leggja það niður, þá skaltu ekki lofa því. Hver heiðvirður maður stendur við orð sín."

Sveinninn horfði fast á hann, og sagði því næst, eftir að hann hafði hugleitt síðustu orð hans.

"Já, eg man það. Eg veit það. Pabbi sagði þetta sama.

French lét hjá líða, að herða meir á þessu, en upp frá þeim degi, settu báðir sér að ganga í blótbindindi.

Þegar dró frá Saskatchewanfljóti lá kerruslóðin inn á öldumyndaða sléttuna, sem hingað og þangað stóðu á lundar vestrænna aspa og hlyntrjáa; en þessutan var sléttan fleyguð fenjum og vötnum mismunandi stórum; landið var frjósamt og fagurt á að líta, svo varla finst annað gnægtaríkara á guðs grænni jörð. Þó að dimt sé uppi yfir, leiðir þessi öldumyndaða slétta, þakin trjálundum og vatnsgljáum fenjum, hvað eftir annað fram aðdáanlega fagrar sýnir fyrir auga ferðamannsins, en á heiðskýrum Maí-degi, við skin vestrænnar sólar, hlýtur dýrðarmynd þessa lands að mótast svo fast í fylgsnum sálar óhorfenda, að hún verður öldungis ógleymanleg. Öldumyndað jarðvegs-yfirborðið, kollóttar hæðirnar, litskrúðið, skuggafarið á grund og grænum hlynum, og gljáinn á tjörnum — alt styður að því, að í sálu manns vakna himneskir hljómar, sem hrópa til guðs.

Í fulla klukkustund rann vagninn kerruslóðina mjúklega og þó um margar bugður; villihestarnir drógu hann knálega, og engin merki sáust til þess, að þeir væru farnir að þreytast; smátt og smátt tóku trjálundarnir að verða fleiri og þéttari, og loks lá vegurinn inn á óslitið skógarbelti. Undir þessu skóg-

arbelti lá rúthenska nýlendan, er nýskeð hafði verið sett á stofn. Fyrsti votturinn um það, að ferðamennirnir voru komnir í námunda við nýlendu þessa, kom nokkuð óvænt. Í því að villihestarnir tóku á sig knappan krók, fyrir skógarnef, mættu þeir manni, sem kom með heyæki, en uxar gengu fyrir því. Tóm gafst ekki til að stöðva hestana nægilega fljótt, svo að áður en við var gert, höfðu þeir rekist svo hranalega á uxana, að þeir hröklúðust út af veginum, og heyækið steyptist um koll. Um leið kváðu við skrækróma formælingar á galiziska tungu.

"Hægan Bleikur! Kyrrir!" kallaði Jack French, um leið og hann stýrði hestum sínum fram hjá kollsteyptu heyækinu. "Þetta fór illa; við verðum að stanza og hjálpa manninum, til að rétta við vagninn hans."

Hann batt hestana vandlega við tré og snéri því næst aftur að hjálpa manninum. Galizíumaðurinn var mikill á velli og þrekvaxinn. Hann stóð á brautinni með gildan staur í hendi; hann starði á æki sitt á hliðinni, og lýsti tilfinningum sínum með mælskuríkum galiziskum blótsyrðum, en skaut inn í á stöku stað haltrandi og bjöguðum enskum orðum. Kalman stóð við hliðina á French og var kafrjóður af gremju.

"Hann er að uppnefna þig!" sagði sveinninn loks, þegar hann gat ekki stilt sig lengur.

French leit framan í unglinginn, sem var með augsýnilegum reiði-svip, brosti og sagði:

"Æ, það gerir minst til. Honum líður betur, eftir að hann hefir ausið þessu úr sér. Honum er líka vorkunn, þó að hann sé gramur."

"Hann segist ætla að drepa þig", sagði Kalman lágt, og færði sig nær French.

"Á-á-á? Einmitt það," svaraði French kankvíslega og gekk rakleitt til mannsins. "Það er nú athugavert, en eg hugsa að hann hætti við það."

Þetta rólega atferli hafði sínar verkanir á Galizíumanninn.

"Þetta fór illa, nágranni góður", sagði French hátt og glaðlega, í því hann kom til Galizíumannsins. Galizíumaðurinn hafði sefast ofurlítið við rósemi þá er French sýndi, en nú var sem hann æstist aftur og tók að veifa staurnum í kringum sig af miklum móði. French snéri frá honum, til að líta eftir, hverjar skemdir hefðu orðið, um leið og heyækið steyptist um, og íhuga hvernig hagkvæmast væri að koma öllu í lag aftur. Um leið og hann laut niður, til að skoða skemdirnar á vagninum, reiddi Galizíumaðurinn upp staur sinn af mikilli reiði, en áður en tími gæfist til að láta höggið ríða af, hrópaði Kalman á galizísku: "Hægan! þorparinn þinn!"

Þetta óvænta hróp á tungumáli Galizíumannsins varð til þess, bæði að koma í veg fyrir það, að höggið lenti þar sem hann hafði ætlast til, og til að aðvara þann, sem til var slegið. French veik sér skyndilega undan, svo að Galizíumaðurinn kom ekki höggi á hann og í sömu svipan sveif Englendingurinn á óvin sinn, kipti af honum bareflinu, tók í hnakkadrambið á honum, snéri hausnum á honum að framhjólum vagns hans og mælti um leið: "Hérna er meiri þörf á fyrir þig að reyna krafta þína, taktu á og hertu þig!"

Rösklegt tak í hnakkann á Galizíumanninum hafði tilætlaðar verkanir á hann. Hann stóð stundarkorn, svo sem steini lostinn, horfandi sitt á hvað, og óviss í hvað gera skyldi.

"Segðu honum, bjálfanum þeim arna, að hann skuli taka í framhjólið á vagninum, og hnykkja á," sagði French rólega við Kalman.

Drengurinn starði á hann hissa.

"Ætlarðu ekki að lúskra honum?" spurði hann.

"Hefi ekki tíma til þess núna," svaraði French brosandi.

"En hann hefði getað drepið þig."

"Það hefði hann líklega gert, ef þú hefðir ekki kallað til mín. Eg skal heldur ekki gleyma því drengur minn. En nú gat hann það ekki, og hann skal ekki fá færi á því aftur. Segðu honum að taka í vagninn."

Kalman snéri sér að Galizíumanninum og tók til að lesa yfir honum, um leið og hann gerði honum skiljanlegt, hvað hann ætti að gera. Hann tók auðmjúklega í vagnhjólin, og innan skamms tókst að rétta vagninn við, svo að hálfri klukkustund liðinni var alt komið svo í samt lag, að halda mátti áfram með ækið.

Þá hafði Galizíumaðurinn áttað sig til fulls, og stóð nú stundarkorn þegjandi yfir öllu saman og eins og hálf-hissa. Því næst tók hann að ávarpa French með áköfum brettum og handagangi.

"Hvað er hann að segja?" spurði French.

"Hann segist vera hryggur og finna til hérna", sagði Kalman og benti á hjartað. "Hann segir sig langi til að þægja þér eitthvað."

"Segðu honum aftur, að það séu kjánar, sem missi stjórn á sér", svaraði French glaðlega "og sá maður hljóti að vera ruddi, sem brúki barefli eða hníf til að berjast með."

Kalman horfði á hann forviða.

"Tuddi?"

"Nei, ruddi. Veistu ekki hvað það er að vera ruddi. Ruddi er — fjárinn hafi það, sem eg veit, hvernig eg á að fara að útlista það fyrir þér. Þú veizt, hvað það er að vera prúðmenni?"

Kalman kinkaði kolli.

"Ruddi er gagnstætt því.

Galizíumaðurinn hlýddi með athygli til, meðan

Kalman túlkaði, og bað auðmjúklega fyrirgefningar.

"Hann segist taka sér mjög nærri þetta frumhlaup sitt", svaraði Kalman, er þýddi orð hans, "og hann segir sig langi til að vita, með hverju þú berjist, þegar þú eigir í illdeilum við einhvern. Hann segir að þú getir ekki meitt neinn með berum höndunum."

"Einmitt það", svaraði French. "Segðu honum þá, að nema staðar hérna frammi fyrir mér."

Galizíumaðurinn brosti og færði sig nær, en French tók að útlista fyrir honum undirstöðuatriði hnefaleikalistarinnar, en Kalman túlkaði jafnframt.

"Haltu uppi höndunum, svona. Nú ætla eg að koma höggi á ennið á þér."

En innan skamms glumdi við, er hnefar French smullu á enni Galizíumannsins.

"Varaðu þig, varaðu þig!"

Aftur skullu og smullu hnefar French á gagnaugum Galizíumannsins, þrátt fyrir alt fálm hans við að bera af sér höggin.

"Svona", sagði French, "nú skaltu reyna að slá mig."

Galizuímaðurinn gerði herzlulausa tilraun.

"Nei, þú þarft ekki að vera hræddur. Reyndu að slá mig af öllu afli."

Gilizíumaðurinn ruddist fram að honum, en þar rak hann sig á þróttmikla handleggi.

"Hertu þig, hertu þig," sagði French, og hitti hann með snöggu höggi á vangann.

Enn á ný sló Galizíumaðurinn til hans mikið högg, með sínum stóra hnefa, en French bar af sér höggið og sló hann aftur, hvað eftir annað, svo Galizíumanninum vöknaði um augu. Hann hætti, og sagði um leið eitthvað í þá átt, að þessi bardagaaðferð væri heldur auðvirðileg.

"Hann segir að svona barsmíð sé gagnslaus, og

enginn geti gert öðrum mein með hnefahöggum," túlkaði Kalman.

"Segir hann það", sagði French. "Segðu honum þá að koma enn einu sinni móti mér, en áminntu hann um, að gæta vel að sér."

Galizíumaðurinn skálmaði á ný móti French, og var nú staðráðinn í því, að koma að minsta kosti á hann einu höggi. En French bar af sér höggið, og um leið rétti hann Galizíumanninum gríðarmikið högg, með vinstri hendi, í hjartagrófina, svo að hann tókst á loft og hentist, standandi á öndinni, yfir að heyækinu. Hann staulaðist á fætur aftur, kinkaði kolli og var ákaflega óðamála.

"Þetta er nóg. Hann segir að sig langi til að læra þessa bardaga-aðferð. Hún sé betri en kylfa", túlkaði Kalman eftir honum.

"Segðu honum, að þjóðbræður hans verði að læra að berjast, án þess að brúka kylfu eða hnífa. Við líðum þeim ekki að brúka þau vopn hér í landi. Ef þeir gera það, þá enda þeir æfi sína í snörunni."

Kalman túlkaði þetta blóðrjóður í framan og í meira lagi auðmjúkur. Hann var að brjóta heilann um, hvað mikið French væri kunnugt af æfisögu sinni.

"Vertu nú sæll," sagði French, og rétti Galizíumanninum hendina.

Hann bar hana upp að vörunum.

"Hann segist vera þér mjög þakklátur, og biður þig að erfa ekki vonzku sína."

"Það skal eg ekki gera, kunningi", sagði French glaðlega. "Við sjáumst aftur áður langt líður."

Að svo mæltu skildu þeir, og Kalman þóttist viss um það með sjálfum sér, að hann hefði oftar en einu sinni á æfi sinni hegðað sér eins og ruddi, og var kvíðafullur yfir því, að slíkt kynni að berast til eyrna hinum nýja húsbónda sínum og vini.

"Heyrðu drengur minn, þú gerðir mér meir en lítinn greiða áðan", sagði French við hann, því að hann tók eftir því, hvað Kalman var áhyggjufullur. "Ef þú hefðir ekki varað mig við, þá hefði þessi náungi farið illa með mig. Eg ætla að láta þig njóta þess, heldur en hitt."

Það hýrnaði yfir Kalman við að heyra þetta, en ekki töluðu þeir fleira saman, því að hvor um sig var sokkinn niður í sínar eigin hugsanir, og þannig héldu þeir þegjandi áfram ferðinni þangað til rökkva tók, og nóttin færðist yfir.

En ferðin' eftir Edmonton-akbrautinni, setti merki sitt, bæði á líf French og sveinsins, svo fast, að það merki hvarf aldrei með öllu. Sá dagur varð til þess að vekja í brjósti Kalmans nýja skoðun á karlmannlegum yfirburðum. Engum manni, sem hann hafði þekt, hafði tekist svo vel, að ná tangarhaldi á trygð hans, og ímyndunarafli. Satt var það, að faðir hans hafði verið slíkur maður, en nú var hann horfinn í skuggamóðu, fyrir utan sjóndeildarhring endurminninganna. En nú sat hann andspænis manni, sem sýnt hafði, að hann hafði til að bera alla þá hæfileika, sem þarf, til þess að gera mann að hetju í huga og hjarta ungra sveina. Hafði þessi maður ekki sýnt alveg dæmalaust hugrekki, rósemi þolgæði og afbragðs vald yfir sjálfum sér, í viðureigninni við ólma villihestana? Sömu hæfileikar höfðu og komið í ljós hjá honum, á enn hærra stigi, þegar hann átti við reiðan og morðgjarnan Galizíumanninn. Þar að auki hafði Kalman allan þennan dag fundið til þess, að í brjósti samferðamanns hans var vel vakandi tillitssemi, og að honum bjó rík samúð í huga, á bak við allan þróttinn og hugrekkið, sem hann hafði til að bera. Kalman fann hjá honum tvímælalaus einkenni einhvers þess, sem háleitt hlaut að vera; hann fann hjá honum lunderni og líferni

prúðmennis. Ekki gat Kalman að vísu skilgreint skoðun sína á hinum nýja vini sínum, á þann hátt, en ung og viðkvæm sál hans fann, að í þessum manni bjó eitthvað það, er talaði til og hvatti fram einlæga lotningartilfinning.

En þessi dagur hafði einnig vakið í huga French tilfinningar og hugsanir, sem hann hafði ekki orðið var við síðan á dögum síns æskublóma fyrir tuttugu árum, meðan veröldin var honum sem draumaheimur, eins og burtreiðarvöllur, þar sem mikla frægð mátti vinna sér. Við að horfa á andlit sveinsins, sem eldmóðurinn skein úr, þrátt fyrir alt hið umliðna böl, og við að virða fyrir sér, augljósa og ótrúlega aðdáunina, er brann úr augum hans, lá við að French fyndi hroll fara um sig, og að hann yrði var við samvizkubit, er hann hafði ekki fundið til áður, yfir þeirri mannskemming, sem tuttugu ára villimannalíf á sléttunum hafði sett á hann. Sárt gramdist honum nú, er rökkva tók og kveldskuggarnir stækkuðu, hvað úr honum væri orðið, og hvað búist var við að hann væri. Feginn hefði hann viljað varpa af sér þeirri miklu byrði, að takast á hendur þenna unga svein, með barnslega og saklausa sál, er í einfeldni sinni skipaði honum á bekk með guðunum sjálfum. Að eins vegna hennar gerði hann það ekki, konunnar, sem hann geymdi mynd af í hjarta sínu, og talaði máli sveinsins með sínu raunalega innilega andliti og ástúðlegu mælsku fölskvalausrar trygðar.

"Nei, eg get ekki færst undan því", sagði hann við sjálfan sig og beit á jaxlinn. Eg væri ruddamenni, ef eg gerði það."

Eftir að hafa velt þessu fyrir sér og fastráðið það, er fyr greinir, beygði French og ungi sveinninn af Edmonton-akbrautinni, dökkri af iðulegri umferð, yfir á hina óglöggu kerruslóð, sem lá til Wakota, miðbóls galizískru nýlendunnar.

## XII. KAPÍTULI.

### *Unglingurinn mannast.*

Það var komið myrkur þegar þeir fóru frá Wakota, en þar var að eins einn moldarkofi Galizíumanns, sem átti smiðju, og gerði járnsmíði alt fyrir bygðarbúa, þó að með miklum frumbýlingsbrag væri. Frá Wakota áttu ferðamennirnir eftir tíu mílur heim og yfir vondan veg að fara. Kerruslóðin lá í bugðum gegnum skógarbelti og fram hjá fenjum, niður í lægðir og yfir skolalitaða læki, er hestunum varð að eins komið yfir, með því að stýra þeim af stakri snild.

Nokkuð var orðið áliðið nætur þegar þeir náðu heim að Nátthaukagili, en yfir það urðu þeir að fara, áður þeir komust að vatninu. Niður í gilið skáskáru þeir sig, og sneyddu hjá trjám og hnullungsgrjóti, þangað til þeir komu að neðstu og bröttustu brekkunni, sem lá upp frá sjálfum læknum. Alla leiðina niður í gilið hafði Kalman haldið sér dauðahaldi í vagnsætisbakið og hliðina. Hann bjóst við því á hverri stundu, að vagninn steyptist ofan á sig; en þegar þeir komu að neðstu brekkunni, dauðlangaði hann til að biðja um að lofa sér út úr vagninum og renna sér niður hallann, og hann hefði gert það, ef honum hefði ekki þótt skömm að því.

Svo sem andartak stöðvaði French villihestana svo að þeir námu staðar á þverhnýptri brekkubrúninni. Því næst hallaði hann sér aftur á bak, greip um afturhjól vagnsins, hélt því föstu svo að það snérist ekki, notaði það sem stýri eða hjólstöðvara og þann-

in runnu villihestarnir á eftri fótleggjunum, niður eftir þverhnýptri mölinni og lausagrjótinu, þar til þeir komu niður í vatnsfarveginn óskemdir. Þeir busluðu yfir lækinn, klifu upp brekkuna, en það var æði löng leið, og eftir það var haldið út á sléttuna aftur. Eftir einnar mílu keyrslu eftir góðum vegi náðu ferðamennirnir heim, og var fagnað þar af tveimur vöxtulegum og gjárífum úlfahundum.

Í rökkurmóðunni gat Kalman greint það er honum virtist svipaðast langri röð af bjálka-þústum, en síðar komst hann að raun um, að þetta var röð kofa, er notaðir voru svo sem íveruhús, fjós og þar að auki til geymslu af ýmsu tagi.

"Þegiðu! Bismark! Þegiðu! Blucher! Mac! Mac! Hvar ertu?"

Að stundarkorni liðnu kom Mackenzie út, með ljósker í hendi. Hann var lágur vexti, en þrekinn, gráhærður og nuddaði augun og geispaði mjög mikið.

"Mér datt alls ekki í hug, að þú mundir koma heim í kveld", sagði hann. "Hvað hefirðu meðferðis núna?"

"Og tölum ekki um það, Mac", svaraði French. "Farðu með hestana, en við Kalman getum náð föggunum ofan úr vagninum."

Í yzta kofanum gengu þeir svo frá svínakjötinu, mjölinu og ýmsu öðru, sem í vagninum hafði verið. En þegar Kalman tók kassann, sem stráið var í, þá skarst French í leikinn.

"Heyrðu drengur minn, eg skal sjá um kassann sjálfur," sagði hann í flýti.

"Eg skal passa að brjóta ekki það, sem í honum er," sagði Kalman og lyfti honum upp með mestu varkárni.

"Á-á-á, ætlarðu að gera það?" spurði French hálf-skömmóttulega. "Veiztu þá, hvað í honum er?"

"Já, vitaskuld veit eg það", mælti Kalman. "Það

var komið með meir en lítið af þeim varningi inn á heimili okkar í Winnipeg."

"Hvað sem því líður, þá fáðu mér kassann", sagði French, "og það er óþarfi fyrir þig að minnast nokkuð á hann við Mackenzie. Mac er gæða-skinn, en ef hann kemst á snoðir um að áfengi sé til á heimilinu, þá hefir hann tjón af því."

"Tjón af því? Nú, drekkur hann þá ekki?"

"Jú, en það er nú einmitt meinið, drengur minn. Hann þolir ekki við, þegar hann veit af áfengi einhversstaðar, þar sem hann getur náð í það. Honum rennur Indíána blóð í æðum, og hann mundi láta líf sitt fyrir brennivín."

Að svo mæltu tók French upp kassann, bar hann inn í innra herbergið í íveruhúsinu og skaut honum inn undir rúm sitt.

En í því hann reis á fætur, frá því að koma þessum viðsjárverða varningi á óhultan stað, rak Mac höfuðið inn úr dyrunum.

"Á hvað ertu að glápa hér?" spurði French mjög óþolinmóðlega.

"Og ekki svo sem neitt", svaraði Mackenzie, og var einkennilegt að heyra í málrómi hans renna saman hina hörðu áherzlu Hálendingsins, við mjúkan Indíána-málhreiminn, og hörundsdökkur var hann á svip eins og hinir vestrænu forfeður hans. "Það er vel geymt þarna hvort sem er."

French stóð stundarkorn þegjandi og var í mestu vandræðum; loks rak hann upp hlátur og mælti: "Einmitt það, Mac. Það er gagnslaust, að vera að reyna að halda þessu fyrir þér. En mundu eftir því, að seinast fór illa fyrir þér. Eg líð þér ekki þess kyns aðfarir aftur."

"Og, jæja, jæja", svaraði Mackenzie glaðlega; eg varð ekki lengi frá verkum hvort sem var, og mönnum eins og mér er vorkunn."

"Svona, færðu okkur nú eitthvað að borða, Mackenzie", sagði French hranalega, "og svo förum við strax að hátta."

Ket af viltum öndum ásamt hveitikökum og sírópi og sterku svörtu tei, var lystugur kveldverður eftir langa dagleið um vindleikna sléttuna. Að loknum kveldverði sátu karlmennirnir um hríð og reyktu úr pípum sínum.

"Hvað líður höfrunum, Mac?"

"Búið að sá þeim, en eftir að herfa enn þá. Eg ætla að gera það í fyrra málið."

"Er kartöflu-akurinn fyllilega búinn?"

"Já, akurinn er undirbúinn, en útsæðið er yfir frá hjá Garneau."

"Eftir hverju hefurðu verið að bíða? Það hefði átt að vera búið að sá þessum kartöflum fyrir tíu dögum. Það borgar sig varla að sá þeim eftir þetta."

"Garneau lofaði mér að koma með þær," svaraði Mackenzie, "en það er annað en spaug að reiða sig á þann mann."

"Jæja, við verðum að ná í þær sem allra fyrst. Það má ekki dragast degi lengur. Og nú skulum við fara að hátta. Drengurinn getur sofið þarna," og benti á stóran kassa, sem notaður var í legubekks stað. "Sæktu honum ábreiður, Mac."

Þegar kassa þessum var lokið upp, kom í ljós, að hann var gerður sem rúm að innanverðu.

"Hérna Kalman minn, áttu að sofa, heldurðu að þú getir gert þér það að góðu?" spurði French, meðan Mackenzie hagræddi ábreiðunum.

"Það er ágætt", svaraði drengurinn. Hann var svo þreyttur, að hann átti bágt með að halda augunum opnum, og innan stundar hafði hann hreiðrað sig niður og steinsofnað.

Honum fanst að hann ekki hafa sofið nema stundarkorn, þegar hann hrökk upp við þungan dynk.

Hann spratt upp, og fann þá, að Mackenzie hafði fallið dauðadrukkinn og ósjálfbjarga oían á sig.

"Heyrðu, svínið þitt!" sagði French lágt, "geturðu ekki sagt til, þegar þú ert búinn að fá nægju þína? Stattu þarna upp!"

Ragnandi reisti hann Mackenzie á fætur.

Komdu nú í rúmið!"

"Ójá, ójá", tautaði Mackenzie, "og eg veit vel hvað þú munt hafa fyrir stafni, eftir að eg er kominn í rúmið; það skal eg ábyrgjast, að þú skilur ekki eftir deigan dropa í flöskunni," Mackenzie sagði þetta með grátstaf í kverkunum.

"Farðu að sofa þursinn þinn", sagði French með valdalegum þótta, og hratt manninum a undan sér inn í hitt herbergið.

Kalman var vel vakandi, en lézt sofa. Hann gaf French nánar gætur, þar sem hann sat með þungum svip, drekkandi í sífellu, þangað til hann, sem þoldi vín manna bezt, varð loks út-úr, staulaðist samt inn í insta herbergið, og lét sig falla þunglamalega ofan í rúmið. Kalman beið þangað til French var steinsofnaður. Þá stóð hann hljóðlega á fætur, dró af honum skóna, breiddi ábreiðu ofan á hann, slökti ljósið og gekk svo aftur til hvílu sinnar. Það sem hann hafði orðið sjónarvottur að um kveldið, eftir undangengna viðburði dagsins, hélt fyrir honum vöku. Hann bylti sér á ímsar hliðar, og það var ekki fyr en með birtingu, og honum seig loks blundur á brá.

Það var orðið áliðið morguns, þegar hann vaknaði til óskemtilegra endurminninga, og enn þá óskemtilegra veruleika. French svaf enn og hraut hátt. Mackenzie snæddi morgunverð og stóð flaska hjá honum á borðinu.

"Á bekk utan við dyrnar er skál til að þvo þér", sagði hann og benti drengnum út.

Þegar Kalman kom inn aftur, eftir að hafa þvegið sér, var flaskan horfin og Mackenzie hafði þá til handa honum grautardisk með sætuþykni út á; en drjúga vínlykt fann Kalman af vinnumanninum. Kalman borðaði grautinn, ásamt brúnuðu hveitibrauði, leifum af andakjöti og sterku svörtu tei. Það var morgunmaturinn.

Sveinninn hraðaði sér að borða, því að honum var illa við, að verða fyrir French, þegar hann vaknaði.

"Ætli hann borði ekki morgunmat?" spurði Kalman, um leið og hann stóð upp frá borðinu.

"Nei, hann er ekki vanur því, hann vill engan morgunmat. Honum kemur það samt vel, að hann hefir mann til að líta eftir heimilinu," sagði Mackenzie með augsýnilegu sjálfsáliti. "Það er réttast fyrir okkur, að fara að eiga við hafrana og kartöflurnar. Þú getur komið með herfin."

"Með hvað?" spurði Kalman.

"Með herfin."

Kalman vissi hvorki upp né niður.

"Kantu ekki að herfa?"

"Eg veit ekki", sagði Kalman. "Hvað er það?"

"Kantu þá að sá kartöflum?"

"Eg veit ekki," endurtók Kalman, og álit hans á sjálfum sér var nú farið að bíða drjúgan hnekki.

"Hvaðan kemurðu, maður?" spurði Mackenzie með vorkunnlæti miklu.

"Frá Winnipeg."

"Frá Winnipeg. Hana þekki eg vel. Já, það held eg. En það er nú orðið langt um liðið síðan. Hefirðu nokkurn tíma keyrt hesta?"

"Nei, aldrei", svaraði Kalman. "En það vildi eg læra."

"Og hvað skyldi hann þá ætla að gera með þig hér?"

"Eg veit ekki", sagði Kalman.

"Ójá, hann er undarlegur maður á stundum, og tekur upp á mörgu skrítilegu."

"Ekki get eg sagt það", svaraði Kalman reiðulega. "Mér finst hann mesti ágætismaður."

Mackenzie horfði hálf-forviða framan í sveininn, sem var gremjulegur á svip.

"Sussu! sussu! Er nokkur að hafa á móti því? Hann er ágætismaður, eins og þú segir, en undarlegur er hann eigi að síður, og vona eg að þú komist að raun um það. En komdu nú og við skulum sækja hestana. Það er annars leiðinlegt, að þú skulir ekki kunna nokkurt verk að vinna."

"Sýndu mér hvernig á að gera verkin", sagði Kalman íbygginn, "og svo skal eg reyna að gera þau."

Fjósin voru hrörleg í meira lagi, og hefðu þurft aðgerðar við, eins og fleiri hús á þessari bújörð. Í hesthúsum stóðu hross, sem auðséð var að mikið höfðu verið brúkuð, en ekki haft hirðing að sumu leyti; aktýgin voru bætt með kaðalspottum, og ósútuðum leðurólum. Þó að Kalman væri óvanur að fara með hross, sá hann, að hér var ekki alt, eins og vera átti.

Lítið hafði verið sint um jarðyrkju á Nátthaukagili. Langt var til markaðar, og nærri því ókleift að fá fólk til að vinna fyrir bændur. Þeir French og vinnumaður hans voru ekki kröfuharðir menn. Ofurlitlir akurblettir þar sem ræktaðir voru hafrar og bygg, handa hrossum, svínum og hænsnum, og ofurlítill blettur undir kartöflurækt, var öll sú jarðyrkja, sem við var fengist á bújörðinni. Markað fyrir kartöflur sínar gátu þeir fengið hjá trjáviðarhöggsmönnum.

Kalman gaf nákvæmar gætur að því, hvernig farið var að því að beita hrossum fyrir herfi, og gekk fram og aftur með Mackenzie, meðan hann var að

herfa hafra-akurinn. Honum sýndist það vera auðvelt að stýra hestunum við herfinguna, og fór að langa til að reyna það.

"Lofaðu mér að keyra ofurlítið", sagði hann loksins.

"Og sussu nei, þeir mundu hlaupa með þig í ógöngur."

"Og, hættu, hættu", sagði Kalman fyrirlitlega.

"Hvað ertu að segja? Hverju á eg að hætta?"

"Og láttu ekki svona."

"Hvernig læt eg? Þetta mundi ekki vera þitt meðfæri."

"Lofaðu mér að keyra ofurlítið."

"Jæja, mér er sama; eg ætla þá að ganga við hliðina á þér," sagði Mackenzie auðsjáanlega feginn.

Tilraun Kalmars hepnaðist ágætlega, því að drengurinn var bæði athugull og handfljótur. Eftir aðra umferðina lofaði Mackenzie Kalman að fara með hestana einum, en settist í skugga undir tré og kallaði þaðan til hans leiðbeiningar sínar. Var báðum þetta hið mesta ánægjuefni. Kalman var innilega þakklátur fyrir að mega keyra hestana, en þó Mackenzie hins vegar væri óþreytandi á ferðalögum á láði og legi, þá hafði hann hina megnustu óbeit á stöðugri vinnu, eins og aðrir Indíána kynblendingar. En að liggja í grasinu reykjandi í skugga aspanna, á vörmum og björtum vordegi, það var honum alveg óviðjafnanleg sæla.

Innan stundar fór Mackenzie að óróast. Hann tók að þyrsta allákaft.

"Haltu svona áfram", sagði Mackenzie, "eg skal taka við hestunum rétt strax."

"Já, vertu ekki að hraða þér mín vegna", sagði Kalman, drjúgur yfir því, hvað honum gekk verkið vel, sem hann var þó óvanur að vinna.

"Mundu eftir að láta þá fara beint. Og farðu

gætilega þegar þú snýr þeim við", sagði Mackenzie í aðvörunarrómi. "Eg kem bráðum aftur."

Áður en hálf klukkustund var liðin, kom hann aftur mjög ánægður og kátur.

"Þú ert alveg bráðlaginn, drengur," sagði hann, í því að Kalman veik við hestum sínum. "Þú verður afbragðs bóndi, Tommy."

"Eg heiti kalman."

"Jæja, jæja, Callum. Það er fallegt nafn hvort nafnið sem er."

"Kalman heiti eg."

Mackenzie kinkaði kolli svipþungur.

"Það er óþarfi fyrir þig, að vera að öskra svona hátt Callum minn. Haltu áfram, haltu áfram að herfa," mælti hann ennfremur, svo að Kalman fór ekki að verða um sel.

Hann þokaði sér nær, og hann var svo veraldarvanur orðinn, að honum duldist ekki hvað að Mackenzie gekk.

"Þú ert orðinn fullur," sagði hann fyrirlitlega.

"Þvættingur, þvættingur, Callum minn", svaraði Mackenzie alvarlega, "en að þér skuli geta dottið í hug, að bera mér annað eins á brýn núna? Haltu nú áfram, annars verð eg að taka við hestunum."

"Þú ert þesslegur", svaraði Kalman þóttalega. "Láttu mig í friði."

"Þú ert vænn drengur", sagði Mackenzie með föðurlegu brosi; síðan snéri hann yfir að runnanum, bandaði hendi til Kalmans á leiðinni, og tók þaðan að senda honum öðru hvoru sínar fyrirskipanir um herfinguna.

Sólarhitinn varð mjög megn. Morgungolunni slotaði, svo að blíðalogn varð, og þegar kom fram á daginn, tók sveinninn bæði að þreytast og verða sárfættur, að ganga fram og aftur um akurinn. Mackenzie var fyrir löngu hættur, að kalla upp fyr-

irskipanir sínar, en sat þögull og brosandi; hann lét sér nægja að benda Kalman með hendinni, þegar hann átti að víkja hestunum við. Hestarnir voru lúnir og tóku að fara hægra og hægra, unz þeir námu staðar utan við akurinn og voru ófáanlegir til að þokast úr þeim sporum.

"Láttu þá standa þarna stundarkorn, Callum minn", sagði Mackenzie blíðlega. "Komdu hinagð og hvíldu þig. Þú ert efni í allra bezta ökumann. Komdu og tyltu þér niður."

"Ætli hestarnir standi þarna kyrrir?" spurði Kalman, því að ábyrgðartilfinning hans varð því meiri, sem honum varð betur ljóst, ástand það sem Meckenzie var í."

Mackenzie hló ánægjulega. "Já, víst standa þeir kyrrir, nema ef þeir skyldu taka upp á því að leggja sig fyrir og hvíla sig."

Kalman nálgaðist hann og aðgætti hann vandlega.

"Heyrðu", sagði hann loks, "hvar hefurðu *það?*"

Mackenzie glápti á hann einkar sakleysislega.

"Hef eg hvað?"

"Og vertu ekki með þessi látalæti, gamli þrjótur! Hvar hefurðu pytluna?"

"Hvað ertu að mjálma?" sagði Mackenzie snúðugt. "Þú ert þó ekki að leika þér að því að uppnefna mig?"

Í því að hann stóð á fætur, valt flaskan út úr vasa hans. Kalman hljóp til og ætlaði að ná í hana, en Mackenzie varð fyrri til. Hann hreytti úr sér viðbjóðslegu blótsyrði, þreif upp flöskuna og sló mikið högg til sveinsins um leið, án þess þó að hitta hann.

"Djöfullinn þinn!" hvæsti hann út úr sér í bræði. "Eg skal mola á þér hausinn."

Kalman veik sér undan. "Þú ert dygga hjúið eða hitt þá heldur. Hvað heldurðu að hann húsbóndi þinn segi?"

Svipur Mackenzie breyttist á augabragði.

"Húsbóndi minn", sagði hann, og rendi auga heim að húsinu. Hann húsbóndi minn? Er nokkuð ljótt í því að fá sér ofurlítið tár þegar maður er lasinn?"

"Þú lítur ekki út fyrir að vera sárþjáður", sagði Kalman fyrirlitlega.

Mackenzie hristi höfuðið raunalega og lagðist niður í grasið. "Eg hefi nú í mörg ár þjáðst af innvortis meinsemd. Eg held það sé af meltingarleysi, og það gengur mjög nærri mér. En heyrðu Callum, það er nú rétt komið að miðdegisverði. Þú skalt nú láta inn hestana og eg skal svo koma á eftir þér heim."

En Kalman lét ekki leika þannig á sig.

"Eg veit ekki hvernig á að fara að því að láta inn hestana. Komdu sjálfur og láttu þá inn. Eg skal hjálpa þér til." Hann var orðinn gramur við vinnumanninn, húsbónda síns vegna.

Mackenzie staulaðist á fætur og gætti vandlega að flöskunni í vasa sínum. Kalman hafði hinsvegar fastráðið það við sig, að ná í hana, ef hann mögulega gæti. Það færi bauðst, þegar Mackenzie var að krækja af síðustu aktaugina. Þá datt flaskan úr vasa hans. Kalman greip flöskuna, með sama snarræði og köttur mús, og flúði undan, sem fætur toguðu.

Yfirbragð Mackenzie breyttist alt í einu. Brosið hvarf af andlitinu og það afmyndaðist af ilsku; dökku augun tindruðu af slægðarríkri mannvonzku og grimd; skozki málhreimurinn hvarf, og rómur hans og hreifingar urðu sama eðlis og hinna gömlu forfeðra hans, Cree-Indíána. Hvæsandi fram ópum

með illilegu kokhljóði, rann hann með fráleik og fimleik, sem Indiánum er laginn, er þeir elta óvini sína, og sókti eftir Kalman gegnum skógarrunnana. Svipur hans var svo fjandsamlegur, að þó að Kalman sæi ekki nema öðru hvoru, að Mackenzie brygði fyrir, fyltist sveinninn miklum ótta, og hætti hann því að reyna, að fela sig fyrir honum í runnunum, en hljóp út á sléttuna og stefndi beint heim að húsinu; Mackenzie var rétt á hælunum á honum. Sveinninn þaut inn í skúrinn framan við húsið, inn í fremra herbergið og skelti hurðinni á eftir sér. En enginn lás var fyrir hurðinni, svo að vonlaust var að sveinninn fengi lengi legið á henni og varnað Mackenzie þannig inngöngu. Hann skimaði óttasleginn inn í innra herbergið. French var horfinn þaðan. Meðan hann stóð þarna yfirkominn af skelfingu, var hurðinni ýtt upp með hægð, og slægðarlegt andlit Mackenzie kom í gættina, afmyndað af reiði og óslökkvandi hatri. Með miklum mjúkleik vatt hann sér inn í herbergið, og flaug á drenginn alveg hljóðlaust. Einn eða tvo hringi hlupu þeir hvor eftir öðrum kringum borðið, og bar Kalman skjótar undan, því að hann var léttur á fæti. Alt í einu tók Mackenzie eftir því að byssa hékk á veggnum, og hýrnaði þá heldur en ekki yfir honum. En meðan hann rétti sig eftir henni, steypti Kalman sér með ópi miklu út um gluggann á höfuðið og flýði til skógarins. Mackenzie elti sveininn kippkorn, og var í þann veginn að bera byssuna upp að vanga sér og hleypa á hann skotinu, þegar kallað var til hans, heldur en ekki hastarlega.

"Heyrðu, Mackenzie, hvað ertu að gera við byssuna?"

Það var French, og stóð hann æðislegur og í geðshræringu, en hafði þó stjórn á sjálfum sér.

Mackenzie staðnæmdist, rétt eins og hann væri tekinn tökum ósýnilegrar handar.

"Hvað ertu að gjöra við byssuna?" endurtók French alvarlegur. "Komdu með hana og fáðu mér hana."

Mackenzie stóð kyr, þögull og stríðnislegur, með byssuna undir hendinni. Frenzh gekk til hans einarðlega.

"Fáðu mér byssuna, hundurinn þinn!" sagði hann og bætti blótsyrði við, "eða eg skal steindrepa þig á augabragði!"

Mackenzie hikaði stundarkorn, en svo var eins og hann áttaði sig; hann fékk honum byssuna án nokkurrar mótstöðu, og án þess að segja eitt einasta orð. Hið djöfullega æði hvarf úr andliti hans; hinn óeðlilegi blóðþorsti, sem brunnið hafði í augum hans eins og eldur, hvarf alt í einu, eins og ljós sem slökt er skyndilega.

Að fáum augnablikum liðnum var hann aftur orðinn siðaður maður, í samræmi við það líf og siði, sem hefir stjórnast af lögum og vissum fyrirmælum.

"Komdu hérna, Kalman!" kallaði French. Kalman stóð langt í burtu.

"Mackenzie", sagði French, með einhvers konar embættismanns blæ í röddinni, þegar Kalman færðist nær.

"Eg leyfi mér að láta þig vita, að þessi drengur er í vinarhöndum, hann er mér eins og hann væri sonur minn. Mundu eftir því, Kalman, að Mackenzie er vinur minn, og þú átt að hafa það í hyggju, í allri breytni þinni við hann. Hvar fékstu þetta?" sagði hann ennfremur, og benti á flöskuna, sem Kalman hafði haft í hendinni og haldið fast utan um, meðan á allri æsingunni stóð.

Drengurinn stóð í sömu sporum steinþegjandi og horfði á Mackenzie.

"Talaðu, drengur!" sagði French birstur.

Kalman þagði enn eins og steinn, en einblíndi á Mackenzie.

"Það er flaska, sem eg hafði sjálfur!" sagði Mackenzie.

"Ójá, nú skil eg! Það er svona Kalman; það kemur þér ekkert við, hvað Mackenzie drekkur. Heyrðu nú Mackenzie, farðu nú undireins að borða og hættið þið alveg þessari vitleysu."

Án þess að mæla á móti hið minsta, fór Mackenzie út á akurinn til þess að sækja hestana.

French snéri sér að drengnum, tók flöskuna og sagði: "Þetta er hættulegur drykkur, drengur minn. Manni eins og Mackenzie er ekki trúandi fyrir því, og sízt af öllu er það gott handa unglingum."

Kalman svaraði engu. Hugur hans var eins og ólgandi sjór í stórviðri, af minningum alls þess, sem fram hafði farið síðustu þrjá dagana.

"Farðu nú!" sagði French, "og hjálpaðu Mackenzie. Hann er ekki langrækinn; í því kemur fram hans kristilega hugarfar."

Eftir hádegið herfaði Mackenzie, en French var til og frá og gjörði hitt og þetta; en hvorugum leið verulega vel. Loksins fór French inn í húsið; Mackenzie fór undir eins á eftir húsbónda sínum, og fékk Kalman hestana. Klukkutímar liðu, sólin seig til viðar, en hvorugur þeirra kom aftur, en Kalman hélt áfram að herfa, þangað til akurinn var búinn. Hann fór með hestana inn, þreyttur og hugsjúkur yfir því, að eitthvað hefði komið fyrir; hann tok aktýgin af hestunum, og fór að því eins rétt og vel, og hann hafði vit á, gaf hestunum hey og vatn og fór svo inn í hús.

Þar varð fyrir augum hans ógeðsleg sjón. Rétt hjá borðinu lá Mackenzie á grúfu útúrdrukkinn, steinsofandi og hraut hátt, og við borðið sat French

með þrjár tómar flöskur fyrir framan sig og þá fjórðu í hendinni. Hann horfði beint framundan sér og var afar ógeðslegur útlits; augun sokkin og blóðrauð og andlitið fölblátt. Hann hvorki bærðist né mælti orð, þegar Kalman kom inn, en horfði stöðugt beint framundan sér.

Drengurinn var aðfram kominn af hungri, en hann tók þetta of nærri sér til þess að geta matreitt; hann fann haframjölsköku, át hana og drakk með henni bolla af vatni og laumaðist svo upp í fletið sitt; þar hugsaði hann sér að bíða þess að húsbóndi hans sofnaði alveg. Hugarstríð hans var meira en lýst verði með orðum. Það smádimmaði í herberginu, og skuggarnir á gólfinu lengdust og dökknuðu, þangað til koldimt var orðið. Samt gat drengurinn enn þá séð móta fyrir andliti hins þögula manns, sem hvorki bærðist né mælti orð, hreyfðist alls ekki nema þegar hann fylti og tæmdi glasið öðru hvoru. Loksins hneig hann niður á borðið eins og skuggi og lá þar.

Drengurinn þaut upp úr fletinu, yfirkominn af hjartasorg og hræðslu, og reyndi að vekja húsbónda sinn úr þessum djúpa dvala; en það kom fyrir ekki. Að síðustu gaf hann upp allar vonir; tók brekán og breiddi ofan á hann, þar sem hann lá fram á borðið og skreið upp í fletið aftur, alveg yfirkominn af sorg, þreytu viðbjóði og örvæntingu. En það var algjörlega ómögulegt fyrir hann að sofna; þegar hann ætlaði að blunda, hrökk hann upp í ofboði við hræðilega drauma; hann stökk þá á fætur og ofan úr fletinu, en skreið upp í það aftur jafnharðan. Þessi nótt var honum lengri en heil eilífð og óttalegri en dauðadómur; honum varð það ljósara með hverju augnabliki sem leið, hversu alt var voðalegt í kringum hann.

Rétt undir dögum sofnaði hann þó, djúpum,

draumlausum svefni, og vaknaði ekki aftur fyr en komið var langt fram á dag; sá hann það þá að Mackenzie sat við borðið, var að snæða morgunverð og hafði flösku við hlið sér.

French sást ekki, en Kalman heyrði í honum hroturnar í innra herberginu. Kalman fanst eins og hann væri enn þá sofandi, og sig væri að dreyma voðalegan draum. Hann néri augun og horfði á Mackenzie með undrun og aulasvip, eins og menn eru milli svefns og vöku.

"Á hvað ertu að stara út í loftið, maður?" sagði Mackenzie, vingjarnlega, og var, sem hann myndi alls ekki eftir því, sem fyrir hafði komið daginn áður. "Morgunverðurinn er tilbúinn handa þér; þú hlýtur að vera svangur eftir dagsverkið. Eg er búinn að sjá hvað þú gjörðir; það er vel gjört, drengsi minn."

Það var eins og brosið á andliti hans og þýðleikinn í málrómnum fylti Kalman reiði; hann vissi ekki hvernig á því stóð, en hann gat ekki að því gjört. Hann stökk fram úr fleti sínu og þaut út úr húsinu. Hann gat ekki staðist að sjá Mackenzie brosa og hlusta á hina viðfeldnu rödd hans; en hann var glorhungraður og fór því inn aftur, eftir nokkra stund, til þess að borða.

"Jæja, Callum minn!" sagði Mackenzie þýðlega.

"Eg heiti Kalman", svaraði drengurinn stuttur í spuna.

"Það gjörir ekkert til, það er allra fallegasta nafn, hvort sem er. En við verðum að fara í kartöflurnar, þegar við erum búnir að borða morgunverðinn. Kant þú að sá kartöflum?"

"Þú getur sýnt mér hvernig á að fara að því", svaraði Kalman þurlega.

"Eg skal gjöra það", svaraði Mackenzie vingjarnlega og saup á flöskunni.

"Hversu margar flöskur eru eftir af þessu?" spurði Kalman fyrirlitningarlega.

"Hvers vegna spyrðu að því?" spurði Mackenzie blíðlega. "Þig langar þó víst ekki í brennivín sjálfan?" sagði hann með alvöru og ásökun í málrómnum.

"Haltu þér saman, asnakjálkinn þinn!" svaraði Kalman reiðulega; "eg veit þú verður aldrei með sjálfum þér, fyr en það er alt búið."

Kalman mælti þessi orð af sorglegri reynslu; hann vissi hvernig ástríður þeirra manna voru, sem hneygðir voru til áfengisnautnar.

"Jæja, já, það getur vel verið satt, en eftir því sem eg drekk meira, eftir því verður minna eftir handa *honum*", sagði Mackenzie og gaut augunum á innra herbergið.

"Hví þá ekki að hella því niður?" spurði Kalman með djúpum ákafa í röddinni.

"Hvaða höfuðvitleysa, maður; vildir þú gjöra þig sekan í svo glæpsamlegri athöfn, að eyða því til ónýtis? Hvaða dómadagsvitleysa. Nei, nei, drengsi; það verður nú aldrei af því með samþykki Malcolms Mackenzie. Og þér mundi heldur aldrei koma til hugar að vinna það ódæði sjálfur?" sagði Mackenzie spyrjandi og ákafur.

Kalman hristi höfuðið.

"Nei", sagði hann, "*hann* gæti reiðst af því. En", bætti hann við, "við verðum að koma niður kartöflunum í dag. Eg heyrði hann tala um það í gær."

"Já, það er alveg satt; við erum orðnir tvær vikur á eftir tímanum með þær."

"Komdu þá!" sagði Kalman, þegar Mackenzie ætlaði að súpa á flöskunni, "komdu og sýndu mér hvernig á að fara að því!"

"Ekkert liggur á", svaraði Mackenzie rólega, um

leið og hann tæmdi glas, sem hann hafði fylt úr flöskunni; og setti upp drjúgan ánægjusvip.

"Við verðum fyrst að fá kartöflurnar frá honum Garneau."

Hvað eftir annað gjörði Kalman tilraun til þess að ná Mackenzie frá flöskunni; og var honum að síga í skap meira og meira. Þegar flaskan var tæmd, þá var Mackenzie orðinn svo drukkinn aftur, að hann gat ekki hreyft sig. Þetta gekk þrjá daga. Að þeim liðnum kom French aftur út úr innra herberginu, tuskulegur og titrandi; brá honum þá heldur en ekki í brún, þegar hann sá, að hver einasta flaska hafði verið tæmd; Mackenzie var að reyna að matreiða, en gat tæplega staðið, og Kalman sást hvergi.

"Hvar er drengurinn?" spurði French og horfði á Mackenzie. Röddin var óstyrk og loðin.

"Það veit eg ekki", svaraði Mackenzie. "Farðu þá og leitaðu að honum, flónið þitt!"

Mackenzie fór út, eftir lítinn tíma kallaði hann á French og sagði:

"Komdu hingað! Komdu og sjáðu þetta!"

French flýtti sér út og upp á lítinn hól, þar sem Mackenzie var. Honum sagði svo hugur, að eitthvað óþægilegt væri á seiði. Hjarta hans fyltist óumræðilegri skelfingu. Af hólnum sást út yfir kartöflugarðinn, var Kalman þar og tvær eða þrjár konur með honum að sá kartöflum.

"Hvað sýnist þér þetta vera?" sagði French. Hvaða fólk er þetta? farðu og gáðu að því!"

Eftir nokkra stund kom Mackenzie til French og hafði Kalman með sér. "Sem eg er lifandi maður", mælti Mackenzie, "hefir hann með sér heilan skara af Galizíukonum, kartöflurnar eru allar komnar niður."

"Hvað segirðu?" stamaði French.

"Þetta er heilagur sannleikur. Kartöflurnar eru allar komnar niður, og þessi drengur hefir sagt fyrir verkum og Galizíukonurnar vinna alveg eins og þrælar."

"Hvað á þetta alt að þýða?" spurði French og snéri máli sínu að Kalman, um leið og hann leit á hann, nærri því skömmustulega. Drengurinn sýndist hafa elzt um mörg ár; hann var þreytulegur og sorglegur á svip.

"Eg sá konu fara fram hjá, það var Galizíukona, hún kom með hinar, og við erum búin að sá kartöflunum. Þær hafa komið hingað í tvo daga — En" — bætti hann við, "það er ekkert til að borða."

French hafði setið á hólnum, en stökk nú á fætur og bölvaði í ákafa.

"Læturðu mig heyra það, drengur, að þú þykist vera svangur?" sagði hann með þrumandi röddu.

"Eg get ekki fundið mikið til að borða", sagði Kalman; varirnar titruðu, og reyndi hann þó til að stilla sig eins og hann gat.

"Hvað ert þú að gjöra hér, Mackenzie?" sagði Frenzh ógnandi. "Farðu í sjóðbullandi drykkjuhundurinn þinn!"

"Við ættum báðir að skammast okkar; við erum báðir flón og drykkjusvín!

Farðu og útvegaðu eitthvað að eta!"

Það var eitthvað svo óútmálanlega hræðilegt í augum hans og útliti, að Mackenzie tók tafarlaust til fótanna. Kalman stóð frammi fyrir húsbónda sínum náfölur og titrandi af ótta. Hann var máttfarinn af hungri, og enn þá máttfarnari af áhyggjum og hjartasorg.

"Eg gjörði það bezta sem eg gat", sagði hann, og reyndi af alefli að láta engra geðshræringa verða vart í röddinni, "og það gleður mig ósegjanlega mikið að þér líður betur."

Nú hafði hann ekki lengur vald á tilfinningum sínum; hann fleygði sér niður í grasið, grét hástöfum og hristist af ekka.

French stóð í sömu sporum stundarkorn og horfði á hann. Var það auðséð á andliti hans og svip að honum leið illa. "Kalman!", sagði hann í hásum rómi, "þú ert góður drengur; það veit hamingjan að þú ert mannsefni, og" bætti hann við lágt, "eg þori nærri því að hengja mig upp á það, að þú getur gjört mig að manni enn þá." Svo lagðist hann niður við hliðina á Kalman og tók hann í fang sér. "Kalman!" sagði hann, "þú ert staðfastur eins og steinn og reglulegt prúðmenni. Eg hefi verið óargadýr og ræfill."

"Nei, nei, nei!" sagði drengurinn með ekka. "Þú ert góður maður — — en—eg—vildi—að—þú—hættir—að—dre—drekka."

"Það veit guð almáttugur", sagði French, "að eg vildi það líka."

---

## XIII. KAPÍTULI.

### *Brown.*

Áhrif þau sem þessir fimm dagar höfðu haft á líkama og sál Kalmans, hurfu að mestu leyti, þegar hann hafði verið tvær vikur með French, svo að segja frjáls eins og fuglar himinsins; hann hafði ýmist slangrað um sléttuna aleinn með úlfahundum, eða gengið á eftir hjörðinni með French.

Drengurinn komst undir eins upp á lag með það að sitja á hestbaki, þótt viltir hestar væru. Í fyrsta lagi var það fyrir þá sök að hann kunni ekki

að hræðast og í öðru lagi — og miklu fremur — vegna þess að hann hafði næmt eyra og auga fyrir hrynjanda í hljóðfalli og sveiflum í hreyfingu. Hann tók nákvæmlega eftir því hvernig French fór að sitja stálgráa hestinn sinn; hann lærði það því utan að eins og á bók. Þegar hann þurfti sjálfur á að halda var því allur galdurinn í því fólginn að gjöra það í framkvæmdinni, sem hann þegar hafði gjört í huganum, og úr því varð honum engin skotaskuld. Allir riddarar verða fyrst að hugsa sér að þeir séu riddarar — æfa sig í huganum. Eftir hálfsmánaðar tíma hafði Kalman lært að sitja svo brúnu bykkjuna sína, að hann gat stefnt henni yfir sléttuna hvar sem honum sýndist, í kringum alls konar dýraholur og á milli þeirra. Hann hleypti henni upp og ofan brattar hlíðar, sem lágu upp frá Nátthaukagili. Hann stýrði henni með hálsól eins vel og fimlega og aðrir gjörðu með beizlum. Það ávann honum hlýjan hug Mackenzies, kynblendingsins., meira en nokkuð annað, hversu fimlega og óhikandi hann fór um alt á hestbaki.

Sá hesturinn sem mest var dálæti á, var "Svarti Jói". Það var einkar fallegur graðhestur, sem French hafði keypt fyrir rúmu ári, sem kynbótahest; hafði hann það í hyggju að ala upp stóra hesta og selja þá háu verði; því hann vissi, að þegar járnbraut yrði bygð þar í gegn, þá mundu járnbrautarfélögin kaupa þess konar hesta. "Svarti Jói" var hafður á inngirtri sléttu, með parti af skógarrunnanum öðru megin, og lá haginn niður að vatninu; hafði hann því skýli, góðan haga og nóg að drekka. Það voru því sorgarfréttir, þegar Mackenzie sagði frá því einhvern dag að "Svarti Jói" hefði brotist út og væri týndur.

"Hann getur ekki verið langt í burtu", sagði French, "farðu og leitaðu til og frá hérna fyrir aust-

an. Hann hefir líklega farið eitthvað með stóðinu hans Garneaus."

Mackenzie fór, en kom aftur um hádegi, hestlaus; kvaðst hafa séð alla hesta Garneaus og "Svarti Jói" væri þar hvergi.

"Eg er hræddur um að hann hafi farið yfir hæðirnar", sagði French, "og ef hann hefir komist út á slétturnar, þá er ekki fyrir sjálfan skollann að ná honum. Jæja, flýttu þér nú og leitaðu fyrst hinu meginn við lækinn. Nei, bíddu við. Það er bezt eg fari sjálfur; fleygðu hnakknum á Roanoke; eg ætla að búa mér til dálítið nesti, eg verð að hafa hraðann á."

Kalman þaut á fætur og horfði á French í geðshræringu. French leit á hann.

"Það verður erfið ferð, Kalman, eg er hálfhræddur að sleppa þér."

"Láttu mig reyna, herra minn'., sagði drengurinn, sem hafði óafvitandi slept ýmsum götuorðum og mállýzkum í samræðum sínum við French, og hafði að miklu leyti vanið sig á að tala á sama hátt og húsbóndi hans.

"Jæja, drengur, búðu þig þá og komdu með mér!"

Meðan verið var að söðla hestana, vafði French saman tveim ullar ábreiðum í nettan stranga, dálítið af Hundsonsflóa kökum, svínakjöti, tei, og sykri, pönnu, tefötu og bollum.

"Vertu sæll á meðan, Macknezie , sagi French, um leið og þeir þeystu af stað. "Gættu búsins þangað til við komum aftur. Við förum beint norður, og svo yfir Nátthaukagil, yfir í hæðirnar, og svo til baka upp með læknum."

Að leita uppi villidýr á eyðimörk, sýnist þeim, sem því eru óvanir, nálega ógjörningur; en þegar til kemur er það ótrúlega auðvelt. Það er um að gjöra að þekkja þá haga, sem skepnum falla bezt, slóðirn-

ar, sem þangað liggja, og hafa hugmynd um fjarlægðirnar, sem skepnur fara. Oftast er það svo, að hver dýraflokkur hefir sína bletti í haganum, og sín eigin skýli þegar þau liggja. Erfiðleikarnir aukast mjög við það ef landið er margbreytt, hæðir og lautir og stórir skógarrunnar. Runnarnir byrgja útsýnið og hindra möguleikana til þess að neyta góðrar sjónar, og stór hópur hesta eða nautkinda, getur auðveldlega falist á bak við hæðir eða hóla; það getur verið margra vikna verk, að leita að skepnu í þess konar landslagi á svolitlu svæði, að ella mætti leita um það á hálfum degi. Að kveldi hins þriðja dags voru þeir komnir á Wakota-slóðina.

"Hérna skulum við taka náttstað", sagði French, þegar þeir komu á dálitla slétta landtungu, þar sem var skóglaus slétta, og umhverfis tunguna rann Valsá.

Þetta var fegursti náttstaðurinn sem þeir nokkurntíma höfðu, og mynd hans lifði lengst og mótaðist dýpst í huga Kalmans. Náttstaðurinn við Valsá og Wakotaveg var sannnefnd paradís í huga hans.

Grassvörðurinn var rétt eins og grænt flosklæði; tennurnar á hestum ferðamannanna höfðu klipt það, svo það var rétt eins og skrautflötur fyrir framan hús. Það var auðséð að fleiri kunnu við sig á þessum bletti en Kalman; þetta var reglulegur uppáhaldsstaður allra ferðamanna til áninga og náttstaðar.

Áin streymdi með jöfnu, en þungu og stöðugu straumfalli með áhrifamiklum hrífandi undirnið. Skógarrunnarnir voru tignarlegir og svipmiklir í vorskrúði sínu. Himininn hvelfdist yfir höfðum þeirra djúpblár og hátignarlegur, og það var eins og stjörnurnar væru hálffeimnar að líta á alla dýrðina. Loftið var fult af sætum ylm og angan. Þetta var alt svo hreint, svo nýtt, svo óspilt í augum æskumannsins, að það var rétt eins og hann hefði verið hrifinn inn

í nýjan heim, fjarlægan og óskildan að öllu leyti þeim heimi, er hann hafði áður þekt.

Þeir tjóðruðu hesta sína, og þegar þeir höfðu snætt kveldverð, sátu þeir hjá eldinum er þeir höfðu kveikt, til þess að hlýja sér, því kveldloftið var andkalt; þeir horfðu á eldinn þreyttir í vakandi draumsælu. French hafði vanist á það að vera þögull, eins og allir þeir, sem lifað hafði út af fyrir sig við hjarta náttúrunnar. Kalman var ósjálfrátt að venjast á þennan sið líka.

Þegar þeir hölluðust þarna áfram í vökudraumi og horfðu á eldtungurnar, sem lengdust og styttust á víxl. Þá kom lítill bátur niður ána, og stýrði honum maður, sem auðséð var á, að vanur var að stýra báti; honum fórst það svo liðlega að undrun sætti. Þegar hann kom auga á eldinn, stöðvaði hann bátinn, snéri honum svo að bakkanum og dró hann upp á land. Hann var ungur maður, meðallagi hár, þrekvaxinn og sviphreinn í andliti.

"Gott kveld", sagði hann glaðlega. "Ætlið þið að vera hér í nótt?"

"Já, ætlum að vera hér í nótt", svaraði French.

"Eg á tjald spölkorn upp með ánni, það væri mér ánægja ef þið vilduð vera hjá mér í nótt, það ætlar að verða kalt."

"Eg held það fari vel um okkur hérna, Kalman?" sagði French.

Kalman leit á þann með augnaráði, sem sagði ákveðið já. "Já, ágætlega, eg hefði nú sagt það!"

"Það ætlar samt að verða ákaflega mikið náttfall", sagði aðkomumaðurinn, "og það verður kalt áður en nóttin er úti. Eg hefi ekki mikið merkilegt að bjóða ykkur; aðeins skýli, en mér þætti mjög vænt um ef þið vilduð koma; það er svo sjaldgæft að fá gesti hérna."

"Jæja", sagði French, "fyrst þér er svona ant um að við komum, þá skulum við gjöra það. Það

er einstaklega vel gjört af þér að bjóða okkur gistingu."

"Nei, alls ekki; þágan er mín. Eg heiti Brown."

"Og eg heiti French, Jack French er eg kallaður, eins og þú veizt ef til vill."

"Eg hefi aðeins verið hér fáeina daga, og ekki frétt mikið", sagði Brown.

"Og þetta", sagði French, "er Kalman Kalmar, vinur minn frá Winnipeg, ættaður frá Rússlandi, hann er nú góður canadiskur borgari."

Brown tók þétt og vingjarnlega í hendur þeirra beggja. "Þið getið ekki getið því nærri hversu mikilli ánægju það veldur mér að hitta ykkur."

"Er nokkur slóð heim til þín?" spurði French.

"Já, að nafninu til; gangið þið upp með árbugðunni og þið komið að tjaldinu mínu, þegar þið komið upp fyrir hana. Það er ómögulegt annað en þið finnið það. Eg ætla að fara upp ána á bátnum, og svo mæti eg ykkur."

"Vertu ekki hræddur um okkur", sagði French; "við þekkjum hvern krók og kyma í þessu landi."

French og Kalman gengu eftir óglöggum slóða í fjórðung úr mílu, í gegnum skógarbelti, svo komu þeir á opna sléttu á árbakkanum, gagnsvipaða þeirri, sem þeir höfðu sjálfir staðnæmst á; þar var tjald Browns.

Þetta var furðulegt tjald, ekki einungis í augum Kalmans, heldur einnig French, sem hafði þó séð tjöld af mörgum tegundum. Tjaldið var 10x12 fet, með fjögra feta háum vegg, og þar var enginn einasti þumlungur til ónýtis. Jörðin, sem tjaldið var á, var þakin nýju mýrarheyi, með ylmandi angan. Í einu horni tjaldsins var rúm, eins þokkalegt og vel um gengið og hermaður ætti það. Í horninu á móti voru skápar, búnir til úr vörukössum. Í einum þeirra

voru bækur, í einum meðöl og skurðar áhöld, og í einum matvæli.

Neðan í mænisásnum héngu tvær hyllur, og við gaflinn voru hylluskápar með allskonar ílátum. Þeir voru agndofa yfir því, hversu þetta var alt þægilegt og haganlega fyrir komið. Þrátt fyrir það, þótt ó-sköpin öll væru þar inni, þá virtist samt vera þar flugrúmt; það var eins og hlutunum væri þannig fyrir komið, að ekkert færi fyrir þeim.

Brown mætti þeim í skógarjaðrinum.

"Þarna komið þið þá!" kallaði hann, "komið þið nú og verið þið alveg eins og þið væruð heima hjá ykkur."

Hann lék allur á hjólum af fjöri, og röddin sagði frá einlægni og glaðlyndi, þíðum geðsmunum og alúð; ráðvendni og tilgerðarleysi.

Eftir fáar mínútur var Brown búinn að kveikja logandi eld fyrir framan tjaldið, því kveldloftið var kalt og ákaft náttfall.

"Hérna!" kallaði Brown, og kastaði niður nokkr-um dúkum við eldinn. "Látið ykkur líða vel, eg trúi því að maður eigi að láta sér líða vel, þegar hægt er."

"Já, eg sé það", sagði French, og leit inn í tjaldið. "Það er svo að sjá, sem þú reynir að láta þér líða vel. Þú sannarlega lifir samkvæmt trú þinni, ef þín trú er sú að láta sér líða vel. Því verður ekki neitað. Þér hlýtur að líða vel hér."

"Já, eg er letingi", sagði Brown brosandi. "Eg get ekki lifað án þess að láta mér líða vel. En þú getur ekki getið því nærri, hversu mikið það gleður mig að hafa fengið þig fyrir gest. Eg ætla alveg að drepast í leiðindum í einverunni; það gerir mig þung-lyndan og geðillan að vera einn. Eg er líka að eðlis-fari taugaslappur og óframfærinn."

"Er það mögulegt?" sagði French blíðlega. "Ef eg á að segja eins og eg hugsa, þá held eg að þú sért

að segja ósatt, að minsta kosti lýgur þá svipur þinn, ef þú ert þunglyndur."

"Nei, eg segi alveg satt, það er svei mér gott að maður hefir skinn til að hylja með, það sem inni fyrir býr. Eg vildi ógjarnan láta veröldina sjá allan þann óróa, sem fram fer í huga mínum."

French tók upp pípu sína, losaði í henni tóbakið með hnífnum sínum, kveikti á eldspítu og reyndi að hafa þá ánægju sem hann gat, af því að reykja það sem eftir var í henni.

Það var auðséð að hann var ekki alls kostar ánægður með áranngurinn. Hann tók til að leita í vösum sínum vel og vandlega, en það kom fyrir ekki; hann andvarpaði þungan og fleygði sér á dúkinn.

"Heyrðu kunningi!" sagði Brown, það var eins og ekkert gæti farið fram hjá honum, án þess að hann tæki eftir. "Eg veit hvað að þér gengur; þú hefir gleymt tóbakspokanum þínum heima. Láttu það bara verða þér til lærdóms. Þú ættir ekki að venja þig á þá ósiði, sem geta, hvenær sem er, komið þér á kaldan klaka. Líttu bara á sjálfan þig; þú sem ert stór og stæðilegur maður og heilsuhraustur, og það í kveld þegar himininn er heiður og stjörnubjartur, og náttúran brosir og töfrar mann með fegurð sinni, og skógardýrðin heillar huga manns og áin brosir á móti himinhvolfinu, og þar að auki þegar þú hefir mannlegar verur með sál og tilfinningum til þess að tala við og gleðjast með, og eldglæðurnar til þess að hlýja þér líkamlega og verma þig andlega; já, þegar svona leikur alt við þið, að þú skulir þá ekki geta verið glaður og ánægður. Þú hlýtur að vera eitthvert náttúruafbrigði, og samt ertu ekki fæddur þannig, þú hefir sjálfur gjört þig svona. Þú ert veikur og þarft lækningu, eg ætla tafarlaust að gefa þér meðul."

Hann fór samstundis inn í tjaldið og skildi við Kalman bálreiðan, en French með ánægjubrosi. Eftir

fáeinar mínútur kom Brown aftur með eitthvað í hendinni.

"Þegar svona veikindi ber að höndum", sagði hann alvarlega, "gef eg meðul, sem heita *Vapores nicotinenses* (það er tóbaksreykur).

"Eg vona að þú hafir gleymt því, sem þú hefir lært í latínu. Eg hefi hérna eina tegund, sem eg geymi venjulega til þess að venja menn á að taka meðulin. Þegar þeir hafa tekið einn skamt, þá vilja þeir æfinlega fá meira. Reyndu þetta!" sagði hann hátt í ógnandi róm og valdalegum. "Taktu þetta, og horfðu beint framan í mig."

Reiðiblærinn hvarf af andliti Kalmans, og hann fór að skilja það, að þessi nýi vinur þeirra hafði að eins verið að gjöra að gamni sínu, og reyna að fjörga þá dálítið, og hann óskaði þess af öllu hjarta að hvorki Brown né French, hefðu tekið eftir því, að hann var það flón að reiðast.

French fylti pípuna sína, kveikti í henni og byrjaði að reykja; þegar hann var búinn að finna hvers konar tóbak hann hafði fengið, dró hann andann þungt og djúpt, kastaði sér niður á dúkinn, lét hendurnar undir höfuðið og reykti í ákafa, með dýpsta ánægjusvip sem hugsast gat, steinþegjandi og auðsjáanlega í djúpri sælu; svo reis hann upp aftur og sagði: "Heyrðu Brown! Þetta er "Gamla London?" er það ekki rétt?"

Heyrðu French! Komdu nú ekki með neina hábrezka vitleysu. "Gamla London", auðvitað! ætli það sé þó ekki "Gamla London"; nei, það verður ekki af því lagsmaður, þetta er "Unga Canada"; það er að segja, eg á vin í Cuba, sem sendir mér "Prince of Wales" tóbak."

French hélt áfram að reykja góða stund.

"Eg vil ekki sýna ókurteisi, en mig langar til að spyrja, hversu mikið þú hefir af þessu tóbaki."

"Hversu mikið!" sagði Brown.

"Eg hefi að minsta kosti nóg til að fylla pípuna þína, hvenær sem þú kemur."

"Ja, hérna!" kallaði French. Þú lætur þó ekki hvern flæking sem er hafa þetta? Þú hefir það ekki handa öllum sjúklingum þínum, eða hvað?"

"Eg held nú síður", svaraði Brown; "meðulin verða að vera valin, eftir því hver í hlut á."

"Þakka þér fyrir", sagði French, "eg skoða þetta sem sérstaka gestrisni. En eftir á að hyggja, hvar er pípan þín?"

"Eg er í tóbaksbindindi."

"Hvað segirðu?"

"Eg er í tóbaksbindindi."

"Í tóbaksbindindi; ekki nema það þó! og samt sýnist þú vera heilbrigður og heilvita."

"Heilbrigður og heilvita, ja, þetta var ágætt; taktu bara eftir því að eg er heilbrigður og heilvita og hefi samt lagt niður pípuna."

"Blessaður segðu mér hvernig á því getur staðið, að þú heldur sönsum, án þess að reykja."

"Það er einfalt og auðskilið. Eg er latur í verunni og nautnagjarn og hefi nálega enga stjórn á tilfinningum mínum —"

"Og, leyfðu mér að bæta við án þess að móðga þig, bannsettur lygari", sagði French. "Haltu áfram."

"Eg kom út hingað til þess að vinna, og hafði með mér nokkur pund af þessu tóbaki —"

"Nokkur pund! Ja, hérna!" kallaði French hástöfum.

"Eg var vanur að reykja svo að tóbakssvælan var í kringum mig eins og reykjarhaf, og sjálfur var eg eins og hálfsofandi maður í aðgerðarleysis-draumi eða dvala — og ósegjanlega sæll í iðjuleysinu; skilurðu þetta?

Og svo ímyndaði eg mér altaf að eg væri önnum kafinn og sístarfandi. Það er brjálsemi þess, sem reykir, — og hún eykst þegar þessi tóbakstegund er reykt — og þegar hann er að þeyta út úr sér reykjargusunum, þá heldur hann að hann se að keppast við að leysa af hendi eitthvert alvarlegt og áríðandi starf. —"

"Fjandinn hafi það, honum kemur það aldrei til hugar; en hann er sæll og ánægður, og það er nóg."

"En svo var það þannig með mig, að eg hafði nóg að gjöra, ýmislegt annað en það, að hafa sjálfan mig fyrir reykháf, og þess vegna fór eg í tóbaksbindindi. Eg hafði einnig aðrar ástæður fyrir því, en þessi nægir, hún er fullgild."

"Já, þetta er alveg nóg", sagði French með áherzlu, "og til þess að segja alveg eins og eg hugsa, þá hefir þú verið að bulla tóma vitleysu."

"Brown hristi höfuðið og brosti."

"Segðu mér nú eitt", mælti French. "Hvað hugsaðu fyrir þér? Til hvers fórstu að setjast að hérna? til þess að komast að efninu, hvað hefirðu fyrir stafni?"

"Ekkert enn þá", svaraði Brown glaðlega. "En eg ætla að gjöra heilmikið; eg hefi galizíubygðina fyrir augum."

"Þú ert þó ekki prédikari?" sagði Frenzh.

"Að nafninu er nú það, þótt eg sé ekki mikill ræðumaður; en aðallega eru það krakkarnir, sem eg hugsa um. Eg get kent þeim ensku, og svo ætla eg að líta eftir heilsu þeirra, og, ef þau vilja, að kenna þeim húsverk og búnað; í stuttu máli, gjöra alt mögulegt til þess að þau geti orðið kristnir menn og góðir canadiskir borgarar, sem er hvorttveggja alveg það sama.

"Það er ekkert smáræði, hlustaðu nú á mig!" sagði French og settist upp. "Þú lítur út eins og

skynsamur maður, sem tekur leiðbeiningum. Vertu ekki neinn ólukkans asni; eyðilegðu ekki sjálfan þig. Eg þekki þetta fólk vel. Það getur verið að á einum eða tveimur mannsöldrum megi kannske gjöra menn úr þeim, en langan tíma tekur það. Það er ómögulegt að búa til silkipoka úr svínsskinni, það veiztu. Hættu þessari grillu. Fáðu þér dálítið af skepnum og farðu að búa; stundaðu griparækt; það borgar sig. Þetta eru mín ráð, og þau eru heil. Eg þekki galizíufólkið. Það er ómögulegt fyrir þig, þótt þú verðir til þess allri æfi þinni, að breyta áhrifum, sem þrjár aldir hafa haft á það. Það er alveg vonlaust verk. Eg reyndi sjálfur að gefa þeim nokkrar góðar bendingar, þegar þeir komu hingað fyrst, og það olli mér talsverðra áhyggja. Ónot voru einu launin sem eg fékk fyrir tilraunir mínar, og ýmis konar óþægindi. Nú skifti eg mér ekki meira af þeim en manninum í tunglinu. Síðan eg tók upp þá stefnu, hefir grunsemd þeirra horfið, og þeir eru hættir að skoða mig sem þjóf."

Brown varð alvarlegur á svip. "Það er satt, þeir eru voðalega tortryggnir. Eg hefi verið að tala við þá um skóla, en þeir vilja ekki skóla, þótt þeim væri útvegaður hann að kostnaðarlausu. Kirkjufélagið, sem eg vinn fyrir, Presbytera kirkjan, býðst til að leigja þeim skóla, af því stjórnin vill ekkert gjöra, en þeir eru svo tortrygnir að þeir halda að þetta sé eitthvert Lokaráð, til þess að ná út úr þeim peningum. En við hverju er að búast? Eina kirkjan, sem þeir hafa þekt, hefir rúið þá inn að skyrtunni, og nafnið kirkja setur í þá hroll og hræðslu."

"Já, náttúrlega, það er svo sem engin furða", sagði French.

"Nei, það er engin furða."

"En heyrðu, Brown!" sagði French. "Þú ætlar þó ekki að telja mér trú um — án þess að eg vilji

vera ókurteis, — þú ætlar þó víst ekki að telja mér trú um að þú, hámentaður maður, með þúsund tækifærum, hafir komið hingað —"

"Þakka þér fyrir", sagði Brown.

"— Að þú hafir komið hingað til að kenna heilli hjörð af Galisíukrökkum?"

"Til þess að segja sannleikann", svaraði Brown, "þá skal það viðurkent, að eg kom hingað meðfram mér til heilsubótar. Eins og þú ef til vill sérð, þá er eg að eðlisfari — —"

"O, hættu nú þessu hjali! eða til þess að viðhafa orðatiltæki Kalmans, vinar míns, haltu þér nú saman."

"Meðfram mér til heilsubótar, en einnig til þess að verða að liði í þessu landi. Þetta fólk í þessu landi er eins og ómelt fæða, sem getur verið líkamanum til uppbyggingar, en verður það ekki fyr en hún meltist og brestur meltingarskilyrðin. Þetta fólk verður að meltast, stjórnarfarslega talað. Það verður að kenna þeim lifnaðarhætti vora, hugsunarhátt vorn; sé það vanrækt, þá er þjóðinni hætta búin; þá má Canada vara sig.

Veiztu það, að yfir 25,000 eru þegar flutt inn í Canada af þessu fólki?"

"Já, gott og vel", sagði French; "það lærir okkar siði nógu fljótt; og að því er það snertir, þá finst mér þú vera alt of góður maður, til að eyða tímanum í þann hégóma; þú fyrirgefur þótt eg tali svona. Hlustaðu bara á, það er hægt að fá stúlku fyrir $50 á mánuði, sem getur kent þeim nógu vel og nógu fljótt. En þú — þú gætir unnið stórvirki í þessu landi, og stórvirki verða unnin hér innan eins eða tveggja ára."

"Hvaða stórvirki?" spurði Brown, og var auðsjáanlega forvitinn.

"O, hitt og annað; griparækt, búnaður í stórum

stíl, járnbrautarbyggingar, sögunarvélar, og svo andlegt líf á eftir. Þetta hérað verður gjört að fylki bráðlega, og þeir sem berjast fyrir mynduninni og undirstöðunni, verða stjórnendur síðar."

"Þú segir alveg satt", mælti Brown hátt, og skein áhugi út úr augum hans. "Stórvirki verða framkvæmd í þessu landi, og trúðu mér til, að þetta verður eitt þeirra."

"Hvað? Að kenna fáeinum skítugum galizíukrökkum? Það er alveg eins líklegt að þú skemmir þá. Þeir eru duglegir að vinna eins og nú stendur á. Duglegri en nokkrir aðrir. Það er hægt að ráða við þá núna. Ef þú kennir þeim sumar af lífsreglum og háttum Canada manna, með öllu sem því til heyrir, þá má búast við þegar minst varir, að þeir fari að heimta hærra kaup og gjöri endalausar kröfur, sem ómögulegt er að fylla."

"Vildir þú þá vinna á móti skólamentun í Vestur Canada?" sagði Brown.

"Nei, ekki beinlínis það; en ef þessir náungar eru látnir mentast, þá taka þeir stjórn landsins í sínar hendur; trúðu orðum mínum. Sem eg er lifandi maður, yrðu þeir farnir að taka þátt í stjórn eftir 6 ár, og það væri þó ógeðsleg tilhugsun."

"Það er einmitt það", sagði Brown; "þeir taka þátt í stjórn landsins hvernig sem að er farið, hvort sem þeir mentast á skóla eða ekki, og þess vegna er um að gjöra að búa þá undir starfið. Það verður að gjöra þá að canadiskum borgurum."

"Það er nú meira verkið", sagði French. . . . .

"Já", svaraði Brown. "Það eru tvö öfl, sem geta gjört það."

"Hver eru þau?"

"Skólinn og kirkjan."

"Ójá, eg býst við að það geti verið satt", sagði French, og sýndist tapa áhuga fyrir samtalinu.

"Það er leikurinn, sem eg ætla að leika", sagði Brown með ákefð.

"Skólinn og kirkjan; það er mín skoðun. Þú segir að stórvirki séu griparækt, járnbrautir og verksmiðjur. Það er satt. En það, sem enn þá meira er virði, er það, sem skapar oss hugsjónir og fyrirmyndir, og það er skólinn og kirkjan. Fyrirgefðu mér annars, eg sé að þú ert orðinn þreyttur og vilt fara að hvíla þig, bíddu rétt eitt augnablik og svo skal eg búa um rúmið ykkar."

"Rúmið! hvaða vitleysa!" kallaði French. "Það er svei mér nógu gott að sofa á tjaldgólfinu þínu. Eg hefi verið 20 ár í þessu landi, og Kalman er enginn nýgræðingur hér heldur; vertu ekki að neinni fyrirhöfn okkar vegna."

"Það er alveg eins gott að láta fara almennilega um sig", sagði Brown glaðlega. "Eg er mjög gefinn fyrir það að láta fara vel um mig; ef satt á að segja, þá er mér lífsómögulegt að þola það, að illa fari um mig. Eg er reglulegur óhófsmaður. Eg kem aftur eftir fáein augnablik."

Hann hvarf á bak við skógarrunn og kom bráðlega aftur með fult fangið af stargresi, dreifði því í sundur laglega, og bjó til úr hvílu.

"Hana nú!" sagði hann, "þarna getið þið lagt ykkur út af. Hafið þið nokkuð á móti því að eg lesi kveldbænir? Það er regla hérna að lesa bænir kvelds og morguns, og sérstaklega þegar gesti ber að garði. Mér þykir þægilegt að æfa mig á þeim, eins og þið skiljið."

French hneigði höfuðið með alvöru til samþykkis og sagði: "Það er góður siður; þótt ekki verði með sanni sagt, að hann sé algengur í þessu landi."

Brown náði tveim sálmabókum, fékk French aðra þeirra, skaraði í eldinn til þess að láta loga og birta, og fór að fletta bókinni, til þess að velja sálminn.

Hann snéri sér skyndilega til Kalmans og sagði: "Heyrðu drengur, kant þú að lesa?"

"Já, víst kann eg það; það svei mér kann eg," svaraði Kalman gremjulega, var auðséð að honum þótti sé rmisboðið.

"Hann er mentaður", sagði French, með afsökunarblæ í röddinni.

"Hann var á strætaskólanum í Winnipeg."

"Jæja, það er gott, drengur minn; eg á bók handa þér; eg hefi nógar bækur. Hana nú, French; það er bezt að þú veljir sálminn."

"Hvaða vitleysa, halt þú áfram sjálfur; eg þekki ekki bókina þína; hver er sínum hnútum kunnugastur."

"Nei," sagði Brown með áherzlu.

"Þú verður að velja sálminn, og þú verður líka að lesa. Það er regla, sem hér er æfinlega fylgt, að láta gesti lesa. Það er satt, eg gaf þér ekkert að borða, en — eg hálf veigra mér við að tala um það — þú manst kannske eftir tóbakinu."

"Ætli eg muni það þó ekki! Já, eg hefði nú haldið það", sagði French. "Látum okkur nú sjá, hér eru allir þeir gömlu. Hvernig væri að hafa það eitthvað gott og gamalt; hvernig er þessi?" Hann rétti Brown bókina.

"Ágætt", sagði Brown. "Hærra minn guð til þín", getur þú fundið það, Kalman?"

"Því ekki það?" svaraði Kalman.

French leit afsakandi á Brown. "Hann er nýgræðingur" sagði French, "en hann hefir ekkert ílt í huga."

Brown hneygði höfuðið til samþykkis. "Haltu áfram að lesa", sagði hann.

French lagði frá sér pípuna, tók ofan hattinn, og fór að lesa. Kalman tók einnig ofan. Ósjálfrátt var eins og rödd hans yrði þýðari og viðkvæmari, þegar hann las, en hún átti að sér í venjulegu tali. Tilburð-

ir hans og látbragð tóku einnig á sig einhvern hátíðarblæ. Andlit hans virtist fríkka og mildast. Brown sat og hlustaði með athygli. Hann var frá sér numinn af ánægju og undrun.

"Ljómandi er það fallegur sálmur þetta! stórkostlegur! og ágætlega lesinn. Nú skulum við syngja."

Röddin var sterk og einlæg, og lýsti dálitlum sönghæfileikum; það sem hann brast í reglulegri sönglist, það bætti hann upp með styrkleika og skerpu. Gestirnir tóku undir og sungu; Kalman söng látt og þýtt en French söng "bassa".

"Geturðu ekki sungið hærra?" sagði Brown við Kalman. "Það er enginn sem heyrir til þín, sem þú þarft að vera einurðarlaus við, nema ef það væri fiskurinn og Galizíumennirnir þarna upp frá. Brýndu röddina, drengur minn, ef þú getur. Mér væri ómögulegt að syngja þýðlega, þó eg feginn vildi. Er hann söngmaður?" sagði Brown við French.

"Eg veit ekki; syngdu hátt, Kalman, ef þú getur," sagði French.

Þá settist Kalman upp og söng. Röddin var sterk, hrein og skær, og var eins og hún fylti alt skógarrjóðrið og svifi svo djúp og áhrifamikil upp í himinhvolfið. Drengurinn söng, en French lagði frá sér bókina steinþegjandi og einblíndi á Brown og Kalman, meðan þeir sungu hvert versið á fætur öðru, þangað til sálmurinn var á enda.

"Þú ert ágætur, drengur minn", sagði Brown. "Það væri gaman að heyra þig syngja síðasta versið einan. Seztu upp og reyndu það. Hvað segirðu um það?"

Drengurinn reis upp án mótmæla og án þess að hika hið minsta. Hann hafði orðið hrifinn af sálminum og byrjaði að syngja:

Lyfti mér lengst í hæð lukkunnar hjól
Upp yfir stund og stað, stjörnur og sól,

Hljóma skal harpan mín
:,: Hærra, minn guð, til þín :,:
Hærra til þín!

Hlýlegir, mildir geislar, frá deyjandi dagsljósinu í vestrinu kystu andlit hans, og veittu gulbjörtu lokkunum á höfði hans dýrð og fegurð. Það varð þögn nokkur augnablik; svo djúp og fullkomin þögn að hún sýndist fylla og fljóta út yfir alt það svið, sem sönghljómurinn hafði fylt, en þó var eins og eymur hinnar sætu raddar héldist.

Brown lagði höndina á öxl Kalmans. "Ungi maður", sagði hann. "Geymdu þessa rödd handa drotni, hún sannarlega heyrir honum til."

French sagði ekki eitt einasta orð; það hvorki datt af honum né draup. Hann gat ekki hreyft sig. Það var eins og þung og áhrifamikil flóðalda bærðist í sálu hans. Eitt augnablik sá hann í huga sér litla kirkju, nálega alþakta vafningsjurtum, úti í kyrlátri og friðsælli sveit heima á Englandi. Og í henni sá hann sæti, þar sem fólk hans var vant að sitja. Þar sá hann sitja stóran og sterkbygðan mann, konu við hlið hans og tvo litla drengi; annar þeirra — sá yngri — sat við hlið hennar og hélt í hönd hennar. Sýningin breyttist skyndilega, og hann sá látlausa, óvandaða timburkirkju í landnema bæ, í hinum nýja heimi, og þar sat hann sjálfur og bróðir hans, og milli þeirra bjarthærð, grannvaxin mær, og þegar hann hlustaði á söng hennar og horfði á andlit hennar, þá gleymdi hann bæði himni og jörð, öllu nema henni.

Öldur minninganna ólguðu í sál hans og brutust þær áfram hver eftir aðra, og innan um þær blönduðust á undarlegan og óskýranlegan hátt, myndir vors og d'rðar, með heiðum himni, silfurtærum ám og laufgrænum skógum. Það var engin furða þótt hann væri orðlaus og bærðist ekki

Brown vissi ekkert um alt þetta, en hann hafði í eðli sínu þá andans sjón, þá óskeikulu getspeki, sem er allri þekking æðri, og sprettur af hluttekningu. Hann sat hljóður og beið átekta. French leit í registrið á sálmabókinni, fletti upp vissum sálmi og fékk Brown bókina.

"Þekkirðu þennan sálm?" sagði hann, með kökk í hálsinum.

",Til allra heilagra'; já, eg þekki hann", sagði Brown. "Heyrðu Kalman, geturðu sungið þennan sálm?" sagði hann, og fékk honum bókina.

"Eg hefi heyrt hann", sagði Kalman.

"Er þetta uppáhalds sálmurinn þinn, French?" spurði hann.

"Já; — en — en það var uppáhaldssálmurinn hans bróður míns. Eg heyrði hann syngja hann fyrir fimtán árum."

Brown þagði, langaði auðsjáanlega til að heyra meira, en vildi ógjarna spyrja.

"Hann dó fyrir fimtán árum", sagði French, bljúgur í máli.

"Reyndu það Kalman!" sagði hann ennfremur.

"Lofaðu mér að heyra lagið", sagði drengurinn.

"Ó, við skulum sleppa því", sagði French, "eg kæri mig ekki um að vera að hafa það yfir núna."

"Syngdu það fyrir mig" sagði Kalman.

Brown söng fyrsta versið; drengurinn hlustaði gaumgæfilega. "Já, eg get sungið það", sagði hann, ákafur. Svo tók hann undir við annað versið, og enn þá öruggari í því þriðja.

"Haltu nú áfram einn" sagði Brown, "eg geri ekkert annað en skemma það. Syngdu það sem eftir er; geturðu það?"

"Eg skal reyna."

Kalman söng næstu tvö versin, án þess að nokkur snurða yrði á. En það var ekki sami þíði, sæti,

unaðslegi blærinn í röddinni, og hún flutti ekki eins djúp áhrif inn í sál þeirra sem á hlýddu, eins og þegar hann söng hinn sálminn. Hann var ekki eins vanur laginu og þurfti því að hafa hugann á því. Það var auðséð að French varð fyrir vonbrigðum.

"Þakka þér fyrir, Kalman", sagði hann; "við skulum láta þetta nægja."

"Nei", svaraði Brown. "Lofaðu mér að lesa sálminn fyrir þig, Kalman, þú syngur ekki orðin; þú syngur aðeins nóturnar. Hlustaðu nú."

"Hið ljúfa kveld í vestri blasir við;
senn veitir drottinn trúum þjónum frið
í paradís á sól og sumar grið
Halelúja."

"Þarna komstu upp á lagið; sérðu nu til?"

Drengurinn hneygði höfuðið til samþykkis.

"Jæja, haltu nú áfram að syngja" sagði Brown.

Drengurinn horfði á kvelddýrðina á vesturloftinu með gleðibros á andlitinu og söng. Það var eins og honum yxi sjálfstraust við hvert orð, þangað til hann gat með söngnum og orðunum komið þeirri dýrðarmynd inn í huga þeirra, sem á hlýddu, sem hann sjálfur hafði í huga sér; myndina af Vestrinu gulllega. Þegar hann kom að síðasta versinu, tók Brown fram í fyrir honum og sagði:

"Bíddu Kalman, lofaðu mér að lesa þetta fyrir þig. Eða ef þú vilt lesa það, þá er það enn þá betra", sagði hann við French, og rétti honum bókina.

French tók við bókinni, þagði stundarkorn, ætlaði að fá Brown hana aftur, en hikaði, eins og hann fyriryrði sig, og byrjaði að lesa með lágri en áhrifamikilli rödd, orðin um hið eilífa og ódauðlega.

"Frá heimsins bústað insta' að yztu strönd
til unaðs leiðir sálir föðurhönd."

En áður en hann komst versið á enda, kom kökkur í hálsinn á honum; það var eins og röddin brotnaði og yrði aðeins dimt hvísl.

Drengurinn viknaði í huga sér af áhrifum hinna auðsæju geðshræringa French og byrjaði á versinu með skjálfandi rödd. En eftir því sem hann komst lengra, náði hann sér betur, og með djúpum, fullum tónum söng hann þessi áhrifamiklu orð.

"Þar Föður, Syni og Anda syngur önd
Halelújá."

Á meðan þeir voru enn undir hinum djúpu áhrifum söngsins, flutti Brown stutta bæn á einföldu máli, en fulla af eldmóði, guðstrausti og brennandi einlægni, rétt eins og hann væri að tala við þann, sem hann þekti vel.

Umhverfis skógarrjóðrið, þar sem hinir þrír biðjandi menn sátu, ríkti nóttin þögul og hátíðleg. Himininn hvelfdist yfir höfðum þeirra, með þúsundir af brosandi stjörnum; þessum eilífðar augum, sem var þeim leyndardómur að mestu leyti. En það var eins og annað væri enn þá nær þeim, en nóttin og stjörnurnar; það var sjálfur guð almáttugur; hann virtist vera þar á meðal þeirra, hlusta á bænir þeirra, og lesa hugsanir þeirra.

Alla æfi sína skoðaði Kalman þetta kveld, sem þá stund er guð himnanna kom til hans, og varð hans innra manni, honum sjálfum, meira en nafnið tómt.

Og í huga French var þetta kveld, með söngnum og bænagjörðinni, bergmál frá hinum fjarlægu, rökkurhuldu, helgu minningarstöðvum, þar sem allar hans dýpstu, viðkvæmustu og heilögustu hugsjónir áttu heima — og höfðu alt af átt, þrátt fyrir alt.

Næsta dag kom "Svarti Jói" heim af sjálfsdáðum. Hann var orðinn þreyttur á frelsinu. Var honum tekið tveim höndum af heimamönnum.

## XIV. KAPÍTULI.

### *Sundrungin.*

"Opnaðu bréfið þitt, Irma, eftir frímerkinu að dæma hlýtur það að vera frá Kalman. En hvað þetta er falleg skrift! Eg er rétt nýbúin að fá bréf frá Jack."

Mrs. French stóð í eldhúsinu hjá Símoni Ketzel, sem var hlýtt og notalegt. Á því heimili hafði Irma altaf verið ásamt Pálínu og barninu, síðan kvöldið minnisstæða, þegar Kalman var sýnt í tvo heimana. Hún hafði verið þar alveg eins og heima hjá sér.

Irma stóð og hélt á bréfinu í hendinni; hjartað hoppaði af gleði í brjóstinu á henni; ekki af því að þetta væri fyrsta bréfið, sem hún fengi á æfi sinni, heldur af því að þetta bréf var frá Kalman. Hún bar heita, óslökkvandi ást til bróður síns. Tilfinningar hennar gagnvart honum voru óskiljanlega margs konar og blandaðar; hún elskaði hann eins og systir, móðir og unnusta. Ást hennar til hans, var sameining þessara þriggja tilfinninga. Hún hugsaði um hann á daginn; hana dreymdi um hann á nóttinni. Hún hafði lært að biðja guð, með því að biðja fyrir Kalman.

"Ætlarðu ekki að opna bréfið þitt?" sagði vinkona hennar, og samgladdist henni.

"Jú", svaraði hún hástöfum og hljóp inn í litla herbergið, þar sem hún svaf með Pálínu og barninu.

Hún lagðist niður á hnén, þegar þangað kom,

fyrir framan rúmið, lagði bréfið fyrir framan sig og kysti það fast og innilega. Tárin streymdu niður kinnar hennar af gleði og hún flutti guði þakklætisbæn. Það voru liðnir réttir sextán mánuðir, ein vika, þrír dagar og níu klukkustundir, síðan hún horfði með tárblinduðum augum á eftir járnbrautarlestinni, sem flutti hann í burtu frá henni til Macmillans í Portage la Prairie.

Jack French hafði altaf skrifað systur sinni öðru hvoru, og þannig hafði hún fengið sannar fréttir af honum; en þetta var fyrsta bréfið, sem hann hafði skrifað henni sjálfri.

En hvað hún hló og grét innilega að hinum einkennilegu, óhefluðu orðatiltækjum, og skrítnu réttritun; bréfið var skrifað á móðurmáli hennar.

"Systir mín, Irma mín, elskan mín". Þannig byrjaði bréfið. Irma kysti hvert orð, jafnótt og hún las þau: "Hvernig á eg að fara að því að skrifa þetta bréf? Því eg verð að skrifa það á okkar elskulega móðurmáli. Eg hefði getað skrifað fyrir löngu á ensku, en þér verð eg að skrifa eins og eg tala við þig, aðeins á blessuðu móður- og föðurmálinu okkar. Það er svo dæmalaust erfitt að muna það, því allir og alt í kring um mig er enskt, enskt, enskt. Hundarnir gelta á ensku, hestarnir hneggja á ensku, kýrnar baula á ensku; alt talar ensku. Jafnvel að byrja að tala, heldur einnig að hugsa og jafnvel að finna til á ensku — nema þegar eg hugsa um þig, og um okkar elskulegu móður og föður; um pabba okkar og mömmu er ómögulegt að hugsa á ensku; og þegar eg tala við Portuoff gamla, rússneskan stjórnleysingja, sem hér er í nágrenninu, og þegar eg heyri hann tala um allar hörmungarnar í fyrri daga, þá finn eg til og hugsa og anda á rússnesku aftur. En Rússland og alt það, sem Portuoff gamli er að tala um, er langt í burtu; það finst alt vera eins og

draumur löngu liðinna daga. Portuoff gamli kendi mér að skrifa rússnesku.

Mér fellur vel hér, og mér líkar einstaklega vel við Jack, það er að segja Mr. French húsbónda minn. Hann sagði mér að kalla sig Jack. Hann er dæmalaust stór og sterkur og svo einstaklega þíður, hefir altaf stjórn á geði sínu. Það er að segja, sleppir sér aldrei eins og eg geri, heldur talar hann stilt og rólega, jafnvel þegar hann er reiður, og er altaf brosandi.

Einu sinni barði Elluck, galiziumaðurinn sem stundum vinnur hér, hann Blucher með sverum staur, svo hann háskrækti. Jack heyrði til hans: "Fáðu mér staurinn Elluck" sagði hann rólega. "Heyrðu, Elluck, hver sem ber hundinn minn, hann ber mig." Hann tók í hnakkann á honum og barði hann þangað til hann skrækti ennþá hærra en hundurinn hafði gjört, og Jack var brosandi allan tímann meðan hann var að þessu. Hann er að kenna mér að slást, því hann segir að enginn siðaður maður beiti nokkurn tíma kylfu né hníf í áflogum, eins og galizíumenn gjöra; og þú veizt að þegar þeir drekka, þá slást þeir altaf, og þegar þeir beita hnífnum, þá drepa þeir altaf einhvern og svo dauðsjá þeir eftir öllu saman.

Þú veizt um skólann, sem eg fer á, Jack hefir sagt Mrs. French um hann. Mér fellur ágætlega við Mr. Brown; mér þykir vænt um hann, næst Jack. Hann er góður maður, eg vildi bara að eg gæti sagt þér hversu góður og gáfaður hann er. Hann hefir dæmalaust gott lag á því að láta fólkið vinna fyrir sig. Hann lét galizíumennina byggja fyrir sig húsið sitt, skólann sinn og búðina sína. Hann fékk líka Jack til að hjálpa sér. Hann fékk mig til þess að hjálpa til og syngja í skólanum á hverjum degi, og eftir hádegið á sunnudögum þegar við förum þangað á fund. Hann er mótmælendatrúar, en þó hann geti gift fólk og skírt og flutt bænir þegar það vill, þá held eg hann

sé ekki prestur, því hann tekur ekki peninga fyrir neitt sem hann gjörir.

Sumir af Galizíumönnunum segja að hann sé viss að láta þá borga einhvern tíma; en Jack hlær bara að því og segir að þeir séu tortryggnir heimskingjar. Mr. Brown ætlar að byggja mylnu til að mala í hveiti og mjöl. Hann flutti steinana frá gamalli Hudsonsflóa mylnu upp með ánni, og hann er að búa út gamla vél úr sögunarmylnu uppi á hæðunum. Eg held að hann hugsi sér að halda fólkinu frá því að fara á Vegamótin, þar sem það fær öl og brennivín og drekkur sig fult. Hann er að kenna mér alt, sem menn læra í ensku skólunum og hann gefur mér oft bækur til að lesa. Eina bók sem hann gaf mér, var eg að lesa heila nótt; eg gat ekki sofnað, gat ekki hætt fyr en eg var búinn; þessi bók heitir Ivanhoe. Það er ágæt bók. Kannske Mrs. French geti náð í hana handa þér. Skemtilegast þykir mér á sunnudögum eftir hádegið, því þá syngjum við Brown og Jack og Galizíubörnin, og svo les Brown í biblíunni og flytur bæn. Þar eru engir rauðir krossar, engin kerti og engar myndir. Það er of blátt áfram til þess að geta verið kirkja, en Brown segir að það sé bezta kirkja, einföld trúarbrögð. Og Jack segir líka að Brown hafi á réttu máli að standa, en hann vill ekki segja mikið um það.

Eg ætla að stunda griparækt; Jack segir að eg sé strax orðinn góður að líta eftir skepnum. Hann gaf mér hest og hnakk og tvær kvígur, sem eg á sjálfur; eg bjargaði kvígunum í fyrra vetur úr snjóskafli, og hann segir að þegar eg verði dálítið stærri, þá ætli hann að taka mig í félag við sig. Auðvitað glottir hann þegar hann segir þetta, en eg held samt að honum sé alvara. Væri það ekki himneskt? Eg kæri mig ekki um að vera félagi neins, en eg vil það bara til þess að geta altaf verið með Jack. Hann getur látið alla gjöra það sem honum sýnist, því öllum

þykir vænt um hann, og allir eru hræddir við hann líka. Mackenzie léti hann ganga á sér eins og skítnum á gólfinu, ef hann kærði sig um. Það er bara eitt, sem mér þykir leiðinlegt, en eg á bágt með að tala um það, og eg minnist ekki á það við nokkura manneskju nema þig; en eg tek það fjarska nærri mér. Þegar Jack og Mackenzie gamli fara niður að Vegamótum, þá koma þeir með brennivín, og haga sér svo voðalega, þangað til það er drukkið upp. Eg kæri mig ekkert um það, þó eg sjái Galizíumenn drekka öl og brennivín. Eg bragða það stöku sinnum sjálfur. En Jack og Mackenzie gamli setjast bara við flöskuna og drekka og drekka, svo tek eg eftir því, að Jack líður ákaflega illa á eftir. Við fórum einu sinni í brúðkaup Galizíufólks, og þú veizt hvað það þýðir. Þeir drukku sig allir blindfulla og svo vorum við alveg í vandræðum. Allir sem inni voru lentu í áflogum. Þeir réðust allir á Jack og Mackenzie. Galizíumennirnir höfðu hnífa og kylfur, en Jack hafði ekkert nema hnefana. Það var undur gaman að sjá hann standa upp og berja alla Galizíumennina niður; og hann var altaf brosandi á meðan hann var að því. Mackenzie var með stingjárn. Svo hjálpaði eg svolítið með kylfu. Eg hélt að þeir ætluðu alveg að gjöra út af við Jack. Við komumst þó í burtu lifandi, en Jack hafði meiðst heilmikið, og hann leit ekki framan í mig í heila viku á eftir. Mackenzie segir að hann hafi skammast sín, en eg sé ekki, hvað hann þurfti að skammast sín fyrir. Hann sem stóð sig svo ágætlega í áflogunum. Mackenzie segir að hann vilji helzt ekki fljúgast á við "þessa hunda". Brown heyrði alt um áflogin og kom að heimsækja Jack, og mér sýndist hann líka líta út eins og hann skammaðist sín fyrir eitthvað og væri sorgbitinn. En Brown flýgst aldrei á; það er alveg sama, hvernig þeir fara með hann, það

kemur aldrei fyrir að hann fljúgist á; og samt er hann þrælsterkur og sýnist alls ekki vera huglaus.

Hefurðu fengið nokkrar fréttir af pabba okkar? Það detta stundum í mig leiðinda köst, mig langar þá til að sjá hann og þig, eða að minsta kosti að frétta eitthvað af ykkur. Mig var vant að dreyma að eg væri kominn til ykkar aftur, svo þegar eg hrökk upp, þá fann eg að eg var langt í burtu frá ykkur og aleinn, aleinn. Það fer nú að styttast, þangað til eg verð fullorðinn maður og þá komið þið og verðið hjá mér. Ó, eg get ekki skrifað nógu fljótt, til þess að koma orðunum á pappírinn, sem lýsa því, hve mikið eg hlakka til þess. Sá tími kemur einhvern tíma.

Skilaðu kærri kveðju til Símonar Ketzel og Línu og Margrétar, og segðu Mrs. French að eg skuli aldrei gleyma því, að alt sem eg eigi og alt sem eg sé, eigi eg henni að þakka. Segðu henni að eg vildi að eg gæti gjört henni einhvern greiða. Eg væri skyldugur að gjöra fyrir hana hvað sem væri, ef eg bara gæti það.

Eg kyssi þetta bréf áður en eg sendi þér það, elsku systir mín, elsku bezta Irma.

Þinn trúr og elskandi bróðir

*Kalman.*"

Irma var stolt af bróður sínum og las kafla úr bréfinu hans fyrir vinkonu sína; hún var ótrúlega fim í því að hlaupa yfir það sem hún vildi ekki láta hana heyra. Hún hljóp þannig yfir alt, sem að einhverju leyti mintist á eitthvað óviðfeldið um Jack French. En Mrs. french heyrði vel og hafði næma tilfinning og talsvert af getspeki þeirri, sem sumum mönnum er sama sem vissa, og þegar um eitthvað var að ræða í sambandi við Jack French, þá var hún sérstaklega næm og viðkvæm að þessu leyti. Þessar stuttu þagnir Irmu, þegar hún var að hlaupa yfir kafla í bréfinu,

drógu því áhyggju- og grunsemdarský yfir andlit hennar. Þegar Irma var búin að lesa bréfið, sagði Mrs. French. "En hvað það er gaman að heyra hvað Kalman gengur vel. Segðu honum að það sé eitt, sem hann geti gjört fyrir mig. Hann getur alið upp fyrir mig mann; hann getur hjálpað Jack til að —"

Hún komst ekki lengra; hún var of trú til þess að geta sagt það sem henni bjó í brjósti. "Nei, segðu honum það ekki", sagði hún. "Segðu honum bara að það gleðji mig einlæglega að frétta að honum líður vel og að hann ætlar að verða góður og *reglusamur* maður. Það er ekkert sem mér er eins ant um þeirra vegna, sem eg elska, eins og það. Segðu honum líka" bætti hún við, "að mér þætti vænt um að hann og Jack hjálpuðu Mr. Brown eins mikið og þeir gætu."

Þessi boð skrifaði Irma Kalman svikalaust; hún sagði honum það einnig, hvernig þessi góða trúfasta kona hafi verið sorgbitin á svip, þegar hún var að biðja hana fyrir boðin til hans.

En þegar Mrs. French kom inn í herbergið sitt, las hún yfir aftur kafla úr bréfinu sem hún hafði fengið í sama póstinum frá hjarðmannabýlinu við Nátthaukagil. Hún las þá með bréf Kalmans í huganum, og enn þá dýpra sorgarský færðist yfir andlit hennar.

Einn kaflinn í bréfinu var þannig:

"Hann er undarlegur krakki; þó hann sé nú reyndar enginn krakki lengur. Hann er eitthvað 16 ára gamall, nær mér upp í háls og er nærri því eins sterkur og eg; hann getur setið hest alveg eins og alvanur hjarðmaður og er eins sniðugur að fara með skepnur og sjá um þær, eins og eg sjálfur; hann er hugrakkur eins og ljón, og áflogagjarn eins og hundur, og því miður lendir hann líka oft í áflogum; því Galizíumennirnir sækjast eftir að hafa hann á hátíðum sínum. Hann er fyrirtaks söngmaður, eins og

þú veizt, og hann dansar eiginlega langt of vel.

Og það er nú svona, eins og eg býst við að þú vitir, að á Galizíumanna hátíðum eru altaf áflog. Í sambandi við það atriði þarf eg að leita ráða þinna. Það lá við að eg sendi þér hann heim aftur fyrir skömmu; það var ekki honum að kenna, heldur mér sjálfum, þó mér þyki leiðinlegt að segja frá því. Við fórum á fíflaleik meðal Galizíumanna, og þótt skömm sé frá að segja, þá lékum við fíflin. Það lenti í afskaplegum áflogum og við Mackenzie komumst í hann krappann, því að minsta kosti 12 Galizíumenn voru ákveðnir í því að hætta ekki leiknum, fyr en þeir hefðu drepið einhvern, eða að minsta kosti sært. Eg fékk líka að kenna á því; þeir beittu hnífum, og mér er óhætt að segja að það var farið að verða talsvert alvarlegt um tíma. Þá þýtur þessi ungi strákur upp alt í einu, gleymir öllum siðlegum áfloga aðferðum, sem eg hefði verið að troða í hann, tekur til hinnar siðlausu slafnesku varnaraðferðar, kemur inn með rýting, hrópandi og bölvandi — þó mér þyki ílt að segja frá því — svo eg hélt að hann væri annaðhvort orðinn blindfullur eða bandvitlaus. Hann var ekki drukkinn, en hann var hamslaus af reiði. Já, hann var rétt eins og djöfullinn sjálfur væri laus í honum það kveld. Eg verð að viðurkenna, að þetta var okkur til góðs, og þó mér risi hugur við að hugsa um allan þann voða skrælingjaskap, sem þar átti sér stað, þá var það stórkostlegt að sjá hann æða fram og aftur um gólfið í herberginu, skamma þá eins og hunda, kalla þá heygla og hugleysingja, ógnandi þeim með hnefum og orðum; hann var svo tilkomumikill og ægilegur, að það var eins og hann væri einhver grískur guð í hjarðmannafötum. Það er nákvæmasta lýsingin, sem eg get gefið þér af honum; eg veit ekki hvort þú skilur hana. Eg segi þér alla þessa viðbjóðslegu sögu af því, að eg verð að vera þér full-

komlega einlægur. Þú mátt trúa því, að þegar eg vaknaði morguninn eftir, hafði eg megna skömm á sjálfum mér og öllu framferði mínu og líferni; eg skammaðist mín nægilega mikið til þess að binda enda á þetta gagnslausa, ófágaða skrælingjalíf, ef það hefði ekki bara verið þín vegna og drengsins. Mér fanst eg hafa leikið þennan óþokkaleik fram að síðasta þætti — en þann þátt fanst mér þó þegar til kom að eg ekki geta leikið — og þess vegna — aðeins þess vegna held eg áfram að lifa. En eg hefi komist að þeirri niðurstöðu, að hann ætti ekki að vera hjá mér. Eins og eg sagði fyr, er hann ágætis strákur að mörgu leyti; en eg er hræddur um að hann sleppi sér út í óreglu ef hann er hér, í þeim félagsskap, sem hann hefir. Hann er enn þá saklaus og óspiltur — eða það er sannfæring mín að svo sé — lof sé guði, en hérna, rétt hjá Galizíumannanýlendunni, í félagi við þá sem þar eru, eins látt sigferðislögmál sem þeir hafa, og undir umsjá annars eins manns og eg er, til þess að segja eins og er, hefir hann lítið tækifæri til þess að haldast hreinn og siðferðisgóður. Eg veit að þetta skapar þér sorg og áhyggjur, en eg verð að vera þér einlægur. Eg held það væri skynsamlegast að hann færi til þín. Eg get ekki haft ábyrgð á veru hans hér. Eg veit að það lýsir mér sem siðferðislausu dýri að játa þetta, en það litla sem eg á eftir af ærlegheitum og einlægni, knýr mig til að segja það."

Í eftirmála bréfsins voru orð, sem veittu huggun og von. Þau voru þannig: "Einu verð eg að bæta við. Það skal aldrei koma fyrir, að eg fari á Galizíumanna hátíðir aftur."

Þetta var ófínt og sorglegt bréf, og það var eins og hver sorgarblæjan breiddist ofan á aðra, í svip hinnar glaðlegu konu, á meðan hún las það. Hún lagði frá sér bréfið; tók mynd upp úr litlum kassa og lagði hana fyrir framan sig. Myndin var af tveimur

ungum mönnum í knattleikafötum í allri þeirri dýrð, sem hraustir og vongóðir æskumenn eiga til, sem hafa óbifanlega trú á sjálfum sér og tækifærunum, sem veröldin veitir þeim. Hún horfði á myndina fast og lengi, horfði þangað til hún sá ekkert lengur og þá féll hún fram með heitri bæn.

Irma þurfti nokkra daga til þess að jafna sig eftir áhrif þau, sem bréfið hafði haft á hana og til þess að búa sig undir að svara því. Því það var eins með hana og Kalman, að enskan var orðin henni auðveldari en móðurmálið. Mrs. French sendi Jack svar með næsta pósti. Það var ekki langt, en þegar Jack French las það, þá hvarf glaðlyndisbrosið af andliti hans og marga daga á eftir lýsti svipur hans iðrun og angist, sem nagaði hjarta hans. Loksins fór hann aleinn til Wakota, til þess að bera ráð sín saman við Brown, vin sinn.

Þegar hann las bréfið, var það einn kafli sérstaklega, sem gróf sig djúpt og óafmáanlega í huga hans, og hún var þessi. "*Eg* verð að bera ábyrðina á því að láta Kalman vera áfram hjá þér; hvað annað gæti eg gjört? Eg á engan annan til þess að hjálpa mér. En ábyrðina á því, hvað hann verður í þínum höndum og undir þínum áhrifum, verður *þú* að bera. Guð lagði þér þá ábyrgð á herðar; eg gjörði það ekki."

"Ábyrgðina á því hvað hann verður, ber eg ekki". Þessa setningu endurtók French hvað eftir annað í huga sínum. "Eg get kent honum heilmargt, en siðlæti get eg ekki kent honum; það verður Brown að gjöra. Hann er prédikari; ef hann getur það ekki, til hvers er hann þá?"

Þannig ræddi hann við sjálfan sig; hann komst jafnvel í talsverðan hita, þegar hinar mismunandi raddir huga hans héldu kppræðu um þetta. Hann viðurkendi það hreinskilnislega, að hann væri enginn dýrðlingur í siðferði, og hann krafðist þess ekki, að

hann væri talinn það; hann var líka sannfærður um, að hann gæti ekki breytt um í því efni. Allir sem þektu hann vissu það; og enginn vissi það betur en Kalman sjálfur.

"Það er satt", sagði hann í huga sér, "að eg er enginn engill; en eg er heldur enginn hræsnari, og eg læt engann hafa mig til þess að hræsna í neinum skilningi." Þessi hugsun var honum léttir, og hann snéri við setningunni með sömu meiningunni á ýmsa vegu, og það gaf honum hugarró, eftir því meira, sem hann hugsaði lengur um það. Hann mintist þess, og það olli honum áhyggja, að Brown var að sumu leyti nokkuð harðgeðja; ekki sem blíðastur altaf. Brown hafði nærri því óviðkunnanlega einföld ráð, til þess að komast fram úr erfiðustu hlutverkum. Ef eitthvað var rangt, þá var það rangt; væri það rétt, þá var það rétt; svo var ekkert meira um það að tala, þegar Brown átti hlut að máli. Við hann var lítið tækifæri til þess að rökræða eða mótmæla og alls ekkert tækifæri til þess að miðla málum, þannig að hann færi hársbreidd út af því, sem hann teldi rétt. "Hann er líka svo ansvíti skrítinn" sagði French. "Það er alveg eins og hann sjái með huganum; og hann fer oft eftir því, sem honum er blásið í brjóst." Átti hann að sýna honum bréfið frá tengdasystur sinni? Það gæti skeð að það hefði áhrif, en seinasta blaðsíðan yrði tæplega að miklu liði. Þar að auki vildi hann helzt komast hjá því að blanda nafni hennar í samtal þeirra.

Þegar hann nálgaðist Wakota, var hann hálf óþolinmóður og óánægður við sjálfan sig yfir því, að hann hafði ekki nógu mikið af ástæðum fyrir máli sínu þegar til kæmi. Hann reið beint til skólans og sér til undrunar, fann hann Brown þar aleinan og þungbúinn á svip. Hann, sem altaf var vanur að vera sólskinið sjálft.

"Komdu sæll, Brown!" sagði hann hátt, um leið og hann kom inn í húsið. Heldurðu heilagt í dag? Einn hvíldardagurinn enn, eða hvað? Mér finst þú fá fleiri hvíldardaga en þér ber."

"Nei," svaraði Brown. "Það eru alls ekki hvíldardagur; það er ófriður."

"Hvað er nú um að vera, eru komnir upp mislingar eða eitthvað þess háttar?"

"Eg vildi nú bara að það væri, heldur en það sem er", sagði Brown. "Bólan væri jafnvel þakkarverð í samanburði við það." Brown var með bros á andlitinu og hlýlegur á svip, en eitthvað í þeim svip sagði frá djúpri hjartasorg.

"Hvað er um að vera, Brown?" spurði French.

"Eg er í þungu skapi, mér líður illa, eg er óttasleginn; það er mínu veikbygða eðlisfari að kenna, eg get ekki þolað —"

"Ó, hættu nú þessu, Brown, og komstu að efninu. En komdu út í dagsljósið. Það er það eina, sem vekur grun minn um að eitthvað alvarlegt sé á ferðinni að þú ert að draugast inni. Það gengur þó ekkert að heima hjá þér, Brown, að eg vona; eg vona að konunni þinni og barninu líði vel?" sagði French, og varð röddin þíðari og viðkvæmari.

"Ekkert að heima, guði sé lof, þeim líður báðum ágætlega" svaraði Brown, um leið og þeir gengu út úr skólanum og niður að götunni við ána. Skólinn hefir tekið sig saman og laumast í burtu, eins og Arabinn."

"Vertu nú ekki að þessu; hvað hefir komið fyrir skólann?"

"Fyrir hann hefir komið pólskur prestur, lítill, svartur og ógeðslegur. Hann gat ekki gert að því í tvö fyrri skiftin, en þar sem Valsá rennur í gegn um landið, þurfti hann alls ekki að gjöra það í þetta skifti."

"Til hvers er hann kominn hingað?"

"Því er nú ver að eg veit það ekki. Það fyrsta sem hann gjörði var að leggja blátt bann við því að nokkurt barn mætti koma á skólann minn, og hann lagði við kvalir eilífrar fordæmingar. Þess vegna hefir ekki eitt einasta Galizíubarn komið."

"Hvað ætlarðu að gjöra — hætta?"

"Hætta!" svaraði Brown hátt og þaut á fætur.

"Eg bið fyrirgefningar", sagði French í ákafa. "Eg hefði átt að vita betur."

"Nei, eg ætla ekki að hætta", sagði Brown, og varð rólegur. "Ef hann vill fá skólann og hugsar sér að stjórna honum, þá er það guðvelkomið að eg gefi honum bæði bygginguna og áhöldin."

"Er það svo" sagði French; "en er það ekki nokkuð flóttalegt?"

"Alls ekki" svaraði Brown með áherzlu. "Eg er ekki kominn hingað til að snúa fólki frá trú sinni; sú kirkja sem eg fylgi, leggur enga áherzlu á það. Við störfum af alvöru, og okkar starf er í því fólgið að gjöra menn að góðum borgurum. Við reyndum að fá stjórnina til þess að stofna skóla meðal Galizíufólksins, en hún neitaði því. Við fórum þá til verks sjálfir og þess vegna er þessi skóli hérna. Við reyndum að fá grísk-kaþólska presta frá Evrópu til þess að líta eftir trúarbrögðum og siðferði þessa fólks; en það reyndist algjörlega ómögulegt að fá nokkurn almennilegan mann til þess að bjóða sig fram í því skyni. Taktu eftir að eg segi almennilegan mann. Við fengum nóg af tilboðum; meira en nóg, en við gátum ekki fengið einn einasta ærlegan, siðferðisgóðan, óspiltan guðelskandi einlægan mann, sem virkilega vildi leggja eitthvað í sölurnar til þess að hjálpa þessu fólki. Það er því ekki nema sjálfsagt að veita þessum manni tækifæri til að gjöra gott; ef hann reynist vel, þá skal eg hjálpa honum og segja:

,Guð blessi þig og starf þitt‘. En hann reynist aldrei vel", bætti Brown við sorgbitinn. "Eftir því að dæma hvernig hann byrjar reynist hann aldrei vel."

French þagði en Brown hélt áfram: "Hann var fenginn til þess að gifta hjón nýlega; drakk sig útúr fullan, setti þeim tíu dali, og svo eru þau ekki viss um hvort þau eru gift eða ekki, eftir alt saman.

Á sunnudaginn var lét hann fólkið skriftast fyrir sér; það var langt síðan það hafði haft tækifæri til þess og það kom í stórum hópum. Hann setti tvo dali fyrir manninn, reyndi að hafa það fimm dali, en það tókst ekki; og nú kemur hann til mín og byrjar á því að loka skólanum. Það getur vel verið, að hann breyti eftir beztu sannfæringu, en aðferðir hans og háttalag hljóta að standa sönnum framförum fyrir þrifum. Samt sem áður er sjálfsagt að láta hann hafa alt það tækifæri sem hægt er, eins og eg hefi áður sagt."

"Og á meðan verið er að reyna hann" sagði French, "hvað ætlar þú að gjöra á meðan?"

"Á meðan ætla eg að gutla við lækningar. Við höfum 10 sjúklinga í hospítalinu — svo ætla eg að sjá um búðina og mylnuna og veita þá hjálp yfir höfuð, sem mér er mögulegt. . Ef þessi prestur reynist vel og verður eitthvað ágengt í rétta átt, þá máttu vera viss um það, að eg skapa honum ekkert ónæði."

"En ef hann reynist ekki vel?" sagði French.

"Ef hann reynist ekki vel; ja, eg veit ekki" svaraði Brown og hallaði höfðinu aftur á bak í stólnum og brosti vingjarnlega.

"Eins og þú veizt, er eg fremur gefinn fyrir ró og frið. Eg vildi heldur að hann færi í burtu en eg; á meðan Galizíufólkið býr hérna er það miklu þægilegra fyrir mig að vera en fara, og þá kæmi eg líka upp skólanum aftur."

French leit á hann með undrun og aðdáun; Brown hafði klemt saman varirnar.

"Svei mér ef eg held ekki að þú hafir á réttu að standa" sagði French, "og eg held að eg geti séð í huga mér síðustu daga þessa pólska prests. Viltu leyfa mér að hjálpa þér?"

"Eg veit ekki" svaraði Brown. "En Kalman getur hjálpað mér; eg þarf að fá hann núna einhvern daginn, til þess að þýða nokkuð fyrir mig. Eftir á að hyggja, hvar er hann núna? Hann hefir ekki komið með þér?"

French tók svipbreytingum. "Það minnir mig á" sagði hann. "En eg kem vér varla að því að segja það sem mér býr í brjósti. Þú hefir nógu þunga byrði að bera, þó eg bæti ekki á það minni eigin byrði."

"Hikaðu ekki við það" sagði Brown, og varð enn þíðari í viðmóti en fyr. "Byrðar annara manna hjálpa til þess að halda jafnvægi, þegar maður hefir byrði að bera sjálfur. Þú veizt að eg er að eðlisfari langt of sjálfselskur — hugsa langt of mikið um sjálfan mig. — Það er vani; slæmur og ljótur vani."

"Farðu norður og niður Brown með allar þessar déskotans grillur; að tala um að þú sért latur og veiklaður, það nær engri átt. Þegar eg hugsa um það hversu mikið þú vinnur fyrir aðra og færð ekkert nema óþökk í staðinn, þá get eg ekki að því gert að eg dauðskammast mín fyrir það hvað eg er gagnslaus og einskis virði."

"Farðu varlega, maður, talaðu virðulega um sóknarfólk mitt; það er ekki vanþakklátt. Það er allra bezta fólk ef það fær að njóta sín. Það er sérstaklega þakklátt, og vænsta fólk að mörgu leyti."

"Já, það er það, eða hitt þó heldur; það verður víst dauðfegið að hætta, og þó það skilji þig eftir

hálfdauðan þegar það hættir þá hefir það víst enga samvizku af því."

Brown andvarpaði.

"Við skulum ekki tala um það French" sagði hann, "það er of nýtt til þess að tala um það — of viðkvæmt. Hvað er það sem gengur að þér?"

"Já, það er nú svona" varaði French, "eg veit varla hvernig eg á að byrja. Það er Kalman". Brown hrökk við eins og komið hefði verið við hjartað á honum.

"Er hann veikur?"

"Nei, nei, Kalman veikur; nei, engin hætta á því! Hann er hraustur eins og hestur. En sannleikurinn er sá að hann þarf breytingu."

"Hvað meinarðu?" sagði Brown áhyggjufullur.

"Það er svona; hann er að þroskast og orðinn stóreflis strákur; bráðum orðinn sextán ára. Hann er heilmikill maður að mörgu leyti, og þó hann sé ágætur strákur og regluleg fyrirmynd að siðferði, þá vildi eg samt að hann væri dálítið öðruvísi; hann er ekki alveg eins og vera ætti."

"Það er nú svo með okkur alla" sagði Brown rólega.

"Það er satt, að því er mig snertir" svaraði French. "Eg veit ekki um þig. En það er bezt að halda áfram. Pilturinn er vandræðalegur fauti í geðinu; og hvað lítið sem fyrir kann að koma, er hann kominn út í dýrslegustu áflog undir eins."

"Áflog við hvern?" sagði Brown, "við þig?"

"Ó, láttu nú ekki svona" sagði French, "þú veizt betur; nei, hann flýgst ekki á við mig; hann lendir í áflogum við þetta Galizíufólk; og það er ljótur aðgangur. Til dæmis í vikunni sem leið—já—eg—það var". French átti bágt með að koma orðum að því sem hann ætlaði að segja.

"Eg frétti það" sagði Brown. "Mér var sagt

að pilturinn hefði verið drukkinn, en þú samt langtum meira."

Brown gaf það til kynna í röddinni að hann áliti þetta ljótt.

"Eg veit hvað þú hugsar, Brown, sagði French; "og það gjörir mér þungt í huga. Pilturinn er að komast út á villigötur og mér datt í hug að þú gætir ef til vill haft áhrif á hann. Eg er ekki vel til þess fallinn að hjálpa honum í þessu efni, en þú getur það."

French hafði gleymt öllum varnargögnum, sem hann hafði hugsað upp áður.

"Sjáðu nú" sagði hann loksins vandræðalega. "Hérna er bréf sem eg fékk fyrir fáum dögum. Eg vildi að þú vildir lesa seinustu síðuna. Þar sérðu þau vandræði sem eg er í. Það er frá tengdasystur minni, og hún er náttúrlega í vanda stödd; hún getur ekki getið því nærri sem til þess þarf að skilja að þetta er eðlilegt. En svo veizt þú að kvenfólk skilur ekki karlmenn fullkomlega. Það skilur ekki eðli þeirra og upplag. Þú veizt hvað eg meina; en lestu bréfið. Eg býst við að þú vitir hver hún er. Það var hún sem sendi Kalman út hingað til þess að bjarga honum frá óreglu, sællar minningar."

Brown tók við bréfinu og las það; hann lagði það frá sér, las það aftur og sagði svo blátt áfram:

"Þetta er býsna gott! Þessi kona veit hvað hún á að gjöra. Hún deyr ekki ráðalaus. En hvað er að?"

"O, það er náttúrlega alt haugavitleysa."

"Hvað er haugavitleysa?" spurði Brown, stuttur í spuna. "Með þá ábyrgð sem á þér hvílir, eða hvað?"

"Vertu nú rólegur, Brown" sagði French. "Mér er ant um að þú skiljir mig."

"Jæja, haltu þá áfram, French," sagði Brown, og French byrjaði á aðalatriðinu, sem honum þótti vera. Hann setti upp nokkurs konar tignar- og al-

vörusvip og lögmannsblæ í röddina, og talaði eins og hann væri að verja sakamál.

"En eins og þú skilur, þekkir hún mig ekki; hefir ekki séð mig í fimtán ár. Og eg er hræddur um að hún haldi að eg sé hálfgerður dýrðlingur. En þú veizt það nú, Brown, að eg er það ekki." Brown hneigði höfuðið og deplaði augunum til samþykkis og horfði stöðugt á French. "Og eg veit það ósköp vel líka, og eg ætla ekki að hræsna frammi fyrir nokkrum lifandi manni."

"Það er alveg rétt" sagði Brown. "Mún biður þig þess heldur ekki."

"Það er því í þessu efni, sem eg þarf að biðja þig hjálpar."

"Vissulega" svaraði Brown. "Þér er óhætt að treysta mér að eg skal gera fyrir þig alt sem eg get. En það kemur ekkert málinu við, eftir því sem mér getur skilist. Ekki einu sinni óbeinlínis."

"Hvað áttu við?"

"Spurningin er ekki nú hvað eg ætli að gjöra í þessu máli."

"Hvað get eg gjört" sagði French, og lagði niður allan hátíðissvipinn. Heldurðu að eg ætli virkilega að leika einhvern háheilagan siðferðispostula í augum sveinsins, og gerast bölvaður hræsnari?"

"Hver er að biðja þig um það?" svaraði Brown með fyrirlitningarblæ í málrómnum. "Vertu ærlegur og einlægur í þessu máli."

"Láttu nú ekki svona, Brown, við skulum ekki vera að snúa út úr hvor fyrir öðrum. Skoðaðu málið með skynsemi. Eg kom til þín að leita hjálpar, en ekki til að —"

"Þú mátt treysta því að eg skal hjálpa þér eins og eg get" sagði Brown hiklaust. "En við skulum skoða málið frá þinni hlið."

"Jæja" sagði French. "Við skulum miðla mál-

um í þessu. Eg skal takast á hendur að sjá piltinum fyrir líkamlegum þörfum og veraldlegum, ef þú vilt. Eg skal kenna honum að sitja á hesti, skjóta, slást og vinna það sem fyrir kemur; í fám orðum menta hann í öllu praktisku, ef þú tekst á hendur að sjá um siðferðishliðina."

"Með öðrum orðum þegar um siðferði er að ræða, þá hugsarðu þér að skerast úr leik og svíkjast um skyldu þína."

French blóðroðnaði, en sat þó á sér.

"Fyrirgefðu mér, Brown" sagði hann rólega og stillilega. "Eg kom til þess að tala um þetta við þig eins og vin; en ef þú vilt ekki —"

"Blessaður vertu; eg bið þig að fyrirgefa hvernig eg tala; en eg sé það í hendi minni að þetta getur orðið alvarlegt; eg sé það eins vel í huga mér eins og eg horfi á þig, hverju eg ætti að svara þér. Það er málefni sem mér hefir búið í skapi í marga mánuði og ætlað að tala um við þig, og eg segi þér það ekki, nema því að eins að þú óskir þess."

Þeir stóðu andspænis hvor öðrum, og horfðu hvor á annan, rétt eins og þeir ætluðu að fara að reyna sig á einhverju og væru að mæla afl hvor annars.

"Láttu það flakka!" sagði French loksins, "við hvað ertu hræddur?"

Það var að heyra á röddinni að honum liði illa.

"Hræddur" svaraði Brown með ákafa, "eg er ekki hræddur við þig, heldur við sjálfan mig." Hann þagði nokkur augnablik, eins og hann væri að ráðgast um eitthvað við sjálfan sig. Svo hóf hann skyndilega máls aftur stillilega, staðfastlega og alvarlega: "Vertu fyrst og fremst viss um það" sagði hann, "að eg skal vera reiðubúinn að hjálpa þér með Kalman, eins og mínir kraftar frekast leyfa, og sjá um siðferði

hans eða uppeldi að því leyti, eins og hann væri mitt eigið barn.

En hvernig er það þá með þann partinn, sem þú átt að annast?"

"Hvað, eg —"

"Eitt augnablik enn; hlustaðu á mál mitt til enda. Hvort sem það verður til gæfu eða glötunar, þá hefir þú líf þessa pilts í hendi þér. Hefurðu nokkurn tíma veitt því eftirtekt, hvernig hann hagar sér þegar hann er á hestbaki? — Það er þín skylda. Hvernig hann gengur, alveg eins og þú. Hann talar eins og þú, það er að segja orðatiltæki hans og jafnvel málrómur er auðsjáanlega frá þér. Og hvernig gæti það líka verið öðruvísi? Hann dáist að þér; það veizt þú, hann lagar sjálfan sig eftir þér. Og taktu nú vel eftir hvað eg segi: Þótt hvorugur ykkar viti það, þá gjörir þú hann að því sem hann verður; meira að segja þótt hvorugur ykkar ætlist til að það verði. Og það eru forlög þín, French, að láta hann líkjast þér."

"Bíddu svolítið, French", sagði Brown; blíðan var horfin af andlitinu og alvara komin í staðinn. "Þú biður mig að kenna honum siðgæði. Sannleikurinn er sá að við erum báðir að kenna honum. Af hverjum heldurðu annars að hann læri? Þetta atriði er oftast hræðilega misskilið. Hlustaðu nú á mig á meðan eg læt sem eg sé að kenna. Við skulum hugsa okkur að það byrji svona: "Kalman, þú átt ekki að drekka áfengi; það er dýrslegt og ljótt; það er siðspillandi!" "Uhm!" svarar hann, "Jach drekkur áfengi og þess vegna gjöri eg það líka." "Kalman!" segi eg, "blótaðu ekki!" "Hvaða vitleysa!" segir hann "Jack blótar". "Kalman" segi eg, "vertu sannur maður, einlægur, sjálfsafneitandi, virðingarverður, óeigingjarn". Hann svarar; já, svarar hverju? Hann svarar alls ekki; svarar aldrei; hann segir ekki: "Jack er fyllisvín, blóthundur, eigingjarn, óráðsíu-

maður." Nei, hann segir það ekki, af því honum þykir vænt um þig, en hann verður eins og þú, hvað sem eg reyni að kenna honum, hvernig sem eg reyni að telja um fyrir honum. Þetta er sú bölvun sem þú uppskerð fyrir óreglu þá, sem þú sáir. Ábyrgð; guð hjálpi þér! lestu bréfið aftur. Þessi kona hefir skarpa sjón; hún veit hvað hún er að fara. Það er heilagur sannleikur sem hún segir. Hlustaðu nú. "Ábyrgðina á því hvað þú lætur hann verða, hlýtur þú að bera; guð lagði þér þá byrði á herðar, en ekki eg." Þú getur neitað þessari ábyrgð; þú getur verið of ístöðulaus, of einráður, of eigingjarn, til þess að fordæma drykkjufýsn þína sjálfur, en undan ábyrgðinni getur þú aldrei losnað; þú getur aldrei flúið hana fremur en þú getur flúið sjálfan þig. Og engin lifandi manneskja, hvorki karl né kona, getur leyst þig undan þessari ábyrgð."

French stóð steinþegjandi og hreyfingarlaus nokkur augnablik. "Þakka þér fyrir" sagði hann, "þú hefir sýnt mér syndir mínar, og eg ætla ekki að leitast við að hylja þær; en í nafni hins eilífa verð eg aldrei annað en eg sjálfur, hvorki frammi fyrir þér né nokkrum öðrum manni.

"Hvaða sjálfur?" spurði Brown, "dýrið eða maðurinn?"

"Það er ekki atriðið" svaraði French. "Eg leik engan hræsnara, eins og þú ætlaðist til að eg gjörði."

"Jack French" sagði Brown, "þú veizt að þú ert að tala lýgi frammi fyrir guði og mönnum."

French steig fram skyndilega og færði sig nær honum.

"Brown, þú verður að biðja fyrirgefningar" sagði hann í lágum, ákveðnum rómi. "Þú verður að biðja fyrirgefningar undir eins."

"French, eg skal undir eins biðja fyrirgefningar, ef það er ekki satt, sem eg hefi sagt."

"Eg get ekki kapprætt það við þig, Brown", sagði French, og lýsti röddin óstöðvandi, þungri heift. "Eg líð það ekki að nokkur maður kalli mig lygara. Haltu upp höndunum!"

"Ef þú ert maður, French" sagði hann stillilega, "Þú bíddu eitt augnablik. Lestu bréfið þitt aftur. Biður hún þig að vera hræsnara.? Biður hún þig ekki einungis að vera maður? og er það ekki einmitt það, sem eg er líka að biðja þig um? að vera maður, og breyta eins og maður."

"Þetta er ekki til neins, Brown, það er of seint að kappræða það. Þú kallaðir mig lygara."

"French, eg skal biðja þig fyrirgefningar á því sem eg sagði rétt núna" sagði Brown. "Eg sagði að þú vissir að þú værir að fara með lýgi. Eg tek það aftur og bið fyrirgefningar. Eg get ekki skilið að þú hafir vitað það. En samt sem áður var það sem þú sagðir ósatt. Enginn maður biður þig að vera hræsnari, og þess ertu ekki beðinn í þessu bréfi heldur. Þú sagðir að eg hefði beðið þig þess. Það var ósatt. Ef þú hefir nú tilhneigingu til þess að gefa mér snoppung, þá er það guðvelkomið."

French stóð sem steini lostinn. Hann hafði tæplega vald á sjálfum sér fyrir reiði, en hann vissi að þessi maður hafði rétt að mæla.

Fáein augnablik stóðu þeir hvor frammi fyrir öðrum og horfðust í augu. Alt í einu var eins og einhver rödd talaði í innra manni Browns; hann rétti fram höndina, breytti skyndilega röddinni og sagði:

"Mér þykir þetta ákaflega leiðinlegt, French, við skulum gleyma því."

French lét sem hann sæi ekki höndina, sem Brown rétti honum; snéri burt steinþegjandi, stökk á bak hesti sínum og reið af stað.

Brown stóð og horfði á eftir honum þangað til hann hvarf úr sýn:

"Guð almáttugur fyrirgefi mér!" sagði hann. "Hvernig gat eg farið svona að ráði mínu! eg hefi tapað honum, og drengnum líka."

Svo fór hann inn í skóginn; hann kom heim til konu sinnar og barna seint um kveldið, þreyttur hugsjúkur og sorgbitnari en svo að hann gæti neytt svefns eða matar.

---

## XV. KAPÍTULI.

### *Stúlkan með brúna hárið.*

Fréttir um það að menningin væri að færast vestur á bóginn höfðu heyrst upp í landið við og við frá aðalbrautinni, og alla leið til Vegamóta, og höfðu jafnvel komist alla leið upp að Nátthaukagili; auðvitað var það þannig, að þegar frétt kom um eitthvert menningarmerki, sem þar ætti að ske. var næsta fréttin sú, að því hefði verið frestað um eitt eða tvö ár.

Það var Mackenzie sem flutti fréttina um fyrstu framfarir, sem í virkileika komust í framkvæmd.

Hann sagði frá því að maður væri með rifið flag hinum megin við gilið, og annar með svolítinn staur eða eitthvað því líkt og tveir eða þrír menn á eftir honum. Þetta var um vor, áður en snjór var horfinn til fulls.

"Þetta eru gleðifréttir!" sagði French. "Þetta hugsaði eg altaf! Það eru mælingamenn fyrir járnbrautarfélag; svo þeir eru þá loksins komnir."

"Og hvað á það að þýða?" spurði Mackenzie áhyggjufullur.

"Það eru mennirnir sem mæla það út, hvar bezt sé að leggja járnbrautina" svaraði French.

Mackenzie var dapur í bragði: "Og þeir ætla þá

að byggja járnbraut í gegnum landið okkar?"

"Já, þvert yfir það" svaraði French, "alveg þar sem þeim sýnist".

'Það var nú það. Þeir skyldu svei mér sjá það ef þetta væri mitt land, hvort þeir legðu járnbraut í gegn um það. Nei, það yrði ekki af því."

"Þú gætir ekki bannað þeim það, Mack" sagði French. "Þeir hafa alla stjórnina að baki sér."

"Eg skyldi bara setja einhvern tálma á veg þeirra og skamma þá eins og hunda" sagði Mackenzie.

"Það verður ekkert svigrúm í landinu lengur, og ómögulegt að sofa á nóttinni fyrir skröltinu í bölvuðum vélunum.

Mackenzie hafði rétt fyrir sér. Þetta flagg sem hann sá var mælingamanna flagg, það veifaði gamla tímanum á brott og birti þeim nýja að koma. Gamla frjálsa lífið, hið eina líf sem Mackenzie þekti, þar sem vilji hvers manns voru þau einu lög, sem hann þekti að beygja sig undir og þar sem lögum var framfylgt með afli hinnar hægri handar. Já, þetta líf átti að kveðja. Það átti ekki að hafa griðland lengur á sléttunum. Þessar endalausu sléttur, sem alfrjáls vindur þaut yfir, áttu nú að verða bústaður ótal bæja og býla. Mackenzie og allur hans heimur varð nú að hverfa í þeirri mynd sem hingað til hafði tíðkast

Rauðskinninn og buffalodýrið urðu að lúta í lægra haldi. Þeirra dagar voru þegar taldir. Hjá Jack French olli þessi breyting margháttuðum tilfinningum. Honum hraus hugur við því að skilja við hið óbreytta, einfalda, óhindraða sléttu- og skógalíf hjarðmannsins. Þetta líf hafði hann kosið sér fyrir tuttugu árum, þegar hann yfirgaf lifnaðarháttu, sem honum fundust tilkomulitlir, tilgerðarlegir og úreltir. Þótt það væri talin siðmenning. En á hinn bóginn bauð hann það alt innilega velkomið í huga sínum,

sem hann hélt að gæti orðið til gæfu og ánægju og nýrra tækifæra fyrir Kalman — piltinn sem hann elskaði sem sitt eigið lífsafkvæmi.

Í huga Kalmans var flagg mælingamanna byrjun á nýju lífi; honum fanst eins og lokið hefði verið upp dyrum inn í æðri og fullkomnari heim; hann sá í huga sér alls konar möguleika, alls konar framfarir, alls konar dýrð. French veitti því eftirtekt hversu augu hans ljómuðu og hvílíkri gleði og ánægju andlit hans lýsti.

"Já, þetta er byrjun á bjartri framtíð, Kalman" sagði French, "bjartri framtíð fyrir þig; stórkostlegum framförum fyrir þetta land. Hér fara að rísa upp blómlegar bygðir og reisulegar borgir; fjörugt og arðsamt verzlunarlíf, nógir peningar og alt sem til framfara má telja."

"Þá verður hægt fyrir okkur að selja kartöflurnar okkar og hafrana" sagði Kalman.

"Já, það verður auðvelt" svaraði French. "Við gætum selt tíu sinnum meira en við höfum til."

"Og því þá ekki að rækta tíu sinnum meira?" sagði Kalman með ákafa og eldmóði.

French ypti öxlum, honum fanst sárt að segja skilið við hægðina og rólegheitin, sem nýbýlisdagarnir höfðu veitt.

"Jæja, Kalman, þú getur gjört það. Eg skal láta þig ráða. Við Mackenzie skulum hjálpa þér; heimtaðu bara ekki of mikið af okkur. Það verða mörg hundruð hestar hafðir til vinnu hér næsta ár."

"Mörg hundruð hestar!" kallaði Kalman. "Hvað heldurðu að þeir þurfi mikið af höfrum? Þúsund bushel?"

"Þúsund! Já, miklu meira; tíu þúsund; tuttugu þúsund."

Kalman reiknaði fljótt í huga sér.

"Til þess þyrfti þrjú hundruð ekrur af landi að

minsta kosti, og við höfum ekki nema tuttugu ekrur, Jack!" sagði hann. "Við skulum fá okkur hesta og alla menn sem við getum náð í, og undirbúa jörðina fyrir hafra. Hugsaðu þér bara hvað við getum gjört. Hundrað ekrur af höfrum, fimm eða sex hundruð bushel, ef til vill meira, og kartöflurnar þar að auki."

"O, við skulum vera rólegir; þeir koma ekki hingað í dag, Kalman, það er nógur tími."

"Já, en við verðum að plægja í ár, til þess að það verði tilbúið að ári" sagði pilturinn, "Og það þarf langan tíma til þess að plægja hundrað ekrur."

"Víst er það" sagði Jack, "það þarf heilt sumar, með öllum þeim vinnukrafti sem við höfum ráð á, að plægja hundrað ekrur."

Kalman varð eins og blossandi lifandi eldur; hann hugsaði um það fram og aftur, hvað hægt væri að gjöra og hvernig hægt væri að gjöra sem mest fyrir næsta ár. Þessi eldmóður Kalmans, vakti French upp til áhuga og umhugsunar. Það var jafnvel eins og hann langaði til að vera orðinn ungur og fjörmikill. Það var eins og hann vaknaði upp af dvala. Og jafnvel Mackenzie sýndi þess merki að ákafi Kalmans hafði áhrif á hann.

Þennan sama dag reið Kalman niður til Wakota, til þess að bera ráð sín saman við Brown, vin sinn; því hann hafði um langan tíma farið að hans ráðum, og fann það æ betur og betur, hversu mjög hann þarfnaðist leiðbeininga hans. Brown hafði unnið á búgarði í Ontario, áður en hann fór á skóla, og því hafði hann talsverða reynslu í búnaði, og var það honum ómetanlegt gagn í baráttu lífsins. Hann vissi um alt, er að búnaði laut, og þess vegna var það að Kalman fór fremur til hans en til French eða Mackenzie, þegar hann þurfti á upplýsingum að halda í þá átt, hvort sem það var um garðrækt, eða skepnu-

geymslu og meðferð. Ósættin, sem orðið hafði milli Browns og French, var Kalman til óumræðilegrar sorgar; og það því fremur sem hann var þess sannfærður með sjálfum sér, að upptökin væru hjá þeim, er hann fyrst hafði gefið óskifta vináttu, traust og aðdáun. French hafði ekki sagt Kalman hvernig á því stæði að hann hætti alt í einu að fara til Wakota. En hann hafði int að því hvð eftir annað, að sér væri ant um að Kalman héldi áfram að fá upplýsingar hjá Brown. Og að hann óskaði eftir að Kalman hjálpaði honum á allan þann hátt, er honum væri mögulegt, með verk það, er hann væri að vinna meðal Galizíufólksins. Þetta þótti bæði Brown og Kalman vænt um. Þeir höfðu orðið svo nánir vinir að þeir voru orðnir eins og óaðskiljanlegur partur hvor af annars lífi. Kalman var í Wakota á hverjum sunnudegi. Lífið sýndi honum nýjar og fegri myndir í kunningsskapnum við Brown, en hann hafði dreymt um nokkru sinni áður.

Kona Browns, barn þeirra, heimili þeirra og viðbúð, alt þetta var honum eins og jarðneskt himnaríki. Það hvíldi eins og dökt ský á hugarhimni hans, að French skyldi ekki geta orðið þessarar sælu aðnjótandi líka. Og það fékk þeim mun meira á hann, sem það var auðsjáanlegt, að French tók það mjög nærri sér. Það var að fara í vöxt að French færi á sunnudögum til Vegemóta, og hann var jafnvel í burtu þrjá til fjóra daga í senn. Þegar þetta vildi til, var lífið nærri óbærilegt fyrir Kalman;. Hann var þá engu sinnandi. Hann bar harm sinn í hljóði um sumarið; hann mintist aldrei á það við nokkurn mann, ekki einu sinni við Brown. En svo vildi það til að French hafði verið í burtu alla vikuna, þá gat hann ekki staðist lengur; hann úthelti hjarta sínu fyrir Brown, og sagði honum allar raunir sínar

“Hann hefir ekki komið heim í heila viku, Mr.

Brown, og eg get ómögulega þolað þetta lengur," sagði pitlurinn í djúpri geðshræringu. "Eg get ekki verið heima þegar Jack er þar svona á sig kominn; eg *verð* að fara til hans."

"Hann vill það ekki, Kalman" sagði Brown. "Eg er hræddur um að hann líði það ekki. "Eg væri viljugur að fara þangað, en eg er hræddur um að honum þætti það."

"Eg ætla að fara niður að Vegamótum í dag" sagði Kalman. "Eg tek hverju sem að höndum ber, þó hann steindrepi mig — eg *verð* að fara."

En sú ferð varð til þess að hann fór þangað aldrei aftur, því Jack French var svo viti sínu fjær, að hann nálega gerði út af við piltinn. Hann var fluttur á sjúkrahús Browns, allur barinn og meiddur, og þar lá hann í rúma viku. Jack French kom til hans á hverjum degi; hann iðraði verka sinna djúpt og einlæglega; hann sýndi piltinum meiri og dýpri ást og blíðu merki, með hverjum degi sem leið.

En þegar Kalman komst á fætur aftur, lét French hann sverja sér það að hann skyldi aldrei koma á eftir sér niður að Vegamótum, eða skifta sér af honum á nokkurn hátt, þegar hann væri ekki með öllu ráði. Það var eiður eða drengskapar loforð, sem Kalman átti erfitt með að gefa, en þegar hann var búinn að lofa því, þá var sjálfsagt að halda það; og það vissi French.

Kalman talaði aldrei um veikleika French við Brown. En á hverjum sunnudegi eftir hádegið þegar þeir voru heima, báðu þeir fyrir vinum þeirra fjær og nær og fólu þá í hendur almáttugum skapara og verndara, og þeir höfðu þá sérstaklega í hyggju mann, sem þeir báðir unnu eins og eldra bróður sínum; manni, sem þeir hefðu viljað leggja lífið í sölurnar fyrir; og þetta var sterkasti þátturinn í því bandi sem batt þá saman, Kalman og Brown.

Kalman ráðgaðist við Brown um athafnir sínar og undirbúning undir næsta sumar, og það hafði góðan árangur; því stór hópur af Galizíumönnum var undir stjórn þeirra með hesta og uxa að vinna landið, til þess að það yrði tilbúið fyrir sáningu næsta sumar.

Meðan þessu fór fram var Brown önnum kafinn. Viðbætirinn á sjúkrahúsi hans var nálega fullur af veiku fólki. Skólabörnin voru farin að koma til hans aftur, því þakklæti hinna tilfinningaheitu Galizíumanna fyrir alt það, er hann hafði gert fyrir þá, varð brátt sterkara en hræðslan við pólska prestinn. Eigingirni þessa pólska prests og framkoma hans yfir höfuð, snéri fólkinu frá honum — og það jafnvel þeim, sem höfðu verið heitastir og ákafastir fylgjendur hans. Um ástandið er farið býsna réttum orðum, þegar Partmoff gamli, sem annars er nú ekki sérlega trúaður, segir: ::Þetta póliska prestur slæm maður; hann drekkur—drekkur altaf; honum tekur peninga altaf, fyrir alt; hann bölvar skólann; ætlar að senda doktormanninn helvítis eld."

Brown og kona hans skyldu vel hvað við var átt.

Allir voru svo önnum kafnir við búgarðinn á Wakota, að sumarið var liðið áður en þá varði. Haustið var komið með hina djúpu, þögulu dýrð; friðsælu kveld; heiðan stjörnubjartan himininn. Já, haustið, drotning allra árstíða í Canada, var komið áður en þá varði.

Alt sumarið höfðu járnbrautarmennirnir unnið sig áfram norður og vestur; þeir voru komnir yfir Saskatchewan, og rétt að segja komnir í nánd við Nátthaukagil. Á undan þeim sem að járnbrautarbyggingunni unnu, voru alls konar menn, með hinar og aðrar vörur og í hinni og annari verzlun. Þar voru t. d. grávöru kaupmenn; leyfislausir smákaupmenn, brennivínssalar. Svo var þar aðal verkstjóri

og vélafræðingur. Þá voru þar einnig ferðamenn, sem ekkert höfðu annað fyrir stafni, en að leika sér; þar voru auðmenn og prangarar í því skyni að hafa $10,00 virði fyrir $1,00, upp úr einhverjum skiftum, kaupum eða bralli.

Suma þessara síðasttöldu manna nálega dýrkuðu verkstjórarnir og vélafræðingarnir; aðra vildu þeir helzt sjá kveðja sem fyrst. Var það mest undir því komið, hvers konar meðmælingabréf þeir höfðu frá hinum háu í austurfylkjunum.

Hjá vinnubúðum Harris verkstjóra var maður, sem virtist hafa mikil áhrif; hann hét Robert Menzie frá Glascow. Hann var auðugur, og því líklegur til að kaupa land, námur og járnbrautir í Canada. Hann var því maður, sem lítandi var upp til. Með honum var Marjorie dóttir hans, sér til heilsubótar; var það jarphærð 17 ára gömul stúlka, og hafði heilsa hennar batnað mikið við breytinguna. Með henni var Janet föðursystir hennar og barnfóstra fyrir hann.

Með þessu fólki ferðaðist Edger Penney, ungur Englendingur allauðugur. Hann hafði verið heilt ár í Canada og þóttist því fullfær til að vera leiðsögumaður. Nú vildi þó svo til að það var ljósgeislafræði, sem hann gaf sig mest við; það voru ljósgeislarnir í hinum leyndardómsfullu augum ungfrú Marjorie og litirnir á brúna hárinu hennar, sem stundum sló á koparblæ. Þetta var ríkara í huga hans en útreikningur um gróðaverzlun eða kjörkaup á Canadalandi, járnbrautum eða námum.

Þessi hópur hafði farið af stað með allskonar útbúnað og var nú búinn að vera þrjá mánuði, og kominn á móts við Edmonton. Nú var verið á heimleið og hafði þá Robert tekið sér bólfestu hjá Harris vélfræðingi til þess, sem skozkur auðmaður, að geta séð með eigin augum, hvernig farið væri að því að byggja járnbraut í Vestur-Canada.

Þegar hér var komið, voru vinnustöðvarnar skamt frá Wakota veginum, og sólarmeginn við skógarbeltið, því það var orðið áliðið árs.

Það var á fögrum október morgni, að Kalman stökk á bak villihesti sínum, rétt fyrir sólaruppkomuna, til þess að smala saman hestum sínum til morgunverðar. áður en farið væri að vinna þeim. Hann reið á eftir hestunum og rak þá með hundum niður að Nátthaukagili og yfir gilið. Þegar hann kom út á opna sléttuna, sá hundurinn sem hann kallaði Kaptein og var sonur Bluchers, úlf, og þaut á eftir honum eins og örskot.

"Varaðu þig nú, karl minn" sagði Kalman, um leið og hann komst á milli úlfsins og skógarins, og flæmdi hann út á opna sléttuna. "Nú hefir þú haft þína síðustu krás; nú kemur til okkar kasta."

Úlfurinn hljóp sem fætur toguðu frá skóginum, sem var meðfram Nátthaukagili; beint yfir sléttuna, og fylgdi Kapteinn honum á eftir, ásamt Drotningu, var það tík af úlfahunda kyni. Það dró talsvert saman. Skógarbeltið sást að minsta kosti í tveggja mílna fjarlægð yfir opna sléttuna; en það var sama skógarbeltið sem dvalarstæði vélfræðingsins og félaga hans var hjá.

Fjarlægðin milli úlfsins og hundanna smáminkaði. Loksins sá úlfurinn hvað verða vildi og þaut út í dálítinn skógarrunn; voru þá hundarnir aðeins fáa faðma frá honum.

En vesalings dýrið fann þar ekkert vígi. Hann þaut í gegnum runnana og voru hundarnir og Kalman rétt á hælunum á honum. Rétt í því að úlfurinn skauzt fyrir dyrnar á tjaldi Janets, teygði Kapteinn fram trjónuna og greip í rófuna á honum. Eins og elding snéri úlfurinn sér við og réðst á Kaptein með ofsabræði; hundurinn slepti og varð hálf hverft við;

þegar hann verulega áttaði sig aftur, var úlfurinn að fara af stað; en í því kom Drotning.

Lenti þar í grimmustu rimmu og veltust þau öll, úlfurinn og báðir hundarnir, undir tjaldskörina og inn í tjaldið. Svo voru áflogin mögnuð, að þau voru öll þrjú í einum dranga, með ótal fótum og rófum, eins og þetta væri ein lifandi bandvitlaus ófreskja. Ógurlegt hljóð heyrðist í tjaldinu:

"Hamingjan góða! Almóttugur! hvað—hvað er þetta? Hvar eruð þið allir? Vill enginn ykkar koma og hjálpa mér?" Kalman stökk af baki hesti sínum, flýtti sér að tjalddyrunum. Aftur gullu við ógnaróp. "Farðu út! farðu út—farðu út maður, segi eg!" Hann varð forviða; hann vissi ekki hvað hann átti af sér að gjöra, þar sem Janet stóð frammi fyrir honum á náttklæðunum með hárbeyglubréf umhverfis alt höfuðið; hún hafði örfað inn í horn á tjaldinu og upp á kassa, sem þar var; hún hélt náttkjólnum fast að sér og horfði með óumræðilegri skelfingu á þann voða aðgang, sem fram fór á gólfinu, rétt við fæturna á henni.

Hún hljóðaði hærra og hærra, svo að það heyrðist þrátt fyrir ýlfur og gelt og hávaða í inum grimmu dýrum. Úr næsta tjaldi kom hlaupandi laglegur miðaldra maður á náttkjól, og hélt á byssu í hendi sér.

"Hvað er um að vera, Katrín? Hvar ertu, Katrin?"

"Hvar er eg? Hvar heldurðu að eg sé, annarsstaðar en hérna, fálkinn þinn! Ó, Robert, Robert, eg verð étin upp lifandi."

Maðurinn hljóp að tjalddyrunum, opnaði það og fór inn tafarlaust; en út fór hann eins og örskot, þegar hann sá hvað um var að vera og hrópaði: "Hvað í allri veröldinni er þetta?"

"Robert! Robert!" grenjaði Janet, "komdu aftur og bjargaðu mér!"

"Hvað er þetta, maður?" sagði hann og snéri sér að Kalman, sem stóð hreyfingarlaus í sömu sporum.

"Það er úlfur, herra minn, þetta eru hundarnir minír—"

"Úlfur!" hrópaði maðurinn, og kom aftur inn í dyrnar.

"Farðu inn, maður!—farðu inn undir eins og bjargaðu systur minni! Á hvað ertu að blína, maður? Hún verður étin upp lifandi. Eg bið þig í allra guðanna bænum. Eg er ekki fær um að ráðast á villidýr."

Frá öðru tjaldi kom þrekvaxinn, holdugur maður, kinnamikill. Hann var hálfklæddur; skyrtan aðeins hálfgirt ofan í buxurnar, og hélt hann á exi í hendi sér.

"Hver fjandinn gengur nú á?" kallaði hann. "Svei mér ef það lætur ekki í eyrum, eins og verstu áflog í grimmum hundum."

"Janet frænka, Janet frænka mín, hvað er að? hvað gengur á?" kallaði stúlka, sem kom hlaupandi frá öðru tjaldi; hárið féll í stórum, fögrum bylgjum um axlirnar og alla leið niður fyrir mitti. Hún hljóp að tjalddyrunum, þar sem hún heyrði hljóðin frá áflogunum og frænku sinni. Kalman fór beint í veginn fyrir hana, tók um mittið á henni og sveiflaði henni aftur fyrir sig: "Farðu út aftur!" hrópaði hann. "Farið bið öll í burtu!"

Þau hlýddu öll orðum hans, eins og hann væri herforingi yfir þeim. Kalman tók sér kylfu í hönd og gekk hughraustur inn á milli hinna óstjórnlegu varga.

"Ó, þú góði maður" sagði Janet, "komdu hingað og bjargaðu mér". Það var eins og angist hennar sefaðist. En Kalman var annars hugar þá stundina en að gefa orðum hennar gaum. Þegr hann kom inn í tjaldið heyrðist hátt hljóð upp yfir áflogalætin.

Úlfurinn hafði náð í efri skoltinn á Kapteini og togaði í af alefli, en Drotning reyndi að bíta Úlfinn á háls.

Kalman sló úlfinn högg mikið með kylfunni; rotaðist hann svo af högginu, að hann slepti takinu á hundinum. Síðan tók Kalman í aðra afturlöppina á úlfinum og dró hann út fyrir tjalddyr, en hundarnir héngu í honum, svo þeir drógust út jafnframt, með ýlfrum og óhljóðum.

"Guð hjálpi okkur!" hrópaði þrekvaxni maðurinn og flýtti sér inn í sitt eigið tjald; hann gægðist svo út um tjalddyrnar, logandi hræddur, til þess að sjá hvað um væri að vera: "Dreptu kvikindin; hérna er byssan mín."

Stúlkan hljóðaði upp yfir sig og hljóp á bak við Kalman.

Ungi maðurinn þykkleiti fleygði öxinni og hljóp í hendingskasti upp í vagn, sem þar var í nánd.

"Skjóttu bölvað kvikindið!" hrópaði hann "Fáið þið mér byssuna mína, einhver ykkar."

En dagar úlfsins voru taldir. Drotning hafði tekið föstum tökum á honum og læst tönnunum inn í hann; en Kapteinn hafði fest tennurnar í bakinu á honum og hamaðist af alefli með ofsareiði.

"Ó, kvikindis greiið! Kallaðu á hundana" sagði stúlkan og snéri sér að Kalman.

"Nei, nei, láttu þér ekki detta það í hug!" hrópaði maðurinn í tjaldinu, "því þá ráðast þeir á okkur!"

Kalman gekk nokkur skref áfram, barði hundana og reyndi að láta þá sleppa tökum á úlfinum; svo tók hann byssuna og skaut úlfinn í gegn um hausinn.

"Hættu nú, Kapteinn! hættu! hættu, segi eg! legstu niður!" Hann átti erfitt með að ná úlfinum frá hundunum; þó hepnaðist honum það, og kastaði hann honum þá upp í vagninn, þar sem hundarnir gátu ekki náð í hann.

"Hvað er þetta!" kallaði ungi maðurinn, og flýtti sér ofan úr vagninum. "Hvað ertu að gera maður!"

"Hann meiðir þig ekki, lagsmaður; hann er steindauður", sagði Kalman rólega.

Ungi rauðleiti maðurinn með tindrandi litlu augun og úfna, rauða hárið, eins og sólbaug umhverfis höfuðið, var svo kýmilegur, að stúlkan rak upp skellihlátur. Hann var óþveginn, hálfklæddur, hálfgirtur; alvel eins og staur, sem druslur hafa verið hengdar á með engri reglu eða röð.

"Marjore, Marjore!" var hrópað með gremjulegri rödd. "Hvað ertu að gjöra þarna? Þú ættir að skammast þín niður í hrúgu, fíflið þitt?"

Marjore snéri sér í þá átt, sem röddin kom frá, og svo skellihló hún aftur. "Ó, frænka mín, dæmalaust er að sjá þig; mér er lífsómögulegt að verjast hlátri!" en á svipstundu var stúlkunni með hrokkna hárið hrundið inn í tjaldið.

"Þú ættir að líta í spegil til að sjá hvort þú ert ekki alveg eins hlægileg og við hin, stelpukjáninn þinn!" sagði frænka hennar.

Stúlkan var eins og hún vaknaði af svefni; hún bar hendurnar upp á höfuðið í ofboði, sveipaði þéttar að sér fötunum og hvarf inn í tjald sitt.

Kalman og ungi maðurinn stóðu eftir rúti. Ungi maðurinn var öskurjúkandi reiður, því enginn getur tekið því með jafnaðargeði að vera dreginn sundur í háði af þeirri stúlku, sem honum er sérstaklega ant um að vel lítist á sig.

"Hvern fjandann varstu að gera maður, að koma hingað með bölvaða hundana?"

Kalman heyrði ekki eitt einasta orð. Hann stóð í sömu sporum eins og þrumulostinn. Hann starði eins og í draumi inn í tjaldið, sem stúlkan hvarf inn í. Hann gaf því alls ekki gaum, hvað ungi maðurinn

sagði; stökk á bak hesti sínum, kallaði á hunda sína og reið af stað.

"Heyrðu maður minn!" kallaði Harris vélastjóri. Kalman stöðvaði hestinn. "Veiztu hvar eg get fengið hafra?"

"Já", sagði Kalman. "Þú getur fengið það hjá okkur."

"Og hvar er það?"

"Tíu mílur héðan; hinumegin við Nátthaukagil". Svo var eins og hann hugusaði sig um. "Eg get komið með þá eftir hádegið. Hve mikið þarftu?"

"Tuttugu og fimm bushel dygðu okkur, þangað til við komum að byggingarstöðinni."

"Eg skal koma með þá í dag" sagði Kalman, og reið af stað, og höltruðu hundarnir á eftir honum.

Eftir fáeinar mínútur kom stúlkan út úr tjaldinu.

"Ó!" hrópaði hún og leit á vélastjórann, "er hann farinn?"

"Já," svaraði Harris, "en hann kemur aftur í dag; hann ætlar að láta okkur hafa dálítið af höfrum." Hann brosti og mærin roðnaði.

"Er það svo" sagði hún og reyndi að láta líta svo út, sem henni stæði á sama.

"En hvað veðrið er skemtilegt í dag; það er alveg eins og um hásumar, og komið langt fram á haust; það er svei mér skemtilegt land hér, herra Harris."

"Já, það er satt, og því lengur sem maður er hér, því betur kann maður við sig. Það á nú fyrir þér að liggja að eiga hér heima einhvern tíma."

"Það er eg nú ekki viss um" sagði hún og roðnaði enn þá meira, og kastaði til höfðinu. "Þetta er einstaklega skemtilegt land, en það er ekkert Skotland, krakkar; eins og frænka mín mundi komast að orði. — En þetta dugar ekki, eg er alveg að deyja úr hungri."

Það vildi svo til að ferðinni til Galizíumannabygðarinnar, sem Mr. Penny hafði ákveðið daginn áður að fara skyldi þennan dag, varð að vera frestað. Miss Marjore var tæplega búin að átta sig á þessu.

"Það hlýtur að vera einhver óskapagangur úti í bygðinni, sagði hún við Mr. Penney; eg held það sé því bezt að eg verði kyr hjá tjöldunum."

"Einu sinni á æfinni ætlar þú þó að fara hyggilega að ráði þínu" sagði frænka hennar. "Eg fyrir mitt leyti er alveg staðuppgefinn. Eg er bara steinhissa á því að ekki skyldi alveg líða yfir mig í þessum voðalegu látum. Það var engu líkara en að himinn og jörð ætlaði að forganga."

"Að heyra þetta! hvernig í dauðanum hefðirðu átt að hafa tíma eða næði til þess að láta líða yfir þig, frænka mín? Mér er rétt sem eg sjái þig liggja í yfirliði á tjaldgólfinu með úlfinn við hliðina á þér; það er líklegast!"

"Ó, þú getur fíflast eins og þér sýnist, stelpan þın", og heyrðist þá á mæli hennar hvaðan hún var. Henni var altaf hætt við því, þegar henni rann í skap. Marjore vildi helzt tala það mál, en frænku hennar var það innilega á móti skapi; hún áleit það ókurteisi sem grandgæfilega ætti að forðast.

Þegar á daginn leið sást vagn í fjarlægð. Karlmennirnir höfðu farið frá tjöldunum; þeir voru að líta eftir því, hvernig verkinu miðaði áfram.

"Þarna er eitthvað á ferðinni" sagði Miss Marjore. Hún hafði oft rent augunum í þá átt um daginn.

"Hamingjan hjálpi okkur; hvað getur það verið, og piltarnir allir í burtu" sagði Janet dauðhrædd. "Fleygðu söðlinum á hestinn og farðu og sæktu föður þinn eða Harris. Eg er logandi hrædd. Þetta er voðalegt land. Bara að eg komist einhvern tíma í burtu héðan lifandi."

"Hvað gengur á, frænka mín; þetta er ekkert nema vagn. Eg held maður þurfi ekki að ganga af göflunum þó maður sjái vagnskrifli."

"Þarftu endilega að tala svona; geturðu ekki hagað þér eins og manneskja, Marjore? Auðvitað er það vagn; hvað er — hver er í vagninum?"

"Eins og mér standi það ekki hjartanlega á sama." svaraði Marjore. "Hann étur okkur ekki, hver sem hann er."

Marjore, geturðu ekki hagað þér eins og manneskja, segi eg; og talað kurteislega?

Hlauptu eftir föður þínum undir eins!"

"Hvaða vitleysa frænka mín; hvernig ætti eg að yfirgefa þig eina hérna? Það gæti vel komið fyrir að Indíánar kæmu niður og stælu þér."

"Hamingjan hjálpi mér; Hvað er þetta, eg dey af hræðslu."

"Ó, frænka mín góð" sagði Marjore, og varð þíðari í röddinni. "Það er bara maður, sem er að koma með hafra. Mr. Harris sagði mér að hann ætti von á hafrahlassi í dag. Við verðum að taka á móti þeim að borga fyrir þá; hefir þú nokkra peninga?"

"Peninga", kallaði frænka hennar. "Hvað á eg að gera við að hafa peninga í þessu landi; nei, eg hefi enga peninga, faðir þinn hefir þá alla."

"Hvað er þetta!' 'sagði Marjore alt í einu. "Það er þá ekki hann."

"Um hvað ertu að tala?" spurði frænka hennar. "Er það ekki hann hver?"

"Það er ókunnugur maður meina eg — það — það er — það er annar maður" sagði Marjore, með gremjulegum vonbrigða blæ í rómnum."

"Hvað ertu að bulla? Hvaða maður er það? og hvaða maður er það ekki?"

"Mr. Harris átti von á ungum manni, sem var

hérna í morgun — manninum sem bjargaði okkur frá úlfskjaftinum; þú manst eftir honum."

"Ó, hann, sá dæmalausi ruddi" sagði frænka hennar.

"Bíddu þangað til eg sé hann. Auðvitað skal eg gæta þess að horfa ekki á neinn, sem heyrir honum til."

Janet þaut eins og örskot inn í tjaldið og skildi Marjore eftir úti, til þess að taka á móti komumanni.

"Góðan daginn! Er þetta tjaldstaður vélastjórans eða skjátlast mér? Hann bað mig um hlass af höfrum í morgun."

Jack French stóð í vagninum með hattinn í hendinni. Það var auðséð að hann var utan við sig, bæði af aðdáun og feimni, því Kalman hafði ekki minst á þessa stúlku við hann.

"Já, þetta er staðurinn, eg heyrði að minsta kosti Harris segja að hann ætti von á höfrum, en" bætti hún við í hálfgerðum vandræðum. "Það var annar maður, sem ætlaði að koma með þá; það var ungur maður, eg meina manninn, sem var hérna í morgun."

"Nú kemur bobb í bátinn" var sagt inni í tjaldinu í lágum rómi.

Jack French leit snögglega í kringum sig, en sá engan.

Marjore byrgði niður í sér hláturinn og sagði:

"Þetta var frænka mín, hún var ákaflega hrædd í morgun. Úlfurinn og hundarnir hlupu rakleiðis inn í tjaldið hennar. Það var hræðilegt."

"Já, það hlýtur sannarlega að hafa verið voðalegt" svaraði Jack French, með bljúgri kurteisis alvöru. "Eg fékk aðeins sundurlausar fréttir af því og ógreinilegar. Eg vona að frænka þín hafi ekki meiðst."

"Meiðst!" var kallað innan úr tjaldinu; "eg

meira en meiddist, það var nú meira en það; þetta rétt að segja gerði út af við mig."

Miss Marjore hljóp að tjalddyrunum: "Frænka mín!" kallaði hún, og lyfti upp tjaldskörinni, þú ættir að koma út og mæta Mr. — —"

"French, Jack French er eg kallaður í þessu frjálsa landi."

"Þetta er frænka mín Miss Menzie."

"Það gleður mig mjög mikið að kynnast þér."

Jack hneigði sig svo óútmálanlega snyrtimannlega að Janet gat ekki annað en viðhaft á móti allra fínustu Glascow siði, sem hún þekti.

French lét dæluna ganga um samhrygð sína og söknuð, á meðan Janet sagði honum upp alla söguna um úlfinn og hundana og þá dauðans hættu, sem hún var í. Hin djúpa alvara hans við sögusögnina og hin einlæga samhygð hans á meðan hann hlustaði á hana, vann honum álit hjá Janet og svo mikið traust, að hún komst að þeirri niðurstöðu, að nú loksins, og það í þessu voðalandi, hefði hún mætt manni, sem hún gæti trúað fyrir öllu og borið til fullkomið, takmarkalaust traust.

French losaði hafrana úr vagninum eftir fyrirsögn Marpore.

Hún talaði við hann á meðan, um alla heima og geima, hló og spaugaði og lék við hvern sinn fingur, rétt eins og þetta væri gamall og góður kunningi hennar. French var í sjöunda himni. Þetta var í fyrsta skifti sem hann hafði verulega notið lífsins lengi, og hann bauð þeim að heimsækja sig; það hefði hann aldrei gert fyr í 20 ár, að bjóða heim til sín kvenfólki.

Miss Menzie þakkaði boðið hiklaust og með sýnilegri gleði.

"Ó, það verður indælt; heldurðu það ekki Janet frænka mín" sagði Marjore. "Við höfum ekki enn-

þá séð reglulegt gripabú, og þar að auki, getum við ekki borgað hafrana núna, við höfum enga peninga."

"Það gerir ekkert til" sagði French, "en ef frænka þín vill sýna það lítillæti að heiðra litla kofann minn með augnabliksnærveru sinni, þá væri það okkur sérstaklega mikil ánægja."

"Janet var komin í gildruna, áður en hún vissi af, hún hafði þegið heimboðið.

"Það er ágætt!" sagði Marjore með djúpri gleði; "við skulum koma á morgun, Mr. French."

Að því búnu fór French heim aftur og sagði fréttirnar. Gamli Mackenzie lét sér fátt um finnast; hann vildi ekkert hafa saman við kvenfólk að sælda. Kalman varð bæði glaður og hryggur.

Þessi stutta kynning hafði skapað innilega vináttu og staðfasta, milli þessarar ungu stúlku og Jack French. Svo innilega vináttu að mörg ár hefði þurft til þess, ef þau hefðu aðeins kynst á þann hátt, sem félagssiðir leggja fyrir. French gat undir eins látið hana skilja, hvernig gripabóndi í vesturlandinu ætti að vera; hún var hugfangin af lífi þeirra og starfi, og framkoma French var svo blátt áfram og sakleysisleg, að hún heillaði þessa ungu barnslegu stúlku; sál hennar var eins og helgidómur, sem enn hafði enginn blettur fallið á, þess vegna hreif það hana sem var eðlilegt, blátt áfram og saklaust. Hún hefði ekki getað hrundið úr huga sér vináttu til þessa manns. Þau höfðu fundið hvort annað á þessari örstuttu stund.

---

## XVI. KAPÍTULI.

### *Hvernig Kalman fann námuna sína.*

Svo var mikill áhugi þessarar ungu stúlku, til þess að heimsækja þennan nýja vin sinn, að hún vann alt fólkið til þess að fara þangað.

Þau voru öll í heilan sólarhring á búgarðinum og sýndi French þeim alt mögulegt; alla fegurstu bletti landeignarinnar. Sérstaklega varð að skýra nákvæmlega allar búnaðaraðferðir fyrir Miss Marjore. Kalman hafði umsjón yfir því.

Þessi ungi maður forðaðist fólkið algjörlega, hann var þögull og íbygginn; kom aðeins fram við máltíðir. Þar hafði hann býsna gott vald á sjálfum sér, en í huga hans var heilmikill öldugangur. Hann dáðist að því hve eðlilega, og með hve mikilli hluttekningu French gat komið fram við gestina, og hins vegar svall honum heift í brjósti fyrir þá sök að Mr. Edgar Penney lét eða kom fram, rétt eins og hann ætti Miss Marjore að öllu leyti. Hann hefði með ánægju getað kramið þennan rauðleita dóna með krabbaandlitið í kássu.

Kalman var stundum alt í einu búinn að festa augun einmitt þar á hálsinum á honum, sem hann óskaði að hann hefði höndurnar og mætti kreista; og ólgusjóir haturs og gremju brutust um í hugskoti hans. Að öðru leyti en þessu var þetta alt nýtt fyrir Kalman. Það var eins og öll veröldin hefði farið í sparifötin; blámi himindjúpsins, gljái vatnsins, gullroði skógarins; alt—alt brosti við honum í nýrri gleði og dýrð, bæði á himni og jörðu. Dagsverkið þreytti hann alls ekki. Hann gekk ekki lengur á föstum grundvelli, heldur leið hann sjálfur léttur eins og blærinn á fótum anda síns um himneskar hallir, sem allar hljómuðu og endurómuðu af dýrðlegum söng.

Aumingja Kalman. Þegar hann í sakleysi og fyllingu æsku sinnar hafði fyrst í raun og veru litið með augum anda síns, það sem alla sanna menn heillar dýpst og helgast — litið óspilta konu og skilið hvað það þýddi, þá var hann staddur á vegamótum gæfu sinnar. Þetta mikla augnablik, þessi alráðandi

viðburður, skeði morguninn góða, þegar hann kom að tjöldunum.

Elsta saga sem mannkynið á til og nýjasta um leið, var að byrja að festast eða skrifast með óafmáanlegu letri á lífsblöð sálar hans, sem áður voru ósnortin og óskráð. Hann var ástfanginn, án þess að hann vissi af því sjálfur.

Samt má segja honum það til hróss, að hann lét ekki þessara djúpu tilfinninga sinna verða vart, á meðan stúlkan var þar; nema ef vera skyldi á þann hátt, að hin bláu augu hans urðu enn þá blárri og að roði sást leiftra, eins og flögrandi elding, undir brúna litnum, sem sól og veður hafði málað á kinnar hans, annað augnablikið, en hina stundina einhver fölleitur dauðablær.

En þegar þær voru farnar af stað, snéri mærin sér skyndilega við í söðlinum, veifaði hendinni og sagði: "Vertu sæll Kalman!" Og fölvinn hvarf af andliti hans á svipstundu og sterk, heit blóðalda sendi fram í andlit hans roða þann sem einkennir líf og heilbrigði, og hann svaraði: "Vertu sæl!" Hann hélt hattinum sínum hátt á lofti, sem kveðjumerki, eins og hann hafði séð French gera, og svo var hún horfin sjónum hans eftir fáein augnablik — og með henni hvarf öll dýrð þessa fagra og töfrandi haustdags.

Kalman fanst eins og það hlytu að vera margir mánuðir eða mörg ár, síðan hann sá hana fyrst hjá tjaldi frænku hennar, morguninn sæla. Honum var ómögulegt að una við það sem áður var. Undir eins þetta sama kveld tók hann saman pjönkur sínar, kodda, ábreiður og þriggja daga nesti, batt öxi og skóflu við hnakkinn sinn og reið niður með Nátthaukagili; sagði Mackenzie að hann ætlaði að fara að grafa upp úlfagreni, sem hann vissi að væri einhversstaðar milli vatnsins og gilminnisins. Svo kallaði hann á hundana með sér.

Eftir hádegi annars dags var hann kominn langt niður með gili, þar sem það rennur beint niður í djúpan lækinn fyrir niðan. Hann hafði enn ekki fundið úlfagrenið, og var hér um bil sama, hvort hann fyndi það eða ekki, því þegar hann reið í gegnum þykka skógarrunnana, sýndist honum eins og frammi fyrir sér væri dansandi ungmær í glitrandi sólargeislunum, sem féllu alla vega innan um og í gegn um lauf og lim skógartrjánna; honum sýndist hún hafa dreymandi bláu augu, honum sýndist hún hlæja að sér og ginna sig og blekkja sig í senn.

Á bakka lækjarins, þar sem hann var brattur, stöðvaði hann hest sinn. Þarna hafði hann aldrei komið fyr. Bakkar lækjarins voru brattir og var mjótt en hart straumkast eða foss þar sem Nátthaukagil ruddist út í Saskatchewan ána tveimur mílum niður.

"Við verðum að dratta hérna niður, "Jacob" ", sagði hann við hestinn sinn — Brown hafði skýrt hann því nafni, fyrir þá sök, að hann hafði náð sama ástfóstri hjá Kalman, eins og fyrsti hestur Brown hafði átt hjá honum.

Kalman fór af baki, lagði taumana á makkann á hestinum og fór af stað niður brekkuna og hesturinn á eftir; hann rann og skrikaði og skröngla∂ist niður alla vega, náði stundum í grenitré, stundum í stein. Á svolitlum gjáarbarmi náði hann í dálitla hríslu, aðeins nógu snemma til þess að kollsteypast ekki, en hríslan brotnaði; þeir runnu báðir niður brekkuna, Kalman og hesturinn, og hrúgaðist saman á undan þeim, heljar mikið af mold og möl og grjóti. Svo óheppilega vildi til að Jacob datt ofan á fótinn á Kalman, brestur heyrðist: hann fann til snöggs sársauka, og þeir komust ekki lengra; maðurinn og hesturinn lágu þar sem þeir voru komnir, hálfgrafnir í leðjunni. Kalman náði í staur, sem var skamt frá honum:

"Stattu upp, Jacob! stattu upp letingi!" sagði hann og sló snögt í hestinn. Jacob neytti allra krafta og rykti á svo fast að hann reif sig lausan, og það losaði einnig um Kalman.

Hann var ánægður þegar hann fann að hann gat stigið í fótinn. Hann gat líka gengið, en ekki nema með óbærilegum kvölum. Þegar hann var búinn að skoða á sér fótinn, þóttist hann þess fullviss, að hann væri ekki beinbrotinn. Hann tók stóran klút af hálsinum á sér og batt hann þétt utan um fótinn og öklann.

"Við sluppum býsna vel út úr þessu, Jacob" sagði hann um leið og hann leit á djúpa og stóra gryfju eða jarðfall. "Hvaða heljargryfja er þetta? Það er ágætt að leggja sig fyrir þar og sofna. Heilmikið af grenivið til og frá. Við skulum bara slá okkur til rólegheita og vera hérna í nótt. Það er líklega bezt að lofa úlfaskömmunum að vera í friði í þetta skifti. Eg er hræddur um að lapparskömmin á mér þyldi það ekki að eg færi að standa við gröft til lengdar.

Nei, hvað er nú þetta, þarna er svei mér skrítilegur klettur! Eg verð að skoða þetta jarðfall dálítið."

Hann skreið yfir malarbynginn og fór ofan í gryfjuna. Hann tók eftir glitrandi rák, sem lá á ská öðrumegin í jarðfallinu og endaði óglögt hinumegin. "Svei mér þá" sagði hann, "ef þetta er ekki líkt kolunum sem við fundum oft meðfram járnbrautarteinunum í Winnipeg."

Þegar hann sagði þetta, var hann í orðum, hreyfingum og málrómi rétt eins og ágætlega gerð útgáfa af French, svo líkur honum var hann orðinn.

Hann braut svolítinn mola úr svörtu rákinni; það molaðist í sundur í höndunum á honum.

"Nei, það er víst alt annað" sagði hann, "en við skulum reyna skófluna við það."

Kalman gleymdi snöggvast sársaukanum í fætinum, þreif skófluna sína og var eftir fá augnablik kominn að vinnu, og hann boraði heilmikið úr rákinni.

Hann hafði breitt talsverða hrúgu fyrir framan sig: "Nú skulum við bráðum sjá" sagði hann.

Hann tíndi saman í skyndi dálítið af þurrum viði, lét það, sem hann hafði grafið úr þessari svörtu rák ofan á hann, kveykti í honum og settist svo niður og horfði á alt saman.

Ákafar og stórvaxnar vonir börðust í hjarta hans. Hann vissi nógu mikið um gildi kola, til þess að skilja það, að kolafundur væri einhvers virði. Hann skyldi nú hafa fundið þarna kolanámu? Já, hvílík dýrð og framtíð það yrði fyrir French, og hann sjálfan! Hvílík ósköp þeir gætu gjört fyrir Mrs. French og Irmu! Í þessum vökudraumum birtist honum nýtt andlit, með dreymandi brúnum augum, en hann neitaði sjálfum sér um að láta sjónir sínar staðnæmast á því andliti. Hann þorði það ekki; að minsta kosti ekki enn þá. Hann horfði allur á eldinn; vann eldurinn á þessum svörtu köglum? loginn var að dvína; viðurinn var rétt uppbrunninn; svörtu köglarnir voru sviðnaðir og ekki meira, og með dauða eldsins dóu einnig vonir Kalmans.

Hann rendi augunum út yfir gilið. Stórar snjóflyksur féllu í logninu á skógarbrumið og af því til jarðar.

"Það er bezt að ná í nestið mitt og ábreiðurnar, og dálítið meira af eldivið; það ætlar að verða kalt í nótt."

Hann dembdi öllu því, sem eftir var af viðnum á eldinn, og tók það mjög nærri sér, því hann var að fá meiri og meiri verk í fótinn, eftir því sem lengra leið; átti nú sérstaklega erfitt með að hreyfa sig.

Hann fór að tína saman eldivið, það var nóg af honum alt í kring; hann bjó eins vel um sig og hann gat til næturinnar. Hann sótti vatnsfötu í gilið og tjóðraði hestinn sinn í gilinu, þar sem góður var hagi. Áður en hann hafði lokið þessu, var alt orðið alhvítt af snjó, og vindurinn var að byrja að andvarpa með óhamingjuspám í skógartrjánum.

"Hann ætlar að gera manndrápsveður, enginn efi á því", sagði hann. "En hvað gerir það til, látum hann hamast eins og hann vill; við getum haft það rólegt hér, hvað sem á dynur. Hæ! Hó! hvar eru hundaskammirnar? Þeir hafa nú líklega hlaupið eftir úlfum! Já, það hafa þeir einmitt gert.

Jæja, látum greyin vera, þeir koma aftur þegar þeir eru tilbúnir."

Það herti á kafaldinu eftir því sem lengra leið, og það var orðið rokhvast.

"Það ætlar að gera grenjandi bil; það er líklega vissara að afla sér meiri eldiviðar."

Hann safnaði saman heilmiklu af þurrum trjám til og frá í gilinu, en það gerði hann meira af vilja en mætti, því hann kvaldist svo í fætinum, að hann hafði nálega ekkert viðþol. Honum seig brúnin, þegar hann tók eftir því, að nestið hans var ekki eins mikið og hann hafði haldið. "Eg vildi að eg hefði ekki étið svona mikið" tautaði hann fyrir munni sér. "Ef eg verð að vera hér í þrjá daga — og fyrir það er nú fult útlit — þá verð eg bjargarlaus. Eg ætla að drekka tebolla í kveld og geyma matinn þangað til á morgun.

Á meðan hann var að búast um til næturhvíldar, dimmaði svo að tæplega sáust handaskil; dalurinn var myrkur eins og kolsvartur veggur. Hann heyrði undarlegt hljóð niðri í gilinu, eins og hróp, sem er hindrað af einhverju. Eftir eina mínútu var skoll-

inn á moldöskubilur. Hann sá ekkert og gat tæplega náð andanum; rokið var afskaplegt.

"Það má ekki minna vera! Þetta er skárri skollans bilurinn. Eg ætla að færa saman eldinn." Hann tók skófluna og rakaði eldinum saman. Alt í einu rak hann upp hljóð og slepti skóflunni, féll á hnén og starði inn í eldinn.

Undir viðarhrúgunni sem brann, var logandi kolabingur.

"Kol!" kallaði hann, og þaut eins og örskot að jarðfallinu. "Kol! kol! Ó, Jack — elsku bezti Jack! Það eru kol!"

Hann skalf milli vonar og ótta; hann tók upp mola þar sem svarta rákin var, tók meira og setti það ofan á eldinn og alt í kringum hann.

Loksins var allur efi horfinn, svörtu köglarnir voru brátt í björtum loga. Ef það hefði ekki verið vegna þess að hann hafði ekkert viðþol í fætinum, þá hefði hann stokkið á bak á Jacok og þeyst heim,

"Lofum honum að blása. Látum hann hríða eins og hann vill," kallaði hann og horfði út í blindbylinn framundan sér. "Eg hefi nú fundið það sem stenst allan kulda og allar hríðar."

Hann fór að búa sér til te, en hann hafði enga eirð; hann varð að fara altaf öðru hvoru, til þess að skoða svörtu rákina í jarðfallinu; svo blístraði hann öðru hvoru, til þess að kalla á hundana sína. Þegar hann stóð stundarkorn og hlustaði á storminn, heyrðist honum sem hljóði Drotningar brigði fyrir. Hann hélt niðri í sér andanum og hlustaði nákvæmlegar. Þegar örlítið hlé varð á storminum, heyrði hann þetta hljóð aftur — og heyrði það nú glögt.

"Þau eru að grafa upp úlfabæli," sagði hann. Þau verða þreytt og koma bráðum aftur."

Hann drakk teið sitt; haltraði svo niður brekkuna, og var það enn þá erfiðara vegna snjósins, sem

fallið hafði. Hann tók aðra vatnsfötuna, til þess að vera byrgur. Ekki komu hundarnir ennþá. Hann fór aftur ofan að mynninu á jarðfallinu og blístraði hátt og lengi. Nú heyrði hann greinilega til Drotningar sinnar, og á eftir því hljóði heyrði hann kallað — það var virkilega mannleg rödd, sem hann heyrði.

"Hvað er þetta," sagði gann, "getur það verið að nokkur sé úti í þessu veðri?"

Hann lagðist niður á hnén, setti hendur fyrir eyru og hlustaði djúpt. Hann heyrði lágt, greinilegt kall

"Hamingjan góða!" kallaði hann upp yfir sig, "kvenmannsrödd. Og mér er ómögulegt að komast 100 skref á klukkutímanum eins og eg er í löppinni."

Hann þekti byljina nógu vel til þess að vita hættuna sem sá var staddur í, sem úti var í öðru eins veðri og þessu; þegar ekki sást handa sinna skil, og ekki naut augnanna fyrir hríðinni.

"Eg má ekki halda kyrru fyrir, og eg kemst ekkert á lapparskömminni—en—jú—Jacob getur farið allra sinna ferða."

Hann þreif upp hnakkinn sinn og haltraði af stað út í moldviðrið. Fáein fet frá tjalddyrunum féll hann áfram í djúpum skafli og vatt á sér fótinn svo hann sárkendi til. Hann náði tæpast andanum, sá ekki þumlung út frá sér og var nærri liðið yfir hann af sársaukanum. Hann brölti þó á fætur aftur og staulaðist niður brekkuna ofan í gilið, þar sem hann vissi að hesturinn hlaut að vera.

"Jacob!" kallaði hann. "Hvar ertu?"

Hesturinn svaraði með þíðlegu hneggi.

"Jæja drengur minn; eg kemst bráðum til þín."

Eftir fáein augnablik var hann kominn á hestbak og reið niður dalinn. Hann varð að fara varlega, og leita fyrir sér milli trjáa, staura og steina.

Hann heyrði altaf öðru hvoru til Drotningar sinnar, og í hvert skifti sem hann heyrði það, svaraði hann henni með einhverju gæluyrði. Það var með hörkumunum að hann gat stýrt hestinum beint í veðrið. Hann fetaði sig þó áfram, fet fyrir fet, móti hríðinni; áttinni reyndi hann að halda með því að taka eftir árstraumnum. Hundshljóðið færðist nær og nær, þangað til hann heyrði að í hvert skifti sem hann kallaði, var honum svarað hátt og skýrt. Dalurinn breikkaði, trén strjáluðust og ferðin gekk greiðara. Loksins sá hann tvær hvítar lifandi verur hálfveltast áfram í hríðinni í gegnum fönnina. Hundarnir komu hlaupandi á móti honum: "Verið þið velkomnir, greyin!" sagði hann. "Þið eruð þó loksins komnir aftur." Hann herti á hestinum, til þess að mæta hundunum sem fyrst, þangað til hann var rétt að segja kominn að þeim.

"Ó, Kalman, Kalman! eg vissi að það varst þú."

Hann hljóp af baki í hendingskasti. "Ert það þú—þú?" kallaði hann svo hátt að vel heyrðist, þrátt fyrir stórviðrið.

"Marjore, Marjore! ert þú það virkilega?"

Hann tók hana í fang sér og hélt fast utan um hana, og kysti hana með áfergju, en hún hallaði höfðinu upp að brjóstinu á honum, grátandi og hlægjandi á víxl.

"Ó, Kalman, Kalman!" sagði hún og náði varla andanum. "Hættu þessu — hættu þessu. Ó, hvað eg varð fegin — en þú verður að hætta þessu."

"Ómögulegt", sagði hann með karlmannlegri röddu — "hver getur látið mig hætta? Hvernig gæti eg hætt? Það var mildi að þú varðst ekki úti í hríðinni."

Kalman var ekki barn eða unglingur lengur; hann var orðinn fullorðinn karlmaður — hann hafði orðið það á þessu augnabliki.

Skamt frá þeim sást önnur vera, sem hélt sér í tré og var auðsjáanlega að þrotum komin.

"Ó, Kalman; við vorum alveg komin í mát, þegar hundarnir komu, og þá vildi eg ekki nema staðar, því eg vissi að þú mundir vera einhversstaðar í grendinni. En þú varst svo lengi — svo ógurlega lengi."

Kalman hélt henni enn í faðmi sér.

"Heyrðu ungi maður; hvern þremilinn eruð þið að gera. Eg er alveg uppgefinn og get ekki komist eitt einasta fet lengra þó eg ætti til lífs að vinna."

Þessi rödd og þessi orð minti Kalman á það, að hann var virkilega á jarðríki, en ekki í himnaríki. hann snéri sér að þeim sem mælt hafði, og sá að það var Edgar Penny.

"Vertu rólegur," sagði Kalman; "komdu upp að tjaldinu mínu, það er spölkorn uppi með ánni; við getum þreifað okkur áfram; farðu á bak Marjore."

"Má eg það?"

"Já, undir eins," svaraði Kalman, og fór nú að eins og hún væri systir hans eða gamall kunningi; öll feimni var horfin.

"Haltu þér nú fast, og svo verður ekki langt þangað til við komum heim í tjaldið."

Þau höfðu vindinn á eftir sér og héldu upp eftir ánni; þeir héldu sér í ístöðin. Þau bröltu í gegn um ófærðina og fannfergjuna stundarkorn. Það var eina lánið að þau gátu áttað sig á straumnum í fljótinu, því svo var bylurinn ákafur að ekki sást hestlengd í senn. Eftir fáein augnablik kallaði Mr. Penny upp og sagði: "Eg get ekki komist feti lengra; við skulum hvíla okkur svolítið. Hann settist niður í fönnina. Það var altaf að kólna og jafnvel að hvessa.

"Haltu áfram!" sagði Kalman hátt og snjalt. "Við verðum að halda áfram, eða við frjósum í hel."

Ekkert svar.

"Mr. Penny! Mr. Penny!" kallaði Marjore. "Stattu upp, við verðum að halda áfram."

Ekkert svar. Kalman gekk þétt upp að honum; hann var steinsofnaður.

"Stattu upp! Stattu upp, skræfan þín, ef þú vilt ekki drepast," sagði Kalman og hristi hann ómjúklega. "Stattu upp, segi eg."

Hann reisti hann á fætur, og svo fóru þau af stað aftur. Mr. Penny slangraðist áfram eins og dauðadrukkinn maður.

"Láttu mig ganga, Kalman," sagði Marjore. "Eg er orðin afþreytt og hress. Hann getur ekki komist áfram; hann gerir ekkert annað en tefja fyrir okkur."

"Þú að ganga!" svaraði Kalman. "Nei, það skal aldrei koma fyrir; ef hann getur ekki fylgt okkur, þá er bezt ð láta hann verða eftir og drepast."

"Nei, Kalman, eg er fullfrísk." Hún stökk af baki; Kalman nöldraði og bölvaði, og svo hjálpaði hann honum þó til þess að komast á bak. Nú voru þau komin þangað sem skógurinn var þéttastur. Skógurinn dró dálítið úr storminum; en það var altaf að kólna.

"Hér er betra að fara hvert á eftir öðru" sagði Kalman. "Farðu í förin mín."

Þau smámjökuðust áfram í ófærðinni, og Kalman beit á jaxlinn og gretti sig af sársauka í fætinum. Hann gat ekki varist hljóðum nema bíta tönnum fast saman. Svo vildi það til að hann missteig sig, og fóturinn snérist. Hann datt niður í fönnina og rak upp hljóð. Marjore hljóðaði einnig upp yfir sig: "Ó, Kalman, þú hefir meitt þig."

"Það er veiki fóturinn," sagði hann lágt, og röddin lýsti djúpum sársauka; "eg snéri hann og það brotnaði eitthvað, eða eg er hræddur um það, og það er ansvíti sárt."

"Hvað er um að vera?" kallaði Penny á hestbaki. "Eg er alveg að drepast úr kulda."

Marjore leit á hann heiptaraugum.

"Komdu af hestbaki sláninn þinn og letinginn!" kallaði hún. "Þú verður að komast á hestbak, Kalman."

En Kalman þaut á fætur og staulaðist áfram eins og áður. "Við erum rétt að segja komin heim," sagði hann, "komdu á eftir mér; hann getur ekki haldið veginum."

"Þetta er ljóta skömmin," sagði Marjore, hálfgrátandi; og fylgdi þétt á eftir honum. "Get eg ekki hjálpað þér? lofaðu mér að reyna." Hún lagði handleggin utan um hann, og það gaf honum nýtt líf og nýjan styrk. "Hamingjunni sé lof! eg sé eld!" sagði Penny.

"Það er hjá hellinum," svaraði Kalman; hann staðnæmdist til að draga djúpt andann, en Marjore studdi hann. "Við erum rétt komin heim."

Svona stauluðust þau áfram skref fyrir skref í bylnum og kuldanum, og voru nú komin upp undir jarðfallið. Þá tók Kalman hnakkinn af hestinum; slepti honum og klifraði upp að hellinum, og þau á eftir. Mr. Penny datt máttlaus niður og lá á hellisgólfinu, eins og hann væri steindauður.

"Þá erum við loksins komin hingað," sagði Kalman. "Guði sé lof."

"Já, guði sé lof," sagði Marjore, klökk — "og þú Kalman—"

Hún lagðist á hnén á gólfið, tók höndunum fyrir andlitið og fór að hágráta.

"Hvað er að, Marjore?" sagði Kalman, og tók hendurnar frá andlitinu. "Hefirðu meitt þig? Hvað gengur að? Eg þoli ekki að sjá þig gráta svona? En hann kysti hana ekki. Það var eins og hann væri að verða feiminn aftur; einhvers konar ófram-

færni tók haldi á huga hans. "Segðu mér hvað eg á að gera," sagði hann.

"Gera!" svaraði Marjore grátandi og snöktandi. "Hvað ætli þú getir gert meira. Ó, Kalman, þú hefir bjargað lífi mínu frá voðalegum dauða."

"Minstu ekki á það," svaraði Kalman og ypti öxlum, "ætli eg viti það ekki; eg vil helzt ekki hugsa um það. En líður þér bærilega?"

"Bærilega?" svaraði Marjore og strauk tárin af augum sér. "Já, já, mér líður vel. Eg vildi bara að maður hefði eitthvað að borða."

"Það er nú svo sem hægast," svaraði Kalman. "Mikið dauðans flón var eg, eg skal búa til handa þér te á augabragði."

"Nei, nei; láttu mig gera það," sagði Marjore; þér hlýtur að vera ógurlega ilt í fætinum. Eg er ágæt að búa til te; þú mátt trúa því." — Hún lét alveg eins og krakkakjáni, mundi frænka hennar hafa sagt.

Aldrei hefir eins gott te verið drukkið á jarðríki, eins og það, sem í þetta skifti var búið til í litlu tefötunni og drukkið úr einum tinbolla. Hvað gerði það til þó stormurinn og bylurinn æddi úti fyrir hellisdyrunum? Hvað gerði það til þó snjógusurnar nærri því gæfðu eldinn öðru hvoru? Hvað gerði það til þó teið syði uppyfir og svínakjötið brynni, þegar verið var að steikja það? Hvað gerði það til þó þau hefðu ekkert eftir til þess að nærast á nema eina haframjölsköku? Hví skyldu þau æðrast vegna þess? Þau áttu heima í himnaríki og gæfan lék á ljúfa strengi í hjörtum þeirra.

Þegar þau höfðu hrest sig á teinu, sátu þau fyrir framan logandi eldinn og þurkuðu föt sín, sem öll voru rennblaut. Mr. Penny og Marjore sögðu Kalman sögu sína áður en hann mætti þeim. Þau höfðu ætlað til Wakota, en viltust. Veðrið var samt ágætt;

þau kviðu því engu. Þangað til óveðrið skall á; þá urðu þau gersamlega áttavilt, og létu hestana ráða ferðinni. Hestarnir höfðu verið aldir upp á sléttunni og leituðu sér því skjóls í Nátthaukagili; þau höfðu brotist upp eftir gilinu, þangað til dimt var orðið, og þeim hafði verið ómögulegt að komast með hestana í gegnum skóginn, hann var svo þykkur; þau urðu því að skilja þá eftir.

"Hvað ætli að verði um vesalings hestana?" sagði Marjore.

"Þeir sjá um sig; vertu róleg," svaraði Kalman. "Hestar ganga hér úti allan veturinn."

Þau héldu áfram af veikum mætti, og það dró af þeim smátt og smátt. Loksins komu hundarnir til þeirra.

"Við héldum að það væru úlfar," sagði Marjore, "en svo byrjaði annar þeirra að gelta, og eg heyrði að það var úlfahundurinn. Það fullvissaði mig aftur um að þú værir ekki langt í burtu. Við fylgdum hundunum stundarkorn og eg kallaði og kallaði. — Aumingja Penny var orðinn alveg rómlaus — loksins komst þú og fanst okkur."

Um það leyti sem hún endaði sögu sína, var hitinn af eldinum að verða óbærilegur; hún setti hendurnar fyrir andlitið til þess að verja sig, og færði sig út í skuggann.

Mr. Penny var að smástækka í augum síns innra manns. Hann hafði hrests af tebollanum og svínssteikinni og kökubitanum — þó Kalman leyfði honum ekki að borða eins mikið og hann vildi — og honum var farið að finnast talsvert til sjálfs sín aftur. Hann var orðinn hérumbil sannfærður um það, að ferðalagið mundi nú hafa endað heppilega, þó Kalman hefði ekki komið til sögunnar; þau mundu hafa klórað sig til bygða, og hann lét það í ljósi.

"Hvað er að heyra þetta Mr. Penny," sagði

Marjore. "Þú sem gast ekki lengur hreyft hvern fótinn fram fyrir annan; þú varst alveg staðuppgefinn. Manstu ekki hvað oft þú settist niður og eg varð að reisa þig á fætur?"

"Já, það var nú bara af því að bölvað kafaldið fylti á mér augun; skilurðu það ekki?"

En Penny sannfærði ekki Marjore, og Kalman steinþagði. Þau sögðu sögu sína hvað eftir annað, og í hvert skifti sem þau sögðu hana, var greinilegar skýrt einhverju hörmungaratriði, sem gleymst hafði áður. En altaf kafroðnaði Marjore öðru hvoru, eins og eitthvað kæmi henni í hug, sem hjarta hennar bærðist af og allur hennar innri maður komst á hreyfingu — það var eitthvað áhrifamikið í meira lagi, sem braust um í huga hennar. Og hún tók höndum um kinnarnar, þegar hún fann þær hitna, eins og hún væri að verjast kossum hins logandi elds. — En samt leið bros um varir hennar, þess eðlis að hugsarir hennar voru ekki alls kostar ógeðfeldar.

Loksins fór Mr. Penny að syfja; hann fleygði sér endilöngum á gólfið við eldinn, og steinsofnaði, Kalman og Marjore voru því orðin sama sem tvö ein. Kalman breiddi út ábreiðurnar sínar ifan á skógarlim í hellishorninu, og átti mjög erfitt með að hræifa sig vegna sársauka í fætinum. Hann hljóðaði upp yfir sig öðru hvoru, og Marjore tók undir með hluttekningu.

Saga þessarar næturstundar verður ekki sögð með orðum. Stundum sátu þau lengi í djúpri þögn og horfðu á logandi kolahrúguna; stundum töluðu þau saman í lágum rómi, til þess að Penny skyldi ekki vakna — náttúrlega af einskærri umhyggju fyrir honum. Marjore sagði Kalman alla æfisögu sína í fám orðum, og hann hlustaði á með athygli og lotningu. Kalman sagði henni æfisögu sína — þó hann

skyldi ýmislegt eftir — og þegar Marjore hlustaði á hann, flutu augu hennar í tárum, og kinnar hennar urðu fölar eins og óskrifað blað. Hún smeygði hendinni ósjálfrátt undi r hendina á honum, þegar hann sagði henni frá hinu sorglega fráfalli móður sinnar. Hún lýsti því með hlátur í hálsinum, hvílíkt ofboð hefði komið á frænku sína, morguninn sæla, þegar hundarnir komu inn í tjaldið. Hann sagði henni frá Jack French, hve mikill og góður maður hann væri. Hún lýsti fyrir honum föður sínum, hversu sterkur hann væri og hversu hugprúður og hvað hann hefði látið of mikið eftir henni. Kalman mælti á móti því. Hann sagði henni frá Brown, og öllu starfi hans fyrir Galizíufólkið; hann sagði henni frá því, hvernig þeir væru vanir að syngja saman. Hún bað hann að syngja fyrir sig; hann gat ekki neitað því; hann söng fyrst í lágum tón, til þess að aumingja Penny vaknaði ekki, og svo smáhækkaði hann sig og söng fullum rómi sálminn sem þeir Brown voru vanir að syngja saman. Og loksins sagði hann henni feimnislega frá ungversku ástakvæði, sem hann hafði sjálfur ort; hún bað hann að syngja það, og hann gerði það. Augu hennar ljómuðu eins og tvær djúpar stjörnur; kinnar hennar fölnuðu og hún hélt höndunum fast saman og varð öll að geðshræringu, þegar hann sagði henni hvað þetta þýddi; fyrst snéri hann sér undann, hálffeiminn, en svo smánáði hann sér og horfði beint inn í augu hennar; hann sendi sterka geisla og hita frá djúpi sálar sinnar inn í augu hennar, laus við alla feimni og óhikandi og söng.

Á meðan fiskur syndir sæ  
og sólin kyssir blómgan dal,  
þú líf mitt, sál mín — heilan hug  
og hjarta mitt þér geyma skal.

Marjore leit augum til jarðar og feimnisroði færðist yfir andlit hennar og hún þokaði sér örlítið frá Kalman og nær eldinum. Hann var svo næmur fyrir henni og öllum hennar hreifingum, að hann tók jafnskjótt eftir því; hann reis á fætur, hagræddi eldinum og kastaði á hann nýju eldsneyti. Nú sagði hann henni frá námunni sinni; hvílíka auðlegð hann hefði fundið þarna í kolum. Hann hafði steingleymt því þangað til nú. Þau skoðuðu nákvæmlega svörtu rákina; höfuð þeirra voru svo náin að þau nálega snertu hvort annað; þau töluðu saman í hvíslingum á meðan þau skoðuðu kolin. Þau reiknuðu út þann auð sem þarna væri falinn, og hvílík framtíðarvon þessi svarta rák væri fyrir Kalman. Svo settust þau niður aftur og sátu steinþegjandi — þangað til Kalman skipaði henni að fara að sofa; hún hlýddi því aðeins með því móti að hann lofaði henni því að vekja Penny þegar hans tími væri útrunninn að vaka. Þegar hún vaknaði var komið fram á dag og var þá morgunverður tilbúinn; hríðinni var nálega stytt upp, og sólin var að brjótast í gegnum skýin, og alt leit út sem einhver undra og töfraheimur. Það var hægt að láta sig dreyma það vakandi að maður væri kominn til álfheima í hendur góðra vætta.

Þau reyndu að vera sem mest blátt áfram, og láta það ekki sjást eða heyrast á neinu, sem fyrir hafði komið kveldið áður; en sem hvorugt þeirra gat gleymt, né vildi gleyma, þangað til þau lokuðu augunum í síðasta skifti; frá þeirri kveldstundu áttu þau ljúfar myndir í huga sér, sem aldrei áttu að fyrnast né fölna. Alt þetta mætti segja í mörgum orðum og fögrum lýsingum, ef maður væri þeirri gáfu gæddur að geta sagt það á viðeigandi hátt. En engin mannleg tunga og einskis manns penni getur lýst þeim eldskeytum, sem þau sendust á með augum

sínum; sem voru eins ólík að lit og blæ, sem mest má verða — hennar móbrún, hans blágrá. Enginn getur lýst því hvernig Kalman hafði gætur á henni og tók eftir því hvernig hún skifti svip og litum; hvernig yndislegur roði og fölvi færðist á víxl yfir kinnar hennar. Hann var ekki alveg viss um það stundum, hvort þetta var roði frá hita eldsins, eða hann var frá þeim eldi, sem brennur frá eilífð til eilífðar í hjarta sveins og meyjar.. Enginn getur lýst því til hálfs, hvernig ást og ótti blönduðust saman í huga hennar, þegar hún hlustaði á hann syngja, með öllum þeim djúpu tilfinningum og ástríðum, sem sá söngur fól í sér, eða hversu fljótt hún tók eftir því, að orð hennar eða augnatillit vakti hjá honum þessar tilfinningar og ástríður. Enginn getur lýst því greinilega, hve ant hann lét sér um það á meðan hún svaf, að halda eldinum björtum; ekki til þess að henni skyldi ekki verða kalt — á því var engin hætta — heldur til þess að sem bjartast væri, svo hann gæti séð hana sem bezt og nákvæmast; hann vildi geta drukkið með augunum fullnægju hjarta síns af þeirri fegurð sem hún átti og hann hafði aldrei séð fyr. Því getur enginn lýst, þegar hún vaknaði og lauk hægt upp augunum. Hún rendi þeim í hring í hellinum, lokaði þeim aftur stundarkorn, til þess að láta sig dreyma það í vöku, sem hjarta hennar var ljúfast, og drekka í fullum friði huga síns af þeim lindum er henni voru sætastar. Það var eins og hann hræddist að mæta augum hennar þegar hún vaknaði, eins og hann héldi að hún mundi ásaka hann fyrir dirfskuna. Enginn getur lýst því, þegar hún sá í augnaráði hans efasemdir, ótta, feimni, þreytu, svefnleysi og ástþorsta; hvernig hjarta hennar fyltist af sams konar ást og meðaumkun, sem móðir ber til ósjálfbjarga barns síns; því getur enginn lýst, hversu innilega hana langaði til

þess að geta huggað hann og glatt, en þorði það ekki. Enginn getur lýst því til hálfs, hvernig hann hugsaði um ókomna æfidaga; honum fanst þeir vera eilíft myrkur, ef *hún* væri fjarlæg — og það hlaut hún að verða; ekki gat það komið til nokkurra mála að *hún* staðnæmdist í þessu frumbyggja landi.

Enginn getur lýst því hvernig hugsanir hennar voru þegar hún var að velta því fyrir sér, hvernig það mundi nú annars vera að eiga heima í þessu undralandi. — Nei ,enginn getur lýst þessu til hálfs; hversu mikilli list og hæfileikum sem hann er gæddur.

Það var skamt liðið á morguninn, þegar Jack French og Brow riðu upp að Nátthaukagili og ráku tvo hnakkhesta á undan sér. Sameiginlegur sársauki yfir fjarveru Kalmans, hafði hnýtt aftur þau bönd, sem misskilningur og fljótfærni hafði slitið fyrir heilu ári. Mr. Penny bauð þá velkomna með áköfum vinalátum. Hann byrjaði jafnskjótt á því að segja þeim frá því með áhrifamiklum orðum, hversu voða hörmungar þau hefðu orðið að þola, og hvílíka hreysti og harðfengi þau hefðu sýnt á ferðinni í hríðinni; hversu lánsöm þau hefðu verið að hitta hundana, sem fylgdu þeim til Kalmans og náttstaðar hans. En French lét sér fátt um finnast; hann hratt honum til hliðar og hélt rakleitt til Marjore, þar sem hún stóð steinþegjandi og titrandi; hann tók hana í faðm sér og hvíslaði í eyra henni: "Guði sé lof fyrir það stúlkukind, að þú ert lifandi."

Hún lagði hendurnar um hálsinn á French og hvíslaði: "Það var Kalman, Jack; trúðu ekki rausinu í honum þarna; það var Kalman sem bjargaði okkur. Ó, Kalman er elskulegur, Jack!"

Og Jack klappaði henni á kinnina og sagði: "Það þarf nú ekki að segja mér það, eg þekki hann betur en nokkur annar."

"Er það virkilega?" sagði hún og brosti þannig,

að auðséð var að hún efaðist ekki um að hann hefði rétt að mæla. "Eg held þú þekkir hann ekki betur en hverjir aðrir; en, hamingjan góða, hann hefir fótbrotnað, eða meitt sig eitthvað alvarlega. —Og—og hann hefir fundið námu, Jack!"

Jack skildi ekki hvað hún átti við, hann horfði fast í andlit hennar með spyrjandi augum.

Brown var að skoða fótinn á Kalman; þegar hann var búinn að finna hvað að honum gekk, sagði hann gremjulega: "Þú ert fótbrotinn; þú hefir þó ekki gengið svona til reika?"

Kalman svaraði engu.

"Hann gerði það mín vegna — okkar vegna Mr. Brown. Hann fór út í þetta vonda veður okkar vegna," sagði Marjore með djúpri geðshræringu. Er hann virkilega fótbrotinn Ó, Kalman, hvernig fórstu að þessu?"

Kalman svaraði engu. Hann var að vakna upp af draumi. *Hún* var orðin fleyg og fær, og hann þurfti ekki lengur að gæta hennar.

"Hérna er náman hans," kallaði Marjore, og benti Jack á svörtu rákina.

"Hver þremillinn," sagði Mr. Penny. "Og eg tók ekkert eftir þessu; þú sýndir mér hana ekki."

En á meðan Kalman og Marjore voru sama sem ein í hellinum, hafði hugur þeirra annað að starfa en fást um námur. Jack French skoðaði svörtu rákina nákvæmlega, og því lengur og betur sem hann skoðaði, því meiri geðshræringu komst hann í.

"Heilagur Páll og María! Kalman, fanst þú þetta?"

Kalman hneigði höfuðið til samþykkis, eins og honum stæði rétt á sama. Námur voru honum einskis virði sem stóð.

"Hvernig fórstu að detta ofan á þetta?"

Kalman sagði honum söguna.

"Hann er hálfdauður af kvölum og hungri," sagði Marjore, með djúpri hluttekningu. "Hann vakti í alla nótt á meðan við sváfum einsog dauðir drumbar."

Þegar Jack French heyrði hluttekningarblæinn í rödd hennar, leit hann á hana rannsakandi augum. Hún blóðroðnaði alt í einu, og leit á hann þannig að augun sögðu honum í einlægni hvoð henni bjó innan brjósts, þótt hún tæki það nærri sér vegna feimni.

"Til hvers er að tala um það," sagði hún loksins. "Við vorum alveg uppgefin."

Jack hneigði höfuðið með spekingssvip og hvíslaði að Marjore:

"Hann er ekki alveg lánlaus, drengurinn; sá hefir svei mér dottið ofan í lukkupottinn — tvær námur á einni nóttu!"

Roðinn hvarf aftur úr andliti hennar, og hún fór að skoða gaumgæfilega svörtu rákina í hellishliðinni.

Eftir fáein augnablik voru þau öll komin á hestbak, og af stað. Brown reið eins hart og hann gat, til þess að flytja þessar miklu fréttir til vélastjóratjaldsins, og láta kalla leitarmennina til baka, hitt fólkið reið heim til þeirra Kalmans, og var Marjore í fararbroddi og Jack við hlið hennar; þau töluðu saman um alla heima og geima og réðu sér tæplega fyrir gleði, en á eftir þeim var Kalman í þungu skapi og súr á svip. Það var eins og nýr maður væri að fæðast í sálu hans, og fæðingarhríðirnar voru auðsjáanlega harðar. *Hún* hafði verið *hans* aðeins eina stutta nótt. Nú var hún komin út í heiminn aftur og nú hafði hún horfið honum fyrir fult og alt. Hún var ekki *hans* lengur.

Það voru fullir tveir sólarhringar þangað til sólarylur og sunnargola höfðu hjálpast að því að sópa burt snjónum sem fallið hafði og það voru tveir dagar þangað til Marjore var þess fullviss að hún gæti

þolað aftur erfiðleika eyðimerkurlifsins, og tveir dagar þangað til Janet frænka Marjore hugkvæmdist það að þessi ungi útlendingur væri langt of fríður sýnum og of aðlaðandi, til þess að óhætt væri að láta þau vera í útreiðum saman frá morgni til kvelds. Það voru heilir tveir dagar af himnaríkissælu, meðan Kalman gleymdi öllu öðru en því að *hún* var við hlið hans; tveir dagar af helvítiskvölum, þegar hann mundi eftir því, að hann var aðeins umkomulaus útlendingur og hún ensk hefðarmær. Eftir tvo daga kvöddust þau. Marjore kvaddi síðast; hún snéri sér fyrst að French; hann kysti hana og sagði: "Komdu aftur stúlka litla." Þá snéri hún sér að Kalman, þar sem hann sat á villihestinum sínum, því hann vildi ekki ganga og láta taka eftir að hann væri haltur.

"Vertu sæll, Kalman," sagði hún og brosti hugrekkislega, þótt sjá mætti varir hennar titra. "Eg skal aldrei gleyma þér né nóttinni, sem við vorum saman." Hann tók í hönd hennar og hún hallaði sér upp að honum og sagði enn fremur:

"Vertu sæll núna, eg ekal ekki gleyma þér."

Kalman leit beint inn í augu hennar, hélt í höndina á henni og steinþagði; svo dró hún að sér höndina, skildi eftir hjá honum brosið, en flutti burtu með sér saknaðarsvipinn og titringinn á vörunum.

"Eg ætla að fylgja þér svolítið á leið, stúlka mín," sagði French og leit á hana. Hún reyndi að brosa framan í hann, en hún gat það ekki; tárin fyltu augu hennar. En Jack varð alveg samhliða henni og gaspraði hitt og annað með galsa og gleðilátum, þangað til hún gat brosað aftur.

"Ó, Jack," sagði hún, "þú ert ágætur, "eg skal muna þér þetta." Mr. Penny heyrði ekki til þeirra, hann var á eftir.

En áður en þau fóru ofan brekkuna, niður að

Nátthaukagili, heyrðu þau hófadyn, og sáu hvar Kalman kom á eftir þeim.

"Hamingjan góða!" sagði Janet. "Hvað gengur að drengnum?"

"Eg kom til þess að kveðja," kallaði hann, og staðnæmdist við hliðina á Marjore. Hesturinn var ólmur og krafsaði upp jörðina með fótunum.

Hann rétti út höndina, dró hana að sér og kysti hana frammi fyrir þeim öllum, kysti hana aftur og í þriðja skiftið og fjórða sinn. Janett hljóðaði upp yfir sig og sagði: "Guð í himninum hjálpi okkur, strákurinn er brjálaður — hann er vitlaus! hann ætlar að klára hana."

"Þegiðu kerling! gáttu ekki af göflunum," sagði faðir Marjore. "Hann bjargaði henni fyrir okkur."

Þegar Kalman hafði kvatt, reið hann á brott aftur; hann veifaði hendinni og söng hástöfum ungverska ástarsönginn sinn.

"Á meðan fiskur syndir sæ
og sólin kyssir blómgan dal,
þú líf mitt, sál mín — heilan hug
og hjarta mitt þér geyma skal."

Enginn skildi þetta ljóð nema Marjore, en þau voru öll grafkyr, og eins og steini lostin, meðan hann var að hverfa þeim, og hlustuðu á söng hans.

Með þrótt í kögglum, þrek í hug
til þrauta bý eg mig.
Þú, ást mín, sál mín, lífs míns ljós,
eg lifi' og dey fyrir þig."

Og þegar hún heyrði ekki sönginn lengur, reið hún af stað og brosti unaðslega.

---

## XVII KAPÍTULI.

*Baráttan um námuna.*

Veturinn kom snemma, og varð því ekki af járnbrautarbyggingu þetta árið, en þegar snjór féll, urðu vegir góðir yfirferðar, og brautarmennirnir notuðu sér það til greiðari flutninga; þeir settu upp vörustöðvar meðfram veginum til og frá, og fóru að láta höggva járnbrautarbönd í skóginum. Það var kvikt og fjörugt á gömlu Edmonton brautinni; þar hafði aldrei verið eins mikið um dýrðir fyr.

Að því er Kalman snerti, þá sinti hann engu nema námunni, um hana hugsaði hann vakinn og sofinn. Hann bollalagði það í vökunni og dreymdi um það á nóttunni, hvernig hann gæti látið hana hepnast sem bezt. French og Brown voru nálega eins heilir og heitir fyrir þessu og Kalman sjálfur. French tókst á hendur að stofna hlutafélag, til þess að geta farið að vinna námuna. Hann átti að sjá um að lögrita kolasvæðið í bækur stjórnarinnar; hann átti að útvega fé til starfrækslu námunnar; hann átti að annast um stofnskrá félagsins, og yfir höfuð að hafa á hendi allar byrjunarframkvæmdir. Eftir nokkra vikna bréfaskriftir komust þeir samt að þeirri niðurstöðu, að afar erfitt væri að útvega peninga til nokkurra fyrirtækja í Vesturlandinu. French vildi endilega ná í fé með því að veðsetja búgarð sinn og allar eignir sínar, en Kalman afsagði það með öllu. Brown leizt heldur ekki á það. French sá samt að eitthvað varð að gera, hann gerði því samning við járnbraut-

arfélagið, um það að útvega því járnbrautarbönd. Hann fór með hóp manna og marga hesta út í skóg og hafði Mackenzie með sér; þeir voru þar í þrjá mánuði og unnu eins og þrælar. En alls konar prangarar og vínsalar höfðu orðið á vegi þeirra, og þegar til kom, höfðu þeir sama sem ekkert afgangs kostnaði. Þessi ferð varð þeim til lítils liðs fyrir námufyrirtækið þeirra.

Það var Kalman og Brown, sem aðallega urðu að sjá um að koma einhverju í verklega framkvæmd. Það var ágæt sala fyrir kol meðal Galizíufólksins; þeir vildu kol miklu heldur en við í leirofnana sína, sem þeir höfðu til að hita upp með húsin. En þeir höfðu mjög lítið af peningum. Kalman fann þess vegna upp á því til að byrja með, að hafa skifti á kolum og vinnu; láta Galizíufólkið vinna fyrir sig og borga því með kolum. Hver sem vildi vinna tvo daga í námunni, mátti fá hlass af kolum. Brown þurfti líka kol fyrir mylnuna sína.

Á Vegamótum var ágæt sala fyrir kol, og bréfaskifti við járnbrautarfélagið sannfærði Kalman um það, að takmarkalaus markaður væri fyrir góð kol. Kalman komst brátt yfir dálítið af peningum fyrir kolin. Þessa peninga notaði hann til þess að borga nokkrum Galizíumönnum, til þess að búa til námagöng eftir fyrirsögn Browns. Þeir trygðu göngin með stoðum og styttum, bjuggu til spor, og komu öllu í svo gott lag, að Kalman undraði stórum. Allra augu í nýlendunni voru á námunni; það var tæplega um annað talað, og fólk fékk smámsaman fyllra og meira traust á ráðvendni Kalmans.

Brown hafði ofmikið að gera við sitt eigið starf, til þess að geta gefið sig við námunni svo nokkru næmi. Þegar margir fóru að vinna, komu öðru hvoru fyrir slys og veikindi og þess vegna varð hann að stækka hospítalið sitt einu sinni enn, og það jók störf

og áhyggjur konu hans og hans. Hann var læknirinn og hún hjúkrunarkonan.

Það var góð uppástunga þegar French kom með það að biðja Mrs. French að útvega hjúkrunarkonu, og hún fékk Irmu til þess að taka við störfum Mrs. Brown. Irma hafði tveggja ára reynslu við hjúkrunarstörf. Irma tók að sér yfirhjúkrunarstarfið og Mrs. French var henni til aðstoðar í eldhúsinu. Það var glatt á hjalla þegar þær Irma og Pálína með barnið sitt, fluttu báðar til Wakota hospítalsins.

Það var ekki eftir ráðum Browns, og jafnvel ekki samkvæmt vilja hans, að Pálína ákvað að flytja sig til Wakota nýlendunnar. Hún kom þangað af því að ekki var hægt að sporna við því. Hún varði öllu lífi sínu í umönnun fyrir börnin; þeirra vegna vann hún baki brotnu í eldhúsinu frá morgni til kvelds með óþreytandi elju og staðfestu, án þess að hugsa um laun eða endurgjöld.

Brown varð aftur að taka að sér skólann, og nú var hann ennþá fjölsóttari en áður. Klazowski hafði fallið dýpra og dýpra í áliti sóknarmanna, fyrir drykkjuskap og fégirni. Það var þó Kalman, sem eyddi hinum síðustu áhrifum þessa siðspilta og eigingjarna manns, það var hann sem lagði hrokobyggingu hans í rústir. Það var siður prestsins að kalla saman safnaðarmenn til almennrar guðsþjónustu síðdegis á sunnudögum í skólahúsinu, sem Brown hafði látið honum eftir. Klazowski hafði skoðað það eins og sína eigin eign, vegna þess að það hafði verið bygt af hans eigin fólki. Að áliðnum vetri var það síðdegis einn sunnudag að Klazowski eyddi heilli klukkustund til þess að fordæma þá er andstæðir væru honum í trúarefnum; var hann þá svo mjög undir áhrifum áfengis, að fæturnir gátu tæplega borið líkamann og tungan átti erfitt með að skýra hugsanirnar. Hann hafði fengið sér drjúgan sopa úr tunnu, sem stóð í

eldhúsinu. Sérstaklega tók hann djúpt í árinni um vantrúarmanninn og guðleysingjann Brown, og fordæmdi öll hans verk og athafnir. Hótaði hann að setja þá út af sakramentinu, sem hér eftir dirfðust að virða hann viðtals eða hafa nokkuð saman við hann að sælda. Kvað hann líferni hans vera glæpsamlegt og alt hans athæfi viðbjóð.

Þetta þoldi söfnuðurinn ekki. Hátt mótmælaóp dundi við í skólasalnum, en presturinn lét sem hann heyrði það ekki og hélt áfram bölbænum sínum og formælingum yfir Brown — þessum óguðlega trúleysingja.

Loksins gat Kalman ekki setið á sér lengur; hann stóð upp í sæti sínu, lýsti prestinn opinberlega lygara í heyranda hljóði og kallaði allan söfnuðinn til vitnis.

"Þið þekkið öll Mr. Brown," sagði hann; "þið vitið öll hvers konar maður hann er; og hvernig maður er hann, þessi svokallaði prestur, sem talar yfir okkur hér í dag? Þú, Símon Simbolik, hvaða svar fékst þú af vörum hans, þegar barn þitt lá á líkbörunum og þú baðst hann hjálpar?"

"Hann heimtaði af mér $10," svaraði Símon tafarlaust, "og þegar eg sagði honum að eg hefði þá ekki til, þá bölvaði hann mér og rak mig í burtu. Meira að segja, Mr. Brown smíðaði fyrir mig líkkistuna og borgaði fyrir hana, og þáði enga borgun fyrir. Dóttir mín er í skóla hans og er að læra ensku og sauma — fagra sauma — og hún verður þar áfram, hvað sem þessi Klazowski segir eða nokkur annar."

"Þú Bagarz," sagði Kalman, "hverju svaraði presturinn þér þegar börnin þín voru þungt haldin af skarlatsveiki og þú baðst hann aðstoðar?"

"Hann rak mig út; hann var logandi hræddur."

"Já" sagði Kalman, "en Mr. Brown kom og tók börnin og fór með þau á hospítalið sitt og nú eru þau alfrísk."

"Já" sagði Bagarz, "og hann vildi enga borgun fyrir það, en eg borgaði honum með ánægju alt sem eg gat, og þegar eg get, skal eg borga honum betur."

Svona hélt Kalman áfram að spyrja mann eftir mann, og allir höfðu svipaða sögu að segja. Klazowski átti fáa kunningja, sem héldu taum hans, en þeirra gætti ekki, böndin bárust svo greinilega að honum, að engri vörn varð við komið.. Þungur margraddaður óánægju ómur heyrðist í skólasalnum.

"Eg vildi ekki vera þektur fyrir að hafa Klawoski á minu heimili," sagði einn, "ekki einn einasta dag. Það væri of mikil hætta fyrir heimilið. Eg þarf ekki að segja meira." Aðrir tóku undir og létu í ljósi samskonar siðferðis vantraust á Klazowski. Presturinn varð afarreiður; hann barði saman hnefum og formælti og reyndi að bæla niður óviðrisöldur þær sem á móti honum höfðu risið með illyrðum og skömmum. Þá lét Kalman til sín taka. Hann mælti hátt með svo hvellri röddu að allir heyrðu, enda varð steinhljóð á augabragði. "Þessi maður lofar að byggja okkur kirkju. Hann hefir verið að safna peningum. Hversu mikla peninga haldið þið að hann hafi fengið; eg gaf honum $10, Mr. French gaf honum $25, o. s. frv."

"Eg gaf honum $25, og eg gaf honum $10, eg gaf honum $25, hrópaði hver af öðrum, og Kalman lagði saman.

"Það eru komnir $200," sagði Kalman. "Hefir nokkur séð hjá honum bækurnar? Veit nokkur hvar peningarnir eru?"

"Nei, nei," hrópaði hver í kapp við annan. "Við skulum grenslast eftir því," sagði hann. "Við erum engir sauðir, þetta er frjálst land, og við erum frjálst fólk. Gömlu harðstjórnar- og einveldistímarnir eru liðnir." Það glumdi í skólasalnum af samhygðarópum með Kalman. "Við skulum grenslast

eftir þessu," sögðu menn. "Við skulum útvelja nefnd til þess að komast eftir hversu mikið fé hefir verið lagt fram og hvar það er." Kalman gerði þetta að tillögu sinni og hún var studd og samþykkt. Nefndin var kosin og henni var falið að ná í allar upplýsingar, eins fljótt og mögulegt væri.

Næsta dag fanst Klazowski hvergi. Hann hafði hrist Wakota snjóinn af fótum sér og farið í burtu með peningana, sem fólkið hafði dregið saman með súrum sveita; en hann hafði einnig annað meðferðis, þegar hann fór, það voru bölbænir safnaðarins fyrir þá ógæfu, sem hann hafði leitt yfir fólkið, og tjónið sem hann hafði ollað því. Aldrei höfðu veslings íbúarnir í Wakota, orðið fyrir öðrum eins vonbrigðum. Sjálfur bölvaði hann Kalman, sem hann kendi alla óhepni sína með Brown.

Fáum dögum síðar flutti Klazowski langa og mikla ræðu í kirkju í Winnipeg. Hann lýsti því með mikilli mælsku, hvílík afreksverk hann hefði gert sem trúboði í Wakota. Hundruð manna hlustuðu á mál hans með athygli og aðdáun. Hann lýsti því með sterkum orðum hvílíkum rangindum og ofsóknum hann hefði orðið að sæta af völdum hins guðlausa manns Browns. Mesta áherzluna lagði hann þó á það, hvílikur voðamaður Kalman væri; hann væri guðníðingur, erkisvikari og varmenni. Kvað hann nafnið Kalmar Kalman, ávalt verða munað á meðal þjóðar hans með fyrirlitningu og viðbjóði.

Margir urðu eftir þegar messunni var lokið, til þess að heilsa Klazowski og dáðst að dugnaði hans og starfsemi, sem trúboða meðal þessa vanþakkláta fólks.

Enginn var þó eins vingjarnlegur við hann og auðmjúkur eins og Mr. Rosenblatt; með honum fór presturinn heim til miðdegisverðar; þar fékk hann duglega í staupinu, og sagði hann alls konar aukasög-

ur frá Wakota; sagði hann frá framtíðarhorfum og möguleikum, sem mikils verzlunarstaðar; járnbrautarbyggingar; sagði hann frá hækkun á landverði, byggingavið; hann sagði honum alt mögulegt í sambandi við Kalman, og frá hinni miklu námu, sem hann hefði fundið.

Allar þessar upplýsingar sagði Rósenblatt verzlunarfélaga sínum, Samuel Sprink.

Eftir að þeir félagar höfðu tekið saman ráð sín, leitað frekari upplýsinga frá Klazowski og komist að góðum samningum við járnbrautarfélagið, setti Sprink sig niður við vegastæðið og verzlaði með karlmannaföt, verkamannaáhöld, tóbak og vindlinga, og aðra nytsama muni til heimilis þarfa. Það var samt ekki getið um það í hinni gleiðprentuðu auglýsingu, að meðal þess sem Sprink seldi, væri alls konar áfengi, sem aðrir en hann sjálfur gætu bezt borið um að væri ósvikið. Auglýsingarnar voru sendar inn á hvert heimili og prentaðar á galizíu máli, svo auðveldu að hvert mannsbarn skildi og svo gyllandi og ginnandi, sem frekast mátti vera. Það sem Sprink lagði sig aðallega eftir, var að ná í heimilisréttar lönd, sem menn, einhverra orsaka vegna, höfðu ekki fullkomnað á skyldur sínar og orðið að hætta við. Þegar hann var að fást við það, komst hann að atriði, sem hann skrifaði Rósenblatt félaga sínum, er var í Winnipeg, að líta eftir verzlun þeirra þar.

Bréfið var á þessa leið:

"Þú verður að koma tafarlaust; eg hefi afarmikið að gera. Eg hefi komist að því að engin eignarbeiðni hefir verið send stjórninni fyrir kolanámunni, sem Kalman hefir fundið, og því er náman enn þá opin hverjum, sem fyrstur verður að biðja um hana.

Ef eg hefði fullkomna lýsingu á eigninni, þá hefði eg beðið um hana tafarlaust, því máttu trúa. Flýttu þér því og komdu undir eins; fáðu löglega lýs-

ingu af landinu í laumi og starfaðu svo meðal Galizíufólksins til þess að undirbúa eignaskiftin. Það verður að undirbúa þetta vel, því það verður heilmikil mótstaða. Vertu nú ekki lengi að hugsa þig um að koma. Það er fleira mikilsvert að starfa en þetta, komdu því strax — undir eins."

Það þurfti ekki að herða frekar á Rósenblatt. Að viku liðinni var hann kominn þangað.

Kalman hélt áfram að koma í gang námunni sinni; hann dreymdi langa dagdrauma og heillandi um það, hvað gera skyldi þegar hann væri orðinn ríkur námueigandi. Það hafði verið siður hans altaf síðan Irma kom út, að vera allan sunnudaginn hjá henni á sjúkrahúsinu. Þegar hann fór út í námuna, varð hann að fara yfir keldur og gegn um skógarbelti. Það var erfiður vegur, og fagnaði hann því sumrinu, þegar ísinn þiðnaði af Valsá, því hann gat róið á litlu kænunni hans Browns ofan Saskatchewan ána og þaðan niður í mynnið á Nátthaukagili, og frá því var aðeins steinsnar upp í námuna.

Það var mesta lukka fyrir Pére Garneau að Kalman hafði valið þessa leið til flutninga, sama kveldið sem hann hafði ákveðið að fara ofan að Valsá. Garneau var uppgjafa prestur frá Norður Saskatchewan héraðinu, og hafði þjónað í 20 ár. Hafði hann ferðast bæði landveg og vatnsveg á meðal Kynblendinganna, og annast bæði um þeirra andlegu og tímanlegu velferð. Hann hafði einnig unnið á meðal Indíánanna á þessu svæði. Gamli presturinn var sannkölluð hetja; hann hræddist hvorki mótstöðu né erfiðleika, en var þó ljúfur eins og barn og viðmótsþíður eins og engill. En tíminn hafði dapnað honum sjónir og dregið afl og staðfestu úr höndum hans. Í þetta skifti var hann að fara eftir ánni á litlu kænunni sinni. Ísjaki í ánni komst undir bátinn og hvolfdi honum; straumurinn bar hann langt niður

eftir ánni. Hann kallaði á hjálp, en röddin var lág og veik og enginn hefði heyrt hann né komið til liðveizlu heldur, ef ekki hefði viljað svo til, að Kalman var að setja kænu Browns á flot, þegar þetta vildi til. Hann tók nokkur sterk áratog, og var búinn að ná haldi á prestinum innan fárra augnablika. Hann flutti hann þegar inn í hospítalið með aðstoð Browns. Hann bjargaði einnig kænunni hans og flestu af því, er hann hafði meðferðis. Þegar Garneau hafði verið tvo daga í hospítalinu undir umsjón Browns og hjúkrun Irmu, hafði hann náð sér nógu vel aftur eftir innkulsið og hrakninginn til þess að halda áfram ferðinni.

"Eg skal aldrei gleyma gestrisni ykkar og aðhlynningu," sagði hann við Brown, morguninn sem hann kvaddi. Það var á þriðja degi eftir komu hans. "Við skulum heldur aldrei gleyma veru þinni," svaraði Brown. "En þér liggur ekket á að fara í dag; þú ert ekki búinn að ná þér nógu vel, og þar að auki þarf eg að biðja þig að gera nokkuð fyrir mig eða okkur. Það er hér Galizíukona hjá okkur, sem er rétt í andlátinu. Hún vildi ekkert hafa saman við séra Klazowski að sælda. Hún var ósátt við hann og eg held að þú gætir hughreyst hana.

"Klazowski, Klazowski," sagði Garneau. "Hann er ekki góður maður. Eg hefi heyrt marga tala um þann mann. Hann verður aldrei framar liðinn sem prestur; það er alveg áreiðanlegt. Lofaðu mér að sjá aumingja konuna."

"Kalman verður kominn heim í kveld, og hann getur túlkað fyrir þig," sagði Brown.

"Kalman, já, hann er góður drengur hann Kalman. Hann var prestinum þrándur í götu; var ekki svo?"

"Ekki laust við það," svaraði Brown hlægjandi. "En eg held að presturinn hafi eiginlega helzt verið þrándur í sinni eigin götu."

"Já, það er víst alveg rétt; en það er nú meiri ógæfa en nokkuð annað," svaraði gamli maðurinn. Veika konan skriftaðist; meðtók sakramentið, og sofnaði svo svefninum langa í ró og næði.

"Sonur minn," sagði presturinn við Kalman, þegar athöfninni var lokið. "Eg vildi gjarna láta þig skriftast."

"Þakka þér fyrir," svaraði Kalman. "En eg skriftast ekki fyrir mönnum, heldur aðeins fyrir guði."

"Ó, guð hjálpi þér, sonur minn; trú þín hefir haggast fyrir áhrifum þessa óguðlega prests, Klazowskis."

"Nei, langt frá," svaraði Kalman. "Eg hefi verið að lesa biblíuna; það eru þó nokkur ár síðan eg byrjaði á því; og eg hefi verið í náinni vináttu við góðan mann, sem hefir kent mér að þekkja guð og frelsara minn Jesús Krist. Eg reyni að fylgja honum eins og Pétur og hinir postularnir. En eg trúi ekki lengur á sama hátt og Galizíumenn trúa; ekki heldur eins og Grikkir né Rómverjar."

"Sonur minn," hrópaði presturinn upp yfir sig með skelfingu. "Þú ert þó ekki trúvillingur? Þú hefir ekki gengið af trúnni?"

"Nei, eg hefi ekki gert það; eg reyni að lifa samkvæmt vilja Krists."

Gamli presturinn reyndi lengi að hafa áhrif á hugarfar Kalmans. Hann bað hann og grátbændi, en ekkert dugði. Það var auðséð að honum var innileg alvara og þótti innilega fyrir því, að þessi velgerðamaður hans hafði "gengið af trúnni".

Kenningar Browns, og umfram alt líferni hans, hafði mótað alt hugarfar og líf Kalmans. Hann skoðaði nú alt á sama hátt og hann; tók hann sér til daglegrar fyrirmyndar.

Næsta morgun var gamli maðurinn ferðbúinn.

"Alla þá blessun, sem er í mínu valdi að veita

gef eg þér fyrir gestrisni þína við ókunnan mann og hjálpsemi við sjúkan bróður," sagði hann við Brown. "En hvílíkt sorgarefni, að þið skulið fara villir vegar í trúarefnum. Eg skal biðja fyrir ykkur báðum, börnin mín, biðja fyrir ykkur oft og lengi," og hann brosti blíðlega um leið og hann sagði þetta.

"Þakka þér fyrir; þakka þér fyrir," sagði Brown vingjarnlega. Bænir góðs manns veita blessun, og með ánægju minnist eg orða meistarans mikla: "Sá sem ekki er á móti mér, hann er með mér."

"Já, það er satt; það er satt," svaraði gamli presturinn; svo fór hann af stað og kvaddi vingjarnlega.

Um nokkra daga að undanförnu hafði Rósenblatt verið í nýlendunni; hann gerði sér far um að kynnast fólkinu og koma sér í mjúkinn hjá því; safna sér öllum mögulegum upplýsingum og spyrjast fyrir. Sá sem einna fyrstur bauð honum aðstoð sína var Portnoff gamli og fornvinur hans einn fjörgamall; gráhærður, alskeggjaður og skeggið stóð í allar áttir eins og úfið hár á hundi. Augun voru tindrandi, en lágu langt inni í höfðinu. Portnoff kallaði þennan vin sinn Malkorski. Portnoff virtist hafa talsverð áhrif meðal þjóðar sinnar og þess vegna gerði Rósenblatt hann að formanni eins verkamannaflokks, sem vann fyrir hann. Það var Portnoff sem gat gefið Rósenblatt nákvæma lýsingu á námunni. En sama kveldið sem hann gerði það, komu þeir báðir til Browns, Portnoff og Malkorski.

"Eg þekki mann," sagði Portnoff, "sem vill fá að vita nákvæma lýsingu á námunni. Getur verið að hann hafi í hyggju að kaupa hana."

"Hvað heitir hann?" spurði Brown.

"Rósenblatt" svaraði Portnoff.

"Rósenblatt! Það nafn lætur mér kunnuglega í eyrum. Það er langbezt að láta Kalman vita um það tafarlaust," sagði Brown.

"Það verður að vera gert í kveld," sagði Malkorski íbygginn. "Það er áríðandi. Portnoff getur farið." Portnoff féllst á það.

Næsta morgun fór Kalman til Wakota. Þegar Rósenblatt kom til nýlendunnar, var eins og himin og jörð fengi alt annað útlit í augum hans. Hann sá í huga sínum blett í rússneskum skógi, þar sem snjórinn var troðinn og blóðugur. Hann gat ekki hrundið þessari sjón frá hugaraugum sínum. Hann ruddi úr sér allri sögunni við Brown með ekka og grátstöfum.

"Og faðir minn hefir svarið það að hann skuli drepa hann; en ef hann efnir ekki það loforð, þá verð eg að gera það."

"Kalman, drengurinn minn," sagði Brown. "Mig furðar það alls ekki, þótt svona liggi á þér. Það er langt of gott fyrir kvikindið að vera drepinn. En þú getur ekkert gert í þessu. Hefndin er ekki okkar, heldur drottins."

"Ef faðir minn svíkst um að drepa hann," sagði Kalman rólega, "þá skal eg gera það."

"Þú mátt ekki hugsa svona, og því síður tala svona," svaraði Brown. "Við erum staddir í Canada en ekki á Rússlandi. Þú ert kristinn maður en ekki heiðingi."

"Eg get ekki að því gert," sagði Kalman. "Eg get ekkert séð nema blóðuga snjóblettinn heima á Rússlandi." Hann tók höndunum fyrir augun og hrystist af áköfum ekka: "Eg *verð* að drepa hann!"

"Og viltu þá stofna lífi þníu i hættu? eyðileggja þína eigin framtíð? heldurðu að það væri rétt fyrir þig að svifta sjálfan þig um aldur og æfi öllu því, sem þínar helgustu tilfinningar eru tengdar við? Og hvernig heldurðu að systur þinni og Jack og mér liði á eftir? Og hvernig heldurðu að—að öllum vinum þínum liði? Vildir þú fórna öllum vinum þínum fyrir þessa einu syndsamlegu ástríðu? — Því hún er syndsamleg, Kalman."

"Eg veit þetta alt. Eg veit að eg fórnaði öllu með því, en hérna inni (hann barði sér á brjóst) er eitthvað, einhver hátalandi rödd, sem aldrei þagnar, fyr en þetta er gert — fyr en eg sé blóð þessa manns."

"Guð hjálpi þér, Kalman. Og þú kallar sjálfan þig lærisvein *hans*, sem bað fyrir þeim sem líflétu hann. Hann sem sagði: "Faðir fyrirgef þeim". Brown varð alvarlegur: "Kalman, þú gætir ekki skynseminnar. Þú verður að taka þessu eins og kristinn maður. Þetta er ekki flókið mál, það er ekki lengur á milli þín og óvinar þíns; það er milli þín og guðs þíns. Ert þú við því búinn að hafna drotni þínum í kveld, og segja að öllu leyti skilið við hann? Hlustaðu nú á mig, Kalman!"

Brown tók biblíuna sína, fletti henni og kom ofan á þessa setningu: "Ef þér fyrirgefið ekki mótgerðamönnum yðar, fyrirgefur yðar himneski faðir ekki heldur misgerðir yðar." Mundu eftir því Kalman að þessi orð voru töluð af munni hans, sem fyrirgaf þeim, er honum voru verstir; þeim sem eyðilagt höfðu hans helgustu vonir; hans háleitustu málefni; þeim sem sært höfðu hjarta hans djúpum sárum. Kalman, þú dirfist ekki að gera þetta!"

En Kalman fór brott að finna fjandmann sinn í Nátthaukagili. En undir morguninn lá hann í skóginum, i harðri og ákafri baráttu við sjálfan sig. Öðru megin var hið ólgandi slavneska erfðablóð, sem heimtaði hefnd; hið sterka eðli hans til þess að varðveita minningu móður hans; hún kallaði á hefnd; ranglæti það sem hann sjálfur hefði orðið að þola, kallaði á hefnd; en á móti þessum röddum, þessum kröfum, var aðeins þessi eina setning: "Faðir fyrirgef þeim, þeir vita ekki hvað þeir gera."

Áður en vikan var liðin, kom Portnoff gamli blaðskellandi til Browns og sagði honum að Rósenblatt hefði farið snemma þá um morguninn niður að

Höfn, þar sem landskrifstofa stjórnarinnar var.

"Það er eitthvað viðvíkjandi námunni," sagði hann. "Það lá ágætlega á honum. Hann gerði mér ágætt boð þegar hann kæmi aftur. Bara að þetta væri Rússland," sagði gamli stjórnleysinginn.

"Já,—já—á," sagði Malkarski vinur hans, með djúpu röddinni. "Við skyldum ekki vera lengi að láta hann vita hverjir við værum."

"Svo hann fór í morgun," sagði Brown, "hvað er langt síðan?"

"Tvær klukkustundir."

Brown hugsaði sig um stundarkorn. Hvaða erindi gat hann haft? Var það mögulegt að vanrækt hefði verið að skrásetja landið? Hann vissi hversu hægfara French var, og sá það í huga sér, að ekkert var líklegra, en að hann hefði dregið þetta, þangað til það var orðið of seint. French var ennþá í burtu. Kalman var 10 mílur í burtu hjá námunni. Þetta var hættuspil.

Kastaðu hnakknum á klárinn minn, Portnoff," sagði hann. "Eg verð að flýta mér niður að Höfn."

"Það væri langbezt að drepa þennan náunga," sagði Malkarski gamli rólega.

"Hvað segirðu?" spurði Brown byrstur.

"Farðu undir eins í burtu!"

Brown bjó sig af stað í skyndi, sendi Kalman orð og fór. Hann varð að fara 40 mílur, og hesturinn var mesti jálkur. Rósenblatt var tveimur klukkustundum á undan honum, og sjálfsagt vel ríðandi. Það gat samt skeð að hann færi sér hægt; en eftirförin er altaf erfið, sérstaklega þegar hatur og hefndarþorsti er annars vegar. Eftir fimm klukkustunda harða reið var Brown kominn á sléttuna sem Höfn var á. Þegar hann kom inn á sléttuna, sá hann Rósenblatt fáeinar mílur á undan sér. Rétt um sama leyti sem Brown sá Rósenblatt, varð hann þess einnig var að Brown var á eftir honum. Það var því

hörð kappreið það sem eftir var vegarins. En hestur Browns var þreyttur og drógst á eftir; þegar Brown því kom á landskrifstofuna, fann hann það að umsókn hafði nýlega verið lögð fram fyrir 160 ekrum af námalandi beggja megin við Nátthaukagil. Brown varð ekki um sel; hann stóð stundarkorn á skrifstofunni og mælti hæversklega — alvarlega:

"Eru engin bréf hér, sem sýni að umsókn hafi verið lögð inn fyrir þessu landi áður?"

"Alls engin," svaraði umboðsmaður, "Þessi maður hefir aldrei séð námuna," sagði Brown, og benti umboðsmanninum á Rósenblatt. "Hann er ekki maðurinn sem fann námuna."."

"Hver er hann þá?" spurði umboðsmaður.

"Það er ungur kunningi minn, sem heitir Kalmar Kalman. Eg get svarið það." Svo sagði hann söguna um það hvernig Kalmn fann námuna, og bætti við einstöku smáatriðum viðvíkjandi mannorði Rósenblatts, sem hann hélt að gæti haft áhrif.

Umboðsmaðurinn hlustaði á með hluttekningu og athygli.

"Og hvað er langt síðan hann fann námuna?" spurði hann.

"Kringum sex mánuði," svaraði Brown.

"Og hvers vegna var ekki beiðni send hingað?" spurði umboðsm.

Brown þagði.

"Stjórnin getur ekki borið ábyrgð á vanrækslu manna," sagði umboðsm. "Þið verðið að kenna sjálfum ykkur um þetta; það er ómögulegt að breyta því héðan af."

Dyrnar voru opnaðar; Brown snéri sér við og sá Rósenblatt brosandi út undir eyru. Án þess að Brovn gerði sér glögga grein fyrir, gaf hann Rósenblatt rokna löðrung; hann slangraði á gólfinu og féll út i horn. Hann stóð þó bráðlega upp aftur og spýtti og ræskti sig.

"Eg dreg þig fyrir lög og dóm," hrópaði hann. "Eg kalla þig til vitnis," sagði hann við umboðsm.

"Hvað gengur að þér?" sagði umboðsmaðurinn. "Eg sá ekkert. Eg sá ekkert athugavert við það, þó þú hlypir út í horn og fleygðir þér þar á gólfið. Farðu undir eins út úr skrifstofunni, óþokka kvikindið þitt! Flýttu þér!" Umboðsmaðurinn setti báðar hendurnar á skrifstofuborðið og hljóp yfir það.

Rósenblatt flýði óttasleginn.

"Kvikindið að tarna!" sagði umboðsmaðurinn. "Mér er uppsigað við þessa þræla, sem sitja um að ná eignum annara manna. Þér fórst þetta ágætlega," sagði hann við Brown, og tók vingjarnlega og þétt í hendina á honum.

"Það versta er að ómögulegt er að gera við þessu héðan af, hversu feginn sem maður vildi."

Brown leið ver en svo að hann gæti svarað. Náman var töpuð, og með henni allar hinar fögru hallir, sem hann og Kalman höfðu bygt í síðastliðna sex mánuði. Hann kveið fyrir að mæta vini sínum. Á hvaða grundvelli gat hann nú beðið Kalman að fyrirgefa þessu kvikindi, sem bætt hafði enn þá einni stórsynd við misgerðir sínar? Það var mannlegu eðli ofvaxið að hrinda öllum þessu miklu misgerðum úr huga sér. Það var eina bótin í máli að fjörutíu mílur voru á milli þeirra; það var lán fyrir Brown, og það var ekki síður lán fyrir Kalman. Fjörutíu mílur af opinni, frjálsri sléttu, með hlýrri og bjartri guðssól, gat gert kraftaverk í sál, sem var guði opin. Þegar þeir mættust næst, höfðu þeir báðir sigrað.

Brown sagði söguna stillilega og hægt. Honum til mikillar undrunar sýndist honum það aðeins hafa örlítil áhrif á Kalman, að hann hafði tapað námunni. Brown bjóst við að hann mundi verða hamslaus af óstjórnlegri reiði. Kalman hafði yfirvegað mál sitt og unnið fullan sigur í baráttunni við sjálfan sig. Hvað sem fyrir kæmi og hvað sem það kostaði, mátti

hann ekki hafna drotni sínum. Hann ákvað því að leggja ekki hendur á Rósenblatt, þótt það að öðru leyti kæmi í bága við loforð hans og þrár. Hinn ákafi blóðþorsti, sem lifað hafði í slavneska blóðinu svo öldum skifti, hafði safast af áhrifum krossins, og vegna þess að hugur Kalmans var hálflamaður eftir alt stríðið, hafði námutapið tæplega nokkur áhrif á hann. Brown var steinhissa.

Allir nýlendubúar fyltust gremju og reiði, þegar það heyrðist að Kalman hefði verið ræntur námunni sinni. En starfsmenn Rósenblatts og Sprinks unnu af alefli meðal fólksins. Hátíðisdagarnir voru gerðir að reglulegum drykkjutímum; öl og annað áfengi var látið úti ókeypis á báðar hendur. Öll ósköpin af fögrum loforðum voru mönnum gefin í sambandi við starfrækslu námunnar; nóg vinna og nógir peningar.

Og þegar öllu var á botninn hvolft, þá var það svo sem auðskilið, að ekki þurfti mikils að vænta af kornungum manni, peningalausum, aðstoðarlausum og þekkingarlausum. Það var auðvitað slæmt að hann skyldi tapa námunni sinni, en menn gleyma fljótt tapi og tjóni *annara,* þegar þeir eru að reyna að bæta sín eigin kjör, og hafa tækifæri til þess að láta drauma sína rætast. Náman hans Kalmans, og rangindi þau, sem hann varð fyrir gleymdist fljótt. Hann hafði verið fundinn sekur um þann ófirirgefanlega glæp, að verða undir í samkepni.

Nýja fólkið tók til starfa af alefli. Kofar voru bygðir við námuna, góður vagnvegur búinn til niður að Saskatchewan ánni. Eftir þrjár vikur var alt búið að fá á sig nýjan blæ og nýtt snið.

Það var komið fram um aprílmánaðar lok, þegar French kom heim aftur úr skógarhögginu, og var hann með tvær hendur tómar eftir þrjá mánuðina. Hestarnir voru meiddir og drepnir; það var það eina sem hann hafði upp úr ferðinni. Sjálfur var hann þreyttur og horaður, og hann var niðurbeygður af

því, hversu illa sér hefði gengið, og hvílíku háði hann ætti að mæta fyrir flanið og ófarirnar.

Kalman sá tafarlaust hvernig alt hefði gengið og hvernig honum leið, og tók honum með opnum örmum; það var hans vegna miklu meira en sjálfs sín vegna, sem hann harmaði námatapið. Kalman var önnum kafinn að búa sig undir vorsáninguna.

Hann ætlaði að sá heilmiklu af öllu mögulegu sem hægt væri að rækta, til þess að setja á markaðinn.

"Hvernig líður námunni, Kalman?" spurði French.

"Eg hefi hætt við námuna, eg ætla að alda mér að búskapnum!" svaraði Kalman kátur og glaður.

"Hvað er að?" spurði French óþolinmóður.

"Við höfum tapað námunni, Jack," sagði Kalman rólegur. Og svo sagði hann honum upp alla söguna.

Þegar French afði heyrt söguna, fór hann af stað tafarlaust. Allur drungi hvarf af honum. Hann var búinn að ná sér. "Við skulum fara og finna Brown," sagði hann ákveðinn.

"Það er ekki til neins," svaraði Kalman, og vildi forða honum frá dýpra hugarangri. Brown sá umsóknina á landskrifstofunni, og umboðsmaðurinn sagði honum greinlega að ekki yrði við neitt ráðið."

"Hvað sem um það er; það dugar ekki að leggja árar í bát strax, drengur minn," sagði Jack. "Komdu með mér; eða—já—kanske það væri rétt, að eg færi einn. Legðu hnakkinn á hestinn minn."

Eftir hálftíma var French búinn að raka sig, klæddur sínum beztu fötum og hafði aldrei litið betur út en nú.

"Þú ert ágætur, Jack," sagði Kalman og dáðist að honum. "Við eigum þó hvor annan ennþá."

"Ójá, drengur minn," svaraði Jack og tók í hönd hans, "og í það er meira varið en nokkuð annað. En við náum námunni aftur, ef eg heiti French." Öll

deyfðin, og allur letiblærinn, sem einkent hafði French, var horfinn. Í hverri línu í hinu fagra andliti hans, úr hverri hreyfingu líkama hans var skrifuð alvara, áhugi og einbeittni. Hinn forni enski bardagahugur hafði vaknað; að fara af hólmi sigrihrósandi eftir að allar bjargir virtust bannaðar, það var eðli hans.

Næstu fjórar vikur sá Kalman hann aldrei. Allan þann tíma var hann önnum kafinn frá morgni til kvelds að sá höfrum og kartöflum. Mckenzie og nokkrir Galizíumenn voru honum til aðstoðar, en erfitt var að fá fólk til vinnu, því flestir vildu heldur vinna í námunni eða járnbrautinni. Þar þótti þeim fjörugra.

Loksins var öllu sáð, og akurinn beið þess að skaparinn sendi regn og sól.

Þá fór Kalman niður til Wakota, til þess að hressa líkama og sál. Hann þurfti að hvíla sig eftir erfiðið, en hann þurfti þess þó enn þá fremur, að fá hlýtt og þétt vinarhandtak.

Það fyrsta sem hann sá í Wakota, var hestur French tjóðraður fyrir framan hús Browns, og þegar hann kom rétt að húsinu, heyrði hann glaðværð og hávaða inni fyrir.

"Halló!" kallaði Kalman af hestbaki. "Hvað er um að vera hjá ykkur?"

"Allir þutu út úr húsinu. Brown, kona hans, French og Irma og Pálína seinust. Allir þyrptust til Kalmans og heilsuðu honum með fögnuði. Brown lét sérstaklega í ljósi ánægju sína. Hann réði sér varla fyrir gleði. Hann gekk rakleiðis til Kalmans og sagði: "Eg óska þér til hundraðfaldrar hamingju, drengur minn," og þrýsti hönd hans. "Það er alt í góðu gengi; við erum búnir að vinna; húrra! húrra, húrra!" Brown hafði enga stjórn á sér, svo glaður var hann.

Irma hljóp í fangið á Kalman og sagði: "Já, það

er alveg satt, elsku Kalman," og tók utan um höfuðið á honum og beygði hann niður að sér, til þess að geta kyst hann. Hún var með gráthljóð í röddinni og augu hennar fyltust af tárum.

"Vertu ekki hissa drengur," sagði French, og tók hann í fang sér, þegar Irma slepti honum. "Þau eru öll með fullu viti. Við erum búnir að vinna; það ber ekki á öðru.

Kalman sat enn á hestbaki; hann leit framan í þau á víxl og vissi ekki hvað hann átti að hugsa eða segja. Brown hélt áfram að hrópa gleðihróp og veifa hattinum sínum. Loksins snéri hann sér að Mrs. Brown.

"Þú sýnist vera með fullu viti að minsta kosti, hvað sem um hitt er," sagði hann. "Kannske þú viljir gera svo vel og segja mér hvað þau eru að fara með?"

Mrs. Brown tók í báðar hendur hans og mælti: "Þau eru að segja þér frá því, að við erum öll svona ánægð, að við ráðum okkur ekki fyrir fögnuði. Við höfum náð aftur námunni þinni."

"Námunni?" sagði Kalman, og náði tæplega andanum. "Það er þó ómögulegt. Heyrðu Brown — —"

"Já, Brown er hér," svaraði hann, eg þekki Brown, hann er nú karl sem segir sex; en hann hefir stundum á röngu máli að standa, og svo var það í þessu máli.. Náma og félag, og hérna er náunginn sem gerði það, Jack French; eg tek ofan fyrir honum af virðingu; hann er rétt nýkominn heim, við vorum rétt í þessum svifum að fá fréttirnar. — Það er skólahlé og hljóðfæraflokkurinn er að byrja að spila og leikurinn hefst. Farðu af baki af villihestinum þínum, durturinn þinn!" Og Brown þreif Kalman snögglega af hestinum.

"Jack mun jafna þetta. Eg hefi ekki verið svona heimskur um langan aldur. Eg hefir verið í hinni ósýnilegu veröld síðasta mánuðinn, en nú er eg

frjáls. Eg veit að eg hefi verið heimskur, en alt er gott ef endirinn er góður. Jæja, Jack, upp með tjaldið! — Áfram með leikinn!"

Málið var ofur einfalt. Þegar í stað eftir að náman hafði fundist, kom French því til leiðar við Robert Meuzies að hann skyldi senda umsókn til skrifstofu innanríkismálanna í Ottawa, um hin nauðsynlegustu réttindi fyrir námunni. Umsóknin hafði verið send, en skrifstofunefndin hafði gleymt að tilgreina umboðsmanninn.

"Svo þú átt þá námuna aftur, Kalman," mælti Jack.

"Nei, sagði Kalman, "hún er ekki mín eign, alveg eins okkar eða ykkar — að minsta kosti ekki mín."

"En hvað er um hlutafélagið," hrópaði Brown. "Segðu honum eitthvað frá því."

"Ó, sagði French, út í bláinn. Mr. Meuzies hefir þegar stofnað hlutafélagið. Það er einungis beðið eftir samþykki námueigandans."

"Og málspartarnir munu koma hingað að þrem vikum liðnum, eða svo, minnir mig að þú segðir, French," bætti Brown við í hirðuleysislegum róm.

Andlit Kalmans varð eldrautt. Báðir mennirnir störðu á hann.

"Já, innan hérumbil þriggja vikna," sagði French

"Ef eg væri ekki þannig gerður, að vera fremur fráhverfur hinum alvarlegri störfum, held eg að eg mundi leggja fram lið mitt," sagði Brown. "Því þetta verður eitt hið merkilegasta námufélag sem gerist, ef eg ber nokkurt skynbragð á slíka hluti."

En Kalman mælti ekki orð frá munni. Hann sveiflaði handleggjunum um herðar Jacks og sagði: "Þú er mikill maður, Jack. Eg hefði átt að vita betur."

"Rétt er það," sagði Jack. "Frá þessari stundu

skulum við verða menn. Lífið er of dýrmætt, til þess að selja það af hendi fyrir ekki neitt! Námur eru góðar, en það eru til betri hlutir en þær."

"Tilgangurinn?" sagði Brown.

"Mennirnir!" sagði Jack með áherzlu.

"Kvenólkið!" sagði Brown, og vafði höndunum um konu sína.

"Brown!" sagði Jack hátíðlega. "Þú hefir á réttu að standa, eins og vinur minn Pierre Lamont mundi segja."

---

## XVIII. KAPÍTULI.

### *Ást og frelsi.*

Kofi Portnoffs stjórnleysingja stóð í halla, mitt á milli Wakota og námunnar, hérumbil tvær mílur frá búgarðinum. Það var harla fátæklegur kofi, klöngrað saman úr bjálkum og límbdur með leðju. Þakið var reft með espiviðarrenglum. Veggirnir voru þvegnir, og einstaka skrautgripir mintu á töluverða siðmenningu. Út undir einum veggnum stóð leirofn, sem hafði það tvöfalda hlutverk, bæði að hita herbergið og sjóða matinn. Eins og titt er um hreysi Galizíumanna, stóð kofinn í miðjum garðinum, sem var skreyttur margvíslegu blómskrúði og fagurmynduðum runnum, ásamt vafningsviðar jurtum, sem teygðu sig varfærnislega upp með leirlímdum veggjunum.

Það var í lok þriðju vikunnar eftir heimkomu French, að þeir Portnoff og Malkarski, sátu síðla við öldrykkju og reyktu pípur sínar.

Bjart var í kofanum af nokkrum kertum, sem brunnu á hillum á veggjunum..

Þessir menn báðir voru sokknir niður í alvar-

legar samræður. Loks stóð Portnoff á fætur og tók að stika um herbergið.

"Malkarski," hrópaði hann, "þú mælist til of mikils. Þessi dráttur er að verða mér óþolandi."

"Bróðir minn," sagði Malkarski, "þú hefir beðið lengi. En það mega engin mistök koma fyrir i þessu máli. Það verður að ganga hreint að verki, en við skulum vera þolinmóðir. En meðal annars," bætti hann við hálf-hlægjandi; "hver hefir sína byrði að bera. Missir námunnar, er eins og hnífstunga í hjarta hans. Það verður annars nógu gaman, að sjá hann engjast sundur og saman, eins og skriðkvikindi, sem hefir verið stjakað við. Hann krefst mikils endurgjalds fyrir það, sem hann hefir unnið. Eitthvað þrjú þúsund dali, held eg — og það munar um minna."

Portnoff æddi aftur á bak og áfram um herbergið. "Bannfærum hann! Bannfærum hann! Bannfærum hann!" öskraði hann upp yfir sig, með krepta hnefana fyrir ofan höfuð sér.

"Vertu rólegur bróðir!"

"Rólegur!" endurtók Portnoff. "Eg sé blóð. Eg heyra grátekka barna og kvenna. Eg sofnaði, og mér fundust fingurnir á mér á milli tanna hans. Og eg vaknaði allslaus!"

"Ó, nöldraði Malkarski, þolinmóður. Vertu þolinmóður, bróðir."

"Malkarski!" öskraði Portnoff og staðnæmdist "Eg hefi haft um sárt að binda í ýmsum efnum af völdum þessa manns, hann hefir haft ill áhrif á sveitina mína, fólk mitt og hjarta mitt!"

"Hvað er þetta?" kallaði gamli Malkarski upp með áherzlu. "Hefir þú?—hefir þú haft svona byrði að bera? — En Portnoff, við verðum að vera þolinmóðir." Og hann talaði með slíkri alvöru og hátíð-

leik í hljómblænum, að Portnoff var ekki lengi að átta sig á því hvert hann fór.

"Þú talar mjög sennilega," svaraði hinn síðarnefndi alvarlega. "Eg hefi fengið mjög góðar fréttir í dag," bætti hann við í breyttum málrómi. "Það virðist svo sem að Sprink" — —

"Sprink!" tautaði Malkarski með augljósri fyrirlitningu; "hann er rotta,—svín og— — Hversvegna að tala um hann?"

"Það eru góð tíðindi," mælti Portnoff, hálfhlægjandi. "En þau eru kannske ekki sem ánægjulegust fyrir Sprink að skýra frá þeim. Það lítur út fyrir að hann hafi verið að semja við Mr. French, um hluttöku í námunni, en að hann hafi vísað honum burt úr félagsskapnum. Það var annars býsna kátlegt að heyra Sprink segja söguna sjálfan, með öllum sínum stóryrðum, formælingum og svardögum. Það hefir komið bláþráður á vinskap hans við French, grunar mig."

"Uss," sagði Malkarski. "Eg þekki endirinn á æfintýrinu.

"Hann var svo ósvífinn, hundurinn sá arna, að ætla að reyna að ná i hina ungu hefðarmey, Irmu. Það var dálaglegt! Og French rak hann greinilega út úr húsi sínu og gaf honum mínútu frest, til þess að komast, sem kallað er, úr skotmáli."

"Það var rösklega af sér vikið," bætti Malkarski gamli við, með kuldaglotti. "Hann er óþrifa rakki. Eg þurka hann út af minnistöflum sálar minnar."

"Við verðum að halda strangan vörð þessa dagana," sagði Portnoff. "Þeir eru báðir eins og vitlausir hundar, og þeir munu bíta, hvar sem þeir ná til."

"Ha! Ha!" æpti Malkarski með gríðarmiklum ákafa. "Ef það aðeins væri klárað í nótt!—í nótt.— Röddin skalf og varð líkust óhljóði.—Í nótt! En

þolinmæðin þrautir vinnur allar," tautaði hann fyrir munni sér. "Guð komi til! Hve lengi á þetta að bíða?"

"Hreint ekki lengi, vinur minn, svaraði Portnoff."

"Nei, alls ekki lengi," endurtók Malkarski. "Við skulum láta þá koma frá námunni. Það getur margt komið fyrir á járnbrautarteinunum á skömmum tíma. En umfram alt megum við ekki spilla neinu með ónytsömu og hættulegu flaustri."

"Það er þinn dagur að standa á verði á morgun, Malkarski," sagði Portnoff.

"Eg skal halda vörð á morgun," sagði Malkarski. "Þegar alt kemur til alls, held eg það verði grin fyrir fjóra, að líta framan í smettið á honum, þegar við höfum komið fram áformi okkar."

Hann stóð á fætur og stikaði um gólfið. Augun, sem voru lengst inni í höfðinu, leiftruðu eins og hvítglóandi kolamolar á tryllingslega og magra andlitinu. Og hann hélt áfram í myrkum bassarómi:

"Já, það verður nú gaman."

Stöðugt, síðan Rósenblatt hafði komið í bygðina, var hann undir gæzlu annarshvors hinna gömlu stjórnleysingja; stöðugt við hlið dauðans, þótt ekki væri hann sér þess meðvitandi.

Malkarski fékk það hlutverk, að gæta Rósenblatts næsta dag.

Samningarnir í sambandi við námuna, voru í raun og veru fullgerðir. Það voru aðeins nokkur smávægileg atriði, sem eftir voru, og til þess að útkljá þau, hafði verið ákveðinn fundur við námuna, að kveldi hins næsta dags. Kalman hafði með mestu tregðu lofast til að koma á fundinn. Fundarstaðurinn var í raun réttri ekki annað en dálítill hellir, sem hafði verið stækkaður, og gert úr honum rúmgott herbergi og þaðan höfðu verið grafin jarðgöng yfir

í brekkuna, og út frá mynninu á þeim göngum, voru grafin önnur þvergöng, sem opnuðust hægra megin við hæðarendann. Hinumegin við gilið stóð lág og lítil bjálkabygging, sem þeir herrar, Rósenblatt og Sprink höfðu notað sem skrifstofu, á meðan þeir réðu þarna lögum og lofum. Lengra niðri í gilinu voru verkamannakofar á strjálingi, sem nú voru í eyði.

Það kostaði Rósenblatt og Sprink ærna fyrirhöfn að undirbúa fundinn og tók langan tíma. Og að minsta kosti var allmjög liðið á kveldið, er þeir höfðu lokið ráðstefnu sinni.

Einni klukkustund síðar, eða svo, fanst Malkarski, náfölur og máttlaus við kofadyr Portnoffs. Gat hann engu orði upp komið, fyr en Portnoff hafði dreypt á hann allrækilega af bezta whiskeyinu, sem hann náði í.

"Hvað er þetta? hvað gengur á, bróðir minn?" hrópaði Portnoff, sem ekkert botnaði í þessu tilfelli. "Hvað á þetta að þýða?"

"Samsæri," stundi Malkarski upp og saup hveljur. "Það lang-svívirðilegast samsæri, sem hugsast getur!. Gefðu mér einn sopa til."

Við örfun þá, sem drykkurinn hafði í för með sér, náði Malkarski sér dálítið, svo að hann gat byrjað á sögu sinni. Í hlé af trjáviðarkesti, sem var á bak við kofa Rósenblatts, og með höfuðið við sprungu á milli bjálkanna, heyrði hann alt, frá hinu smæsta til hins stærsta um samsærið. Í þvergöngunum, sem láu á bak við hellinn, var falið feiknin öll af púðri og sprengiefni. Og þangað átti að liggja þráður hæfilega langur. Á vissum tíma ætlaði Rósenblatt að yfirgefa hellinn, með því yfirskyni, að hann þyrfti að ná í skjöl, sem væru í kofa hans. Á meðan mundi kvikna í viðarkesti, sem ekki væri langt frá hellinum. Og á leiðinni til kofa síns mundi

Rósenblatt kveikja í þræðinum, og bíða heima hjá sér, þangað til sprengingin væri um garð gengin. Svona lagað tilfelli frá náttúrunnar hendi hlyti að vera auðvelt að skýra, undir þeim kringumstæðum, sem um væri að ræða. Og til þess að byggja fyrir allan grun, ætlaði Rósenblatt að dvelja í tjaldi fyrri part kveldsins, æði langt í burtu. Samsærið var svo úr garði gert og svo um hnútana búið, að enginn grunur gæti fallið á hina seku.

"Flýttu þér svo til Wakota," bætti Malkarski við. "Eg veit að Kalman og French eru þar í dag. Eg ætla að snúa aftur til námunnar, til þess að vara þá við, ef ske kynni að þú mistir af þeim."

Portnoff gamli var fyrir löngu búinn að fella flugfjaðrirnar. Fyrir nokkrum árum hefði hann varla vílað fyrir sér annað eins og þetta. Veðrið var drungalegt, og leit út fyrir að hann mundi hvessa. Slóðin í gegnum hinn torfæra skóg, var mjög óglögg, og var illt að fylgja henni; svo að það var ekki fyr en seint um kveldið, að hinn aldraði maður náði til hins ákveðna staðar, og stundi upp sögu sinni með andvörpum, við Brown og foringja úr fjalla-lögreglu-deildinni; sem var staddur þar.

"Hvar eru þeir French og Kalman?" sagði hann hvatskeytslega.

"Farnir fyrir klukkustund," svaraði Brown. "Þeir eru að líkindum komnir til námunnar núna."

"Er hægt að reiða sig á þennan mann?" spurði undirforinginn.

"Já, áreiðanlega," svaraði Brown.

"Af stað!—eg mun fylgjast með."

Án frekari umsvifa var undirforinginn þotinn út úr húsinu, og kominn á bak hesti sínum.

"Hvaða braut?" hrópaði hann.

"Það verður bezt að fara meðfram ánni," svaraði Brown. "Eg held þú mundir tæpast geta fylgt

þver-slóðinni. Farðu! Farðu, í guðs nafni!" bætti hann við með ákafa.

Kona hans og Portnoff urðu honum samferða í áttina til hesthússins "Hvar er Pálína?" kallaði hann upp yfir sig.

"Pálína er farin," sagði kona hans. Hún hefir átt örðuga daga núna upp á síðkastið. Hún kemur og fer; en eg veit ekki hvert og hvenær.

"Náðu í dreng," sagði maður hennar og sendu hann út á búgarðinn. Það gæti hugsast að við gætum stöðvað þá þar. "Hérna er annar reiðhestur. Portnoff; legðu á hann í skyndi og komdu með mér. Við skulum fara þverbrautina; og við skulum biðja guð að vera með okkur. — Við verðum að reyna að komast í tæka tíð."

Geysistórir, lyfrauðir og brúnleitir skýbólstrar teygðust upp í vestrinu, hærra og hærra, og breiddu grímufald sinn yfir kveðjubros hinnar hnigandi kveldsólar. Djúp, alvarleg þögn hvíldi yfir öllu, og skógurinn var eins og söngvana eyðimörk. Brown lét svipuna ganga á klárnum og reið áfram alt hvað af tók, skeytti hvorki um farartálmana á veginum, né heldur um trjáviðarlimið, sem öðru hvoru slóst í höfuð hans.

Portnoff gamli reyndi að fylgja honum eftir af öllum mætti. Þannig riðu þeir áfram, hverja míluna af annari. Oft mistu þeir vegarins sökum myrkursins, en fundu hann þó jafnharðan aftur; þar til þeir að lokum, með hestana froðufellanli og skjálfandi af mæði, og sjálfir alblóðugir í framan af þyrnistungunum, náðu inn í rjóðrið fyrir ofan gilsmynnið.

Á meðan hafði fyrsti þáttur harmleiksins staðið yfir.

French og Kalman biðu með óþolinmæði við hellinn, eftir þeim, sem þeir áttu von á. Loksins

mótaði fyrir Rósenblatt í myrkrinu, þar sem hann kom upp eftir gilinu.

Hann var fölur og hálfruglaður.

"Eg hefi riðið mjög hart," sagði hann. "Eg er allur saman skjálfandi eftir ferðina. Skjölin mín eru heima í kofanum, og eg verð að sækja þau."

Hann kom aftur eftir stundarkorn með flösku í hendinni og tvo bolla. "Drektu" mælti hann.

"Nei, þökk fyrir."

"Þá drekk eg sjálfur," og hann helti fullan bolla af óblönduðu whiskey og tæmdi hann í botn. "Félagi minn kemur nokkuð seint," mælti hann. "En hann hlýtur að verða kominn innan fárra mínútna. Á meðan getum við yfirfarið skjölin."

"Það er of dimt hérna," sagði French. "Við sjáum ekki til að lesa. Þú hefir ljós i kofanum þínum, þangað skulum við fara.

"Sussu nei!" svaraði Rósenblatt snögglega, "Það er miklu skemtilegra að vera hérna. Eg hefi ljósker."

Hann flýtti sér lengra inneftir hellinum og kom þaðan með ljósker. "Hérna er eldur," sagði French, og kveikti á spýtu. Rósenblatt náði eldspýtunum úr höndum hans og flýtti sér út úr hellinum.

"Ó," hrópaði hann. "Eg er allur af mér genginn eftir reiðlagið."

Með mestu varkárni kveikti hann svo á ljóskerinu fyrir utan hellinn, og setti það á borð, sem var skamt frá munnanum.

French tók upp pípu sína, fylti hana og ætlaði að fara að kveykja í, þegar Rósenblatt, óttasleginn og skjálfraddaður, greip fram í: "Reyktu ekki," æpti hann. "Eg þoli það ekki — mér verður ilt af því — undir svona kringumstæðum."

French leit á hann með megnri fyrirlitningu. "Mér fellur það mjög illa," mælti hann, um leið og hann kveikti í pípunni og kastaði eldspítunni á jörð-

ina. Rósenblatt þaut út að hellismunnanum, en kom aftur að vörmu spori; svitinn bogaði af enninu á honum. "Þetta er óttaleg nótt," sagði hann. "Við skulum halda áfram. Við getum ekki beðið eftir félaga mínum. "Lestu, lestu!" Svo skjálfhentur að hann gat naumast haldið á blaði, rétti hann Kalman skírteinin. "Lestu" öskraði hann, "eg sé ekki nokkurn skapaðan hlut." Kalman opnaði skjölin og reyndi að lesa þau gaumgæfilega við glætuna af ljóskerinu. French reykti pípu sína á meðan

"Hefurðu ekki betra ljós en þetta, Rósenblatt?" spurði French að lokum. "Auðvitað eru kerti einhversstaðar hérna. Og hann fór yfir í hellisendann.

"Guð sé oss næstur," kallaði Rósenblatt upp yfir sig, og reyndi til þess að fá hann að borðinu aftur. "Sestu niður, í öllum hamingju bænum, sestu niður. Ef þú þarft að fá kerti, þá skal eg sækja þau, eg veit hvar þau eru. En við þurfum engin kerti hérna. Ung augu eru betri en gömul," sagði hann með hlátursroku. "Lestu, haltu áfram að lesa!"

"Það eru fleiri skjöl en þetta," sagði French, eftir að Kalman hafði lokið við að lesa. "Það eru víst aðrir samningar."

"Sennilega," sagði Rósenblatt. "En það eru ekki fleiri skjöl hérna—hérna ættu þau þó að vera.—nei, eg hlýt að hafa skilið þau eftir í kotanum mínum. Eg má til að sækja þau undir eins."

"Jæja, flýttu þér þá," sagði French. "Eg ætla að reykja mér eina pípu á meðan." Hann tók upp eldspýtu, kveykti á skósólanum sínum, og fleygði stubbnum við hellisendann.

"Guð minn góður," hrópaði Rósenblatt með hárri, en skjálfandi röddu.

Báðir mennirnir litu á hann undrunaraugum.

"Ó," sagði hann, og lagði hendina á hjartað. "Eg

finn til svo mikils sársauka þarna,—eg er veikur maður. En eg verð að ná í skjölin."

Hann var helblár í framan, og svitalækirnir streymdu bæði úr hári og skeggi hans. Í sama vetfangi þaut hann af stað og var horfinn á svipstundu, skiljandi eftir báða tvo mennina, gruflandi yfir skjölum sínum. — Skamt frá brennandi trjálimskestinum staðnæmdist hann nokkur augnablik, gagntekinn af hugarkvöl, óvissu og ótta.

"Ó," sagði hann, og baðaði út höndunum. "Eg þori því ekki! Nei, eg þori ekki að gera það!"

Hann þaut yfir að logandi kestinum, varpaði önd og sagði við sjálfan sig: "Heimskingi! hvað er að óttast?"

Hann læddist á bak við brennandi runnann, tók dálítið af logandi eimyrju, og hljóp með hana þangað, sem þráðurinn var, er hann hafði búið til úr tuskum og vætt í vaxolíu. Skamt frá mynninu á jarðgöngunum lét hann glæðurnar falla, en þegar hann leit til baka, komst hann að raun um, að hann hafði fleygt eldnium niður við hliðina á hinni gegnvættu tusku; og að þar rauk aðeins lítið eitt úr glæðunum. Með blóti og formælingum þaut hann aftur þangað sem viðarkösturinn brann, valdi sér vænan glóðarmola, bar hann varfærnislega að þræðinum og fleygði olíuvotri tuskunni á eldinn, og beið þangað til alt stóð í björtu báli. Síðan hljóp hann af stað, alt-hvað fætur toguðu, eins og hann vissi af fjandanum sjálfum á hælunum á sér, þaut niður gilið og upp hinu megin, og leit hvorki til hægri né vinstri, fyr en við dyrnar á kofa sínum.

Um leið og hann var búinn að læsa dyrunum, mátti sjá eitthvað í mannsmynd, læðast upp að innganginum, og þar var að minsta kosti fleira en einn á ferli — þarna kom annar og sá þriðji; en dyrnar voru vandlega lokaðar, með óbilandi hengilás.

Fáum augnablikum síðar birtist hið helbláa andlit Rosenblatts, í litla ferkantaða glugganum, með starandi augum yfir gilið.

Á sömu stundu kom Brown í ljós, hinu megin við gilið, ríðandi niður brekkuna á harða spretti eins og bandóður maður; hrópandi af lífs og sálar kröftum: "French, French, Kalman! Í guðs bænum, komið undir eins."

Út úr hellinum þutu samstundis tveir menn. Um leið og þeir komu, sáu þeir Brown, þar sem hann stóð eins og hálftryltur maður, og hrópaði með baðandi höndum: "Komið hingað. Í guðs bænum, komið undir eins." Í sömu svipan varð honum litið á hinn brennandi þráð.

"Hlaupið! Stökkvið, það varðar ykkur lífið," æpti hann af öllum mætti. Og hann rauk eins og kólfi væri skotið, þangað sem tuskan var að brenna og tróð hana undir fótum sér, til þess að reyna að stöðva eldinn. En það varð árangurslaust. Eldurinn hafði náð púðrinu; smábrestir í spýtunni, sem hafði verið kveykt í með, heyrðust með ójöfnu millibili, en þar á eftir hár hvellur. Brown tók höndunum um andlit sér og stöðvaðist; en það var ekkert meira að heyra.

"Í herrans nafni, hvað á þetta að þýða, Brown?" hrópaði French.

"Áfram!" stamaði Brown út úr sér, þar sem hann staulaðist niður gilið og dró þá með sér. Á meðan stóð öll brekkan í björtu báli. Við bjarmann af hinum brennandi trjám, gat að líta undirforingjann, keyrandi hest sinn sporum á harða stökki Nokkuð á eftir honum kom Portnoff.

"Hvað eru allir þessir menn að gjöra?" sagði French, og leit í kring um sig með undrandi augnaráði. Áður en þeir gætu svarað, heyrðist hrein og sterk rödd hinumegin við gilið, frá kofa Rósenblatts.

Og í litilli fjarlægð frá kofanum gátu þeir, við hið daufa ljós hins slitrótta loga, séð grilla í mannsmynd. Maðurinn var að tala við Rósenblatt, sem hafði stungið höfðinu eins langt út úr glugganum og honum var unt.

"Hver er þessi maður?" hrópaði undirforinginn.

"Heilaga guðsmóðir!" andvarpaði Portnoff gamli i lágum róm. "Það er Malkarski. Við skulum ekki hafa hátt."

"Rósenblatt," hrópaði hinn gamli maður á Rússneska tungu, "eg hefi nokkuð að segja þér. Öll þessi kynstur af púðri, sem þú hefir safnað hér saman, og alt þetta sprengiefni, sem þú ætlaðir til þess að drepa með tvo saklausa menn, er nú komið í gott lag hérna beint undir kofanum þínum, og bráðum verður kveykt í þræðinum, sem liggur hérna við fætur mér, og þá skeður eitthvað sem ekki er skeð."

Með hræðilegum óhljóðum hvarf Rósenblatt úr glugganum, og þeir heyrðu hann berja á dyrnar hvað eftir annað af öllum mætti.

Gamli Malkarski hló langan og draugalegan kuldahlátur. "Rósenblatt" hrópaði hann, "dyrnar eru vandlega læstar og lásinn er alveg óbilandi."

Rósenblatt rak höfuðið út um gluggann og hrópaði með æðisblandinni röddu:

"Hjálp, hjálp! Morð, morð!"

"Þegiðu hundurinn þinn," hrópaði Malkarski með hreimsterkri röddu, svo að það bergmálaði um alt gilið. "Þú hefir nú loksins fengið dóm þinn. Allir glæpir þínir, öll svik þín, öll þín blóðugu níðingsverk, heimsækja þig nú í einu lagi. Ha! Ha! Öskraðu eins og þú getur — biddu! bölvaðu! ekkert jarðneskt vald getur bjargað þér úr því, sem komið er. — Eg hefi beðið lengi eftir þessari ánægjustund. Líttu á, nú kveiki eg í þræðinum, og innan fárra mínútna verður þú kominn í tölu hinna fordæmdu."

Hann kveykti eins og af tilviljun á eldspýtu — en golan slökti á henni. Kalman rak upp hljóð. "Hættu, hættu Malkarski. Hættu við áform þitt."

"Hvað ætlar hann að gjöra?" spurði undirforinginn og dró upp skammbyssu sína.

"Hann ætlar að sprengja manninn í loft upp," svaraði Kalman.

Undirforinginn miðaði skambyssunni. "Hreyfðu þig ekki eitt fet, ella ertu dauður!"

Malkarski rak upp fyrirlitningarhlátur og reyndi að kveikja á þriðju spýtunni. Áður en undirforinginn fékk færii á að hleypa af, stökk Portnoff gamli á hann með ópi miklu: "Ætlarðu að drepa þenna mann?"

Þráðurinn var að smásviðna, lengra og lengra í áttina til kofans. Og örvæntingaróp hins sigraða manns, þrýstu sér í gegn um hverja taug, allra þeirra er í grendinni voru.

"Rósenblatt" hrópaði Malkarski gamli og baðaði út höndunum, "þekkirðu mig ekki?"

Hinn aldraði maður rétti sig upp í fullri stærð. Það var eins og aldurinn og árin sópuðust burtu í einni svipan. Hann gekk nær Rósenblatt og staðnæmdist snöggvast, leit i kringum sig eins og hermaður, sem búinn er til vígs.

"Líttu á" mælti hann, "Michael Kalmar!"

"Ó, Ó!" Rödd Rósenblatts var eins orvæntingarfull og rödd fordæmdrar sálar.

"Faðir minn!" hrópaði Kalman yfir gilið.

"Faðir minn! í Guðs bænum drýgðu ekki þennan glæp." Hann þaut yfir gilið og upp dálitla brekku. Faðir hans hljóp á móti honum, og þeir tóku saman: uppi á brekkunni börðust þeir, en Kalman reyndi af öllum mætti að losa sig úr þessum heljar greipum: en á meðan læddust logarnir eins og slanga, hægt og rólega í áttina til kofans. Með stórum járnskörungi.

sem Rosenblatt hafði fundið í kofanum, hafði hann getað sprengt gluggagrindina, og stækkað þannig opið, að hann gat stungið höfðinu og öðrum handleggnum út, en lengra komst hann ekki; horfandi á flagsandi eldtungurnar, æpandi, bölvandi, biðjandi, hrópandi. En samtímis upp í brekkunni voru mennirnir tveir, sem háðu stríð upp á líf og dauða.

"Lofaðu mér að fara, sleptu mér undir eins, faðir minn," æpti Kalman æðislega. "Nei, aldrei, drengur. Heldur skyldi eg deyja," hrópaði hinn gamli maður, með hendurnar kreptar um háls sonar sins.

Að lokum, með hendurnar fyrir ofan höfuð sér, hrópaði Kalman: "Guð fyrirgefi mér," og hann hóf föður sinn á loft af öllu afli og skelti honum frá sér, og varð frjáls.

En hann hafði ekki fyr gengið nokkur skref, en að kvenmaður skaust fram á milli trjánna og réðst á hann á einu augnabliki, eins og villiköttur. Það Það heyrðust skyndilega nokkur óp. Þeim var báðum fleygt stynjandi til jarðar. En út úr skóginum heyrðust dynkir úr springandi klettum og brotnandi trjástofnum.

Hægum fetum kom undirforinginn niður eftir gilinu og hrópaði: "Komið! komið!", til hinna annara, sem á eftir honum voru, og ekki voru enn búnir að átta sig. — Öðrumegin í brekkunni lá Kalman og kvenmaðurinn. Það var Pálína. Spölkorn þaðan lá Kalkarski, eða Kalmar, sem réttast væri að nefna hann. En þar sem kofinn stóð, var nú aðeins tóftin eftir. Og örskamt í burtu var maður afmyndaður, með fötin í ljósum loga. Brown þaut niður að læknum, og sótti ögn af vatni og skvetti á brennandi fötin.

"Færið honum meira vatn," hrópaði Brown, sem nú var allur með hugann við Kalman; en enginn virtist heyra það. Loks fann Portnoff gamli könnu,

fylti hana af vatni úr læknum og dreypti á hina aðfram komnu menn. En aumingja Rósenblatt hrópaði stöðugt eftir vatni.

"Gefið honum vatn," sagði Kalman við Brown: sem hélt óttasleginn um lífæð hans. Brown tók könnu og gaf hinum ógæfusama manni að drekka: og skvetti því sem af gekk, um hina brendu og skemdu limi hans.

Sprengingin hafði leikið verst fætur hans og aðra hliðina. Höfuðið og hægri handlegginn hafði ekki sakað.

Lögregluforinginn athugaði málið.

"Þig tek eg fastan," sagði hann, og lagði hendurnar á axlir gamla Kalmars.

"Eins og þér þóknast, það gerir hvorki til né frá," sagði hinn gamli maður, um leið og hann rétti fram hendurnar, til þess að hægt væri að setja á þær járnin.

"Er ekkert hægt að gera fyrir þennan mann," sagði undirforinginn, og benti á Rósenblatt.

"Ekkert. Hann lifir aðeins í nokkrar mínútur."

Rósenblatt leit upp og benti undirforingjanum að koma til sín. "Mig langar til þess að tala við þig," sagði hann lágt.

Lögregluforinginn gekk í áttina til hans og hafði Kalmar einan með sér. "Þú þarft ekkert að óttast. Eg reyni ekki til þess að strjúka," sagði Kalmar. "Það sver eg."

"Það er gott," sagði foringinn og gekk þangað, sem Rósenblatt var.

"Hvers óskar þú?"

"Komdu nær," sagði hinn deyjandi maður.

Lögregluforinginn beygði sig niður að honum. En með ótrúlegu snarræði þreif Rósenblatt skammbyssuna frá belti foringjans, skaut beint á gamla Kalmar og síðan á Kalman. En er hann miðaði

byssunni aftur, þaut Pálína upp í skyndi og fleygði sér yfir Kalman. Kúlan hitti hana og hún féll til jarðar.

Með vitstola manns hlátri miðaði Rósenblatt á sjálfan sig, en áður en hann fengi hleypt af, hafði lögreglumaðurinn slegið byssuna úr höndum hans.

"Ha, ha!" sagði hann. "Eg hefi nú hefnt mín."

"Heimskingi," sagði gamla Kalmar. "Þú hefir aðeins gjört það við mig, sem eg hefði átt að gjöra sjálfur."

Snörlandi eins og hundur, féll Rósenblatt alt í einu til jarðar og hrærði hvorki legg né lið.

"Hann er dauður," sagði Brown. "Guð fyrirgefi honum."

"Ó," sagði gamli Kalmar, "eg dreg andann léttara eftir en áður; þegar eg veit að andi hans eitrar ekki loftið lengur. Eg hefi lokið mínu dagsverki."

"Ó, faðir minn," hrópaði Kalman, "guð fyrirgefi þér!"

"Drengur," sagði hinn gamli maður alvarlega. "áttu við vegna hundsins, sem er dauður? Hann var morðingi — margfaldur morðingi Þessa nótt alla ætlaði hann að myrða þig, ásamt vinum þínum. Hann var dæmdur til dauða af konungi ræettlætisins. Hann hefir fengið sinn dóm. Guð er réttlætið; en eg er ekki hræddur við að mæta honum vegna þessa máls. Allar mínar syndir, sem eru margar og miklar, bið eg hann af öllu hjarta að fyrirgefa mér."

"Faðir minn," sagði Kalman. "Eg er á sömu skoðun og þú. Guð er miskunnsamur! Jesús Kristur er miskunnsamur!" Um leið og hann sagði þetta, laut hann ofan að föður sínum, þurkaði af tárin, sem féllu niður andlit hans og kysti hann á ennið. Brjóst gamla mannsins gekk upp og niður og hann dró andann titt. Hann leit þangað sem Brown var. Brown færði sig til hans í sömu svipan.

"Þú ert góður maður. Þín trú er góð. Þín trú gerir þig góðan og réttlátan. Ó, hversu dýrmæt eru trúarbrögðin, þegar þau gera mannkynið betra og réttlátara."

Honum var litið á Jack French, sem stóð skamt frá og leit niður fyrir sig. "Þú hefir verið góður vinur sonar míns" sagði hann, "og eg vonast til þess að þú verðir leiðsögumaður hans framvegis."

French féll á kné, tók um hönd hans og mælti: "Eg ætla að vera bróður hans alla tíð."

Hinn gamli maður leit við og sagði: "Pálína."

"Hún er hérna," mælti Portnoff, "en hún getur hvorki hreyft legg né lið."

Við hljóminn af þessum orðum, reis hún á kné og reyndi að komast til hins gamla manns, með fossandi blóðið úr undinni, tók um hönd hans og færði hana að vörum sér.

"Pálína," sagði hann, "þú hefir breytt vel — þú ert — konan mín öðru sinni — komdu nær! Komdu til mín." Konan gerði tilraun til þess að hreyfa sig, og lyfti höfðinu litið eitt.

"Kystu mig,' sagði hann.

"Guð í himninum hjálpi mér, nei, eg þori það ekki,.' sagði hún með ekkaþrunginni raust.

"Kystu mig," sagði hann aftur.

"Lofaðu mér svo að deyja," stundi hún upp, kysti hann á munninn, og leið jafnskjótt í ómegin við hlið hans. Brown lyfti henni upp gætilega og lagði hana á arma Portnoffs.

Hinn deyjandi maður lá grafkyr, safnandi öllum sínum kröftum. Hann var að berjast við mikla örðugleika.

"Sonur minn! Eg get hvergi séð þig."

Brown flýtti sér til hans í stað Kalmars.

"Hérna er eg kominn, faðir minn," sagði Kal-

man, féll á kné við hlið hans og þrýsti báðum höndum hans.

"Skilaðu hjartans kveðju til Irmu — dóttur minnar! Henni verður borgið í þinni umsjá." Og um leið hvíslaði hann: "Í vasa mínum." Kalman skildi þegar hvað hann átti við, fann dálítinn böggul í vasa hans og tók úr honum smámynd af móður sinni.

"Þessa mynd ætla eg að gefa þér," sagði faðir hans, og færði hana með erfiðismunum að vörum sér. "Engin óhamingja fylgir henni nú — einungis blessun og gæfa — þú hefir fært mér mikla gleði — lofaðu mér að horfa fast og lengi í andlit þitt — elsku hjartað mitt," sagði hann með augun full af ljóma starandi á hina fögru andlitsmynd, "Ó, frelsi—þú hið dýrmætasta af öllu dýrmætu—loksins get eg varpað mér í faðm þinn — og þú himinborna ást! Drottinn blessi þig, sonur minn! Ó, þú ást! Ó. þú guðdómlega frelsi. — Loksins — Loksins!" — —

"Góður guð," hrópaði Kalman. "Jesús Kristur frelsari vor! vertu með honum—altaf!"

Bros, eins og hins saklausa ungbarns, lék um hrukkótta öldungs andlitið. — Einu sinni enn dró hann andann — svo kom þungt andkaf — og með því var sigurinn unninn. Hið langa og harða stríð var nú á enda — hið göfuga stríð fyrir ást og frelsi!

---

## XIX. KAPÍTULI.

*Eg útlendingur?*

Haukagils-námufélagið var nú þegar komið á fæturnar aftur,, eftir langt armæðu og örðugleika tímabil. Þessa eftirfylgjandi yfirlýsingu gaf forseti félagsins á síðasta ársfundinum: "Það er trúmenska. ástundun, hyggindi og kjarkur yðar unga fram-

kvæmdarstjóra, hr. Kalmans, sem hefir komið félaginu það áleiðis, sem nú er raun á orðin."

Útlendinganýlendan og námufélagið höfðu ýtt hvort undir annað, með aukinni atvinnu og bættum kjörum verkamannanna. Enn viðreisn nýlendunnar var þó ef til vill mest að þakka áhrifum og starfsemi Mr. Brown. Stofnun landskólanna hafði hjálpað honum mikið, og gefið honum tækifæri til þess að snúa sér að sjúkrahúsamálum og uppeldisstofnunum. Útlitið í bygðinni breyttist stórkostlega. Og árangurinn af verkum Dr. Browns var auðsjáanlegur og mikill. Nýir markaðir fyrir hinar framleiddu vörur þeirra, járnbrautir og námur juku mjög velliðan og farsæld á meðal Galizíufólksins, ekki hvað sízt í framkvæmdum hinnar uppvaxandi kynslóðar. Fyrir gömlu óveglegu kofana, komu nú upp snotur hús, með stórum gluggum, og matjurta- eða blómgörðum umhverfis. Klæðnaðurinn tók al miklum stakkaskiftum. Skinnföt og sjöl voru lögð niður, en í staðinn komu lagleg tilbúin föt, með nýjum tísku skrauthöttum. Sjúkrahúsið með fjölda lærðra hjúkrunarkvenna, undir stjórn hinnar yndisfögru jungfrú Irmu, sem með umgengni sinni, og anda þeim, sem ríkti í allri starfseminni, varð hin dýrðlegasta stofnun. Og hafði göfgandi og siðbætandi áhrif á andlegt og veraldlegt líf Galizíumannanna.

Á hússtjórnarskólanum voru um fimtíu Galizíustúlkur, sem fengu kenzlu í þeirri nytsömu og göfugu fræðigrein, að læra að stjórna heimilum og gera þau björt og skemtileg konungsríki. Margar og miklar verklegar og munnlegar æfingar voru til þess hafðar. Og nemendurnir sýndu sérstaka árvekni og ástundun í námi sínu.

Á Nátthaukagils búgarðinum mátti líka sjá merki margvíslegrar nýrrar menningar — mörg tákn hins nýja tíma. Akrar voru gyrtir, ný peningshús bygð,

ásamt hlöðum og korngeymslubúrum. Alt bar vitni um aukna framleiðslu jarðarinnar, og undirgefni hennar í þarfir mannsins. Rödd hins nýja tíma og afl hinna nýju menninga-hugsjóna, sem braust fram í gegnum járnbrautirnar og námurnar, en þó sérstaklega trúboðsáhrifin, fundu skýr svör í hjarta Jack French. Gamlar, úreltar venjur, viku sæti fyrir nýjum og bjartari. Nýi tíminn krafðist fylgi fólksins! Fimm ár í stöðugri þekkingarleit, stöðugri tilraun til þess að reyna að fullnægja röddum skyldunnar, höfðu flutt með sér, ekki einungis stórbreytingar efnalega, heldur einnig í sálarlífi og skapferli. En umfram alla aðra og alt annað, höfðu þó þessi fimm ár verkað á Kalman.

Hið harða, daglega erfiði, hinar stöðugu áhyggjur, höfðu verkað allmjög á skapferli hans, og höfðu skilið eftir einkenni sín, svo að segja í hverjum andlitsdrætti og hverri hreyfingu.

Tvisvar á þessum fimm árum, hafði hann verið sendur af Jack French til borgarinnar, um þriggja mánaða tíma, til þess að ganga á verzlunarskóla. En ekki einungis gegnum bækurnar, heldur vegna áhrifa Jack French, lærði hann að þekkja þá menn, sem voru að gera mikil verk fyrir bygðina og landið.

Hann snéri aftur til verks síns við námuna, með bjartari vonum og víðari sjóndeildarhring. Og með þeim fasta ásetningi, að vinna af lífs og sálar kröftum; reyna að leiða fram á sjónarsviðið það bezta, sem lífið hefði að bjóða. Enginn vafi var á því, að lífið hafði gert úr honum mann! Hann var álíka hár vexti og Jack; liðugur, en þó sterkur. Þeim, sem að umgengust hann í verzlunarheiminum, virtust hann vera kaldur og strangur. En hinum gömlu vinum sínum, á búgarðinum, trúboðunum og öðrum, var hann sannur, þýður og hreinskilinn vinur. Á meðal Galizíumannanna var hann þekkingarlegur leið-

togi; hann breytti eins við þá, eins og Canadamaður við Canadamann. Hann gleymdi hvorki að meta né virða slafneska blóðið, sem rann í æðum hans, og hann vildi gera alt, sem hann gat, fyrir vöxt og viðgang þess fólks.

Enn þótt hann væri hlaðinn störfum og léti metnaðinn ráða, komu þó oft þeir tímar, að Jack French las út úr augum hans hugar og hjarta tómleik. — Því eiginlega er líf mannanna í hjartanu. Frá áhrifum hjartans koma oft hinar dýrmætustu hugsjónir, hin ljúfustu orð og hin fegurstu verk.

Þegar Kalman kom, í síðastliðinni viku, hafði Jack French grandskoðað huga hans; og hjarta hans hafði fylst meðaumkvun með hinum unga manni, sem hafði verið honum meira en bróðir, og hann hafði spurt hann, — en Kalman var þungt niðri fyrir og átti örðugt um svarið: "Jack, mig hefir stundum dreymt; það var dálítið hart, meðan stóð á því, en nú er það búið, — mig dreymir aldrei framar!"

"Kalman, góði minn! misskildu ekki hlutina. Æfin er löng, og hún getur verið ömurleg, en hún er það ekki altaf." Það var sársauki í rödd Jacks.

"Jack," sagði Kalman, "þú hefir rétt fyrir þér. En eg gleymi því aldrei, eg get ekki gleymt því að faðir minn var útlendingur, og eg er það líka. Og Harmleikurinn, sem fram fór nóttina góðu, verður aldrei strykaður út úr huga mínum. Óhamingjuafleiðingar hans verð eg einn að bera."

"En, Kalman, þú þarft ekki að skammast þín fyrir blóð þitt. Og gjörir það víst ekki heldur vegna föður þíns?"

Kalman hristi höfuðið raunalega, og röddin skalf. "Fyrir mitt blóð? Nei. En hún? Faðir minn var ekki smár í mínum augum; en hvað gerði hann við hana?" röddin lækkaði, og hann hvíslaði:

"Hann var morðingi! Nei, Jack, það getur ekki verið."

"En Kalman," greip Jack fram í, "hugsaðu greinilega um alt."

"Hugsaðu um það. Fimm árin síðustu hefi eg hugsað svo mikið, þangað til hjartað í mér var orðið þreytt af umhugsun! Nei, Jack — vertu ekki reiður eða örvæntingarfullurl Eg er hvorugt. Þökkum guði að til eru önnur mál; kærleiksmál. Fólk sem þarf að hjálpa, land sem þarf að frelsa."

"Önnur mál," sagði French í dapurlegum rómi. "Auðvitað eru til mörg og mikilvæg málefni. En Kalman; góði drengurinn minn, eg hefi reynt þau flest, eg þekki þau. En eins og núna stendur á, er hjarta mitt titrandi og sjúkt af leit eftir betri hlutum og betri málum. Ástin! drengur minn, ástin er bezt og dýrmætust af öllu!' '

"Veslings Jack!" sagði Kalman ofur rólega. "Góði, gamli vinur." síðan fór hann út, en um þessa hjartaþjáning töluðu þeir aldrei framar.

Og nú, eftir fimm ára fjarveru, var hún komin aftur. Hversu skýr og glögg var ekki myndin, sem Kalman geymdi af henni í huga sinum. Það var við Nátthaukagils búgarðinn, nóttina sem harmsöguleikurinn gerðist. Hann sat í einu herberginu, við hliðina á líkama föður síns, með hugann festan við hið sorglega og örðugleikum stráða líf. Og hann hafði verið að hugsa um hinn blóðuga og þyrnum stráða veg. Óttalegar myndir — óttalegar draumavofur, fóru í gegn um huga hans. Þá varð hann alt i einu þess var, að lögregluforinginn var að segja endirinn á sögu Rósenblatts, með kaldhranalegum, hálf-hryllilegum málrómi. Og hann heyrði hann segja frá hinum blóðþyrsta óvini, sem var að smákveikja í þræðinum, og ætlaði að sprengja hinn ógæfusama mann i loft upp. Hann mundi vel, hversu

lýsingar hans á föður sínum, höfðu farið á milli mála — stundum alveg rangar.

Hann minntist þess, hvernig hann hálftryltur hafði hlaupið út í næsta herbergi og hrópað:

"Morðingi! þú lýgur aldrei framar."

Hann geymdi lifandi mynd í huganum, af því, hversu óttaslegin hún hafði verið, er hún flúði frá honum; er hann fór með lögregluforingjanum um nóttina. Og hvernig hann hafði verið fráskilinn honum af sameiginlegum tilraunum Brown's og French's. En skýrust af öllu var þó endurminningin um það, hversu óttaslegin hún var og hversu augun urðu hvöss, er hann kom nær henni. Og þetta var síðasta sjónin, sem hann hafði haft af henni, og feginn mundi hann hafa kosið flest annað en það, að þurfa að mæta henni aftur. En það var ekki auðsloppið frá því. Hann var að velta því fyrir sér, hvað hann ætti að segja; hvort hann mundi nú ekki missa valdið á sjálfum sér, og hvernig hann helzt ætti að umgangast hana.

En fundurinn varð með alt öðrum hætti en hann hafði búist við. Hann varð við námuna.

Hlaðinn flutningsvagn var að fara niður brekkuna, niður að námunni. En alt í einu, fyrir óaðgæzlu vagnstjórans,, steyptist alt um koll og mennirnir urðu undir í námugöngunum. Eins og örskot þaut Kolman af stað. Stökk upp á hjólið öðru megin og reisti við hinn fallna vagn. Hann framkvæmdi alt þetta, bæði hugsun og verk á minna en tveim sekúndum.

"Laglega af sér vikið!" hrópaði einhver á bak við hann.

Hann leit við, og sá Sir Robert Menzies, og á milli hans og French, stóð dóttir hans Marjore.

"Það gleður mig að sjá þig, Sir Robert," mælti hann vingjarnlega.

"Þetta var aðdáanlegt!" sagði dóttir hans, föl og hálf titrandi, af því sem fyrir hafði komið. Hann leit á hana alvarlegum augum, rannsakandi sál hennar. Hún leit frjálsmannlega á hann á móti.

Kalman dró andann þungt. Það var eins og hann hafði verið á langri sjóferð — leitandi nýrra landa — en hve lengi, gat hann ekki gert sér grein fyrir. En það sem hann hafði séð, veitti fagnaðarríkum sæludraumum um akurlendi sálarinnar. Hún hafði ekki snúið sér frá honum.

"Það var vel gert, það var dásamlegt," hrópaði Marjore og rétti fram hendina.

"Eg er hræddur um," sagði hann, "að hönd mín sé ekki nógu hvít, til þess að mæta þinni."

"Réttu mér hendina," sagði hún nærri því skipandi. "Höndina á hraustur og góður drengur."

Rödd hennar var hlý og lýsti aðdáun. Allar tilraunir Kalmans, til þess að halda valdinu yfir sjálfum sér, voru að bresta. Hann fann hve blóðið steig ákaft til höfuðsins. Hann reyndi aftur að safna saman öllu sínu viljaþreki, og fór að tala um ýmislegt, viðvíkjandi námunni.

"Það hafa orðið miklar breytingar á þessum fimm árum," sagði hún, og leit niður eftir gilinu, sem var alt með hinum margvíslegu einkennum, sem náman hafði í för með sér.

"Já breytingarnar eru miklar," svaraði Kalman.

"Í Wakota eru líka miklar breytingar," mælti hún og vék sér ögn til hliðar. "Mr. Brown hefir gert marga dásamlega hluti fyrir útlendingana."

"Já," mælti Kalman, dálítið upp með sér; "hann hefir gert mikið gott og þarflegt fyrir mitt fólk."

"Þínir menn eru orðnir góðir Canada-borgarar," svaraði Marjore og roðnaði dálítið um leið. Hún skildi hvert hann fór.

",Já, þeir munu verða góðir borgarar og þeir

eru mínir beztu menn. Enginn jafnast á við þá í námunni, og þeir eru líka að verða beztu bændur."

"Eg er viss um að þeir eru það," mælti Marjore innilega. Hversu undursamlegt er vald þessa lands, til þess að umskapa fólkið! Canada er dásamlegt land!"

"Það er rétt," svaraði Kalman með áherzlu. Enn enginn getur talað um það með verulegum rökum, vegna þess að enginn þekkir helminginn af hinum mörgu tækifærum. Við þekkjum aðeins dálítið af yfirborðinu ennþá.

"Það er yndislegt," sagði Marjore, að eiga land, sem maður getur endurbætt — og það er dýrðlegt að vera maður, og geta lagt fram sinn skerf til þess.

"Já," svaraði Kalman, "það er dýrðlegt."

"Eg öfunda þig," sagði Marjore með áherzlu.

Það brá skugga allra snöggvast á andlit Kalmans.

"Eg skil ekki í því að þú þurfir þess," mælti hann.

Svo kvaddi hún hann, — lét hann eftir með logandi hjartað og hverja taug titrandi fram í fingurgómana.

Ó, hvað hún var yndisleg! En sú dæmalausa fásinna, að halda að hann gæti nokkurn tíma gleymt henni. Hvert einasta leiftur í augunum, hver einasta hljómbylgja i hennar ljúfu rödd og hver einasta hreyfing var líkust því, sem væri hún engildís af himni niður stigin. Líkast dulljúfri blómangan frá æskuárunum, þrýstu sér allar myndir og minningar, er stóðu í sambandi við hana, inn í hverja taug, inn í hverja hugsun hans, og tóku hann bjargföstum tökum. —

Þar sem hann stóð þarna titrandi, safnaði hann þó kröftum og gerði þá ályktun að fara burt. Sjá hana aldrei meir! Á morgun mundi hann taka sér á

hendur langvarandi ferð til borgarinnar. Hann þorði ekki að bíða næsta dags. Á morgun? Nei, þá var sunnudagur.

Hann ætlaði að dvelja meira en einn dag í gilinu og safna saman endurminningunum um nóttina viðburðaríku, fyrir fimm árum. Og hann ætlaði að fara án þess að sjá hana áður. Það var venja fólksins á bóndabýlinu að verja sunnudagskveldinu til trúboðsmála. Og án þess að segja nokkurt orð, jafnvel við French, fór Kalman af stað hægt og gætilega niður stíginn, sem lá meðfram vatninu og út að Nátthaukagili. Eftir þessu sama einstígi hafði hann gengið nóttina eftirminnilegu, — fimm ár höfðu liðið. En þó var myndin af atburðinum eins skýr og hann hefði skeð í gær. Og þótt að atburðir þeir hefðu gerst á meðan hann enn var unglingur, þá fanst honum samt einhver fullorðins manns æfintý a-blær yfir þeim.

Hann gekk lengi niður eftir stígnum, innan um sólgylt espitrén. Þangað til að hann nálgaðist gilsmynnið. Hann þekti sig þar. Það var þó æði breytt. En þar skein þó sama, dýrðlega sólin ennþá, og varpaði hún fagurljómandi geislum yfir espitrén; loptið var hið sama, hlýtt og angandi. Hann var sjálfur sami maðurinn enn, og fyrir framan hann stóð enn fagra andlitið — kannske ennþá ljúfara og fegurra — sömu augun, sem á hann störðu; aðeins kannske ennþá dýpri, ennþá mildari. Hann var kominn aftur í tímann, farinn að lifa bernskuna upp aftur og hennar fyrstu sælu og fyrstu ástríður.

Ekkert af því, sem skeði fyrir fimm árum við hellinn var sýnilegt. En þar, sem hann sat á hesti sínum, átti hann hægt með að endursafna öllum atburðunum, öllum myndunum í eina heild.

Hellirinn var alveg eins og jarðvegurinn líka. samskeytin voru eins, og veggirnir óbreyttir líka.

Með nákvæmni endurkallaði hann fram í huga sínum atburðina, sem hann hafði lifað í hellinum; sérhvert orð, sem hún hafði mælt; sérhverja hreyfingu varanna; sérhvert augnatillit, sem hún hafði gefið honum; hvernig hún brosti, hvernig hún grét, og hvernig hún hló, og hversu andlit hennar ljómaði af hreinleik sálarinnar. Alla þessa atburði endurkallaði hann fram.

Þarna var staðurinn, þar sem Mr. Penny hafði legið sofandi. Þarna hafði hann staðið, er hríðarbylurinn hamaðist á andlitinu. Hann ákvað að halda áfram þann sama veg, sem hann ætlaði um nóttina, og sökkva sér niður í hyldýpi sorgar og alsælu. Á allri leiðinni niður gilið, barðist í brjósti hans einhver sælu og sorgarblandinn ótti, sem hann varð að hrekja á brott. Hann mátti ekki láta þann ótta eða sársauka spilla fyrir sér hinum síðustu stundum, sem hann gat lifað í nærveru hennar. Hann hélt lengra áfram niður með ánni, þangað, sem skarðið gekk niður í dalinn. Skrjáf! Þrusk! Hann staðnæmdist. Hvað gat þetta verið. "Úlfur" hugsaði hann. "Nei, það geta ekki verið úlfar hér í dalverpinu." Hann vildi losna við að mæta nokkrum þetta kveld Hann nam staðar og hlustaði; en hann heyrði nu ekki aftur þetta mjúka skrjáf. Alt var hljótt, að undanteknum hinum daufa þyt laufblaðanna, er féllu af trjánum hér og þar. Hann vildi ekki gefa upp það, sem hann hafði ætlað sér að framkvæma. Hann hélt áfram, þangað til skógurinn varð gisnari. Þarna var það, sem hann hafði fyrst heyrt skrjáfið. Hann keyrði hest sinn áfram í gegnum espiskóginn. Það var einmitt á þessum stað, sem hann fyrst hafði séð — — — — hvað! Hjartað var nærri stanzað. Það var einmitt á þessum stað, sem hann hafði séð hana nóttina eftirminnilegu, og nú stóð hún þarna aftur í dag!

Var það draumur? eða var það sjónhverfing?

Hann brá hönd fyrir augu. Nei, hún stóð þarna sjálf í milli hinna sólroðnu espitrjáa, umkringd af geisladýrðinni.

Með eld hins unga manns í hjarta, keyrði hann hestinn sporum gegnum limið og runnana, og innan mínútu var hann við hlið hennar.

"Þú! Þú" hrópaði hann. "Marjore! Marjore!" Einu sinni enn þá var hún í faðmi hans. Einu sinni ennþá kysti hann ennið, augun og varirnar. Ennþá einu sinni hljóðaði hún upp yfir sig:

"Ó, Kalman! Hættu! Þú verður að hætta þessu." Hún hallaði höfðinu að brjósti hans. "Þegar eg sá hundana þína, óttaðist eg að þú mundır koma sjálfur, — en eg gat ekki hlaupið á brott. En þú verður að hætta! Eg er þó svo sæl, svo sæl!"

Hann lét hana lausa, en leit fast inn i augu hennar. "Marjire" sagði hann, "segðu mér alt eins og er. Það er þó víst ekki draumur að þú sért mín?" mælti hann hátt og skýrt. "Svaraðu! Þú ert mín. Ekkert vald getur tekið þig frá mér."

"Ó, Kalman!" mælti hún og lagði hendina á varir hans; "þeir koma þarna meðfram ánnı."

"Hverjir þeir? Mig varðar ekkert um neina aðra en þig!"

"Ó! En eg var líka nálægt því að missa þig," hrópaði hún, "þú hefðir farið á morgun, fyrir fult og alt, en eg hefði setið eftir alein, með ólæknandi sár í hjartastað."

"Elskan mín! Lifið mitt!" sagði hann og faðmaði hana innilega. "Hvernig átti eg að trúa því, að þú gætir elskað mig, útlendinginn; og þar að auki son — — — —"

"Son hetju, sem lét líf sitt fyrir mikilvæg málefni," hrópaði hún með ákefð. "Ó, Kalman, eg hefi verið þar. Eg hefi séð og þekt fólkið. Fólk föður þíns."

Kalman varð fölur í andliti og röddin var óstyrk. "Þú hefir séð? Þú skilur? Þú yfirgefur mig ekki?" Hann fann að hann var að missa jafnvægið.

"Að eg yfirgefi þig," mælti hún. "Nei, aldrei! aldrei! Væri eg rússnesk, mundi eg verða lík föður þínum."

"Guði sé lof," sagði Kalman. "Nú er ekkert að óttast lengur. Ó, hve þú ert kjarkmikil, elskan mín!"

"Vertu hægur, Kalman! Lofaðu mér að fara! Þeir eru að koma!"

"Hvað er þetta? hvað?" Það var rödd Browns.

Á meðan þeir stóðu þarna hlið við hlið, þaut Marjore feimnislega til Sir Robert. "Eg gat ekki gert að því, faðir minn. Eg elska hann, og hann á mig." Sir Robert kysti hana.

"Eg gat ekki staðið á móti því lengur, eg hefi gert alt, sem eg gat. Viltu gefa mér hana?"

"Hlustaðu á mig," sagði Sir Robert, og þrýsti hendi hans innilega. "Eg held að hvorugu ykkar verði sérstaklega um þetta kent."

"Það er sennilegt," mælti French alvarlega. Kannske þetta sé mest mér að kenna, eg sá hundana hans Kalmans, og hélt að bezt væri fyrir okkur þrjá að taka stiginn sem lá þangað."

"Þú skalt áfella mig, Sir," sagði Brown alvarlega. "Það var eg sem hjálpaði til þess að útrýma óbeitinni, sem hún hafði á útlendingum, úr huga hennar; með því að sýna henni og gera hana kunnuga, ágætustu mönnum af flokki þeirra. Já," bætti Brown við, "og nú minnist eg einnrar vissrar hefðarmeyjar, sem gaf þá yfirlýsingu, að hún aldrei mundi geta elskað nokkurn þessara útlendinga."

"Ó, sagði Marjore, brosandi, en með fullri áherzlu. "Þetta átti ekki við útlendinginn minn — elsku Canada útlendinginn minn!"

ENDIR.

